burði. En smámsaman döknaði aði litla angagreyið í húð og hár, svo að við lá að hann ætlaði að verða hreinasti blámaður. Svo má illu venjast að gott þyki.

XI.

Eitt var það enn, sem særði mitt þjóðrækna hjarta og örin situr þar enn (honi soit qui mal et pense).

Það var í sjálfri lútersku kirkjunni í Winnipeg, þar sem eg hélt vera traustasta varnarvígi þjóðernisins.

Látum svo vera þó söngflokkurinn sitji að enskum sið framan við altarið. Og látum svo vera, þó söngmennirnir og söngkonurnar allar séu í svörtum ermavíðum hempum með prestaspaða. Mér fanst þar sitja englar (þ. e. a. s. enskir kórsöngvarar). Og látum svo vera, þó helgisiðunum úr íslenzku kirkjunni hafi verið breytt á enska vísu og að presturinn tónar ekki og að hempan er einkennileg, líkt og frakki sem borinn er á báðum öxlum og opinn að framan og minti mig á eina af skikkjunum, sem Sæmundur fróði kastaði yfir herðar sér áður en hann fór upp tröppurnar upp úr Svartaskóla. Látum þetta alt saman vera. Eg þoldi það vel, því mér fanst séra Björn vera bæði æruverður og skörulegur prestur, og eg dáðist að hve hann talaði snjallt og góða íslenzku, og kirkjan fanst mér sérlega snotur og ekki sízt prýði að altaristöflunni, sem hr. Albert Johnson hefir sýnt þá rausn að gefa kirkjunni. Svo snotur fanst mér kirkjan, að mér fanst hún tæplega geta kallast sannlútersk.

Mér leið vel í hlýrri kirkjunni og hlustaði með athygli á alt, sem fram fór, og mér fanst eg vera í "samræmi við eilífðina" og hafa náð viðtali við guð minn. En þá slitnaði alt í einu sambandið, þegar Mrs. Hall fór að syngja einsöng á ensku í miðri messunni (en hún syngur reyndar ágætlega og að sínu leyti álíka vel og maður hennar spilar undir á orgelið). Eg efast ekki um, að guðsorðið, sem hún söng, hafi verið ólastanlegt og lúterskt, en það var enskt (og eg var að tala við guð minn á íslenzku).

Og ekki batnaði, þegar allur söngflokkurinn tók undir og kyrjaði gloriuna á Ensku.[1])

En þar við bættist ennþá eitt "mér angrið að veita". Mér fanst snögglega sem Mefistofeles væri kominn þar, þegar söngstjórinn (Bardal vinur minn) bærði vængina á sínum svarta slopp og sló taktinn. — Mér fanst Mefistó kominn þar líkt og í leiknum, þegar hann varnar Margréti að biðjast fyrir: Non, tu ne priere pas!

Og svo þetta langa, ljósa prik, sem hann hélt og sló til og frá (eins og til að hræra í enska grautnum?)

XII.

Fyrst eg mintist á lútersku kirkjuna, get eg ekki látið vera að minnast einnig á Sambandskirkjuna (sem mér að sumu leyti fanst lúterskari). Eg var þar líka við

---

1) Það skal enginn segja mér, að ekki finnist vestur-íslenzkur hagyrðingur til að þýða ensku textana. Það er nóg að fyrri messan sé ensk (sem er sanngjarnt vegna unglinga þeirra, sem ekki skilja íslenzku), þó síðdegismessan haldist alíslenzk.

messu, og var hrifinn af snjallri og gáfulegri ræðu prestsins. Og eg gladdist yfir því, að í þessari kirkju var engin enska sungin.

En annars fanst mér kuldalegt í kirkjunni og ekki von að hún geti safnað öllum löndum; veggir eru auðir sem í óbrotnu samkomuhúsi, og fátt sem minnir á guðshús; ekkert altari eða altarisskraut, og presturinn blátt áfram til fara eins og óvígður prestaskólakandidat.

Mér fanst eg sakna meiri viðhafnar og meiri auðmýktar og tilbeiðslu. "Á kné með ykkur, háskólalærðu menn," sagði Vilh. Beck, og hafði rétt.[1])

En eg veit, að þetta sem eg saknaði, muni smám saman koma í öllum kirkjum, og þá einnig altarissakramentið í endurbættri mynd, því engin kirkjuleg athöfn er meira hrífandi og háleitari.

Gleðilegt væri ef Íslendingar gætu sótt jöfnum höndum báðar kirkjurnar í Winnipeg — því báðir kirkjuflokkar skoða það helga skyldu að hlúa að íslenzku þjóðerni í lengstu lög.

XIII.

Það er augljóst, að það þarf eitthvað mikið að taka til bragðs til að halda lífinu í íslenzku þjóðerni hér vestra. Sóttarmörkin eru svo mörg og alvarleg. Hér gagna engar skottulækningar, engar keiropraktors aðferðir eða "patent medicine", engar pillur eða plástrar, eða (eins og séra Arnljótur heitinn Ólafsson komst eitt sinn að orði, út af einni húspostillu): "engir dýsætir svefndropar samvizkunnar, engir gljásmurðir silkiplástrar sannfæringarinnar og engin mýkjandi hægðalyf sáluhjálparinnar." Það þarf róttæka lækningu og ráð í tíma tekin.

Og þó verður þjóðerninu aldrei viðbjargað í þeirri merkingu, að niðjar núlifandi Vestur-Íslendinga haldi áfram að tala íslenzka tungu. Langt frá því. Og eins og áður er tekið fram, mundi lítið hjálpa, þó enn byrjuðu Vesturheimsferðir að heiman. Það dygði þá ekki nema kæmu enn fleiri en nokkru sinni fyr og héldu sér saman í hóp.

Eina ráðið, sem verulega gæti hjálpað, væri, að árlega yrði hóp af vestur-íslenzkum unglingum gefinn kostur á að fara til Íslands og dvelja þar í góðra manna höndum —2 ár. Þeir mundu við það kynnast landi og lýð, læra málið og læra að meta gamla landið, náttúru þess og mentalíf þjóðarinnar.

---

1) Eg er svo gerður, að eg vil sjá í hverri kirkju fagra altaristöflu og altarisskraut og prestinn glæsilega skrýddan, nóg af ljósum og litum og reykelsisilm og fagra orðlausa músík. Góð ræða er góð, en annars nægja orgeltónarnir í snillingshöndum til að beygja höfuð hvers og eins í lotningu fyrir guði sínum, til að þakka honum fyrir alla himnaríkissælu í **þessu** lífi, lúta honum í auðmýkt og lofa því að reyna að þóknast honum **endurgjaldslaust.**

Það er ómögulegt að hugsa til þess, að margir fara í kirkju til þess eins að kvabba á guði um hin og þessi smávegis aukreitis þægindi, eins og gott veður og góðan afla eða jafnvel "laglegan hengilampa í stofuna hjá sér og 5 smálestir af enskum steinkolum", eins og kunningi minn einn, sem er trúboði, trúði mér fyrir að hann hefði beðið um og fengið (í Jesú nafni). En eitthvað er þó til í því, að hægt sé að hitta óskastundina.

Þó þetta komi ekki beinlínis þjóðræknismálinu við, hljóp þessi **credo** í pennan hjá mér, með álíka áleitni og sálirnar sitja um að holdgast, eftir kenningu Austurlanda-klerka.

En þessu mætti haga þannig, að báðir aðilar hefðu gagn af, að komið yrði á skiftum á unglingum milli landanna og yfirleitt **mannaskiftum.** Báðir þjóðarpartar sendu ákveðinn hóp hvor í sínu lagi, unglinga, skólanemendur, kennara, handiðnamenn o. fl. Og eg hugsa mér, að þjóðræknisfélögin með tilstilli ríkissjóðs Íslands, sjái um mannaskiftin milli hinna einstöku heimila (sem gæfu sig fram), og að flutningur yrði **ókeypis.** Það þarf ekki að taka það fram, að vel yrði séð um að velja góð heimili og gott yrði eftirlit og aðbúð meðan á flutningunum stæði.

XIV.

Eg hefi heyrt marga fallast á, að mannaskifti væru ágætt ráð, og sjálfsagt að taka það upp, en þó aðallega eða aðeins skifti á kennurum eða nokkuð þroskuðum skólanemendum. Hins vegar taka flestir dauft á, að skifti geti farið fram á börnum, en það er þó **eina** aðferðin, sem nokkuð dugar og sem róttæk getur kallast.

Margar mæður segja óðara: "Eg held nú svo sem ekki, að eg fari að senda börnin mín í slíkan leiðangur — fyr mundi eg láta skera hjartað úr brjósti mér." En svona tala aðeins fávísar konur, og þær hætta að tala svo undireins og þessu er komið í kring og einhverjir þeim vitrari hafa riðið á vaðið. Það er ætíð svo með alt nýtt. Þegar börn á 10—14 ára aldri komast upp á svo gott, að fá að fara ókeypis ferð til annarar heimsálfu og kynnast nýjum góðum mönnum og nýjum siðum, þá verður kept um, að komast með sem allra fyrst. — Ferðalagið og dvölin erlendis væri út af fyrir sig á við margra ára gagnfræðanám á skólabekkjum.

"Heimskt er heima-alið barn," segir máltækið, og það á oft heima, en í öllu falli er það víst, að hvert það barn, sem fær að létta heimdraganum, þroskast venjulega langtum betur en það, sem heima situr. Aldrei er eins gott að víkka sjóndeildarhringinn og þá, þegar augun eru bezt opin og tilfinningin næmust fyrir öllu fögru, sönnu og góðu. Og svo er nú það, að læra að tala og rita erlent mál og læra það í landinu sjálfu. Það gerir að verkum, að maður eignast tvö föðurlönd í staðinn fyrir eitt, tvö hnoss í stað eins.

Enskan er heimsmál, sem allir þurfa að kunna, en gott er að kunna meira. Gott er að kunna aðra tungu en sitt móðurmál, mál sem opnar útsýni um annan glugga í viðbót, og gefur kost á að kynnast jafngóðum bókmentum og þeim, sem Ísland hefir hlotið frægðarorð fyrir. En þar að auki er gott að eignast vini og athvarfsvon í öðru landi en sínu, ef síðar í lífinu vakna löngun eða þörf til að hafa heimilaskifti.

Vesturheimur er stór, auðæfin eru mikil og framtíðin sýnist björt, en þó hygg eg eins sennilegt, að Ísland eigi engu síðri framtíð fyrir höndum.

Það er "fleira matur en feitt kjöt". Landkosti ber ekki fyrst og fremst að meta eftir hveiti, olíu og málmum og þeirra ígildi í silfri og gulli, heldur eftir því hve góðir og nýtir menn geta þróast og vaxið í

landinu. Ef landið gefur börnum sínum þá "struggle for extistence", sem þau vaxa af og fara batnandi fyrir, þá þarf engan að öfunda, og geta allir tekið undir með Eggerti Ólafssyni, sem söng:

"Ísland ögrum skorið,
eg vil nefna þig,
sem á brjóstum borið
og blessað hefir mig," o. s. frv.

XV.

Það vill svo vel til, að töluverð reynsla er fengin, og hún góð, um skifti á unglingum milli landa. Á undan styrjöldinni var allmikið farið að tíðkast skifti á skólanemendum milli Englands, Þýzkalands og Frakklands. Árangurinn var góður og heimanflutningurinn mjög vinsæll meðal unga fólksins. Og vitrir menn sáu það fyrir, að þarna var leiðin greið til að tryggja betur og betur vináttu milli þjóða. Að sjálfsögðu takast upp aftur þessi unglingaskifti í stærri og stærri stíl, þegar betur rofar til friðar.

Á Íslandi höfum við tekið upp stúdentaskifti við Þjóðverja, þannig, að nokkrir þýzkir stúdentar dvelja ókeypis í Reykjavík við háskólann þar, í stað álíka margra íslenzkra, sem fá sömu hlunnindi við þýzka háskóla. Það fá færri en vilja þessi gæði, en vonandi rætast óskirnar um að fleirum gefist smámsaman kostur á að njóta þeirra.

En um flutning á börnum til fjarlægra landa, og það líka kornungum börnum, fékst víðtæk reynsla meðan á styrjöldinni stóð og fram til skams tíma.

Þýzk börn og austurrísk í þúsundatali voru send til Norðurlanda til að bjarga þeim frá hungurdauða. Þau komu aftur heim til sín södd og sælleg að líkamlegu útliti, en þar að auki andlega þroskaðri en búast mátti við að öðru jöfnu. Og þau höfðu fest svoddan yndi í húsum sinna fósturforeldra, að flest þeirra fóru nauðug úr þeim garði og hétu því alment að koma aftur norður seinna. Fósturforeldrarnir fóru með þau öldungis eins og sín eigin börn og stundum ef til vill betur. Ef að líkum ræður, heimsækja mörg þessara barna Norðurlönd síðar, þegar þau eru vaxin upp. Kærleiksverkið, sem unnið var, verður áreiðanlega endurgreitt með fullum vöxtum. Börnin gleyma ekki, hve vel var við þau gert (sízt þau efnilegri). Þau eignuðust annað föðurland í viðbót við sitt upprunalega. "Röm er sú taug, sem rekka dregur föðurtúna til."

XVI.

En gerum ráð fyrir því versta, að tungan týnist þrátt fyrir allar tilraunir til að vernda hana. Geta Íslendingar ekki þrátt fyrir það, arfleitt hver af öðrum koll af kolli minninguna um ætternið og ræktarþel til landsins "helga" (því heilagt er það land þar sem vagga feðranna stóð og þar sem vér urðum Íslendingar. Landið var verkfæri guðs til að skapa þjóðina, sem í því bjó; landið er partur af guði).

Það er sjálfsögð ræktarskylda, að geyma a. m. k. einhverjar minj-

ar um ætt sína og uppruna. Mér finst ógeðfelt að hugsa til þess, að eftir nokkra áratugi kunni Íslendinganiðjar að villast á því, að þeir séu komnir af Galizíumönnum, Rússum eða frönskum Indíánum.

Það eru mörg ráð til að geyma aðalsmerkið. Ýmsir minjagripir, íslenzkar bækur, skjaldarmerki Íslands hangandi á veggnum, landabréf Íslands, skrautrituð ættartala í ramma o. fl.

Eg saknaði oft vestra, að sjá á stofuvegg hanga fallegt Íslandskort (það mætti jafnvel hanga í hverjum kirkjukór eða yfir altari hverrar íslenzkrar kirkju).

Ennþá einfaldara væri að halda fast við sín íslenzku ættarnöfn, nöfn, sem eru greinilega íslenzk eða a. m. k. norræn. Og lafhægt væri öllum með aðstoð fróðra landa að taka upp ramnorræn ættarnöfn, og þau jafnvel auðveld til framburðar fyrir aðrar þjóðir. Margir Vestur-Íslendingar hafa afbakað nöfn sín og gert þau enskukend. Hafa þeir gert það til þess að gera enskumælandi fólki auðveldara fyrir að nefna þau. Ekki er þó hægt að sjá í þessu neina nauðsyn, því mörg nöfn Englendinga og Ameríkumanna eru ólíkt erfiðari undir tönn og engu auðritaðri en þau verstu íslenzku, og dettur þó fáum í hug þess vegna að breyta sínu ættarnafni. Eigi maður gott ættarnafn íslenzkt, þá er í rauninni synd og skömm að glata því. Hinn frægi landi vor Vilhjálmur Stefánsson, hefir sýnt það, að óþarfi er að breyta nafni þó ekki sé "auðsæft ómunlokri" enskra manna. Og honum hefir tekist að koma þessu alíslenzka nafni sínu á allra varir í Ameríku.[1])

XVII.

Það er bjargföst trú mín, að með því að gefa unglingum 10—14 ára vestan hafs og austan, tækifæri til að dvelja í sínu hvoru landinu á víxl, um 1—2 ára tíma, festist hjá þeim slík rækt við löndin, að seint fyrnist, svo að af því hljótist ósjálfrátt mannaskifti einnig síðar eða mannflutningar í báðar áttir, til góðs fyrir bæði löndin.

Þessi trú byggist á því náttúrulögmáli, sem öll ættjarðarást er sprottin af og lýsir sér í trygð til æskustöðva, svo að bæði dýrin og mennirnir leita þangað síðar í lífinu, þar sem þeim leið vel í æsku. "Röm er sú taug, er rekka dregur föðurtúna til".[2])

1) Eg heyrði eitt sinn það níð um Vilhjálm (sem eg ekki festi trúnað á), að hann hefði viljað afneita sínum íslenzka uppruna, og það af þeirri ástæðu, að útlendingum mundi finnast lítið til um afrek hans í heimskautalöndunum, ef hann [illegible] vanur því að búa í sóðalegum moldarkofum og snjóhúsum við grútarljós með selspik hrátt og hundaket til viðurværis! Flest er nú notað til að ófrægja menn og bakbíta. En nafnið hans Vilhjálms mun lengi segja til, af hvaða bergi hann var brotinn og hvaðan hann sótti hug og dug.

2) Þetta er alkunnugt um fugla og æðri dýr, en sama gildir sjálfsagt alment, langt niður eftir dýraríkinu. Eg get ekki stilt mig um að segja frá dæmisögu um ættjarðarást fiskanna:

Fyrir nokkrum árum var Englendingur við silungsveiðar í Laufási við Eyjafjörð. Honum veiddist vel í Fnjóskánni neðan við fossana, því lengra en upp að þeim komst ekki silungurinn.

Nú kom hann eitt kvöld með veiðifeng sinn heim á prestsetrið. Prestur kom á móti honum og spurði um aflann.

Hann sagðist hafa verið óvenju hepp-

XVIII.

Kunningi minn einn vestra varaði mig við að segja nokkuð í ræðu eða riti, sem stygt gæti landa vestan hafs, því þeir væru margir viðkvæmir í lund, ekki sízt þegar um þjóðernismál væri að ræða.

Eg vona að mér hafi tekist að sigla fram hjá þeim skerjum, enda vil eg vera öllum velviljaður.

Lýk eg svo máli mínu með orðum Ara Þorgilssonar: "en huatki es missagt es í fræþom þessom, þá es scyllt at hava þat heldr, es sannara raynnisc."

p.t. Seattle á jóladag 1923.

---

inn, því auk margra silunga hefði hann í þetta skifti veitt þrjá væna laxa

"Láttu mig sjá," sagði prestur, og glaðnaði við, því það er aðeins stöku sinnum, sem lax gengur í ána, og ekki nema upp að fossunum, því þeir eru einnig of háir til að stökkva fyrir laxa.

"Eg fleygði þeim öllum upp fyrir fossana," sagði Englendingurinn. Prestur varð hissa og hugði í hljóði að þessi Breti væri mesta flón.

En Englendingurinn fullvissaði prest um að þetta væri gott ráð. Laxinn mundi hrygna í ánni þetta sumar ofan við fossana, og ungviðið, sem klektist í ánni, mundi áreiðanlega minnast fornra átthaga síðar og leita þangað til að hrygna.

Að nokkrum árum liðnum kom meiri laxganga en dæmi voru til, upp í Fnjóská. — Út af þessu hefir komið til tals að sprengja fosshamarinn eða gera laxastiga, því þá mundi laxinn verða árlegur gestur og leita alla leið upp til dalbotna.

---

# Á bakkanum.

Eftir **Guttorm J. Guttormsson.**

Nóttin er tekin að nálgast með tár á bránni,
Niður er álfröðull hniginn á bak við skóg,
Himininn sokkið hefir til botns í ánni,
Horfist í augu við sig eins og maður sem dó.
Þögnin er kyr eins og dauðinn og djúp sem höfin,
draumarnir sofandi vaggast á loftöldufald.
Nóttin er óðum að nálgast, svört eins og gröfin,
Niður til grunns er að falla hið dimma tjald.

Hauskúpa mánans með holum augnanna tóftum
Horfir um vatn upp úr gröfinni, skinin og bleik,
Glottir sem uppdreginn gluggi á andvökunóttum
Glitti fyrir utan í skímu, sem föl er og veik.
Djúpt niðri í hyljunum stjörnurnar jafnvel slokna,
Stýfðar frá kveikjum með árinnar blikandi hníf.
Skugginn minn hvílir á himninum fallna, sokkna.
Hefir einn draumanna vaknað? Er sofnað mitt líf?

# Þrjú Kvæði.

---

## Hálfur-Máni.

Rímu-brot út af Indíánasögu. — Tileinkað vini mínum J. Magnúsi Bjarnasyni er færði söguna í letur.

J. A. S

---

Yfir fylgsnum frumskóganna,
Fjarri bygð hins hvíta manns,
Réði kóngur Rauðskinnanna,
Réttlát þótti lýðstjórn hans. —
Þar sem öldur hafsins hnigu,
Himin minnast fjöllin við, —
Rakti hann myrka refilstigu
Rauðskinna að fornum sið.

**Hálfur-Máni** heitinn var hann,
Húmdökk hvíldu tjöld um brá;
Mjög af rauðum rekkum bar hann,
Riddari að heyra og sjá.
Eins og Birkibeinar skeyti
Beini, flaug hans mistilteinn,
Því hann var, að vissu leyti,
Vesturálfu Skugga-Sveinn.

— — — — — —

Frelsið býr á fjöllum, heiðum,
Fjör er nóg í elfarkoss?
Dafnar þrek á dýraveiðum,
Djörfung siklar hamrafoss. —
Útigöngur lífsins leiða
Lífið inn á hærri svið. —
Upp til fjalla, fram til heiða,
Feginn vildi eg hafast við.

Enn í höllum hvítra tiggja
Hirðmenn flýja í eldhúskrók,
Kvellisjúkir kvenpall byggja,
Kveifarlegir rýna í bók. —
Niðjar Ása á rúmum réru
Rúnir við og haugaeld. —

Karlmenskunnar óðul eru
Oft við frægðar-gjaldþrot seld.

— — — — — —

Fann, um myrkar fjallalendur
Frumskóganna, eitthvert sinn,
Hvíta, vilta vegfarendur,
Villimanna foringinn.
Hálfur-Máni og Múspellssynir
Mönnum hvítum fagna þar,
Eins og findist fornir vinir
Foringinn í öllu var.

Fús var hjálparhönd við gesti:
Hvílan, tjaldið, vistaföng;
Vegaleiðsögn, veganesti,
Vinafylgd um skógargöng. —
— Oft felst dygð und dökkum hárum,
Dáðrík þjóð við hrjóstrin býr,
"Einfalt líf" — með svan' í sárum,
Sveit og bygð til heiða flýr.

Forgylt líf í fölskum myndum:
Flærðar-senna, kölkuð gröf,
Sýkt af ótal erfðasyndum
Ertu, "menning" — tímans gjöf. —
Austmenn fyr, þá Indíánar,
Einatt sýndu meiri dygð
Held'r en þeir sem ríki Ránar
Ráða nú, og hvítra bygð.

— — — — — — —

Hugur brezku höfðingjanna
Hvarflar þrátt til skógarmanns.
Milli þeirra aura-anna
Oft er minst á velgerð hans.
Ríkisvaldi reginfjalla
Réðu þeir að bjóða heim:
Sýna tildur töfrahalla,
Tignarskrúða og borgarseim.

Hálfur-Máni hét að fara
Hvítra manna sýning á. —
Auðmenn vildu ekkert spara
Indíána þökk að tjá. —
Borgin öll í ljósum logar,

Lýsigull í haugum brann.
Ölværð rann sem Elivogar
Eða Gjöll, um Heljar rann.

Allir virtust sitja að seiðum,
Sýndist alt með töfrabrag:
Galdramenn á rennireiðum
Riðu þarna nótt og dag.
Dygð og hreysti í dularklæðum, —
Döprum fölva á lífið sló; —
Líkt sem kulni kol á glæðum
Karlmenskunnar eldur dó.

Hjörtun virtust hungurmorða,
Hóflaus nautn þótt tíðkist mjög.
Snauðir áttu engan forða, —
Orð sem gerðir varða lög.
Allir stjórna, — enginn hlýðir,
— Eirðarlaust er stétta kíf. —
Einn vill það sem annar níðir, — —
Ömurlegt er borgarlíf!

— — — — — —

“Hvað er áfátt, Hálfur Máni?
Hví er dapur svipur þinn?
Hvar er meira af lífsins láni?
Lýtur oss ei heimurinn? —
Sólu hærri hús vor gnæfa,
Hreggi og kulda bægja frá,
Auðsins nautnir sorgir svæfa,
Svefnþorn voldug Mammon á.”

— “Vita máttu, föli frændi,
Fjárhlut þinn ei girnast skal. —
Heim — til fjalla og heiða mændi
Hugur minn, úr veizlusal.
Út með fjörðum, upp ’ á fjöllum,
Ám og lækjum fögrum hjá, —
Vil eg dögum eyða öllum —
Æskustöðvum horfinn frá.” —

“Þar sem fjöll við firði blána
Fæddur er — og deyja vil.
Æskuvini — Indíána,
Og áa tungu — bezt eg skil. —

Það, sem enginn ætti að gleyma,
Eftir varð, er burt eg fór:
**Eftir skildi eg hjartað heima —**
Harmur að því mér er stór!"

Jónas A. Sigurðsson.

---

## Vörn Brútusar.

Úr "**Júlíus Sesar**" eftir **Shakespeare**.

(Leikurinn "Júlíus Sesar" mun talinn annað aðalleikrit Shakespeares. — Í vitund almennings er Brútus ódrengur. En skáldið les sögu hans þannig, að Brútus verður göfugmenni. Hugsjónir og óeigingjörn ættjarðarást stjórnar lífi hans. Jafnvel afbrot og yfirsjónir fremur hann samkvæmt fyrirmælum sannfæringar og samvizku. Kona hans — Portia, dóttir Katos, — er öðrum konum ágætari, og honum jafnræði. —

Varnarræða Brútusar er ekki á rímuðu skáldskaparmáli hjá Shakespeare, sem margir, að eg hygg, ætla. En tvímælalaust er þessi kafli meðal þess víðfrægasta í ritum skáldsins.

Í raun réttri hefði fyrirsögnin átt að vera þessi orð sjálfs Shakespeare's í kaflanum: **"Hver er sá níðingur ættjörð ei unni?"**

J. A. S.

---

Heyrið með stilling þau rök er eg ræði,
Rómverjar, samlandar, vinir og menn!
Hlustið á orð mín, án upphlaups og bræði,
Orð, sem að heiður minn staðfestir enn.
Dæmið mig svo, þeirri dómgreind eg lyti,
Er dæmir af vísdómi atvik sem mann.
— Hollvinur Sesars eg vil að það viti:
Eins vel, eða betur, eg elskaði hann. —
Búi hér einhverjum álas í munni,
Sinn uppreistar-þátt Brútus leggur í dóm:
Sesari **minna** eg alls ekki unni,
En elskaði **meira** þá goðbornu Róm. —
— Kysu hér þegnar, um þjóðfrelsis hauður
Þrælar að deyja, svo lifði hann enn,
Heldur en sjá nú að Sesar er dauður
Og sjálfir að lifa sem frjálsbornir menn?
— Sem Sesar mér unni, — hann grátstöfum græt eg;
Sem gæfubarn, — auðna hans fögnuð mér bjó;
Sem hraustmenni' og kappa, — 'ann heiðraðan læt eg;
Sem harðstjóra, valdfýkinn, — Sesar eg vó. —
— Ást hans er goldin með ástvina tárum;
Auðna með fögnuði; hreysti með sæmd;
Drotnunargirnin með dauðlegum sárum, —
(Af darraðar þjóðum þó seint verði ræmd). —
— Hver er svo þýkyns, hann þræll kjósi að vera?
Þeim hinum sama eg brotið hef gegn. —

Hver vill ei röggvarfeld Rómverjans bera?
Ræði sá, — brot mitt við slíkan er þegn. —
**Hver er sá níðingur ættjörð ei unni?** —
Ef hann finst nokkur, þá brotið eg hef. —
Svari hann. — Brútus svo mælir af munni,
Málsvörn er lokið. Eg hljóð yður gef!

**Jónas A. Sigurðsson.**

---

## Hér er mín eigin ættarströnd.

Eftir **Sir Walter Scott.**

Andar nokkur svo andlaus sál,
Að aldrei skildi jafn hugrænt mál
Sem: **Hér er mín eigin ættarströnd!**
Það hjarta, er fann ei ástaryl
Er átthaganna sneri til
Úr utanför um önnur lönd? —
— Ef andar slíkur, ugg þú hann,
Fár ætla eg lofi slíkan mann;
Þótt frægð og titlar fegri hans nafn,
Af fjársjóðum hann eigi safn;
Því þrátt fyrir orður, auð og sæmd,
Af eigingirni er sál hans dæmd.
Við líf hans enginn lofstír þreyr,
Og látinn slíkur tvisvar deyr.
En moldin spilt fer moldargöng
Án mannorðs, tára og yfirsöng.

**Jónas A. Sigurðsson.**

# Steina fyrir brauð.

Saga.

Eftir **Arnrúnu frá Felli.**

Í tíu ár, á hverjum degi — að sunnudögum meðtöldum — hafði frú María kona Geirs forstjóra, meðeiganda og yfirbakara "Brauðgerðarhús L. P. Hansen", gengið upp í miðjan stiga og kallað: "Sveina! Sveina, þú mátt ekki sofna aftur." Og Sveina hafði svarað jafn oft: "Eg kem eftir tíu mínútur", jafnvel þó hún væri ekki byrjuð að klæða sig. Þegar hún slepti orðinu sló klukkan hálf-níu, mamma hennar lét það ekki bregðast að ætla henni hálftíma til að klæða sig, og fá svolítinn auka kaffisopa áður en hún færi út í brauðbúðina til að afgreiða.

Stína vinnukona færði henni kaffi klukkan átta, en það var svo gott að leggjast út af aftur, og lúra svolítið lengur, leggja aftur augun og hugsa um Gunnar; sjá Gunnar leiða hana út með fjallinu, sjá hann dansa við hana í Templarahúsinu — kyssa hana. Gunnar!

Það var engin ástæða til að flýta sér. Pabbi hennar afgreiddi fyrsta klukkutímann sem búðin var opin, sjaldan neitt að gera fyr en eftir tíu, minsta kosti um þetta leyti. Það var svo indælt að hugsa um Gunnar í ró og næði.

Hún gat varla trúað því að það væri nærri ár síðan að þetta gerðist, sem hún var mest að hugsa um — nærri því ár síðan Gunnar kysti hana — síðan hún sat í fangi hans úti í skonsunni inn af brauðbúðinni, — skonsunni sem pabbi hennar kallaði afdrep, en mamma hennar "kontór". Nærri ár síðan að hann bauð henni á jóladansleikinn, og nú var sagt að hann væri búinn að bjóða Dúllu í apótekinu.

Það var rétt eftir jólin — eitthvað þrem vikum fyrir afmælið hennar — afmælið hennar var 19. janúar, og hún ætlaði aldrei framar að halda upp á það — að Gunnar talaði um að þau giftu sig í maí. "Þá ættum við að opinbera á afmælinu mínu," hafði hún stungið upp á; en hann var á annari skoðun. Hann hafði heitið því, þegar slitnaði upp úr trúlofun systur hans eftir tveggja ára "opinberun", að hann skyldi ekki henda það sama. Svo jókst orð af orði, þangað til að Gunnar tók hatt sitt og fór út steinþegjandi, og án þess að kveðja hana, og nú sagðist einhver hafa séð hann út á Króksodda með Dúllu á Apótekinu!

Dúlla var fermingarsystir hennar, en hún hafði fluzt með foreldrum sínum til Brimtanga, árið eftir, og komið aftur þegar faðir hennar fékk bókhaldarastöðuna hjá konsúlnum. Og nú þvoði hún glös í lyfjabúðinni, og afgreiddi laxerolíu og stráduft. — Dúlla sem sagði að Barrabas hefði verið konungur

Gyðinga, og ruglaðist í boðorðunum þegar hún gekk til prestsins, — og nú þóttist Gunsa í Gíslabúð hafa séð Gunnar halda utan um hana, úti á Merkisteini! Var það mögulegt?

Auðvitað hafði hún látið sem ekkert væri þetta ár; varð að gera það. Þau höfðu aðeins verið trúlofuð sín á milli, svo hún átti engan rétt á samhygð frá neinum, vildi dyljast, vildi láta sem ekkert væri. Hafði hún ekki dansað hér um bil annan hvern dans við Lárus prófasts, á samkomu kvenfélagsins "Vonarljósið" á þrettándanum, og látið sem hún skemti sér ágætlega?.

Ekki svo að skilja að Gunnar þætti svo sem nokkuð sérlegt í Sandfirði. Búðarmaður hjá föður sínum, "Manga á höfðinu", sem ekki hafði farið á höfuðið, en var alla tíð á takmörkunum. Því gat hún ekki hrundið honum úr huga sínum? Því var henni svo hugleikið hvert orð hans og athöfn, hvert bros — hver koss — —

Því hafði hún ekki slakað til með þessa opinberun? Hún hafði aldrei tekið eftir því fyr en þetta ár, hve oft mamma hennar sagði: "Já, það er nú líklega alveg rétt" — þegar pabbi hennar stóð á einhverju fastara en fótunum, sem hún vissi að mömmu hennar fanst ekki rétt. Ofseint!

Það voru ekki neinir aðrir piltar í Sandfirði — ekki sem hún gat talið. — Lárus prófastsson dansaði ljómandi vel, og virtist hafa mikla ánægju af að dansa við hana. Björn formaður á "Sigurfara" bauð henni ofan í kjallara upp á kaffi, strax eftir fyrsta dansinn, sem hann dansaði við hana, og virtist ekkert vera að flýta sér, hafði jafnvel boðið henni hestinn sinn, hvenær sem hún vildi. Svo var Arnfinnur Jóhannsson! — Addi Jóhannsson, gullsmiðs. Addi var áreiðanlega skotinn í henni, en það skrítnasta var, að hún hafði aldrei gert neitt til þess að hæna hann að, aldrei verið annað en blátt áfram "alminleg" við hann, rétt eins og hvern og einn sem í búðina kom til að kaupa kökur og vínarbrauð, og þó hafði hann gert sér möguleg og ómöguleg erindi upp á síðkastið, jafnvel ymprað á því, að hann ætlaði að fara á jóladansleikinn, ef hann vissi að viss stúlka vildi fara með sér; Addi sem ekki kunni að dansa nema polka, og það ekki sem bezt!

Addi var stiltur piltur. Foreldrar hans talin efnuð. Því gat hún ekki gleymt Gunnari? Hvaða vitleysa hafði komið yfir hana? — Hún sá aldrei hendur hans svo hana langaði ekki til að snerta þær — Gunnar!

Var það mögulegt, var klukkan að slá níu! Hún flýtti sér að næla síðasta títuprjóninn í húfuna, og þaut ofan.

Eyjólfur bróðir hennar sat við eldhúsborðið og var að enda við seinni bollann.

"Þú ert samt ekki að flýta þér að leysa pabba af hólmi, Sveinlaug, þó þú vitir að hann hafi verið á fótum síðan klukkan sex."

"Og þú ert ekki heldur að hraða

þér á pósthúsið, þó þú eigir að vera þar hálf-níu."

"Farið þið nú ekki að jagast," sagði móðir þeirra stillilega. "Viltu ekki kaffisopa, Sveina?"

"Nei, takk! Eg hefi tannpínu."

Nú flýtti hún sér í brauðbúðina, sem var rétt hinumegin við götuna. Hún varð að stilla sig að gráta ekki. Undarlegt hvað hún var viðkvæm núna upp á síðkastið.

"Það hefir ekkert verið að gera í morgun," sagði faðir hennar, "selt fyrir eina krónu nítíu og fimm aura, og klárað "Martin Eden" — ágæt saga." Hann teigði sig og geispaði. "Reyndu að ýta að þeim Napoleons kökunum, svo þær verði ekki ónýtar." — "Heldurðu að mamma hafi heitt á könnunni?" sagði hann um leið og hann fór út, en beið ekki eftir svari.

Hún braut sjalið sitt saman, og lagði það yfir stólbakið inni í skonsunni. Hún var ekki stór, skonsan, en hún var fallegasta herbergið sem hún þekti, eða að minsta kosti herbergið, sem henni þótti vænst um. Þau voru fá og heldur léleg húsgögnin, en ekkert af þeirra tagi gat jafnast á við þau — fyrir hana. — Gamla skrifborðið, rispað með brunablettum. Innrammað kort af Sandfirði hékk yfir því. Stóllinn, er snerist á ás, þar sem Gunnar hafði svo oft setið. Legubekkurinn úr faktors búinu — fullur af hnúskum. Hún strauk hendinni um höfðalagið, þar sem hún hafði svo oft fundið hönd Gunnars. Nei, það gat ekki verið satt, sem hún heyrði í gær, að Gunnar væri trúlofaður Dúllu. Dúlla — Bjallan hringdi, einhver kom inn í búðina.

"Hálft rúgbrauð, heilt sigtibrauð, tvö vínarbrauð, sex eins eyris kökur. Heilt rúgbrauð, hálft sigtibrauð, tíu eins eyris kökur — Þetta kallaði fólk líf! Hún gekk inn í skonsuna, settist á legubekkinn, og lagði aftur augun. Það var alveg óhugsanlegt! — Hafði Gunnar ekki verið jafn altekinn af henni og hún af honum, hún hafði verið svo viss um það. — En hvað hár hans var þykt, en þó mjúkt! — Brúnt með gullinni slikju. Varir hans — ó, svo indælt að kyssa hann — ekkert indælla. Ef hann nú væri að hugsa um að giftast Dúllu — giftast!

Hún hafði enga trú á krafti bænarinnar — ekki haft það lengi — ef til vill aldrei haft það. — Alt í einu lagðist hún á knén fyrir framan legubekkinn, lokaði augunum og bað: "Guð minn góður, ef það er satt, að þú sért algóður og almáttugur; að þú sért kærleikurinn og lífið — snúðu hug og hjarta Gunnars aftur til mín — láttu hann elska mig eins og áður. — Mér er sama um alt annað — skal aldrei biðja neins annars. Góði guð! viltu bænheyra mig? Amen."

Hún stóð á fætur, leið betur. Þegar hún kom fram í búðina, gaf hún Birtu í Sölvakoti fjögur vínarbrauð og þrjár Napoleons kökur, svo Birta kallaði hana "elsku", og bað henni allrar blessunar. Sá orðrómur lá á, að gott væri að gera vel til Birtu, hún vissi að sögn jafnlangt nefi sínu.

Þetta hlaut að vera aðeins ágizk-

un Magneu Helga kaupmanns, hún var svo slúðursöm, ekkert að marka hana stundum. — Hver veit nema hann símaði! Þarna var síminn, rétt við skonsudyrnar. Hver veit! Hún gleymdi því alveg, að hún hafði búist við því sama, fyrst dag eftir dag, svo viku eftir viku, og að lokum mánuð eftir mánuð. Hún hafði beðið eftir Gunnari, og nú hafði hún beðið til — Stóð ekki skrifað: "Biðjið, þá mun yður gefast — hafði ekki? — leitið, þá munuð þér finna — því ekki leita? — knýið á, þá mun fyrir yður upp lokið verða." Hvað var á móti að reyna það?

Gunnar var sjálfsagt í búðinni núna. Búðin var dimm og óskemtileg. Matvara, leirvara, skóvara, öllu mögulegu ægði saman, það var þó svolítið skárra eftir að Gunnar fór að vinna þar — hann hafði verið í búð hjá konsúlnum, en farið þaðan þegar systur hans giftust, þær höfðu hjálpað föður þeirra til skiftis — eða svo átti það að heita. — Því ekki að líta þangað inn, þegar pabbi hennar leysti hana af verði klukkan þrjú? Hún þurfti að fá sér frískt loft hvort sem var. því ekki?

— — — — — —

Sveina lagaði á sér hárið, gerði stærra brot í húfuna, setti upp fallegustu svuntuna sína — þá sem Gunnari hafði þótt fallegust — lagði yfir sig möttul í stað sjalsins — hún var há og grönn — vissi að hún bar vel upp möttul — gekk svo af stað upp Strandgötuna — aðalgötu bæjarins — beygði svo inn á Merkjagötu, í hornhúsinu sjávarmegin var Verzlun M. Gunnarssonar. Hún gekk hægt fram hjá henni. Sama myndin af Hans og Grétu, nokkur bollapör og "snuðtúttur" í öðrum glugganum, skósverta, rótarkaffibréf, sjóvetlingar og eitthvað fleira rusl, í hinum, alt rykfallið. Nei, hún gat ekki farið strax inn, gengið við í bakaslagnum. Hún gekk fram hjá stakkstæðinu hinumegin við húsið, grindurnar, sem fiskurinn var þurkaður á, lágu í stakk út við girðinguna; þær voru hélaðar. Hún mætti Nínu dóttur Bergmans gjaldkera, sem sagði henni að Lárus prófasts væri nýbúinn að bjóða sér á jóladansleikinn. Svo tók hún á sig krók til að ganga ekki fram hjá lyfjabúðinni; gekk svo út með sjónum — hún mátti til með að hitta Gunnar — —

Á leiðinni heim gekk hún aftur fram hjá búðinni, leit inn, sá engann; hann var víst inni í bakherberginu; búðin var aldrei hituð. Hvað átti hún að spyrja um? Eitthvað, sem ekki væri til þar, en ekki þó alveg fráleitt, hún varð að fara inn; hún opnaði hurðina, bjallan titraði ömurlega — það voru aðeins þrjú skref að búðarborðinu —

Magnús kom fram í búðina, hann var þreytulegur, lotinn, með áhyggjusvip.

"Góðan daginn!" sagði hún glaðlega.

"Góðan daginn! Hvað er það fyrir yður?"

"Þér hafið vænti eg ekki Bezique spil?" — Skyldi hún hafa farið þetta alt til einkis — Gunnar ekki við —

"Besikk spil? Eg held bara að

við höfum þau ekki. Gunnar! Höfum við Besikk spil?"

"Guði sé lof! — hann var þá við! Gunnar kom fram í búðina. Þegar hún sá hann, fanst henni búðargólfið hreyfast eins og bryggjan konsúlsins, þegar skipin lögðust að; hún greip um röndina á búðarborðinu. Hann var fölari, eða var það af því hann var alveg nýrakaður. — Hárið með sama gullna blænum — hann hafði verið unnustinn hennar — kyst hana. Hún brosti hálf-vandræðalega, rétti honum hendina yfir búðarborðið. "Komdu nú sæll, Gunnar!" "Komdu nú sæl, Sveina," sagði hann blátt áfram, og tók um hönd hennar. Hana langaði til að mega halda um hönd hans alla tíð, — strjúka um hár hans, strjúka hendinni niður hnakkann — koma við háls hans þar sem hárið endaði. — Henni fanst hún gæti hætt að elska hann, ef hann hefði einhvern veginn öðruvísi hár, eða augu — eða munn —

"Hvað var það, sem þú varst að spyrja um, Sveina?" spurði Gunnar og dró hægt að sér hendina.

"Bezique spil. Lárus prófasts hefir verið að kenna mér það; lærði það, þegar hann var síðast fyrir sunnan." Hún horfði fast á hann. Honum brá ekki.

"Það er ekki hægt að spila það á venjuleg spil?"

"Nei. Það er tvent af hverjum lit: Tvær hjarta drotningar, tveir hjartakóngar, tvær — —

"Við höfum það ekki, því miður. Hefirðu reynt á pósthúsinu?"

"Ekki til þar."

"Því miður. — Það var ekkert annað?"

Nei. — — Þú kemur — ferð náttúrlega á samkomuna á laugardaginn?"

"Auðvitað! Og þú líka?"

"Nema hvað!" Hún reyndi að hlæja glaðlega. Jón bæjarfulltrúi kom inn í búðina. Hún sneri heim á leið til að selja brauð — brauð —

Hún reyndi að lesa "Martin Eden" milli þess sem hún afgreiddi, en vissi ekki hvað hún las, helminginn af tímanum, það var ekkert varið í þenna "Martin Eden". — Því hafði hún farið að sjá hann? Hvað hafði Dúlla við sig, sem honum geðjaðist svona að? Dúlla var heimsk, óupplýst, ekkert lagleg. Hún dansaði betur en Dúlla. Hún hataði Dúllu.

Síminn hringdi, hún hrökk saman, titraði. Rödd hennar skalf, þegar hún sagði "Halló!". Það var Addi Jóhanns.

"Eg hefi tvo aðgöngumiða að samkomunni á laugardaginn. — Það mætti vænti eg ekki bjjóða þér annan þeirra?" — "Þakka þér fyrir. Annars var eg að hugsa um að verā heima þetta skiftið." Hún vissi ekki af hverju hún sagði það, hún fór á hverja samkomu, var alstaðar þar sem að voru einhverjar líkur til að hún sæi Gunnar. "Það er sagt að skemtiskráin verði fjölbreytt á samkomunni." "Jæja, kanske maður fari." "Verður þú í búðinni í kvöld?" "Eg býst við því". "Eg var að lesa "Námar Salómons" — voða spennandi saga. Viltu að eg láni þér hana?" "Þakka þér fyrir.. "Eg lít þá inn í kvöld." "Gerðu svo vel." "Jæja, vertu nú sæl.' "Vertu sæll, Addi."

"Námar Salómons"! Reyfari, sem hún hafði lesið áður en hún fermdist! En Gunnar las Bojer og Hamsun; kunni utanað klausur úr "Pan" og "Viktoria". Gunnar!

Hún lyfti lokinu á "servantinum" í horninu á skonsunni, þvoði sér um hendurnar, leit í spegilinn. Var hún í raun og veru svona mögur? — nærri því gamalleg. Varð hún aðeins tuttugu og fimm ára, næsta afmælisdag? Gat það ekki skeð, að hún yrði fjörutíu og fimm? Voru annars ekki tuttugu ár síðan að Gunnar — — Nei! þetta dugði ekki, hún varð að fá eitthvað sem styrkti og yki lyst.

Addi kom rétt fyrir átta, með stóran poka af "karamellum" og "Námar Salomons". Hún bauð honum inn í skonsuna, þakkaði honum mjög alúðlega fyrir karamellurnar. — Karamellur! sem hún hafði ekki viljað sjá, síðan hún var stelpa í stuttum kjól. Gunnar bauð henni aldrei annað en "Milka" og "Konfekt".

Hún var fegin hvað margir komu í búðina, næsta hálftímann. Addi var svo fjarska lítið skemtilegur; las aldrei annað en rusl-bækur, og lýsti því klaufalega, sem hann hafði lesið. Hann var ekki ólaglegur, var ætíð vel til fara, hreinn. Hár hans var svart, strýslegt, þunt ofan á höfðinu, þó var hann aðeins tuttugu og sjö — árinu eldri en Gunnar. Yrði líklega sköllóttur áður en hann yrði þrjátíu og fimm. Einbirni, faðir hans álitinn mjög vel efnaður, aðal gull- og úrsmiðurinn í bænum. — Mangi á höfðinu!

Addi hafði verið tvö ár í Reykjavík, hann fór að segja henni frá Bíó-mynd, sem hann hafði séð þar — mynd fullri af Indíánum og skambyssum, hún fann engan botn í því. — Þegar hann hló, hurfu augu hans í hrukkum, þau voru lítil, á litinn eins og kaffirót, henni hafði aldrei geðjast að þeim augnalit. Augu Gunnars voru grá. Og Indíánarnir riðu í loftinu — Það var ekki laust við að hann hefði undirhöku. Hún vissi af tveim stúlkum, sem leizt vel á hann — skrítinn smekkur. Faðir hans hafði gefið honum hús uppi í Skeljagötu, fallegt hús. Gefið honum það í afmælisgjöf þegar hann varð tuttugu og fimm. Af hverju var hún að bjóða honum að koma — fara með honum á samkomur? Það kom einhver inn í búðina.

Það var Begga hjá prófasti.

Húsbóndinn var að setja hnappelduna á par í kvöld," sagði hún um leið og hún lét afganginn af fimm krónum í vasa sinn.

"Hvern?" spurði Sveina og skelti inn peningaskúffunni svo small í.

"Þau komu alein, eg opnaði fyrir þeim, tók við sjalinu hennar. Skoplegur ósiður að opinbera ekki eins og skikkanlegt fólk, gifta sig svona alveg upp úr þurru, rétt eins og — sem það ekki var."

Stutt málhvíld. Sveina stóð á öndinni.

"Þetta unga fólk nú á dögum giftir sig, þó það hafi ekki skeini — hafi ekki bót fyrir skóinn sinn — ætla víst að búa fyrst um sinn hjá foreldrum Dúllu, því —

"Dúllu!"

"Ekki geta þau verið innan um alt kraðakið hjá Manga, þó þau svo stæðu á höfði, hi, hi!" Begga leit upp og horfði framan í náfölt andlitið á Sveinu. — "Eg hélt nú einu sinni að það myndi verða par úr ykkur Gunnari." Hún brosti ísmeygilega.

"Okkur Gunnari! Ha! ha! Því ekki Lalla prófasts, Binna formanni, eða Nilja Bergmann, Eg hefi dansað og spásjerað með þeim öllum." Lágt: "Addi hafði ekkert á móti því, vissi að eg var bara að villa slúðurtunnunum sjónir. Par úr okkur Gunnari! Ha! ha!"

"Adda Jóhanns? O-ó! Góða nótt!"

— — — — —

"Gunnar giftur! — Giftur! Dáinn, horfinn henni. Hvað var lífið? Grár þokuflóki — brauðdeig. Það var sem fjalirnar í gólfinu létu undan, hyrfu undan fótum hennar, hún sykki — sykki. Hvað gerði það til! Hvað gerði nokkur skapaður hlutur til! Fara á fætur, selja brauð, hátta, klæða sig, selja brauð — selja steina fyrir brauð. Og hún hafði beðið guð! — GUÐ!

Hún fór aftur inn til Adda; hann hélt áfram að segja af myndinni. Hún hló hátt, þegar aðalhetjan henti Indíánum hverjum af öðrum fyrir björg. En hvað hún hefir hljómskæran hlátur, hugsaði Addi. — Henni fanst hún aldrei framar geta brosað. Lofa honum að tala. Hvað gerði það til! — Addi var skikkanlegur piltur, — heldur leiðinlegur. — En gerði það nokkuð til? Dúlla hefði víst tekið honum, hefði hann beðið hennar. Addi hafði sagt að hún væri heimsk og heldur kjánaleg, einhverntíma þegar Dúlla barst í tal. — Addi var sjálfur ekki mjög greindur, en hann var vandaður, í góðu áliti sem gullsmiður, efnaður, — drakk ekki. Hvað vildi hún hafa það meira? — Alt var betra en að þola dylgjur fólks um Gunnar og hana, sem nú myndu fá byr undir báða vængi.

Hún settist við hlið Adda í legubekkinn, tók vetlingana hans, sem lágu á höfðalaginu, lagði þá á kné sér og strauk þá eins og í hugsunarleysi. Addi lagði hendina hægt og hikandi ofan á hönd hennar, hún kipti snögt að sér höndunum, skrýkti og sagði hún hefði brent sig; en í raun og veru hafði það ekki meiri áhrif á hana, hvort Addi snerti hendur hennar, eða Snati strauk sig upp við þær.

"Mér er ætíð kalt á höndunum. Kaldar hendur —"

"— og heitt hjarta." Addi var alvarlegur, — "hver sem verður nú svo hamingjusamur að fá að njóta þess." Hann færði sig nær henni, hún hreyfði sig ekki. Honum óx hugur, hann tók þétt um hendur hennar; hún kipti þeim ekki að sér. Nokkrum mínútum síðar voru þau trúlofuð.

Trúlofuð — trúlofuð Adda! Árin mundu líða hægt og hægt, grá, viðburðalaus, löng eins og Góan, lygn eins og hvolpahylurinn í Merkjaánni. — Hún gat ekki haldið áfram að selja brauð alla sína tíð, þoldi ekki að vita af því að Dúlla hældist um. — Hvað var Gunnar annað en áttatíu króna búðarloka? Addi var efnaður. Hún gat haft

Bridge-partí og súkkulaðigildi eins og aðrar heldri konur bæjarins. Farið til Reykjavíkur við og við. Dúlla hafði ekki ráð á því!

Síminn hringdi. "Svara þú, rétt að gamni," sagði hún brosandi.

"'Viljið þér bíða augnablik," heyrði hún að Addi sagði.

"Það var Kristín móðir Dúllu. Gunnar og Dúlla gerðu svo vel og bara giftu sig í kveld; Hann sótti hringana um hádegið; hélt þau ætluðu að opinbera. — Hún bauð mér og þeim gömlu hjónunum, þegar hún heyrði hver eg var, — ætlar víst að bjóða ykkur — klukkan eitt á morgun, sagði hún."

"Heyrðu Addi! Má eg ekki segja henni að við séum, höfum verið að opinbera? — svo bærinn fengi þó einu sinni að heyra um opinberun, sem ekki er opinbert leyndarmál."

"Jú, mikið ansi væri það smellið!" Augu hans hurfu í hrukkum. "Eg hefi víst einhverja hringa á lager. Smíða svo aðra seinna og gref í þá. Jú, jú, gerðu það! — Eg hleyp eftir þeim meðan þú talar við hana."

"Halló! Óska hjartanlega til hamingju! — Já, þakka yður fyrir, — eg skal skila því; já, við komum áreiðanlega. — Á eg að trúa yður fyrir nokkru? Þér eruð fyrsta vandalausa manneskjan, sem fær að vita um það — við Addi vorum að setja upp hringana — Addi Jóhanns. Já! þakka yður fyrir. Já, það er faraldur af þessu, ha! ha! — Jú, við komum alveg ábyggilega. Óskið ungu hjónunum innilega til hamingju. — Þakk' yður fyrir! — Sælar."

Hún hengdi upp heyrnartólið, hringdi af. — Einhver kom inn í skúrinn fram af búðinni, Addi með hringana! — Það var satt; hún ætlaði að fara að opinbera. Unnustinn hennar var að koma. Unnustinn! — Gunnar!

# Sitt af hverju um varplönd á Islandi.

Eftir **Guðmund Friðjónsson frá Sandi.**

---

Þú, sem ekki hefir komið í varpland, og munt þangað aldrei koma — viltu bregða þér á handarkrika minn og litast þannig um í eggverunum? Sjón er að vísu sögu ríkari. En frásögn er betra en ekki neitt og bergmál skárra en dauðaþögn.

Eg hefi komið í fjögur æðavörp, og í þeim getur að líta sýnishorn þeirrar dýrðar, sem er samgróin þess háttar stöðvum. Eg ætla þá að nefna:

### 1. Varpið á Laxamýri.

Það liggur í nágrenni mínu, svo að sega, og þó var eg fulltíða maður, þegar eg kom í það, fór ekki þess á leit fyrri. Eg vissi af afspurn, að varpeigendum er lítið gefið um gestagang í æðarvarpi. Fuglinn styggist við gesti og getur afrækt fyrir þær sakir og alt umrót í varpinu getur valdið fúleggjum. Hitt veldur minni truflun, að kunnugur maður gangi um varpið, því að kollurnar þekkja þá, sem eru þeim handgengnir. Loksins bað eg um að fá að ganga að varpinu; þótti mér ómannlegt að fara á mis við þá sjón, æfilangt. Leyfið fékk eg umtölulaust. Og reyndar sá eg það eitt, sem eg hafði ljósa hugmynd um. Svo var háttað, að eg hafði séð yfir eyjarnar oft sinnis. Fyrst leit eg yfir þær, þegar eg fór í kaupstaðinn á barnsaldri, og var þá ekki meira um dýrðirnar en svo, að tvíment var á reiðveri. Leiðin lá norðan við eyjarnar um Fossavað, þar sem Laxá fellur til sjávar. — Fossarnir eru mesti farartálmi æðanna, þegar þær fara til sjávar með unga sína, nýskriðna út úr eggi. Æðurnar ganga fram hjá fossunum, flestallar. Við mættum stórum hópum á þeim nefsneiðingi, 5—10 kollur voru í hóp og einn bliki með sumum, ungabreiðan varð ekki talin, því við vildum ekki staðnæmast hjá fjölskyldunum. Þá hrukku þær undan og mundu geta lent í fossunum. Gaman var að sjá ungana, hversu þeir héldu sig að mæðrum sínum, þegar háskinn kom í ljós — maðurinn og hávaðinn af lestinni. Svartbakar sveimuðu yfir þessum stöðvum, búnir til að hremma hvern unga, sem viltist í fossana eða á annan hátt frá foreldrum sínum. Einn hópur unga og mæðra kom af öðrum framan frá varpeyjunum, syntu út undir fossana, gengu á land, fóru aftur út á ána neðan við strengina, héldu svo áfram og hurfu út á fjörðinn Skjálfanda. Þar tók brimaldan við og svartbakurinn, ginu við ungunum og ógnuðu mæðrunum, horuðum og magnþrota eftir að hafa legið í þriggja vikna sveltu á eggjunum. Gleði og barátta og sorg — sjálfsafneitun, sigur og ósigur og dauði,

rétt eins og í mannfélaginu. En þarna var alt þögult, engin frásögn, aðeins lágar stunur, þegar vargarnir hremdu bráð sína eða báran skall yfir mótstöðuþrotið ungviði. Ekkert mannsauga sér það, sem gerist á hafinu í baráttu æðarunganna og mæðra þeirra, þar sem brimaldan og vargaklærnar sækja að. En það, að vörpin standa í stað ár frá ári, eða þá dvína, sýnir vanhöldin á ungahjörðinni, þeirri miklu mergð, sem tímgast út og kemst á flot árlega.

Þessi kynni hafði eg fyrst af æðarvarpi, að sjá ungana vappa til sjávar. Hitt var enn fyrri, er eg sá æðarfuglana sækja upp að ströndinni, áður en eggtíðin byrjaði. Það gerir hann á einmánuði, þegar áta kemur á grunnið. Þá safnast fuglinn í fleka og kvakar kátur í morgunlogninu og í aftankyrðinni. Æðarfugl virðist vera lágraddaður. En þó berst málkliður hans lengra en hávaði mannsraddar, t. d. 4—5 kílómetra. Það köllum vér á íslenzku alþýðumáli heljarleið.

Þegar smásíld kemur að landi fyrir sumarmál, lifir æðarfuglinn í veizlugleði. Þá safnar hann holdum undir sveltuna í hreiðrunum. Eg horfði á þessa fríðu fugla á sjónum vordaginn og varð frá mér numinn.

Svo liðu árin — og loksins kom eg í æðarvarpið hjá Laxamýri. Og þá þóttist eg hafa himininn höndum tekið, því að í æðarvarpi getur menskan mann dreymt upp fyrir dauðann — dreymt í vöku.

Varpeyjarnar hjá Laxamýri eru víði vaxnar, bæði grávíði og gulvíði. Þar búa kollurnar í runnunum og við þá. Þær eru svo gæfar, að nálega má strjúka þær á eggjunum, og sumar alveg. Svo er þétt sumstaðar, að hreiðrin eru hvert við annað, þar sem skjól er eða jarðvegur gljúpur, svo að kollurnar geti rifið sér hreiður. Eyjarnar eru nálega hvítar tilsýndar, þegar bezt fellur. Blikinn vagar ofan á ána, þegar hann mætir stygð. En æðurnar hlaupa aðeins af eggjunum, sumar fljúga spotta korn, við gestkomu, og vitja hreiðranna að vörmu spori.

Æðarkollan á 4—6 egg, og 60 hreiður þarf til þess að gera eitt kíló af hreinsuðum dún.

## 2. Varpið í Viðey, og hún sjálf.

Þegar eg las í fyrsta sinn um Jón biskup Arason og för hans til Viðeyjarklausturs "með brauki og bramli", vaknaði löngun mín til að sjá eyjuna. Þar eru sögulegar endurminningar á hverri þúfu og þó er margt í þagnargildi, sem þar hefir gerst, svo sem vænta má, þar sem saga klaustra vorra er mestöll í myrkri liðinna og horfinna alda. Það vitum vér þó, að í Viðey var múnkalífi í kaþólskum sið, og síðar bjó þar stórmenni, Skúli fógeti og Magnús Stephensen. Þar stendur enn hús rausnarlegt, sem Skúli bygði. Hann hvílir í hávaða nærri húsinu og stendur steinsúla yfir honum úr íslenzku bergi. Viðey hefir frá mörgu að segja og verður ekki á margt drepið í þessum línum. Á það er skemst að minnast, að eyjan var seld fyrir fáum árum miljónafélaginu sæla, og svo aftur

lenzkri þjóðrækni með skynsamlegu vali íslenzkra bóka og verulega áhugamiklum tilraunum til þess, að glæða hjá almenningi ræktarsemi við það, sem er íslenzkt, skilning á sögu landsins og bókmentum þess. Miklu meira mætti gera í þessa átt en gert er, einkum að því er æskulýðinn snertir. Þessi marg-endurtekna viðbára, að unglingar, sem hér alast upp, vilji ekki lesa íslenzkar bækur, er notuð sem afsökun fyrir því að ekkert er gert. Það er ekki nóg að bækurnar séu til, það þarf að koma þeim heim á heimilin; ætti helzt að byrja á því að lesa valda kafla úr beztu íslenzkum skáldritum og fornsögunum fyrir unglinga og skýra fyrir þeim um leið. Með þeirri aðferð myndi margur unglingurinn læra að meta íslenzkar bækur og fá ást á ættþjóð sinni, svo að hann vildi vita eitthvað um sögu hennar. En þetta verður ekki gert nema að samtök séu höfð með það; og einmitt til þess ættu lestrarfélögin að vera tilvalinn félagsskapur.

Öllum er kunnugt að áhrif blaða eru mikil. Það er ekki of djúpt í tekið árinni, þó sagt sé að margt fólk fái mestalla sína fræðslu úr blöðunum og að allir sækja einhverja fræðslu í þau. Menn, sem vilja hafa mikil áhrif á skoðanir fólks í stjórnmálum, reyna oftast að hafa blöð á sínu valdi, og hver flokkur á sitt málgagn. Auðvitað eru flest blöð eða eiga að vera meira en málgögn. Þau flytja fréttir og fræðslu af mörgu tagi og skemta lesendum sínum. Þau beztu þeirra reyna að vera eins marghliðuð og þeim er unt. Flest það, sem blöð flytja, heyrir að vísu ekki undir varanlegar bókmentir; en samt birta öll betri blöð margt, og sumt af því í fyrsta skifti, sem til bókmenta getur talist.

Íslenzku blöðin hér vestan hafs eru málgögn. Þau hafa fylgt fram vissum stefnum í landsmálum, þau hafa talað máli vissra stjórnmálaflokka, og þau tala nú, þótt óbeinlínis sé, máli kirkjuflokkanna tveggja, sem hér eru. Þetta er ekki sagt blöðunum til lasts, heldur sem sannleikur, sem öllum hlýtur reyndar að vera ljós. En bæði íslenzku vikublöðin hafa verið meira en málgögn, enda þótt þeim hafi oft verið borið á brýn einstrengingslegt flokksfylgi. Þau hafa oftast veitt öllu aðsendu viðtöku, frá hverjum sem það hefir komið og um hvað sem það hefir verið. Þrátt fyrir það þótt margt hafi flotið með, sem sjálfsagt hefði aldrei átt að birtast á prenti, verður þetta að teljast kostur, því það hefir gert blöðin marghliðaðri en þau hefðu annars verið. Það, að margt lélegt birtist, er fremur að kenna óvandvirkni og hirðuleysi ritstjóranna en þeirri stefnu blaðanna, að leyfa sem flestum að taka til máls um sem flest efni.

Bæði blöðin hafa verið, eins og líka var sjálfsögð skylda þeirra, hlynt þjóðræknismálinu. Það má ef til vill segja, að þau hefðu getað unnið meira fyrir það mál; en því verður ekki neitað með nokkurri sanngirni, að þau hafa viljað styðja það. Með því er þó ekki sagt, að

þau hafi gert alla skyldu sína í því efni. Það er ekki nóg að blöðin séu málinu hlynt og að við og við birtist í þeim ritgerðir um þjóðræknismál, og að þau tali hvatningarorðum til manna. Þau eiga að vera fyrirmyndir að því er snertir mál og mat á því sem ritað er. Ef það væri ekki næstum mótsetning í orðunum sjálfum að tala um hin þögulu áhrif blaðanna, mætti segja að þau ættu að vinna mest með sínum þögulu áhrifum. Sé málið á blöðunum sjálfum óvandað, og birti þau hvað eftir annað argasta leirburð í ljóðagerð og illa samdar ritgerðir, má við því búast, að það hafi slæm áhrif á lesendur þeirra marga og sljófgi tilfinningu þeirra fyrir fögru máli. Ekkert getur eins göfgað og hreinsað mál almennings og það, að lesa að staðaldri hreint og vel ritað mál. "List orðsins", svo eg noti orð eins bezta núlifandi íslenzka skáldsins, er almennust allra lista; að henni eiga flestir aðgang, og í henni geta flestir orðið þátttakendur, jafnvel í mæltu máli. Íslenzku vikublöðin koma í hverri viku á hvert íslenzkt heimili hér vestan hafs, og það væru ekki smáræðis áhrif, sem þau gætu haft, ef þau væru vel vönduð að máli. Það er misskilningur að halda, að það standi á sama, hvernig málið er á blöðunum, ef aðeins það skiljist, sem þau hafa að flytja. Að vísu lærir enginn málið af þeim, en ósjálfrátt hljóta menn að verða fyrir áhrifum frá því, sem þeir lesa stöðugt. Jafnvel auglýsingar ættu ekki að vera illa þýddar, enda gerist þess engin þörf. Íslenzk tunga er nógu auðug af orðum til þess að á henni má segja flest, sem segja þarf; en ef orð brestur, er betra að nota hrein ensk orð heldur en klúðursleg hálfensk orð og blending, sem er ófagur og ranglega myndaður samkvæmt eðli málsins.

Blöð okkar hafa ekki verið nærri nógu vel vönduð að máli, og áhrif þeirra í þá átt að viðhalda réttu íslenzku máli hér, hafa verið næsta lítil; en í því hlýtur þó allmikill hluti af þjóðernisviðhaldi okkar að vera falinn. Þau hafa ekki gert skyldu sína í því. Eg er sannfærður um, að ef þau breyttu sér til bóta í þessu, þá myndi áhrifa þeirra gæta áður en langir tímar liðu.

Um gagnrýni og val á efni mætti og margt segja. Þar gætu blöðin og vandað sig betur, án þess að breyta stefnu sinni, sem hefir verið sú, að veita sem flestum aðgang að þeim með skoðanir sínar, sem er rétt stefna og góð, ef vel er með farið. Enginn vafi er á, að sumt af ljóðagerðinni ætti ekki að birtast, vegna þess að hún hefir hvorki hagmælsku né skáldskap að geyma. Þetta tvent er sitthvað í íslenzkum kveðskap. Það bætir ekkert úr, þótt um eftirmæli og þess konar tækifærisljóð, sem fólk langar til að sjá á prenti, sé að ræða. Blöð, sem aldrei styggja neina kaupendur, eru ekki líkleg til þess að gera mikið gagn, hvorki í bókmentum né öðru. Þá er og annar illur siður blaðanna, sem ætti að leggjast niður. Hann er sá, að hæla öllu, sem út er gefið, hvaða handaskömm sem það kann að vera.

Sanngjarnir en réttlátir dómar um rit eru nauðsynlegir. Þeir eru leiðbeinandi fyrir almenning, og það er ein af skyldum blaðanna, að kveða þá upp.

Blöðin eiga tilveru sína undir því, að hér séu til íslenzkir lesendur. Gleymist íslenzkt mál hér í landi, hljóta þau að líða undir lok. Þau eru því beinlínis að vinna að framtíðarhag sínum með því að vinna að viðhaldi íslenzkrar tungu. Það ætti að vera þeim eitt hið stærsta áhugamál, hvaða málum sem þau annars fylgja, að styðja að viðhaldi tungunnar. Áhrif þeirra vikulega á lesendur sína myndu fá meiru orkað í þá átt heldur en margar ritgerðir og áminningar. Því betur sem þau vanda málið, því meiri von er um að allir, sem eitthvað fást við að rita, vandi sig. Þau geta aldrei verið of vandlát við þá, sem í þau rita, og þau ættu að gera þeim það að skyldu, að setja fram skoðanir sínar á nokkurnveginn lýtalausu máli.

Félagsskapurinn og blöðin, þessar stofnanir okkar, sem starfa að öllu því, er heyrir til okkar andlega lífi, hve miklu gætu þau ekki áorkað í því efni að varðveita okkar dýra arf! Hér er ekki ókleift verk, þótt erfiðleikar séu nokkrir; en hér er verk, sem krefst þess, að við höfum vilja og vakandi áhuga. Tómleikinn og sinnuleysið þurfa að hverfa; sá hugsunarháttur, að það eitt sé okkur gagnlegt, sem aflar fjár og kemur okkur í efnaðra manna tölu, á að líða undir lok. Hin sanna menning er margþætt; hún er meira en matur og drykkur, meira en lífsþægindi og velgengni; hún er andans menning, þroski vits og göfugra tilfinninga. Þess vegna er það, að bókmentir og listir eiga svo stóran þátt í framförum þjóða á menningarbrautinni. Ef við að svo komnu köstum frá okkur arfi okkar, glötum við stórum hluta af menningu okkar. Það hygg eg að vakað hafi fyrir stórskáldinu nýlátna, sem jafnframt var einn hinn bezt mentaði Íslendingur á síðasta fjórðungi liðinnar aldar og fyrsta fjórðungi þeirrar aldar, sem yfir stendur, er hann ávarpaði okkur með þessum orðum:

"Særi eg yður við sól og báru,
Særi eg yður við líf og æru,
yðar tungu, orð þótt yngist,
aldrei gleyma í Vesturheimi."

Já, orðið yngist, nýjar hugsanir, ný sannindi berast til okkar; og vera má að einhverjum okkar auðnist að gefa heiminum eitthvað það, er hann vill varðveita að okkur liðnum; en tungan má ekki gleymast, því hún geymir það, sem smáþjóðin norður við heimskautabaug hefir af mörkum lagt til hinnar varanlegu andlegu menningar heimsins.

# Grafreiturinn.

Eftir **Thomas Gray**.

---

Nú hringja klukkur hljótt í bláan geim
og hjörðin yfir vanginn dreyfir sér,
en arðurmaður lötrar lúinn heim,
og lætur veröld eftir nótt og mér.

En landið rennur út í rökkvans sæ,
hver rödd er þögnuð, golur falla í dá,
en aðeins flugur suða sí og æ
og sífra nauta bjöllur stuðlum frá.

Og hátt frá turni vöfnum grænum við
þar vælir ugla kæru í skýin sofin,
að gert sé brot á hennar Fróða-frið,
því fornhelg kyrðin óttunnar sé rofin.

En þarna milli álms og ýviðar
í ótal grónar þúfur sé eg rofa,
og undir hverri í þröngum rekkjum þar
nú þorpsins gömlu og hörðu feður sofa.

Ei ilmi blandinn blærinn morgnum á
og bláleit svala, er kvakar hreiðri í,
né hanagal og hornatónar fá
til heimsstarfanna vakið þá á ný.

Þeim hitar aldrei framar aringlóð
og engin kona sér um þeirra vé
ei heimkomnum þeim brosa börnin rjóð
með bjástri' er klifra þeirra lúnu hné.

Hve oft þeir skáru öxin völlum á
og erjuðu hinn þyrnum gróna mó,
hve liðlega þeir beittu fákum frá,
hve fimlega þeir reiddu öxi í skóg.

Ei dramb skal hæða þeirra þarfa starf
né þeirra smáu gleði og dægurraun,
né tignin skopast að þeim litla arf,
sem örbirgð fær hjá tímanum í laun.

Því öll vor dýrðin, fremd og veglegt vald
og vegsemd, þótt hún berist lengst um höf,
nú verður samt að ljúka hið lagða gjald,
það liggja allra vegir heim að gröf.

Og þér, sem hreykist, hallist ekki á þá,
sem heimsfrægð ei lét sigurmerkin reist
eða lét musterunum miklu frá
mannalof í söngum stíga geist.

Má askan geymd og listum löguð mynd
í líkið stirðnað heimta flúna sál?
Má frægðarorðið vekja lífs þíns lind
og lokkun smjaðurs byrla dauða tál?

Kanske geymist hér í gleymdum blett
margt göfugt hjarta, er faldi helgan eld,
sú konungsmund, er mátti stýra rétt
eða mynda verk, er sæi tímans kveld.

En þekking aldrei breiddi bókfell sitt
né brotasilfur tímans fyrir þá;
kuldi skorts þeirra eldinn út fékk nítt
og ísfjötrað þá snilli er bjó þeim hjá.

Margur gimsteinn glitrandi og skær
í gjám hins mikla hafdjúps leynir sér,
og margt eitt smáblóm vilt á vörpum grær,
sem varpar fegurð sinni á hrjóstrin ber.

Kanske Hampdens líki leyni sér
und leiði hér, sem móti kúgun stóð,
eða Miltons jafni hvíli hér,
og hraustur Cromwell laus við morð og blóð.

Er gátu krafist hljóðs og hrifið þing
og hræddust ekki sókn né eftirmál,
en dreifðu blessun breiðan lands um hring,
og blessun tóku í laun frá hverri sál.

En fátæktin hún reisti skorður ramt
mót ráðum dygða sem mót glæpa slóð
og hefti morð til hásætisins jafnt
sem hitt, að neita um miskunn sinni þjóð.

Úr barmi sér að bægja sannleiks þrá
og brjóta af stofni hreinskilninnar rós
sem offrum stalla heimsku og hroka á,
að hrúga og brenna þeim, við mentaljós.

Langt frá hópsins heimskulegu þrá,
— ei hugsun þeirra sneiddi krókaleið, —
um afdal lífsins leiðum sínum á
Þeir látlaust gengu móti því sem beið.

Og til að friða um þessa föllnu þjóð
sjást furukrossar reistir þar og hér,
með stirðum skurði og stömu broti úr óð
þeir standa og krefjast andvarps þess er sér.

Nafn og aldur stafað stirðri mund
og staðan, þarnæst kemur erfiljóð
og síðan helgur texti er temur lund,
hve taki dauða, góð og kristin þjóð.

Því hver er sá, er gleymsku gekk á vald,
með gleði og ótta hvarf um dauðans hlið,
og lét af dagsins ljúfu birtu hald,
að liti' hann ekki í kveðjuskyni við?

Hver sál, er hverfur, hrópar kveðju á,
og hvert eitt brostið auga tára krefst,
já, eðli lífsins andar gröfum frá,
um ösku vora þráður lífsins vefst.

Og þú, sem grafir þeirra tókst að þér
og þeirra smáu minning stein á skarst,
það kemur einhver kanske síðar hér,
sem kann að spyrja eftir hver þú varst.

Þá svarar máske hærður höldur mót:
"Við höfum séð hann fyrir morguns ár
tárvott landið leggja undir fót,
því ljósi að mæta er fyrst sér tindsins brár.

"Þarna und beykitrésins breiðu grein,
það brettir upp svo skringilega rót —
um miðdagsstund við sáum oft þann svein
sitja og stara í lækinn við sinn fótt.

"Undir því tré með hörkuglott og háð
hann sást oft reika' um þögul skógartorg,
lét oft sem hann, er hefir ekkert ráð
með hjartað fult af kærleik eða sorg.

"Og daginn einn að sínum vana sið
eg sá hann ekki beykitrénu hjá,
annar svo hvarf, og litla lækinn við
um lund og grundir enginn meir hann sá.

"En daginn eftir grafin gröf hans var,
í garðinn þarna lögðu þeir hans bein.
Far (þú ert læs) og lestu um líf hans þar
í ljóði höggnu á hans bautastein."

### Grafskriftin.

Hér hvílist undir hljótt við moldarskaut
einn hníginn drengur auðs og frægðarlaus.

En mentun skríddi æ hans æfibraut
og angrið samfylgd hans sér jafnan kaus.

Gjafmilt var skap og hreinar hjartans þrár,
en himinn veitti margt af andans seim.
Af fátækt sinni fús hann gaf hvert tár
og fékk (alt sem hann kaus) einn vin í heim.

Nú ei skal framar rekja lífs hans ljóð,
né leiða kosti hans og bresti á svið,
það hvílir alt í helgum vona móð
nú heilagt föðurhjarta drottins við.

E. J. Melan þýddi.

# Að frægðar-orði.

**Frú Lára Goodman Salverson.**



Kona sú er hér um ræðir, hefir orðið þjóðkunn meðal hinnar hérlendu þjóðar nú á síðastliðnum tveimur árum. Er hún fædd hér í Winnipegborg og er enn ung að aldri. Eru foreldrar hennar bæði á lífi og hafa búið hér í bæ og í borginni Duluth í Minnesota alla þá tíð síðan þau komu frá Íslandi, í nær fjörutíu ár. Heitir faðir hennar Lárus Guðmundsson og er ættaður úr Borgarfirði suður, en móðir Ingibjörg Guðmundsdóttir og er hún ættuð af Ísafirði.

Frú Lára Goodman Salverson er með hinum fyrstu Íslendingum hér, er við bókmentastörf hafa fengist, er lagt hefir fyrir sig að rita einvörðungu á enska tungu. Hefir hún ritað margar smásögur á Ensku, er birzt hafa í ýmsum blöðum hér í álfu og hlotið einróma lof að maklegleikum.

Vakti það fyrst athygli á henni, að sumarið 1922 hlaut hún verðlaun, er Regina-deild hins almenna félagsskapar canadiskra kvenna bauð fyrir bezt samda smásögu, er lýsti æfi og baráttu búenda í Vestur-Canada. Nefndi hún söguna "Hidden Fire", og var hún birt samtímis í öllum helztu blöðunum í Vestur-Canada, og auk þess í tímaritunum "McLean's Magazine" og "Maple Leaf". Sjötíu höfundar keptu um verðlaunin, en að áliti dómaranna var saga frú Salverson hin langbezta. Var þetta fyrsta sagan, er út kom eftir hana á prenti; en svo hefir síðan ein sagan rekið aðra og allar átt sömu vinsældum að fagna. Eru þessar þær helztu, er vér kunnum að tilnefna: "Flowers", er birtist í tímaritinu "Canadian Pictorial Review", "The Black Bird passes by", í "The Canadian Bookman". "The Greater Gift" í dagblöðunum "Calgary Herald" og "Toronto Weekly Star". Er þetta jólasaga einkar þýð og fögur, en látlaus að framsetningu. Gefur hún hinu bezta af þess háttar sögugerð ekkert eftir. Þá hafa og birzt eftir hana ljóð í ýmsum þessum blöðum og tímaritum, er þykja prýðisgóð.

Hún var því orðin allvel þekt sem rithöfundur, er meginverk hennar, er hún hefir enn ritað, kom út á þessu hausti, gerði hana þjóðkunna, en það er stærðar-skáldsaga í átta blaða broti, 326 blaðsíður að stærð og nefnist "The Viking Heart". Er bók þessi gefin út af hinu góðkunna bókaútgáfufélagi McClellan & Stewart í Toronto. Skáldsaga þessi var eigi fyr

komin á markaðinn en hún hlaut einróma lof hérlendra bókavina. Ber öllum ritdómurum saman um það, að sem saga sé "The Viking Heart" alveg sérstök í skáldsagnagerð hinnar amerísku þjóðar og höfundurinn skipi sæti í fremstu röð skáldsagnahöfunda hér í álfu, er riti á enska tungu. Er það eigi lítið hrós, þegar að því er gætt, að skáldsagnahöfundar eru margir, en hún er fyrsti Íslendingurinn, sem snúið hefir sér algerlega að því að rita á enska tungu. Mentun sína mun frú Salverson hafa hlotið að mestu við skóla í Bandaríkjunum, því hún var á þeim aldri, um það leyti er foreldrar hennar voru búsett í bænum Duluth í Minnesotaríki. En ritfær er hún vel á Íslenzku og mælir vel á íslenzka tungu. Frú Salverson er gift norskum manni, er George Salverson heitir, og búa þau í borginni Calgary í Alberta.

Efni sögunnar "The Viking Heart" er tekið úr þjóðlífi Íslendinga hér vestra. Byrjar sagan á því að segja frá vesturflutningum fyr á árum, og hinum mörgu og miklu erfiðleikum, sem íslenzkir vesturfarar höfðu við að stríða á frumbýlingsárunum. Nefnir höf. fyrsta kaflann: "They that go before" — þeir sem á undan hafa farið. Er þar vel að orði komist og lýsingar furðu nákvæmar og góðar. Þá er næsti kaflinn um landnámið í Nýja Íslandi og baráttu manna þar fyrir lífinu. Er sá kaflinn víða meistaralegur. Verður eigi annað sagt en að myndirnar séu dregnar bæði af skilningi á fátæktinni og erfiðleikunum, og með viðkvæmri samúð til þeirra, er þar áttu í höggi við einangran, hungur, drepsóttir og dauða. Þriðji og síðasti kaflinn segir frá betri afkomu þjóðarinnar. En þá kemur heimsófriðurinn mikli, er varpar drunga og dapurleika yfir þjóðlífið, og á þá, sem mikið hafa reynt, er lögð sú aukabyrði, að verða á bak að sjá þeim, sem þeir unna mest, er heimtir eru í stríðið og eiga eigi afturkvæmt.

Sálarlýsingarnar eru alstaðar ágætar í sögunni, og sögupersónurnar halda sér mætavel gegnum alla frásöguna og eru lifandi fólk. Íslenzku málfæri nær höf. víðasthvar og hefir auðsjáanlega lítið fyrir því, og málshætti, er mjög skreyta íslenzkt alþýðumál, tekst henni vel að færa yfir á Ensku, og er það þó ekki auðgert. Þá koma þar fyrir ljómandi setningar, er lýsa í örfáum orðum lundar- og eðlisfari Íslendinga, t. d. sem þessi á bls. 322: "It is as natural to the Icelandic heart to turn to poetry in times of stress as for another to search his Bible". Er þetta vissulega satt, — vísurnar íslenzku hafa varið hjartað,

"Þær eru margar lærðar lítt,
leita skamt til fanga,
en þær klappa yndisþýtt
eins og barn á vanga."

Ritdómararnir margir hafa líka bent á það, að saga þessi sé með öðrum hætti en flestar aðrar, en það er íslenzka efnið, sem hún er ofin úr. Lesendum til gamans viljum vér tilfæra héðan og handan

örfá orð, er um söguna hafa verið sögð.

John W. Garvin heitir mentamaður einn í Austur-Canada, er hann ritstjóri eða umsjónarmaður með útgáfum Radison's félagsins í Toronto, "Masterworks of Canadian Authors". Segir hann þetta: "Eg lauk við að lesa söguna "The Viking Heart" í gær. Eg varð svo hrifinn af sögunni, að mig langar til að kynnast höfundinum. Frá mínu sjónarmiði er sagan sú langþýðingarmesta er runnið hefir upp frá Vesturlandinu. Frú Salverson hefir þar minst íslenzku landnemanna og barna þeirra eigi síður en Louis Hemon frönsku frumbýlinganna í Norður-Quebec með sögunni 'Maria Chapdelaine'.". — Á svipaðan hátt farast W. A. Deacon orð, ritstjóra við blaðið "Saturday Night" í Toronto. "Sagan að efni og samúð, skarar langt fram úr hinum algengu canisku skáldsögum".

Saga þessi, þó hún sé í rauninni skáldsaga, er meira en skáldsaga. Hún er kafli úr menningarsögu, og verður því engu minna metin er tímar líða fram, en hún er nú. Með sögunni hefir frú Salverson útbreytt þekkingu á íslenzkum almenningi hér í landi, og á hún margfaldar þakkir skilið fyrir það. Vonandi verður þetta ekki hennar síðasta saga.

Frú Salverson er enn á ungaaldri, og má því búast við að starf hennar sé eigi nema rétt byrjað. Heyrst hefir að hún sé að undirbúa ljóðasafn til prentunar, og kemur það út væntanlega á þessu sumri.

### Emile Walters.



Í vikublaðinu Art News, aðalriti listamanna í Bandaríkjunum, sem gefið er út í New York, er skýrt frá því 27. okt. s. l. að Bandaríkjastjórin hafi keypt landslags mynd eftir Emile Walters málara. Mynd þessi hefir verið hengd upp í málverkasal þjóðlistasafnsins í Washington. Er safn það alþekt og talið með þeim beztu sinnar tegundar í Ameríku. Mynd þessi heitir "Roosevelt Haunts — Early Autumn", og máluð á óðalssetri fyrv. Bandaríkjaforseta, Thedore's Roosevelt, Sagamore Hill.

Emile Walters er mörgum Ísl. hér vestra kunnur, hefir hans oft verið getið nú í seinni tíð og verka hans. Hann er fæddur í Winnipeg og alinn upp hér að mestu leyti. Listanám stundaði hann upphaflegaa við listaskólann í Chicago og útskrifaðist þaðan fyrir allmörgum árum síðan, þá kornungur að aldri. Foreldrar hans eru ættuð af Norðurlandi, var faðir hans úr Skagafirði, Páll Walters, og stundaði hér gullsmíði um tíma. En hann andaðist meðan Emile var enn barn að aldri. Að miklu leyti hefir Emile því unnið fyrir sér og brotist til manns. Þess má og geta, að hann er yngsti listamaðurinn, er Bandaríkjastjórnin hefir enn sem komið er sýnt þann sóma að veita upp-

tóku við þjóðlistasafnið. Inn á það safn koma engir myndum nema búnir séu að geta sér alveg sérstakan orðstír sem listamenn.

Myndin er ekki nýmáluð. Emile kyntist Roosevelt forseta fyrir nær tíu árum síðan. Var hann tíður gestur á heimili þeirra hjóna og málaði þar ýmsar myndir á landsetri forsetans. Ein myndin hangir í gestastofu á Sagamore Hill eftir hann og heitir "Blossom time". "Roosevelt Haunts" er máluð fyrir fjórum árum síðan. Hlaut hún William O. Goodman verðlaunapening á listasýningu í Chicago árið 1921, og hefir hún síðan verið höfð til sýnis á ýmsum listasöfnum hér og hvar í Bandaríkjunum, en nú síðast, eftir að Bandaríkjastjórnin keypti hana, hefir hún verið valin ásamt 29 myndum öðrum, er allar þykja afbragð að einhverju leyti, af "The American Federation of Art", til þess að vera sýnd á helztu listasöfnum álfunnar.

Í sambandi við mynd þessa er þess hvarvetna getið, að Emile sé af íslenzkum uppruna. Hefir myndin þannig óbeinlínis vakið eftirtekt, og það í sérstökum skilningi, á íslenzkri þjóð meðal Ameríkumanna, er þegar hafa haft eigi lítil kynni né ring af hæfileikunum, er heimskautaþjóðin góða á yfir að ráða, — þar sem dr. Vilhjálmur Stefánsson býr á meðal þeirra og hefir aldrei farið dult með þjóðerni sitt.

Fleiri og fleiri eru þeir að verða með ári hverju, er kynna þjóð vora út um heiminn og það á þennan hátt, sem henni er til sæmdar. Sannast sem fyr: "Byrði betri berat maðr brautu at, en sé mannvit mikit". Meðan Íslendingar fara með það úr föðurgarði, eru þeir ekki allslausir.

Emile ber að þakka fyrir verkið. Vonandi eiga honum eftir að hlotnast margar slíkar viðurkenningar, sem þessi, er honum hefir veizt á þessu síðastliðna ári.

# Íslenzk-dönsk orðabók.

Eftir **Pál Bjarnarson.**

---

Sigfús Blöndal: Islandsk-dansk Ordbog.

Fyrrihluti bókar þessarar, A—leggingarbönd, er út kominn eftir Sigfús Blöndal, bókavörð miklu kgl. bókhlöðunnar í Höfn, og aðalsamsömuði hans, frú Björgu Þ. Blöndal konu hans, og þá málfræðingana Jón Ófeigsson og Holger Wiehe. Útgáfan er kostuð af ríkissjóðum Danmerkur og Íslands til samans og er hin vandaðasta.

Bókin er í fjögra blaða broti, 10x11 þml. að stærð, 480 bls., blaðsíðan tvídálkuð, með latínuletri. Orð bókarinnar eru með feitu, skýru letri, "bold face" eða álíka stærðar, en skýringarnar eru með smærra og grennra letri, "clarendon"-letri, og bókstafir og tölur, sem greina merkingar, eru æfinlega hið minsta ívið gildari en skýringarletrið og stinga vel af við það, svo fljótt er að finna í bókinni.

Framan við orðin er bráðabyrgðar-formáli, skrá yfir heimildir, merki og skammstafanir, og loks lykill að hljóðtáknum bókarinnar, sem eru eftir Tousaint-Langenscheidtska framburðarkerfinu eða lagað eftir því. Bókinni er ætlað, samkvæmt formálanum, að gefa yfirlit yfir orðaforða íslenzks nútíðarmáls bæði í ræðu og riti, sem sé frá 15. öld, að framburður málsins breyttist í það, sem hann nú er, til þessa tíma; nefnt er þar orðasafn Björns Magnússonar Olsens, sérstaklega sem eitt af helztu heimildarritum bókarinnar, og af eldri óprentuðum söfnum safn Hallgríms Schevings í Landsbókahlöðunni í Rvík, svo og getið þess, að allmörg rit 19. og 20. aldar hafi verið orðtínd í bókina að öllu leyti eða nokkru, en ekki nema einstöku aðalrit 15.—18. aldar tekin til greina.

Flest er gott um bók þessa að segja.

Fæstar orðabækur ná yfir öll orð tungu þeirrar, sem þær fjalla um, og bókin á það að vísu sammerkt við þær, að hún tekur heldur ekki yfir öll orð íslenzkrar tungu, þó það vitaskuld hefði verið ákjósanlegast, en mesta sæg hefir hún af þeim, um 45 þús., í þessum parti, á að gizka af meðaltals orðafjölda af 5 opnum, teknum af handahófi úr bókinni, og urmull af sjaldgæfum orðum eru í henni; orðum, sem maður, þ. e. a. s. þá þessi og þá hinn, vissi ekki fyrri, og mundi jafnvel líklegur til að fortaka að til væru í málinu. Merkingar orða eru skipulega raktar og vandlega, eftir því sem þær kvíslast út af frum- eða aðalmerkingunum; víða eru tilfærð íslenzk samheiti og orðunum síðan snarað á lipra og gagnorða Dönsku. Merk-

8

ingar sagnar eru flokkaðar eftir því, er hún er höfð áhrifslaus, áhrifssögn, afturbeygileg eða frumlagslaus (ópersónuleg). Frumlagslausar sagnir eru eins og mý á mykjuskán um alla bókina, og bókin verður sjálfsagt til þess í höndum Íslendinga, að koma þeim upp á að fegra og fjörga stíl sinn með frumlagslausum sagnbúningi, enda er hann algengur í daglegu tali. Þegar mikið er um sögn að segja, þá er víða gefið yfirlit yfir aðalmerkingar hennar fyrst og sagnbúningarnir tíndir til í dæmum á eftir og þeim skipað niður eftir stafrófsröð forsetningar, sem sögnin býst, alt saman gert af slíkri vandvirkni og snjallri kunnáttu, að varla má betur ganga frá því. Dæmin, sem tekin eru til að skýra merkingar, eru víða smellin og einkar ljós; oft og tíðum eru það spakmæli eða þá í þeim sýniskorn úr íslenzkum lífskjörum. Það er ekki ofmælt, sem höfundurinn segir í formálanum, að hann hafi leitast við og látið sér sérlega ant um, að lýsa yfir hvað eina, sem kæmi við íslenzkri þjóðmenning í víðasta skilningi, til að forða því undan gleymsku nýrra tíma, sem belji nú inn yfir landið. Bókin ber ljós merki þess, hvar sem því er slegið upp. Hún morar af fræðandi skýringum, um vinnubrögð og verkfæri, háttsemi og hégiljur, skáldskaparmmál og bragfræði o. s. frv. og er fremur hlutnefnabók, þegar því er að skifta, en orðabók, eða öllu heldur hvorttveggja í senn. En því kann eg illa, að rekast hvergi á dæmi, tekin til úr Íslendingasögum eða fornritum vorum. Það er ankannalegt að hafa þau ekki. Það er engu líkara en því, að láta eins og þau eigi ekki heima hér, heldur í orðabókum "hinnar forn-norsku tungu"! Það er nær að taka t. a. m. úr Flateyjarbók: "í sundr boginn og brast við hátt", "rann á hann höfgi á móti deginum", "sló á þá höfga", heldur en úr Illionskviðu: "hún brast við dimt, er hún (brynjan) rifnaði fyrir spjótinu", eða úr "Ólöfu í Ási": "hann var svefnþungur, þegar svo bar við, og höfgi var á hann siginn", eins og bókin gerir undir "bresta" og "höfgi" o. s. frv., eða þá taka hvortveggja dæmin. Hitt er nærri því ósvinna, að taka ekki dæmi úr fornritum. Það haggar engu um það ,þó fornrit vor hafi oft verið orðtínd áður í orðabækur. Það er vitaskuld eins eftir sem áður, að taka dæmi úr þeim í íslenzka orðabók, er samin er til að sýna nútíðarmálið í ræðu og riti. Því góð vísa er aldrei of oft kveðin, og svo eru með því tvær flugur slegnar í einu höggi, bæði sýnt nútíðarmálið og eins hitt, að það sé enn sama tungan og gekk fyrrum um Norðurlönd og strendur Englandshafs, sýnt að Íslendingar alist danskri tungu þann dag í dag. Það kann að hafa þótt villandi, að hringla hinum fornu og frægu heimildum saman við nýju heimildirnar, sem tilgreindar eru í bókinni, þótt það raunar sé það ekki, þó fornt og nýtt sé sýnt í senn, nema þá fyrir því viti, sem elst á þeirri vanfræði erlendra háskóla, að Danska sé útdauð tunga; en þá var ekki annað en sleppa öllum tilvitnunum til rita, enginn hefði saknað þess. Það

er algengast í orðabókum nútíðartungnanna, að tilfæra engar heimildir, og er án efa tilhlýðilegast. því tilvitnanir taka upp afarmikið rúm frá aðaltilgangi bókanna, sem sé að vera hjálparmeðal til að læra tunguna, og launa það ekki aðalþorra kaupenda með fróðleik neitt á borð við rúmeyðsluna. Svo gat bókarhöfundur tekið dæmin úr fornritum eins fyrir því, þótt hann héldi þessum lítt fróðlegu tilvitnunum einsömlum, sem hann hefir, en að ganga fram hjá dæmum úr þeim lestrarforða, sem áhrifamestur hefir verið þjóðinni öld eftir öld og fyrirmynd allra í ræðu og riti enn þann dag í dag, er ekki hægt að kalla nema lýti á bókinni, sem manni þykir því meir fyrir, sem meira kemur til kunnáttu höfundarins og meðferðar á efni þessu öllu saman að öðru leyti.

Nýlunda er í bókinni, sem mælist sjálfsagt misjafnlega fyrir. Hún er sú, að stafrófsröð er raskað, og y og ý er skákað fram á bekk með i og í, og raðað eins og samir væru stafirnir. Ý-hljóðið er kent börnum í stöfun og lestri fram að því, er fimtungur lifði síðustu aldar, eða fremur, í Sveinbjarnar kveri er kent að bera danskt y fram eins og ý. Hljóðið er sjálfsagt enn í vitum allrar alþýðu og nokkuð bráðlátt að taka það upp. Hitt væri nær að leggja því heldur til að hokra áfram. Hagsemiástæður má bera fyrir upptökuna, vitaskuld; en á hinn bóginn er þess að gæta, að menn verða að vera íheldnir um það, sem lýtur að rithætti, ef tungu skal geyma, og menn eiga að vera meira en íheldnir, þegar jafnforn og jafngöfug tunga á í hlut og íslenzkan er. Íheldni er eina ráðið til að hafa hemil á breytingunum, sem mælt mál er undirorpið eins og hvað eina, sem lifir. Það er skammsýn hagsemi, að leiða þær breytingar til vegs í ritmálinu, fyr en komið er í fulla hnefana og jafnvel langt yfir það. Því í mæltu máli bulla einatt upp breytingar, nýjar og nýjar, og orka því örar og áfjáðar á ritmálið til viðtöku, sem beitt er minna viðnámi móti þeim. Þótt ritháttur og framburður væru ræmdir saman, sem vitaskuld væri haganlegast, þá stæði samræmið samt aldrei lengi við, því breytingar mælts máls færðu það fljótt úr lagi. Þessa gæta hagsemi-sinnar miður en skyldi. Við breytingar verður altaf að stríða, eins lengi og málið lifir, og eigi að veita þeim viðtöku til þess að halda samræminu við, þá ber óðfluga að þeim brunni, að tungan týnist og með henni aðgangur almennings að bókmentum fortíðar. Hagsemin er of dýrkeypt því verði. Óhagræðið er stórum betra, að dragast með ritmálið, þótt geigi langar leiðir við framburði, eins og mentaþjóðirnar gera, t. a. m. Bretar. Skólamenn þeirra telja ekki eftir sér kensluna fyrir því, og ber ekki á öðru en alt fari vel, þótt misjafnt sé geymt kensluboðorðanna, líklega þar eins og hér, þegar kemur úr skóla.

Það er nú ekki svo sem stafirnir séu teknir af í málinu með þessu nýmæli; en það er spor í áttina til þess, og svo er hætt við að það verði til þess að innræta mönnum með tímanum, að stafanna sé ekki annar munur en lagið á þeim, og

það er ilt, því það fipar fyrir alþýðu að ná í skyldleik orðanna, sem hún fær annars af ritmálinu. Sama er horfið á meðferð bókarinnar á svokölluðum "einstæðum" myndum sterkra sagna, t.a.m. 'boginn' 'hokinn', 'kropinn', því bókin er samkvæm sjálfri sér. Þær eru ekki settar með sögn þeirri, er þær eiga við, heldur sér sem sjálfstæð orð, eða þá öllu saman er slept. Þetta er engin nýlunda. Það er gamall kækur málfræðinganna, að láta um móðurmálið sitt eins og það væri fyrir löngu uppidagað mál og helstirðnað, eins og væri það Latína. Þeir læra í Latínu, að margar sagnir séu myndarvana, t. a. m. um sagnbót eða annað, og fara með þenna vísdóm í móðurmál sitt og þykir sjálfsagt, að þessar sterku sagnir séu eins myndarvana, ekki aðrar myndir til af þeim, — eins og þeir viti alt, sem íslenzk tunga talar. Það dettur úr þeim, að móðurmál þeirra er lifandi mál, að lögmál þess hræra og stjórna tungum þeirra, svo að þeir láta sér ekki skiljast, að þessar sagnir séu til í málinu í öllum myndum, eins fyrir því þótt ein eða fáar myndir af þeim komi fyrir, þ. e. a. s. t. a. m. að búga, býg, baug, bugum, sé til þegar vill, alveg eins og boginn, og húka, hýk, hauk, hukum, fyrst hokinn er til. Beri aftur svo við, að þá þrjóti orð, þá rakna þeir við lögmálum tungunnar og þau leggja þeim nýyrðin í munn. Það gerir nú ekki mikið til um þetta atriði, því bæði er ekki nema um fá orð að gera, og svo er vöknuð viðleitni hjá mönnum, auðsæ hjá betri rithöfundum og skáldum, að halda í sterka beygingu, þar sem hún á að vera, og líklega ekki langt að bíða þess, að þessir "einstæðlingar" gangi sterkir í öllum myndum, eftir því sem þörf gerist.

Þótt orðabókin sé raunar góð, og yfirleitt ágætlega samið rit innan sinna takmarka, þá gefur það að skilja, að sitthvað kunni sumir að hafa kosið haft á annan veg, en þar er gert, af öllum þeim aragrúa af minniháttar atriðum, sem koma til greina við orðasæginn, sem bókin fjallar um. Það er siður, þegar maður "gagnrýnir" eða "grannsær", að létta þess háttar smámunum af hjarta sínu, einkanlega þegar litlu öðru er til að dreifa. Til að tolla í tízkunni eru fáeinir tíndir upp hér af þeim, sem mér hefir hugkvæmst við að blaða um bókina allvandlega.

Bókin hefir kross framan við orð og merkingar, til að auðkenna þau sem úreld. Merki þau þykja mér bæði óþörf og ófróðleg. Eg trúi bókinni rakalaust, að þau orð séu til í málinu, sem hún telur, þótt eg hafi ekki séð eða heyrt sum þeirra fyrri; en þegar hún fer að segja mér, hvað ekki sé til í málinu, þá ber eg brigður á það, því hún getur ekki vitað það frekar en eg. Enginn maður er umkominn þess, meðan málið lifir og orðin sjálf sýna ekki úrgöngu í mynd sinni. Sjálfsagt eru krossarnir settir með varúð, en samt hefi eg rekið mig á þá þar, sem eg veit að þeir eiga hvergi við, t. a. m. fyrir framan "áburðarmaður", "bakverpast", "eirn" (= eirð), "fjárskakki", "kaur" og "kaura". Þessi orð eru ekki sjaldgæf, hvað þá heldur úreld, og vafa-

laust kárnaði því meir um krossana, því fleiri sem rækust í þeim. Íslendinga villa þeir varla og útlendingum gera þeir ekki mikið til, því víðast munu þeir vera við það, sem sjaldgæft er; lakast er að þeir gefa þeim skakka hugmynd um geymslu tungunnar af Íslendinga hálfu. Nýyrði eru mörg í bókinni, ný og gömul. Þau, sem ekki þykja hafa fengið viðtöku, eru auðkend með afarlitlum baug eða gati framan við þau. Það er vel til fundið. Margra þeirra er getið. Þó hefði líklega verið óhætt að vera enn ósparari á því. Það er öllu til skila haldið, að viðtaka sé fengin, t. a. m. "afálykt", "aðþróun" o. f. og "framhjáhlaup". Það orð er ef til vill ekki talið nýyrði; á að vera (í skák) sama sem framleikur. Skákmenn segi (um peð) drepa eða fella í framleik. Framleikur (það að leika manni að heiman úr sæti sínu) er ekki í orðabókinni.

Útlegging orðanna er yfirleitt nákvæm og snjöll, eins og áður er á vikið; eg hefi ekki rekið mig nema á örfá orð, sem ekki eru alveg rétt útlögð, eða sem höggva hefði mátt nær. Þessi orð eru: **aukvisi** = örkvisi, það er líka ritað ökkvisi, og það er rétta myndin, komið af sögninni ökkva (sbr. Dönsku, ynke), eins og hrökkvís af að hrökkva, og merkir þá upphaflega aumingi, aumkvunarverður maður, og þaðan greinast merkingar þær, sem bókin telur, nema 2. merkingin er líklega ómagi, þarfi. Einn er ökkvisi ættar hverrar, þ. e. hver ætt á minst einn ómaga, komið af hinni víðtæku framfærsluskyldu fornra laga. **Brá,** auga, ætti að vera undir 2. brá, því 1. brá í augabrá (augnalok) er komið af sögninni að bregða; aftur er brá auga af 2. brá, því það heitir svo, af því að það bráir, gljár. 2. brá og 3. brá merkja aðallega ekki annað en gljá og að gljá, því ekkert bráir, nema það gljái. "Einbeygður" er lagt út beint eftir orðunum, "med een Böjning", og nokkuð óljóst, hvað átt sé við; samnefni þess er, sem á e-ð á baugi, á e-ð skylt og óhjákvæmilegt að leysa af hendi, nauðbeygður. Merkingin líklega komin af manngjalda-merkingunni í "baugur", eins og Guðbrandur Vigfússon getur til. Hefði orðabókin betur getið þessarar merkingar í "baugur" vegna máltækjanna "vera á baugi" og "eiga á baugi". Þau hefðu skilist betur. Í máltækinu: "fangs" er von af frekum úlfi, sama sem frekur úlfur er líklegur til að vera vondur bítur, og á Dönsku er lagt út í bókinni: "af en graadig Ulv kan man vente en haard Kamp"; merkir fang á Dönsku "Rov" fremur en "haard Kamp".

"Gangskör" er ekki "Gangbræt", geng að e-u er ekki óeiginlegrar merkingar og vantar fullnaðinn í þýðinguna. Því gangskör er yfirtaksgangur, fullnaðarlykt, endileg úrslit (af gangur, athöfn, sem kveður mikið að, og skör það, sem betur má, yfir tekur, gera g. að e-u, er að leiða til fullnaðarlykta, sama sem láta e-ð skríða til skarar. "Grös 2." merkir ekki "grasgang", heldur gróður, eins og bókin hefir grös 3., og fjallagrös, og svo verður að skilja dæmið: þar eru ágæt grös, þ. e. góð fjallagrös, eða gott

til grasa. Af fjallagrasa-merkingunni er afrunnin merkingin "á næstu grösum", því grasaleitirnar voru nær og fjær eins og fiskimiðin. "Harðbakki" er þar sem mætist þyktin á ljá og dengslið, uppslitin egg (sbr. brýna upp í harðbakka o. fl.); af þeirri frummerkingu renna merkingarnar, sem bókin telur. Langelda f. er tæplega frá langeldatímum komið, líklega er alt saman sama orðið, langelda, langgelda og langhelda, því þau merkja öll sama: langur og krangalega vaxinn maður, þar af duglaus maður, eða e-ð sem er langt og svarar sér illa. "Gjóa augum" (upp á e-n) er ef til vill nær gá augum (upp á e-n), líta upp á e-n, heldur en "gjóta augum".

Á stöku stöðum saknar maður merkingar eða dæmis upp á merkingu, og kynbrigðis og myndbrigðis orða, mest fyrir þá sök, að maður á góðu að venjast í þessu efni, bókin er svo rótnæm. Í dæmum þessa er tala sett aftan við orðið hér, til að sýna merkingarfjölda orðsins í bókinni að viðbættri þeirri, er getið er hér. "Aflegging", 2, megurð, fé er í aflegginguu; "afrækir", fugl á köldum vorum; eftir er að "bera" af (túni); "bræðingur", 4, bleytusnjór, setti niður augnalausan bræðing í seinustu hríðinni; "dúr", 3, = dús, og undir henni ætti þá að vera: koma upp úr dúrnum; "einsýnn", 4, = auðsær; "embætta, 2, mjalta; vera ekki við eina "fjöl" feldur, 4, ekki úrræðalaus, ekki úti um mann; "framskot", 5, áfrýjun (máls); nú er tekið "framúr" (vetri); taktu framúr hestinum (beizlið af honum); "frugga" f. (-u, -ur) = fruggi; græna, 3, fl. grænur, dý; e-ð leggur e-n í "gröfina", betra og almennara en "leiðir e-n til grafar"; "hafáll", 3, aflöng lægð á sjávarbotni; "hagl" m. = "hagall"; "hald", 19, staða innan heimilis, — vera í hærra haldi; lúta í lægra haldi; kötturinn skýtur upp "hanginu"; "hárga" (a), 3 = hygla, 6; "heyýta", 2, saman ýtt hey; taka "heima" í e-u; "hlemma", 3, hl. á e-ð, skjóta á e-ð; "hrossanál", 2, nál til að sauma klifberadýnur og meljur; "jartegn f. (-ar, -ir) = jarteikn; "kati", 2, hár klettur, drangur; "kerfi", 5, í rokk; "kjappi", 2, geithafur; "klá" 3, smíða úr gulli og silfri, búa gima; sú kló sem kunni; krögur = krökur = "krökkur" a.; "klöngva" (-st), "klöngra" (-st), kregða (-u, -ur) 3; urmull (af e-u), 4; þétt útbrot af vatnsbólum litlum; "langimúkur", 2, vinningur í kotru. Af orðum, sem vanta, hafa mér hugkvæmst þessi: **asklok,** óeiginleg merking, vera undir askloki = vera með hugann við matinn; hugfesta líkamleg gæði meira en andleg, fésnös f. = fébrúskur = "fétoppur"; **flíra** (-u, -ur) f.; flíra (-a) upp að e-m, flíra sig upp við e-n; flírast við e-n; klunna (-a).

Orðið "lár", a. = lágur, hefði ekki átt að vera í bókinni nema getið væri þess, að það væri ekki bókhæf mynd, og eins hefði bókin átt að hafa athugasemd við "híðiskreppingur", að það ætti að réttu lagi að vera híðkreppingur, því orðabókin er til þess að hjálpa til að kenna rétt mál, en ekki afbökur.

Bókin er víst sama sem laus við

prentvillur; eg hefi fundið aðeins eina: drægju fyrir dregið, undir "framúr".

Framburðar-kerfi bókarinnar minnir á hið Toussaint-Langenscheidtska kerfi, sem tíðkaðist mikið í skóla-orðabókum þýzkum. Hin íslenzku hljóð, sem ekki verður náð með dönskum bókstöfum, eru gefin til kynna með sérstökum táknum og í lyklinum leiðbeint með hljóðin í þeim, með því að vísa á það í dönskum orðum eða í aðrar tungur, svo sem Þýzku eða Ensku, sé hljóðið algengara þar. Tilsögnin um framburðinn er í bókinni afar nákvæm og víst alstaðar keiprétt. Í stuttu mál er bókin afbragðs góð, hún er helguð minningu Björns Magnússonar Olsens, er léði orðasafn sitt til hennar, og heldur veglega uppi minningu þessa mikilhæfa mentamanns. Eins og hann var uppspretta málfræðilegs fróðleiks, meðan hans naut við, eins mun hún reynast áreiðanleg hjálparhella öllum, sem kynnast vilja Íslenzku eða þurfa á henni að halda í ræðu og riti, lengi eftir að upplagið er protið, sem sennilega flýgur út fyr en varir.

---

# Landtakan.

.. Gamanvísa eftir **Pál skáld Ólafsson**

(Vísu þessa eftir Pál heitinn Ólafsson sagði oss Jón bóndi Sigurðsson að Geysir í Álftavatnsbygð (frá Ketilsstöðum í Jökulsárhlíð). Páll átti flösku og hafði rist nafn sitt upp við axlir á flöskunni, en nafn föður síns niður við botn. Hafði það svo að gamni, að hann drægi föður sinn að landi, er hann tæmdi flöskuna niður fyrir nafnið hans. Vísan er óviða til og hefir hvergi verið prentuð.

Eg stóð á þurru, faðir minn var á floti,
Fræklega dró eg karl úr greipum Ránar;
Lengi á eftir lá eg samt í roti
— Menn lögðu mér svo þetta út til smánar.

---

# Hugsað heim 19. maí 1922.

Eftir **Jósep Schram.**

Síðan eru seytján ár í dag,
er síðast leit eg fósturlandsins hlíðar,
og ennþá finst mér óma sorgarlag
fyrir eyrum mér við minning þeirrar tíðar,
móðir, er eg mátti við þig skilja,
að mínum ei, en forlaganna vilja.

Þó gnægð sé hér af gæðum lífs að finna
og gagnauðugri moldin en hjá þér,
hugurinn minn heim til fjalla þinna
hraðara en ljóssins geisli fer.
Mér finst eg eins og fangi í Vesturheimi,
og festi ei blund, svo þig mig ekki dreymi.

Eg fæddist upp með fjallarósum þínum
í fögrum dal við skæran fossanið,
náttúran þar ilmi blóma blíðum
blandaði við svana og lóu klið.
Og algæzkan þér yfir sýndist vaka
og alt í náðarfaðm sinn vilja taka.

Samróma um loft og lög og jörð
Lofsöng drotni alt með gleðihljómi;
Þar var engin þögul bænagjörð
í þínum bjarta vorsins helgidómi.
Og sólin gleymdi að setjast þá til viðar,
svo var mikil dýrð á allar hliðar.

Ó, hvílík sjón! Hún sífelt verður mér
í svefni og vöku æ í fersku minni.
Eg óska, þegar felt hef niður fjör,
að fá að njóta hins sama í eilífðinni..
Drýgst því mínar djúpu sorgir þagga,
þeir draumar er í skauti þínu vagga.

---

# Fjórða ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Eins og auglýst hafði verið í blöðunum, var þing þetta sett og haldið í íslenzka Goodtemplarahúsinu í Winnipeg, dagana 26. til 28. febr. s. l.

Forseti félagsins, séra Jónas A. Sigurðsson, setti þingið kl. 2.20 e. h. hins fyrsta þingdags. Var fyrst sunginn sálmurinn "Faðir andanna", því næst las forseti biblíutexta, og séra Guðm. Árnason flutti bæn.

Var þá tekið til þingstarfa. Ritari las dagskrá þá, er auglýst hafði verið í blöðunum, og var hún samþykt, að því eina ákvæði viðbættu, að kosningar skyldu fara fram kl. 3 e. h. síðasta þingdag.

Þessi mál lágu fyrir þinginu:

Skýrslur embættismanna.

Grundvallarlagabreytingar.

Útgáfa lesbókar.

Stofnun söngfélags.

Samvinna og mannaskifti við Ísland.

Sjóðsstofnun til Íslenzkunáms.

Útgáfa Tímaritsins.

Íslenzkukensla.

Útbreiðsla félagsins.

Ný mál og kosning embættismanna.

Forseti las ritaða skýrslu í ávarpsformi til þingsins. Gerði hann þar grein fyrir starfi sínu og félagsins á árinu. Gat hann þar meðal annars, að þrjár nýjar deildir hefðu verið stofnaðar á árinu, og gengið í aðalfélagið, ein á Gimli, önnur í Selkirk, og hin þriðja nýstofnuð í Churchbridge. Þá hefði og deild að Silver Bay, er nefndist "Framtíðin", beiðst upptöku í félagið, gegn því að ársgjaldið yrði aðeins einn dollar á ári. Engin af eldri deildunum hefðu fallið úr sögunni. Sumar deildirnar hefðu afkastað miklu á árinu í félags- og kenslumálum, t. d. "Frón" í Winnipeg, "Fjallkonan" í Wynyard" og "Harpa" í Winnipegosis. Frá öðrum deildum hefði hann færra heyrt, en eflaust hefðu þær líka unnið í sömu átt. Útgáfa Tímaritsins, sem væri eitt af aðalstörfum félagsins, héldi áfram eins og að undanförnu undir ritstjórn séra Rögnv. Péturssonar. Væri til þess vandað bæði að efni og frágangi. Þá hefði og félagið haldið uppi umferðakenslu í Íslenzku í Winnipeg og ráðið til þess tvo kennara, og auk þess veitt sumum deildum fjárstyrk til samskonar starfa. Að síðustu lagði hann til, að þingið sæi sér fært að semja og samþykkja tillögu, er gæfi erindrekum frá deildum utan Winnipegborgar, meiri þingréttindi og atkvæði í málum félagsins en hingað til hefði átt sér stað.

Þá gerði ritari stutta grein fyrir störfum félagsins á árinu. Höfðu

11 nefndarfundir verið haldnir, og forseti sökum fjarveru og illrar aðstöðu, aðeins getað setið þrjá þeirra. Tveir fundir voru ekki beinlínis um félagsmál. Hinn fyrri til undirbúnings samsæti, er tónlistamanninum Percy Grainger var haldið á Ft. Garry hótelinu 7. marz síðastliðinn vetur, og hinn síðari í því skyni að stuðla að söngsamkomum út um bygðir og hér í borginni. Af þeim sjö málum, er síðasta þing afgreiddi, var eitt sett í milliþinganefnd, en af hinum sex, er nefndinni var falið að ráðstafa, hafa þrjú verið afgreidd; en þrjú af eðlilegum ástæðum, verið geymd þessu þingi til íhugunar. Er þar átt við Lesbókina, Söngfélagið og mannaskiftin við Ísland.

Næst lagði féhirðir fram prentaða fjárhagsskýrslu. Sýnir hún meðal annars, að tekjuhalli lítilsháttar er á aðalreikningi félagsins, sem þó er margsinnis jafnaður upp með ágóða þeim, er auglýsingarnar í Tímaritinu gáfu af sér. Sala Tímaritsins á árinu borgaði ekki heldur nándarnærri útgáfukostnaðinn, fremur en á undanförnum árum. Þessi eini ábatasami tekjuliður félagsins (auglýsingarnar), er algerlega að þakka hinum frábæra dugnaði féhirðis.

Þá las fjármálaritari upp skýrslu sína um meðlimatölu og innheimtu á ársgjöldum félagsmanna. Höfðu innheimtur gengið tregt, sem sjá má af því, að lítið yfir 200 dalir hafa borgast í félagssjóð á árinu, en það er helmingur þeirra ársgjalda, er greidd hafa verið, því flestir félagsmenn standa í deildum, sem auðvitað halda helmingi gjaldsins. Meðlimaskráin er prentuð í Tímaritinu eins og að undanförnu.

Að síðustu gaf Skjalavörður skýrslu yfir seldar og óseldar bækur á árinu, og bar henni í öllum aðalatriðum saman við fjárhagsskýrsluna.

Að loknum skýrslum embættismanna voru lesin upp símskeyti frá Félagi Íslendinga í New York, og ávarp í óbundnu máli og ljóðum frá íþróttamanninum Jóhannesi Jósepssyni og Jóni bónda Stefánssyni.

Hófust því næst umræður út af embættismannaskýrslunum. Voru við þær gerðar lítilvægar athugasemdir, sem allar fengu fullnægjandi skýringar. Og voru þær síðan samþyktar án frekari umsvifa.

Að þessu loknu var tekin fyrir dagskráin, eins og hún er hér að framan sýnd. Gekk það sem eftir var dags í það, að ræða málin frá ýmsum sjónarmiðum og skipa í þau nefndir. Viljum vér leitast við að skýra frá afdrifum þessara mála í sömu röð og nefndirnar lögðu fram álit sín. Kl. hálf-sjö var fundi frestað til næsta dags.

— — — — — —

Kl. 8 að kvöldinu var aftur komið saman í efri sal Goodtemplarahússins. Flutti forseti félagsins, séra Jónas A. Sigurðsson, langt og snjalt erindi um íslenzkt þjóðerni og þjóðararf, og viðhald þess vor á meðal. Þá söng ungfrú Rósa Hermannsson tvö íslenzk lög, "Sólskríkjan" og "Fuglar í búri", eftir Jón Laxdal. Var að öllu þessu gerður hinn bezti rómur, og forseta greitt þakklætisatkvæði á þann

hátt, að allir stóðu á fætur. Í fjarveru varaforseta stýrði féhirðir, Ásm. P. Jóhannsson, samkomunni og talaði nokkur orð á undan og eftir. Var þessari samkomu eigi slitið fyr en klukkan að ganga 11 um kvöldið.

— — — — — —

Daginn eftir, 27. febrúar, kom þing aftur saman kl. 2.30 e. h. Var fyrst lokið við nefndaskipanir í þeim málum, er á dagskrá voru. Síðan voru tekin fyrir **Ný mál.**

Dr. G. J. Gíslason frá Grand Forks hóf máls um nýmæli það, er hér skal frá greint. Kennari einn við Luther College, Decorah, Iowa, Knut Gjersted að nafni, hefir unnið að því að rita á enska tungu bók allstóra um sögu Íslands. Hann er sagnfræðingur góður, hefir áður ritað og gefið út sögu Noregs í tveim bindum, sem talin er hin bezta í sinni röð. Hefir hann aflað sér upplýsinga víðsvegar um þau atriði, er honum voru eigi sem ljósust í sögu landsins, bæði hér í Winnipeg og í Fiske-safninu við Cornell háskólann í New York; og íslenzkir fræðimenn, eins og t. d. prófessor Halldór Hermannsson, hafa lesið yfir handrit hans og gefið því meðmæli sín. Bókaútgáfufélagið MacMillan Co. er fúst til að gefa út þessa Íslandssögu, eins og þeir höfðu áður gefið út Noregssögu sama höf., ef þeir fá tryggingu fyrir, að 1000 eintök séu keypt af þeim í einu lagi. Á bókin að kosta í lausasölu 4 dali, en venjulegur bókhlöðuafsláttur að fást af þessum 1000 eintökum.

Var þetta allmikið rætt með og móti, og að lokum kosin þriggja manna nefnd til að íhuga það nánar. —

Þá kallaði forseti eftir skýrslum frá nefndum.

Séra Rögnv. Pétursson skýrði frá því, að milliþinganefndin, sem hafði með höndum sjóðsstofnunarmálið, hefði ekkert starfað á árinu, með því að einn nefndarmannanna hefði þegar á ársþingi í fyrra skorast undan að starfa í nefndinni, og lagði til að þessu máli væri vísað til þingnefndar, er hefði með höndum samvinnu og mannaskifti við Ísland, og var það þá þegar gert.

Lagabreytingar voru þrjár, er fyrir þinginu lágu. Hin fyrsta um reglur fyrir vali heiðursfélaga. Ákveður hún, að einn heiðursfélaga aðeins mætti velja á ári hverju, og réði stjórnarnefndin hver fyrir því yrði. Hin næsta var um niðurfærslu ársgjaldsins úr 2 dölum niður í 1 dal, og hið þriðja um að tvo þriðju greiddra atkvæða þurfi með lagabreyttingu á ársþingi, svo hún öðlist gildi. Nefnd sú er sett var til að íhuga þessar breytingar, var skipuð 5 mönnum, þeim J. J. Bíldfell, Ásg. I. Blöndal, B. B. Olson, J. J. Húnfjörð og Fred Swanson. Lögðu þeir nú fram álit sitt, sem réði þinginu til að samþykkja óbreytta niðurfærslu gjaldsins og ákvæðin um atkvæðafjöldann, en fyrsta tillagan var nokkuð á annan hátt orðuð en í fyrstu.

Urðu um þetta langar og allsnarpar umræður, og varð niðurstaðan sú, að fyrstu og annari breyttingunni var vísað til baka til nefndarinnar, en sú þriðja samþykt eins og hún lá fyrir þinginu. Síðasta þingdag bar svo nefndin þetta

mál fram að nýju og urðu þau úrslit að niðurfærsla gjaldsins var samþykt. Verður því árstillag hvers fullorðins félaga 1 dalur, í stað 2 dala. Var ritara falið að tilkynna það deildum og öðrum.

Breyttingin um val heiðursfélaga var nú nokkuð öðruvísi orðuð en í fyrstu, þannig, að á eftir orðunum: Heiðursfélaga skal kjósa eftir verðleikum", komi: "á ársþingi samkvæmt tillögum stjórnarnefndarinnar" o. s. frv. Var þessi breyting eða viðauki að lokum samþykt.

Nefnd hafði verið sett til að taka til íhugunar tillögur forseta í ávarpi hans til þingsins um réttindi og atkvæði erindreka frá deildum. Í henni voru þeir Fred Swanson, Ólafur Bjarnason og Bjarni Magnússon. Lögðu þeir fram álit þess efnis ,að breytingar í þessu efni væru ekki heppilegar, og þyrfti lagabreytingar áður en nokkuð yrði gert. Var það rætt með og móti, og að lokum vísað til nefndarinnar til frekari íhugunar. Kom hún síðar með endurskoðað nefndarálit, en gat þó ekki til fulls komið sér saman um það. Var það rætt með og móti og að lokum felt, vegna þess að álitið var, að þetta þing gæti ekki gert ákvæði, er kæmi í bága við lögin. Varð það til þess, að síðar á þinginu voru lagðar fram lagabreytingatillögur, er nánar verður frá sagt á sínum tíma.

Nú var dagur að kvöldi kominn og ákveðið að fresta þingfundi til kl. 1 daginn eftir, þann 28. febrúar.

— — — — — —

Klukkan átta að kvöldinu var skemtisamkoma á sama stað. Fór hún fram undir umsjón deildarinnar "Frón". Forseti deildarinnar, hr. J. J. Bíldfell, setti samkomuna með ræðu. Anna Sveinsson (Mrs. Lowe) lék á píanó. Mrs. P. S. Dalman, Mrs. Alex Johnson og Miss Rósa Hermannsson sungu einsöngva, sömuleiðis Mr. Halldór Þórólfsson, er söng meðal annars nýtt lag eftir Þór. Jónsson kaupmann við kvæði eftir séra Jónas A. Sigurðsson. Þá sungu og fjórraddað ungfrúrnar Hermannsson og Herman og þeir herrar Jóhannesson og Þórólfsson. Séra Ragnar E. Kvaran talaði um smásagnastíl og las upp þrjár smásögur, eftir þá Guðm. Friðjónsson, Sigurð Nordal og Einar H. Kvaran. Séra Rögnv. Pétursson las upp kvæði eftir St. G. Stephansson. Fór öll samkoman fram á íslenzku og var að öllu gerður góður rómur. Í neðri salnum báru konurnar fram rausnarlegar veitingar, en í efri salnum var dansað á eftir langt fram yfir miðnætti, og fóru víst allir ánægðir heim til sín.

Síðasta þingdag, þann 28. febr. var fundur settur kl. 1.30 e. h. Forseti bar þinginu kveðju frá séra Guttormi Guttormssyni í Minneota. Ennfremur las hann upp tillögu frá Jóh. Jósefssyni íþróttamanni, er fer fram á, að þingið lýsi "ónáð sinni á því, að verið sé að hvetja eða narra Íslendinga á Íslandi til þess, að flytja búferlum eða alfari til Vesturheims". Var samþykt að leggja tillöguna til síðu og þakka tillögumanni bendinguna.

Samvinnu-, mannaskifta- og sjóðsstofnunarnefndin lagði þá fram álit sitt. Í þeirri nefnd voru: séra

Rögnv. Pétursson, Árni Eggertson, Á. P. Jóhannsson, Sveinb. Áranson og Thorst. J. Gíslason. Lagði hún í stuttu máli til, að kosin sé þriggja manna milliþinganefnd, er hafi þessi mál algerlega með höndum. Var það samþykt og í nefndina kosnir:

Séra Rögnv. Pétursson.
Séra Ragnar E. Kvaran og
Gísli Jónsson.

Þessi nefnd gerði og viðbót við álit sitt, að stjórnarnefndinni sé falið að leita upplýsinga um og sjá um framkvæmdir viðvíkjandi happadrætttismiðum þeim, er ritara félagsins voru sendir frá Stúdentaráði háskóla Íslands. En þeir eru gefnir út og þeim leyfð útbreiðsla á Íslandi í þeim tilgangi, að byggja stúdentagarð í Reykjavík fyrir utanbæjar námsmenn. Var það og samþykt. (Hefir nefndin síðan leitað leyfis að selja miða þessa, en verið þverneitað, með því að landslög Canada harðbanna lotterí og happadrætti af öllum tegundum.)

Í kenslumálanefnd voru þeir Á. P. Jóhannsson, G. J. Húnfjörð, Svb. Árnason og séra Guðm. Árnason. Lögðu þeir fram langt nefndarálit, er lýsir ánægju yfir öllum þeim tilraunum, er hingað til hafa verið gerðar til viðhalds Íslenzkunni hér vestra, bæði í Þjóðræknisfélaginu, Jóns Bjarnasonar skóla og annarsstaðar, og leggur til að nefndinni sé falið að stuðla að því af fremsta megni, að Íslenzkukenslu sé haldið áfram eins og að undanförnu. Ennfremur bendir hún á, að æskilegt væri, að íslenzk börn héðan úr bænum gætu fengið sumarvistir hjá íslenzkum bændum úti í bygðum, þar sem ekkert nema Íslenzka er töluð á heimilunum. Þá skorar hún og á deildir víðsvegar, að vinna af kappi að Íslenzkukenslu, hverja í sínum verkahring. Ennfremur að nefndin leitist við að fá því framgengt, að Íslenzka verði viðurkend sem kenslugrein við háskóla Manitoba.

Nefndarálit þetta var samþykt í einu hljóði, án frekari umræða.

Í Tímaritsnefndinni voru: Á. P. Jóhannsson, Ásgeir I. Blöndal, J. J. Bíldfell, ungfrú Hlaðgerður Kristjánsson og Hjálmar Gíslason. Lagði hún fram stutt nefndarálit, er fer þess á leit, að nefndin hafi með höndum útgáfu Tímaritsins, útbreiðslu þess og sölu, eins og að undanförnu, og ráði hinn sama ritstjóra fyrir næsta ár, séra R. Pétursson. Var það í þrem liðum og samþykt óbreytt lið fyrir lið.

Nú var klukkan orðin þrjú eftir hádegi, og fóru þá fram kosningar embættismanna.

Fyrir forseta var stungið upp á séra Jónasi A. Sigurðssyni, séra R. Péturssyni, J. J. Bíldfell og séra A. E. Kristjánssyni

Þeir séra Rögnv. Pétursson og J. J. Bíldfell skoruðust undan að taka kosningu, og fór því atkvæðagreiðslan fram um þá tvo, séra Jónas og séra Albert. Fóru atkvæði þannig, að séra Albert E. Kristjánsson var kosinn forseti með tveim atkvæðum umfram séra Jónas A. Sigurðsson.

Varaforseti: Árni Eggertsson (endurkosinn í einu hljóði).

Skrifari: Gísli Jónsson (endurkosinn í einu hljóði).

Varaskrifari: Ásgeir I. Blöndal (endurkosinn í einu hljóði).

Fyrir féhirði var stungið upp á Á. P. Jóhannssyni. En hann skoraðíst undan. Var þá stungið upp á mörgum, en allir afsökuðu sig. Eftir nokkrar umræður og ítrekaða beiðni alls þingsins, lét Á. P. Jóhannsson tilleiðast að taka kosningu.

Varaféhirðir Jónas Jóhannesson (gagnsóknarlaust).

Fjármálaritari: Fred Swanson endurkosinn í einu hljóði).

Vara-fjm.ritari: Klemens Jónasson (gagnsóknarlaust).

Skjalavörður: Finnur Johnson (endurkosinn í einu hljóði).

Yfirskoðunarmenn voru kosnir:

Halldór Bardal.

Hannes Pétursson.

Að afstöðnum kosningum var fráfarandi nefnd greitt þakklætisatkvæði með því að allir stóðu á fætur. Forseti ætlaði þá að víkja úr sæti, en fyrir tilmæli nýkjörna forsetans, sat hann í forsetasæti til þingloka.

Þá bar Fred Swanson fram viðaukatillögur við 3. kafla laganna. Hina fyrri um að meðlimum heimadeilda sé heimilað að gefa erindrekum umboð á atkvæðum sínum á ársþingi. Hin síðari, að einstökum meðlimum sé leyfilegt að gefa öðrum gildum meðlimum skriflegt umboð á atkvæði sínu á ársþingi. Tillögur þessar eru lagðar fyrir næsta ársþing til endanlegra úrslita.

Þá var lagt fram nefndarálit frá Íslandssögunefndinni, en í henni voru: dr. G. J. Gíslason, Á. P. Jóhannsson og séra A. E. Kristjánsson. Lögðu þeir til að stjórnarnefndinni sé falin öll framkvæmd í því máli, og sé henni falið að leita upplýsinga um gildi bókarinnar, og ef hún sé álitin vel þess virði, að gefa hana út, þá vindi hún að því bráðan bug að koma því í framkvæmd. Var nefndarálitið samþykt eftir allmiklar umræður, og nefndinni til aðstoðar í þessu máli kosnir: Dr. G. J. Gíslason, séra Rögnv. Pétursson og séra Hans B. Thorgrímsen.

Lesbókarnefndin las upp álit sitt. Í þeirri nefnd voru: séra Guðm. Árnason, Finnur Johnson og séra Ragnar E. Kvaran. Brýnir hún þörfina fyrir slíka bók og leggur til að kosin sé þriggja manna milliþinganefnd til að starfa í sambandi við stjórnarnefndina að útgáfu slíkrar bókar. Var nefndarálitið samþykt og í nefndina kosnir:

Séra Ragnar E. Kvaran.

Gísli Jónsson og

séra Rögnv. Pétursson.

Í söngfélagsnefndinni voru þeir: Séra Ragnar E. Kvaran, Ásgeir I. Blöndal og J. J. Bíldfell. Lagði hún til, að stjórnarnefndinni sé falið að gera tilraun til að stofna söngfélag meðal Íslendinga í Winnipeg. Ennfremur, að séra Kvaran sé beðinn að leitast fyrir um sönglög útgefin hjá tónskáldum á Íslandi. Að nefndinni sé heimilt að verja alt að 200 dölum úr félagssjóði þessu fyrirtæki til styrktar. Þá var og bent á, að eigi væri með öllu ómögulegt, að hrinda af stað íslenzkum hljóðfæraflokki, ef félaginu þætti tiltækilegt að styrkja það á einhvern hátt.

Urðu um þetta nefndarálit all-

snarpar umræður, en að lokum var það þó samþykt óbreytt.

Útbreiðslumálanefndin kom því næst fram með álit sitt. Í henni voru: Björn Pétursson, séra Sigurður Ólafsson og Kl. Jónasson. Leggja þeir til að gagnger gangskör sé gerð að því á árinu, að senda menn í útbreiðsluerindum um bygðir Íslendinga til að afla meðlima og stofna þjóðræknisdeildir. Ennfremur að gera tilraun til þess að komast í samband við þá Íslendinga, sem dreifðir eru víðsvegar um landið, að reynt sé að útbreiða þekkingu á íslenzkum fræðum meðal hérlendra manna, og að nefnd sé kosin til að sjá um, að þjóðræknismál séu rækilega rædd í íslenzku blöðunum, og að stjórnarnefndinni, um leið og henni sé falin aðalframkvæmd í þessu efni, sé heimilað að verja alt að 500 döllum úr félagssjóði til þessa starfa.

Nefndarálitið var rætt með og móti og breytingartillaga gerð um að strika út þessa háu fjárupphæð. Var hún feld og nefndarálitið samþykt óbreytt. Í nefndina til þess að halda málum félagsins vakandi í blöðunum, voru þeir ritstjórarnir kosnir: Stefán Einarsson, J. J. Bíldfell og Einar P. Jónsson.

Séra Rögnv. Pétursson las upp tillögu til þingsályktunar, er hljóðar svo:

"Þar sem vér erum nú staddir á hinu 4. ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, þykir oss eigi við eiga, að þingi þessu sé svo slitið, að eigi sé minst þess manns meðal þjóðar vorrar, er andast hefir á þessu s.l. ári, er í öllum skilningi var foringi hennar og fulltrúi um fimtung aldar, og þjóðin á að þakka flestar þær verklegar framfarir, er orðið hafa á meðal hennar á síðari árum. Þingið lýsir hrygð sinni yfir því, að þjóð vor á eigi lengur kost á að njóta hinna ágætu starfskrafta og leiðsagnar fyrv. ráðherra Hannesar Hafstein. Því það er sannfæring vor, að þar sé í val fallinn einn af allra mætustu mönnum hinnar íslenzku þjóðar, og minningin um starf hans, andlega og verklega, sé eitt af því, sem niðjum Íslands, hvar sem þeir eru, beri að varðveita og láta sér vera fyrirmynd í öllu góðu, í öllu fyrirhuguðu starfi þjóð vorri til virðingar og blessunar um ókominn tíma."

(Undirritað): Rögnv. Pétursson, Finnur Johnson.

Tillagan var samþykt í einu hljóði með því að allir stóðu þegjandi á fætur.

Þá var klukkan orðin meira en sex og fundi frestað þangað til eftir kvöldverðartíma..

— — — — — —

Klukkan laust eftir átta að kvöldinu var fjölmenni enn samankomið í Goodtemplarasalnum. Hélt séra Kristinn Ólafsson frá Mountain, N. D., þar fyrirlestur all-langan um Þjóðrækni og þjóðernismeðvitund. Rakti hann sögu slíkra hreyfinga meðal fleiri þjóða en Íslendinga á ýmsum tímum, og sýndi muninn á hollri og skaðlegri þjóðrækni . Þótti honum vel segjast og var greitt þakklætisatkvæði fundarins á venjulegan hátt. Séra Jónas A. Sigurðsson stýrði fundi og gerði þingheimi ræðumann kunnugan. Sagði hann, að þarna hefðum við lifandi dæmi þess, hverju

mætti áorka íslenzku þjóðerni til viðhalds, því kunnugt væri, að hann væri hér fæddur og uppalinn og mentaður á þessa lands vísu. Að fyrirlestrinum loknum söng ungfrú Rósa Hermannsson aftur "Sólskríkjan" og "Fuglar í búri", og lék systir hennar, Mrs. Ísfeld, á hljóðfæri með henni.

Var þá sett fundarhlé og tekið á móti nýjum meðlimum í félagið.

Þvínæst hófust umræður á ný um óafgreidd mál, er að framan er frá skýrt. Var þá og margt talað um samvinnuviðleitni við önnur íslenzk félög, t. d. Stúdentafélagið. Voru þó engin ákvæði tekin önnur en þau, að fela nefndinni allar slíkar framkvæmdir.

Æfigjöld og æfifélagar: G. J. Húnfjörð hafði áður vakið máls á, að ákvæði væru gerð um þetta atriði. Gerði nú Fred Swanson þá viðaukatillögu við 4. grein 3. kafla grundvallarlaganna, að "æfifélagar geta þeir gerst, er greiða félaginu í eitt skifti fyrir öll 10—25 dollara í félagssjóð". Skal næsta þingi falið að ákveða upphæðina eftir samkomulagi, ef breytingin að öðru leyti yrði samþykt.

Þá var fráfarandi forseta og skrifara greitt þakklætisatkvæði fyrir störf þeirra á þinginu.

Séra Guðm. Árnason kvaddi fráfarandi forseta í nafni þingsins með nokkrum vel völdum orðum.

Forseti þakkaði þá þinginu og nefndinni fyrir samvinnuna og kallaði á nýja forsetann og setti hann inn í embættið. Nýi forsetinn ávarpaði þingið með nokkrum orðum og óskaði eftir góðri samvinnu á árinu, er í hönd færi.

Fyrv. forseti kvaddi þá þingheim og bað alla að syngja að endingu kvæðið: "Ó, fögur er vor fósturjörð."

Að því búnu sagði hann þingi slitið.

Gísli Jónsson, ritari.

---

## Þjóðræknissamtök Íslendinga í Vesturheimi.

Framhald ritgerðar þessarar kemur ekki að þessu sinni í "Tímaritinu". Eru til þess sérstakar orsakir, er eigi verða tilgreindar hér. Að líkindum heldur ritgerðin áfram í næsta árgangi. Afleitar skekkjur urðu í þeim hluta ritgerðarinnar er birtist í síðasta árgangi. Lökust var sú, að þremur línum, er standa áttu neðst í öðrum dálki, bls. 111, var skotið undir fyrri dálkinn. Línurnar eru þessar. "ið Ameríku í júní, og að það er vafalaust, að hinir íslenzku landnámsmenn á þessari öld stigu" o. s. frv. Þetta eru lesendur beðnir að afsaka og færa á hægra veg.

# TÍMARIT

## Þjóðrœknisfélags Íslendinga

**Sjötti Árgangur, 1924**

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON




WINNIPEG, MANITOBA
GEFIÐ ÚT AF ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGI ÍSLENDINGA
1924.

# EFNISYFIRLIT:

# André Courmont



*Minningar frá* 1917.

I.—Þú heilsaðir mér örfhent, útlendingur!
Mér, í flestu, orðinn innlendari!
—Gestur þú, en eg var heima hjá mér.

II.—Þú heilsaðir mér örfent. — Eftirskilið
Þú hafðir hægri hönd í gini Úlfsins,
Sem okkar Týr. Sem hann, til bráða-birgða,
Léztu hönd, og hetju-orðstír síðar.
Tapaðir veði viljandi, er stóð í
Veði, Goðaheimur þinnar þjóðar,
Tengdari skyldu en föðurlandið fundna—
Þó, sem Týr, þú týrhugaður vissir:
Fórn þá aðeins, frest á ragna-rökum,
Gengir hljóður frá, er fögnuðu aðrir.
Mettir smærri missi þinn en þeirra:
Örþrifsráða, örlaga stundarfrestinn
Á því, sem að óhamingju nornir
Ásköpuðu óforsjálum völdum,
Gengnum æ á grið, er Baldur setti.
Að hans dómar illa haldist jafnan,
Tjá þau vera. vítið stóra á Baldri.
Því þeir verði ætíð of-réttlátir.

Í vorri mynd, vér menn, höfum skapað alla
Æsi og guði. Enn í dag það gjörum —
Týr varð þannig til. Við skiljum ennþá
Lund, sem getur látið hönd af hendi
Vitandi, að úrræðið er eyðsla.

III.—"Mér á Ísland ekki neitt að þakka.
Eg því alt!" Við mig þú svona mæltir,
Og kinnar mínar báðar brugðu litum.
Uppalnings þess! sem þegið hafði
Af því sjálfur, alla mína heilsu,
Hæfileika sérhvern, skyn og skapgerð,
Hefði eg eitt sinn yfir þeirri búið

Heimskri grunsemd: Eg fór alslaus utan!
Eg á ekkert Íslandi að þakka!
Mér það alt, að verða það eg varð þó.

IV.—Þú sagðir: "Vonlegt væri, í ykkar augum
Föðurland mitt, Frakkland, sé ei nema
Misgæf París. Eins, þó hún sé ekki
Helftin þess, sem liggur þar í landi,
Né sú betri. En að vísu er hún
Hrifning, sem kann hégómann að fegra,
Háa drauma dreyma og hrasa fordjúpt,
Verið tákn og lífið lagt í sölur.
Skáld, sem yfir skíran málm og seyrðan
Breiðir sífelt silkislæður listar —
Frakkland sjálft þér felst í hennar skugga,
Upphylling sem öllum sýnist nærri."

"En gæti eg, drengir, flakk með ykkur farið
Milli fólks, sem Frakka-sveitir byggir,
Mynduð hyggja, að heimur vor ei ætti
Góðmannlegri greind. Við hana kannast
Geta bæja-börn, frá Íslands dölum."

V.—Fundið hafðir þetta þú! Og ætíð
Sterkur grunur lék mér á um æfi,
Menska-menn að allar þjóðir ættu,
Hugum-líka, hjarta-skylda. Þó að
Móðurmál og föðurland svo fjarlægt
Að þær skildi, að menn vissu, að hefði ei
Þeirra milli nokkur ferja farið.

Hjá þér sýndist enginn fjörður orðinn
Milli hafna hirðmannsins og smalans,
Milli hafna Háskólans og Selsins.

VI.—Við kvöddumst: "Far þú sæll af Fróni, Stefán.
Svo kann fara, að við hittumst aldrei
Framar, hér í heimi. En við skulum
Aftur mætast annars staðar!" Og þú
Tókst það tvisvar fram. Við höfðum
Hvergi skifst á einu orði um það
Hverjar forspár findum í því skarði —

Hafðirðu, kannske, línu í lön, sem nefnist
Ljóð mitt—Þau eru fokdreif ýmsra veðra—
Séð þess merki, að á Iðavöllum
Ekki hefðu þessi stráin sprottið?
Slíkt er hverjum auðséð, og er ýmsum
Hneyksli. Þér þó verið hafi varla.
Sjálfsagt hitt, þú sjálfur átt þér hefir
Úti í víðri veröld eilífðanna,
Fagurey með unaðsælu höfnum
Yzt í fjarlægð víðsýnustu vona.
— Nærsýn mín þó miður geti glöggvað —
Þar sem inn til unaðar og sannleiks,
Vinir þínir þiggja heimboð hjá þér.
—Mig, til þeirra, þori eg varla að telja,
Finn þó hitt, hve helg sé þessi góðvild
Sem þar einnig velkominn mig vildi.

VII.—Því gæti eg með þér mætt —
Eins morgni, nið'ri gröf,
Með sjómannsgleði í sál,
Að sigla ókunn höf.

VIII.—Eg trúa kynni, tignað gæti ekki,
Mikilmennið, gróðahöfund garðsins
Sem merði frjóvust, fegurst, blóm und hælum.
Stigi ei hót til hliðar, er hann gengi um
Blóma-reit, né rendi til þess huga:
Mun ei grasið sælt í sinni fegurð?
Fá sitt líf og fegra sig af unað'
Við að lýsa upp þumlung myrkrar moldar?
Ef til vill, kann rósum sviftur reitur
Kenna sviða af auðn sinni á eftir.
Tók mig oft til ógresisins sárast,
Sem ei tókst að gróa upp til gæða
Sé því varnað rúms að reyna aftur.
Og þess heldur, ef að það er kannske
Okkar sökin, fávísinnar vorrar
Ekki að kunna illgresið að nýta,
Óviljandi rekast á þess dygðir —
Mér er ekki kært til kornskurðarins
Eigi hálfa uppskeruna að brenna —
Margt er að vísu, verðugt lengri daga,

Svo sem þú. En sælt eg gæti talið
Það sem spratt til himnaríkis hérna.

Svo er hermt í helgiritum fornum:
"Að sínu lífi, sá
Ei síðar lifa kann,
Sem sannan guð fékk sjá.
Þess sælastur varð hann."

IX.—Framhald vort er þrungið þyngri efa
Þeim, hvort von þess verði óræk vissa —
Líf er þroski. Allur okkar þroski
Áreynsla, og þungbær styrknum stundum.
Þrótturinn til vaxtar kann að visna,
Eymsli tóm og tilfinning er eftir.
Framförin er lífsins sanna sæla.
Líf, án hennar, verra einskisvirði.
Fylgi lífið oss í æðri heima
— Fyrst að hún er fylginautur lífsins —
Mun hún laus við líf í öðrum heimi,
Og frá þeirri hættu sem var hérna?

En minnu skiftir mig, hve lengi eg dvelji,
En hitt, að sagt sé: Hér sást góður gestur!

X.—Fjarstætt er eg flýja kysi lífið,
Lífs míns við ef lífið framar þyrfti,
Mér er það sú Skuld, sem sker úr málum!
Framför enn með vinum mínum væri
Velgerð sífeld. Eins þó dýrkeypt yrði —
Einhverstaðar á eg til að telja
Feðra, sem að óttuðust aldrei örlög,
Gerðu Norn að guði sínum aldrei,
Stóðu á sínu stærsta, viku ei undan,
Storkuðu henni, að flýja. Eða féllu —
Svo hafa þeir í Ritning sinni ritað.
Hugur sá ei kviði með þér, Courmont,
Langa ferð að lifa, um aðra heima,
Þar sem landa-leitin væri gerð til
Fegurra lífs og fullkomnari þroska.

XI.—Hvað sem sker, þú heldur við mig heitið!
Löngu eftir okkar dag hér, munu

Prýði Íslands sjá, með þínum sælu
Sveitar-augum—mínum, Frakklands fegurð,
Sem eg eygði, en aldrei fékk að líta —
Trú og hugsjón, tún og aldingarða,
Sjá, og sjá með unaðs-augum okkar —
Augunum, af líku bergi brotnu!

XII.—Ei verður vegalaus
Sú vera, er hér var gjörð
Úr óm í æðri heim,
Úr ósk um sælli jörð.

2-8.'24. *Stephan G.—*

# Gjafmildi.

— Lausa þýðing á "Give Not With Your Hands", eftir MacKnight Black, í "The Nation" —

Gefðu ei með hægri hendi;
Þó sú vinstri viti ei af!

Gefðu ei með orðum heldur,
Þau eru sverð, sem særa báða,
Þiggjandann og þann sem gaf!

Gefðu eins og gjafarinn aldni.
gamla móðir, jörð:
Óvitandi að gjafir gefi,
eða hugsi heldur til,
hún sé til þess gjörð!

Eins og um vor, er aldin-blómum
brúðskart-björtum,
laufin gæða sól og svörð.

13-8.' 24. *Stephan G. Stephansson.*

# Stjórnarskrár-afmœlið á Íslandi.

Eftir *Einar H. Kvaran.*

**Erindi flutt í Dansk-islandsk Samfund í Kaupmannahöfn 24. nóv. 1924.**

Þýðingin eftir höfundinn.



Í ár er afmæli á Íslandi — 50 ára afmæli stjórnarskrárinnar. Eins og þér vitið, hafa í öllum menningarlöndum orðið óhemju-breytingar á þessari hálfu öld. En eg held að eg fari rétt með það, að nokkur líkindi séu til þess að breytingarnar séu meiri á Íslandi en í nokkuru öðru landi Norðurálfunnar. Eins og þér auðvitað sjáið, er það ekki svo að skilja, að vér séum orðnir á undan öðrum þjóðum. Hitt er það, að fyrir 50 árum vorum vér á eftir öllum öðrum menningarlöndum.

Félag yðar hefir sýnt svo mikinn áhuga á málefnum Íslands, og svo mikla góðvild til hinnar íslenzku þjóðar, að mér hefir komið til hugar, að yður kynni að virðast það eiga vel við, að gjöra þessar breytingar að umhugsunarefni ofurlitla stund, í tilefni af þessu afmæli. Auðvitað megið þér ekki búast við því, að eg geri grein fyris þessu máli með vísindalega sögulegum hætti. En eg er að vona, að nokkurar athugasemdir á víð og dreif kunni að geta skýrt málið nokkuð fyrir yður.

Eg ætla þá að byrja með því, að reyna að gefa yður hugmynd um, hvernig ástatt var á Íslandi fyrir 50 árum, þegar vér fengum stjórnarskrána. Mikilvægasta atriði hennar var það, að vér fengum vald á fé voru.

Vér áttum þá að fara að búa sjálfir. Hvað höfðum vér til þess að byrja búskapinn með? Hvað var það, sem vér fengum frá þeim, sem áður höfðu yfir oss ráðið?

Það get eg sagt yður. Eg þarf ekki langan tíma til þess, því að það var ekki svo mjög mikið. Það var ein trébrú, 4 steinkirkjur, 1 kapella, íbúðarhús handa landshöfðingjanum, latínuskóli, og betrunarhús. Annað var það ekki. Enginn vegarspotti, enginn viti, allar mörgu og hættulegu árnar óbrúaðar, að einni undantekinni.

Þetta voru þau mannvirki almennings, sem vér tókum við. Vér komum nú að eignum einstakra manna.

Eg ætla þá að byrja á því að benda á það, að vér áttum engin skip nema róðrarbáta, og að enginn Íslendingur kunni að fara með skip. Mikið var til af róðrarbátum og seglbátum; hættan á þeim var mikil í þeim stormum og stórsjóum, sem eru svo tíðir við Ísland.

Leiðirnar voru ekki margar, sem ungir Íslendingar sáu fram undan sér fyrir 50 árum. Aðallega voru leiðirnar tvær: að verða bóndi eða vera í vist hjá bændum. Engin veruleg sjómannastétt var til. Menn unnu á jörðunum að sumrinu, og fengust við fiskiveiðar á opnum bátum að vetrinum. Ekki var heldur nein veruleg verzlunarmannastétt í landinu—að eins fáeinir verzlunareigendur, sem flestir voru á vetrum í Kaupmannahöfn, og í þeirra þjónustu verzlunarmenn, sem menn litu hornauga. Þó að nokkurir þeirra væru fæddir og uppaldir á Íslandi, töldu menn þá ekki sanna Íslendinga. Mér stendur fyrir barnsminni, hvernig talað var um einn prestinn. Hann var vænn og góður maður, en hann hafði horfið frá prestskapnum og orðið verzlunarstjóri fyrir danskt firma. Alþýða manna leit á þessa breytingu sem mikla óvirðing fyrir manninn. Nærri því allir embættismenn á landinu, prestar, sýslumenn og læknar, fengust við búskap samhliða embættisstörfum sínum, að þeim undanteknum, sem voru búsettir í Reykjavík—og þeir voru svo fáir, að naumast gat nokkur ungur maður gert sér von um að að lenda í þeim hóp.

Vinnufólk sætti kúgun frá laganna hálfu. Það var ófrjálsir menn; það var skyldugt til þess að vista sig fyrir heilt ár, nema það greiddi, eftir þess efnum, allháa fjárhæð. Það gjörðu fæstir, sumpart vegna þess að þeir höfðu ekki efni á því, sumpart vegna hins, að það var nokkurum örðugleikum bundið, að fá veiting fyrir þessum réttindum, og loks fyrir þá sök, að ef til vildi var ekki hlaupið að því, fyrir menn með svo óhemjulegri frelsislöngun, að fá nokkuð að gjöra!

Annars druknaði öll veruleg framtakssemi í magnleysi peningaskortsins. Engir peningar voru manna á milli, að undanteknum þeim örlitlu fjárhæðum, sem þeir bændur, er höfðu ofurlítið meira innlegg en þeir þurftu fyrir vörurnar til heimilisins, gátu fengið hjá kaupmanninum. Og kaupmaðurinn var fús að selja þeim allar vörur, nema peninga. Sparisjóður var stofnaður í Reykjavík 1872. En peningar voru engir í honum, og hann var eini sparisjóðurinn á landinu.

Í viðbót við það, sem eg hefi þegar sagt, ætla eg að láta mér nægja að vekja athygli yðar á því, að *siglingar* voru engar *með ströndum fram,* svo að menn gátu ekki komist þessar löngu leiðir milli sveitanna öðruvísi en á hestbaki — að ekki var neinn *sími* um landið — að *póstsambandið* við önnur lönd var mjög ófullkomið — og svo má að orði kveða, að ekki hafi verið neitt *félagslíf* í öllu landinu. Eg geri þá ráð fyrir, að þér getið gert yður nokkura hugmynd um, hve fátæklegt og einangrað lífið á Íslandi var, þegar

Alþingi fékk löggjafarvaldið fyrir 50 árum.

Enn er að eins eitt, sem eg ætla að minnast á í þessu sambandi. Eg held ekki, að eg verði nokkurn tíma svo gamall, að eg gleymi bókahungrinu í sveitum Íslands í æsku minni. Lestrarfýsnin virðist ávalt hafa verið einkenni á Íslendingum. Þetta einkenni er því eftirtektarverðara, sem það var í raun og veru furða, að Íslendingar skyldu yfirleitt geta lært að lesa fyrir 50 árum. Því að engir skólar voru til nema í Reykjavík og á einum eða tveimur verzlunarstöðum. Samt lærðu allir að lesa á heimilum sínum. En það var afar miklum vandkvæðum bundið, að fá nokkuð að lesa. Fornsögurnar voru hvergi til sölu, og mjög örðugt var að fá þær að láni. Ein nútíðar skáldsaga var til á íslenzku — "Piltur og stúlka" eftir Jón Thoroddsen — og fyrir 50 árum voru tvær útgáfur af bókinni útseldar og tiltölulega fáir gátu náð í hana. Gamlir félagar Bókmentafélagsins áttu fáeinar ljóðabækur, sem enginn gat fengið keyptar. Þjóðsögur Jóns Árnasonar eru að líkindum sú bókin, að undanteknum nokkurum guðsorðabókum, sem mestum vinsældum hefir náð á Íslandi og Bókmentafélagið hafði gefið hana út. Hún hafði verið lesin af svo miklu kappi, að nær því ekkert eintak var eftir. Svo mikið var þetta bókahungur, að það var ekki óalgengt, að menn settust við að afskrifa bækur, sem þeir höfðu fengið að láni, ef þeim gazt vel að þeim. Og þegar eg var lítill, heyrði eg talað um mann, sem hefði unnið fyrir sér 15 vetur með því að afskrifa sömu bókina.

Þegar eg hugsa um þá geypilegu örðugleika, sem menn áttu við að stríða á Íslandi fyrir 50 árum, þá er mér það í raun og veru ráðgáta, hvernig fólk fór að vita svo mikið, sem það vissi á sumum sviðum. Það var eins og allar þekkingarleiðir væru lokaðar. En þeir menn voru tiltölulega margir, sem ókleift var að loka fyrir. Eg skal nefna eitt dæmi. Í æsku þekti eg vinnukonu, sem var fædd og uppalin í hinni mestu örbirgð. Jafnskjótt og hún var orðin svo gömul, að hún gat gengið að vinnu, fór hún í vist til vandalausra. Hún hafði þá þekking og þann skilning á fornkvæðum og rímnaskáldskap, sem margir lærðir Íslendingar hefðu getað öfundað hana af. Þann fróðleik, sem Snorra Edda veitir í þeim efnum, hafði hún einhvern veginn fengið inn í höfuðið, og henni hafði tekist að skilja hann, og hún hafði hann á takteinum. Vér áttum marga þess konar ólærða sérfræðinga á öðrum sviðum.

Nú get eg hugsað mér, að yður kunni að koma til hugar að spyrja: Hvaðan fengu menn þá þekkinguna, þegar skólarnir voru engir og bækur nær því ófáanlegar? Eg þarf naumast að bæta því við, að ekki voru flutt nein erindi eða nein þess konar mentunarstörf

af hendi int. Hvernig fengu forfeður vorir sína þekkingu, þeir sem uppi voru á undan bókum eða skólum? Þeir fengu hana með þeim hætti, að menn töluðu um það, sem þeir vissu. Þeir kendu hver öðrum munnlega. Sama er að segja um Íslendinga fyrir 50 árum og þar áður. Það var einkum með þessum hætti, að andlegu lífi var haldið við hjá þjóðinni. Mentunin varð auðvitað ófullkomin, í molum og nokkuð af handahófi. En merkileg gat hún samt orðið.

Eg geri mér von um, að þetta litla, sem eg hefi nú sagt yður, hafi sýnt yður einkennilega smáþjóð. Hún hafði ekki haft vald á sínu eigin fé. Hún var bláfátæk. Hún varð að fara á mis við nærri því öll þau gæði, sem öðrum mentaþjóðum féllu í skaut. Hún hafði nærri því ekkert. En í sál hennar var óviðráðanleg löngun eftir þekkingu, ástríðurík þrá út yfir hin fátæklegu daglegu störf — og eg held, að mér sé óhætt að bæta við: Einkennilegar gáfur, sem sérstaklega virtust fara í bókmentalega átt. En menn voru allsendis ókunnir öllum fjármálum, að því undanteknu að búa á jörðunum, á mjög fábreytilegan hátt, og að lifa svo sparlega, að skuldirnar hjá kaupmönnunum yrðu þeim ekki ofurefli.

Nú fékk þessi þjóð vald á sínum eigin efnum fyrir 50 árum. Nú átti hún að fara að taka þátt í kapphlaupinu eftir gæðum þessa heims. Auðvitað með mjög yfirlætislausum hætti. En samt var nú til þess stofnað, að framfarirnar ættu að fara að byrja.

Hvernig hefir nú þessum mönnum farnast?

Eg ætla að reyna með fáeinum dæmum að gefa yður hugmynd um, hvernig ástatt er á Íslandi nú. En þá finn eg mig nauðbeygðan til að byrja á því að minna yður á, hve fáir vér erum. Mannfjöldinn er álíka mikill eins og í nokkuð stórum bæ úti á landi í Danmörk. Fyrir 50 árum vorum vér um 70 þúsund. Vér erum enn ekki full 100 þúsund. Þegar eg nú, til dæmis að taka, nefni nokkurar tölur, sem eiga að tákna framfarirnar á ættjörð minni, þá kann yðar ef til vill að virðast svo, sem þær tölur séu hlægilega lágar, þegar þér hugsið um þær tölur, sem aðrar þjóðir eru að fást við. Hitt er þá athugunarefnið, hvort þær eru ekki sæmilega háar, þegar hliðsjón er höfð á mannfjöldanum.

Í upphafi þessa máls vakti eg athygli yðar á því, að fyrir 50 árum hefði ekki verið til nokkur *vegarspotti* á Íslandi. Fjarlægðirnar milli sveitanna og býlanna eru einn af vorum allra mestu örðugleikum. Það hlýtur að þurfa langan tíma, og eftir vorum efnum afar mikla peninga, til allra þeirra vegagerða milli sveitanna og bæjanna, sem þörf er á. En vér erum komnir vel á veg í því efni. Auk þeirra vega, sem sýslurnar og hrepparnir hafa lagt, hafa verið lagðir vegir fyrir fé úr ríkissjóði fyrir nær því 8 miljónir króna, og nú eru stór landflæmi,

sem menn fara um í bílum tálmunarlaust, meðal annars yfir hættuleg vatnsföll og staði, sem áður voru mjög örðugir yfirferðar. Járnbrautir höfum vér enn engar; en mikið hugsa menn um þær, og það er sannfæring mín, að þess verði ekki langt að bíða að byrjað verði á því verki. Þá höfum vér og fengið *símasamband* um mestan hluta landsins. Eg hefi ekki getað talið saman, hve miklu fé vér höfum varið til *vita;* en mikið er það, og nú eru þeir komnir hringinn í kring um landið.

Eg gat þess, að fyrir 50 árum hefðu engir *peningar* verið manna á milli á Íslandi. Á því er orðin mikil breyting. Vér fengum landsbankann stofnaðan árið 1885. Það mætti þéttri mótspyrnu. Þeir voru svo margir, sem engan skilning höfðu á því, til hvers ætti að nota slíka stofnun. Eins og eg hefi þegar minst á, höfðu menn svo afar litla þekkingu á fjármála starfsemi nútímans. Og eftir kyrstöðu aldir höfðu menn lítinn skilning á fjárhagslegum möguleikum landsins. Menn minnast þess, að einn af landsins gáfuðustu embættismönnum og stjórnmálamönnum lét sér þá þau orð um munn fara, að það hlyti að verða mikill haugur af skáldsögum, sem starfsmennirnir í þessum banka gleyptu, því að auðvitað hefðu þeir ekkert að gera. 19 árum síðar fengum vér Íslands banka. Velta hans var síðasta ár um 367 miljónir króna. Velta landsbankans var víst eitthvað svipuð. Og innieign manna á sparireikningi og dálk í þessum bönkum nam 47 milj. Auk þess er innieign manna í öllum sparisjóðunum. Í þessu efni má segja, að gerst hafi veruleg bylting, frá því sem var fyrir 50 árum. Ef til vill er það þessi bankastarfsemi, sem ljósast sýnir þá breytingu, er orðið hefir.

Þær framfarir, sem gerst hafa í ýmsum efnum, hefðu að sjálfsögðu verið ókleifar án aðstoðar bankanna. Eg sagði yður frá því, að fyrir 50 árum hefðum vér engin *skip* átt, og að enginn Íslendingur hefði þá kunnað að fara með skip. Íslenzku botnvörpuskipin ein eru nú metin á 9 miljónir, og skip Eimskipafélagsins og ríkisins um 5 miljónir. Auk þess eru öll önnur skip, sem eru íslenzk eign. Og vér höfum eignast *sjómannastétt,* sem áreiðanlega má skipa á bekk með hinum beztu starfsbræðrum sínum í öðrum löndum, og er Íslandi til mikillar sæmdar.

Þá er önnur stórvægileg breyting, sem eg skal nefna, og er bönkunum að þakka: *Verzlunin er orðin innlend.* Eins og eg gat um, var hún alveg í höndum útlendra manna fyrir 50 árum. Verzlunareigendurnir voru búsettir erlendis, og þjóðin leit grunsemdar- og jafnvel fjandskaparaugum á þær verzlanir, sem hún var neydd til að skifta við. Nú eru það aðallega íslenzkar stórverzlanir, sem smásalarnir skifta við, og smásalarnir eru nærri því allir Íslendingar. Mikill meiri hluti innflutningsins og nær því allur útflutn-

ingurinn er í höndum Íslendinga. Jafnframt skal eg þá vekja athygli yðar á því, að fyrir 44 árum námu útfluttar vörur 5—6 miljónum. Árið 1921 námu þær 47½ miljón — þar af 39 miljónir sjávarafurðir. [Eftir að þetta erindi var flutt, kom skýrsla um það, að í nóvembermánuði 1924 hefðu útfluttu ársvörurnar numið 78,967,500 kr.]

Eg er hræddur við að þreyta yður á alt of miklum tölum. En það er dálítið örðugt að komast hjá því ,ef tala á um fjármálahliðina. Eg skal nú að eins bæta við tveim atriðum, sem koma fjármálunum við. Fyrir 50 árum varð árstekjum landssjóðs ekki komið upp úr 300 þúsund krónum. Þegar vér hugsum það, hve lítil sú fjárhæð er, til þess að standast útgjöld þjóðarinnar, getum vér skilið þá fullyrðing Jóns Sigurðssonar, að Ísland gæti alls ekki tekið að sér meðferðina á fé þjóðarinnar, nema það fengi 60,000 króna árleg framlög frá Dönum umfram það, sem raun varð á. Nú getur oss virzt svo, sem sú hugsun sé nokkuð kynleg, að *svo* mikið hafi á 60,000 kr. oltið. Það er fjárhæð, sem íslenzkt botnvörpuskip getur nú búist við að fá fyrir farm sinn á Englandi, eftir fárra daga veiðar. En þá gátu menn ekki spáð í eyðurnar um það, hverjum þroska atvinnuvegirnir mundu taka. Næsta ár, 1925, búast menn, samkvæmt fjárhagsáætlun alþingis, við 8 miljónum og 200 þúsundum, í stað þessara 300 þúsunda árið 1875.

Síðasta atriðið, sem eg skal vekja athygli yðar á, er matið á húseignum og jarðeignum. Árið 1874 voru jarðeignirnar metnar á rúmlega 6 miljónir og 940 þúsundir. Árið 1879 voru húseignirnar metnar á 1 miljón og 250 þúsundir. Það verður til samans nálægt 7 miljónum og 190 þúsundum. Árið 1915 nemur matið 102,265,300. Nú er verðið orðið tvöfalt, — 204,530,600.

Í viðbót eru öll þau hús, sem reist hafa verið síðan 1915.

Það væri óneitanlega kynlegt, að tala um framfarir á Íslandi þessi 50 ár og hlaupa yfir Reykjavík. Eg ætla ekki að koma með tölur um hana, því að eg hefi þær ekki við höndina. En á síðustu 20 árum hefir bærinn fengið dýra og ágæta höfn, vatnsveitu í öll hús og holræsi, gasveitu, rafmagn, sem margir nota til suðu, og allmikið af makadamíseruðum götum. Það er tiltölulega afskapleg vinna, sem int hefir verið af hendi á þessum fáu árum, og hefir gjörbreytt bænum. Svipað má segja um hina bæina, þó að þar sé það ekki í jafn-stórum stíl.

Mig langar til að leiða athygli yðar að atriðum, sem eru ef til vill ekki jafn-áberandi og sumt það, sem eg hefi þegar minst á, en ekki síður mikilvæg. Fyrst er *manndauðinn* með landsmönnum. Í því efni hafa framfarirnar verið afarmiklar. Árið 1861 dóu 36%, en árið 1920 ekki nema 14%. Pró-

fessor Guðmundur Hannesson tekur það nýlega fram í blaðagrein, að að því er komi til manndauða og fólksfjölgunar, séum vér í tölu fremstu þjóðanna, og að á hálfri öld höfum vér hafið oss frá miðalda ástandi upp í röð helztu menningarþjóða. Og hann segir, að það sé líkast kraftaverki.

Í upphafi þessa máls mintist eg á það ófrelsi, sem vinnufólk átti við að búa fyrir 50 árum. Eg þarf naumast að taka það fram, að sú ósanngirni er fyrir löngu úr sögunni. Og ef eg ætti að reyna að gjöra grein fyrir þeim viðgangi, sem mannúðin, réttlætistilfinningin og sanngirnin hafa fengið, eins og þetta hefir komið fram í löggjöf, ýmiskonar venjum og sýnilegum hugsunarhætti þjóðarinnar, þá mundi það verða efni í sérstakt erindi, eða öllu heldur í ofurlitla sérstaka bók. Eg get ekki fengist við það efni í þetta skiftið.

Kenslumálin hafa tekið stórum breytingum. Eg hefi sagt yður, að fyrir 50 árum voru sama sem engir barnaskólar á Íslandi. Yfirleitt varð hver maður að sjá um þá tilsögn handa börnum sínum heima hjá sér, sem hann var fær um að veita. Nú hefir þjóðfélagið þá skyldu að veita börnum tilsögn á 10 til 14 ára aldrinum. Vér höfum fengið ágætan kennaraskóla og dugandi kennarastétt. Hvarvetna þar, sem einhver tilsögn er á boðstólum, er troðfult. Til dæmis að taka eru þeir helmingi fleiri, sem nú verða stúdentar árlega, en fyrir 15 árum. Flestir stúdentarnir flytjast yfir í hinn unga háskóla vorn. Og jafnframt því, sem eg nefni þessa stofnun, get eg ekki bundist þess að láta þess getið, að mér virðist það mikil sæmd fyrir þessa örlitlu þjóð, sem aðallega er bændur og fiskimenn, að hún skuli hafa haft nægilegt hugrekki og nægilegt andlegt víðsýni til þess að stofna háskólann, sem óneitanlega er kostnaðarsamur að tiltölu við fjármagn vort.

Til eru þeir menn, sem þykir þetta sterka aðstreymi að latínuskólanum og háskóla ísjárvert. Það hefir jafnvel komið til orða, að gjöra ráðstafanir til þess að stemma stigu við því. Eg held ekki, að þær hugsanir komist nokkurn tíma í framkvæmd. Eg held ekki, að íslenzka þjóðin uni því, að reistar verði skorður við lærdómslöngun hennar og þekkingar-þorsta. Eg held að vér förum gagnstæðu leiðina. Eg held að vér eflum háskóla vorn, svo að hann verði fær um að styðja þjóðina í baráttu hennar fyrir tilverunni. Núverandi rektor háskólans, prófessor Guðmundur Hannesson, hefir einmitt í síðasta mánuði haldið ræðu í háskólanum í þá áttina. Hann vill bæta við deildum, sem veiti bæði landbúnaði og fiskiveiðum vísindalegan stuðning. Fyrirmyndirnar, sem prófessorinn hefir í huga, er landbúnaðarháskóli Dana og háskólinn í Saskatchewan í Canada, því að helzta deild þess háskóla fæst við

landbúnaðarvísindi. Það er sannfæring mín, að prófessorinn hafi í þessari ræðu bent á þá leið, sem löndum mínum þyki skynsamlegt að fara.

Og þegar eg hefi nú í þessu mjög stutta máli bent á viðleitni landa minna við að afla sér þekkingar, þá leyfið þér mér ef til vill að láta uppi skoðun mína um það hvað það sé, sem íslenzka þjóðin sé að sækjast eftir, þegar sem vandlegast er eftir skygnst. Á Íslandi er enginn stéttamunur til í meðvitund þjóðarinnar. Öll lítur hún á sig sem sömu alþýðuna. Vér getum verið ósammála um það, hvernig vér fáum sameiginlega með hentugustu móti bezt borgið heill þjóðarinnar. En allar vorar þjóðfélagshugsanir eru alþýðlegar hugsanir. Og allra mikilvægasta hugsunin í alþýðlegu lífsskoðuninni virðist mér vera sú að allir menn verði svo úr garði gerðir, efnalega og andlega, að þeir þurfi ekki að fara á mis við þær hugsanir, sem fram koma, að minsta kosti hjá þjóð sjálfra þeirra. Með því einu móti fæst nokkur trygging fyrir að fá sjálfstæða hugsandi menn. Í stóru þjóðfélögunum hefir þetta reynst ókleift. Þar er vanþekkingin á sumum svæðum beinlínis furðuleg, og það jafnvel hjá þeim, sem taldir eru fullkomlega sæmilegir menn. Í smáu þjóðfélögunum er þetta langtum auðveldara. Mér virðist, sem í þessu sé fólgið, fremur en í nokkru öðru, mikilvægi smáríkjanna. Það er sannfæring mín, að á Íslandi megi takast að koma þessari hugsun í framkvæmd.

Í hinni stuttu og afar ófullkomnu lýsing minni á ástandinu fyrir 50 árum, mintist eg á bókaskortinn. Nú hefir verið bætt úr þeim skorti. Nú hafa nýjar *bókmentir* vaxið upp á Íslandi. Eg ætla ekkert um þær að segja. Eg er ekki ritdómari, og eg ætla nú að fara að hætta. Eg veit ekki, hver dómur verður á þær lagður úti í veröldinni, ef þær verða nokkurn tíma kunnar þar. Andlegt líf á Íslandi virðist hafa tilhneiging til þess að fara sínar eigin götur á sumum sviðum. Eg get nefnt það sem dæmi, að vér höfum gert þjóðkirkju vora að rúmbeztu og frjálslyndustu þjóðkirkju veraldarinnar. Bókmentir vorar virðast líka vilja fara sínar eigin leiðir, en eg held, að að miklu leyti komi þar það fram, sem hreyfir sig með vorri þjóð. Mér virðist, að eg ætti á það að benda, hvernig þjóðin tekur við bókunum. Um þær bækur, sem menn vilja á annað borð lesa, má nokkurn veginn treysta því, að af þeim muni seljast um 2000 eintök. Það samsvarar 60 þúsund eintaka upplagi í Danmörku. Af sumum skáldritum er selt miklu meira. Mér er kunnugt um það, að af einu ljóðasafni, "Þyrnum" Þorsteins Erlingssonar, sem kom fyrst út nokkrum árum fyrir aldamót og síðan í tveimur auknum útgáfum,

eru nú seld um 7 þúsund eintök. Það samsvarar 210,000 eintökum í Danmörku að tiltölu við mannfjölda. Mér virðist, að þessar tölur séu eftirtektarverðar og að af þeim megi fá nokkura vitneskju um íslenzka þjóð.

Ef nokkur hefði talað um það fyrir 50 árum, að vér ættum að fá íslenzka *myndhöggvara-* og *málaralist,* þá mundu mönnum sennilega hafa fundist, að sá maður væri ekki með öllum mjalla. Menn höfðu eðlilega engan skilning á þeim efnum. Og þá var enginn sem gat keypt. Nú höfum vér, meðal annars, fengið myndhöggvara, Einar Jónsson, sem er þektur um töluverðan hluta heimsins, og vér höfum reist hús fyrir listaverk hans. Vér höfum líka eignast marga ágæta málara, einkum landslagsmálara, og víðsýnið virðist sérstaklega láta þeim vel.

Nú ætla eg að fara að hætta. En þegar eg renni huganum til þeirra breytinga, sem gerst hafa síðan 1874, og eg hefi ekki minst á, þá finst mér nærri því, að eg sé rétt að byrja. Eg hefi, til dæmis að taka, ekki getið um þann viðgang, sem *félagslífið* hefir fengið, og félög má með nokkurn veginn sanni segja, að ekki hafi verið til á Íslandi fyrir 50 árum. Eg hefi ekki heldur minst á söfn vor, sem öll eru tiltölulega ný, eins og bókasafn ríkisins og skjalasafn þess, náttúrusafnið og þjóðmenjasafnið. Já, það er margt, sem eg neyðist til að sleppa.

En eitt er það, sem mér virðist, að ekki sé sæmilegt að hlaupa alveg yfir, þó að yður sé öllum um það kunnugt. Það er *sjálfstæði* vort, sem vér fengum aftur fyrir 6 árum. Eg minni á það með fullri viðurkenning, að sú breyting er að eins miklu leyti afleiðing af hygni danskra stjórnmálamanna, eins og þolgæði Íslendinga. Auðvitað er ekki á þessum tíma unt að gera sér fulla grein fyrir mikilvægi þessarar breytingar. En það atriði út af fyrir sig, sem öllum mönnum er bersýnilegt, að íslenzk þjóð hefir komið sambandi sínu við Danmörk nákvæmlega í það horf, sem hún óskar eftir og hugsar nú að eins með virðingu og hreinu bræðraþeli til hinnar dönsku þjóðar, það hlýtur að hafa víðtækar afleiðingar.

Eg kem þá að lokum aftur að þeirri spurningu, hvernig löndum mínum hafi farnast. En áður en eg svara því, samkvæmt einlægri sannfæring minni, verð eg skýlaust að vara yður við því að misskilja mig. Þér megið ekki halda, að mér finnist, að alt sé orðið gott á Íslandi og eins og það eigi að vera. Mikið er eftir, sem brýn þörf er á, að gert verði. Eg tek til dæmis íbúðarhúsin í sveitum, sem víða eru mjög miklu lakari, en þau ættu að vera. Og yfirleitt hefir landbúnaðurinn ekki tekið sams konar framförum, sem orðið hafa á öðrum sviðum. Þau eru mörg, nauðsynjaverkin, sem vér

höfum ekki getað komið í framkvæmd á þessum árum.

En þegar yður hefir skilist þessi varnagli. þá vona eg að þér lítið ekki á það sem neinn þjóðarremb-ing, að mér virðist, að löndum mínum hafi farnast vel. Á Íslandi hafa menn jafnan litið með hinni mestu lotningu aftur í tímann til forfeðra vorra, sem uppi voru á fornöld landsins. Eg held, að eftirkomendur vorir muni minnast þeirrar kynslóðar, sem lifað hefir á Íslandi síðustu áratugana, með þakklæti og aðdáun. Eg held ekki, að nokkur kynslóð, sem lifað hefir á Íslandi, hafi int af hendi meira né betra og nytsamara starf.



# Til ferhendunnar.

Hróðmæringar, hljóm með stáls,
hátttinn slynga muna,
óðinn syngja íslenzks máls—
elska hringhenduna.

Oft varst talin yndishnoss,
ort hjá smalavörðu.
Þú ert alin upp við foss,
eyju, dal og fjörðu.

Upp þú gýs sem vorsól, vís
við að lýsa nætur.
Þú ert Íslands ástadís,
ör að rísa á fætur.

Listin stiklar strengjum á
— stuðla miklu laga, —
iðar, sprikklar, óma-há
eftir lyklum braga.

Kostir snjallir, kvæðamanns
kvikt er falla af munni ,
hugsýn alla almúgans
opna Fjallkonunni.

Þó þú fengir forðum hnjóð
frekt af mengi vakið;
samt á engin önnur þjóð
alt þitt strengja takið.

Traustu sæti til að ná
tefðu þrætur stríðsins;
vertu ætíð verði á,
vektu kæti lýðsins.

Allir "Vestmenn" óska eg því
arfinn mesta geymi:
Megi festa minni í
málið bezta' í heimii

*S. J. M.*

# Gömul rúnaljóð og rúnaþulur.

Eftir PÁL BJARNARSON.



Fornnorrænskan, það sinnisfar og kenning, að dönsk tunga, sem gekk fyrrum yfir öll Norðurlönd og víðar, sé útdauð nú og geymd helzt í fornnorrænum handritum, er mögnuð og full dulum. Í nafni hennar hafa íslenzkar orðabækur verið gefnar út fornnorskar og heimildir viltar á íslenzkum fornritum, og Íslenzkunni sjálfri sundrað í Fornízlenzku og Nýíslenzku til að steypa hana í forma kenningarinnar. Stöku sinnum hefir verið tekið ofan í við kenninguna af íslenzkufræðingum hógværlega og hávísindalega; má t. d. nefna ritgerð Jóns rektors Þorkelssonar "Um Fagurskinnu og Ólafs sögu helga" í Safni til sögu Íslands, 1. bd., og ritgerðir Björns M. Olsens — Hvar eru Eddukvæðin til orðin?" í 15. og 16. bd. Tímarits Ísl. Bókmentafél., en Fornnorrænskan er of grómtekin til þess, að það hafi hrinið mikið á hana. Það er samt ekki að skilja svo, að hún sé borin upp af nokkurri áseilni við íslenzkar bókmentir, heldur lafir hún einvörðungu uppi á bláberum hugsunarskorti eða sinnuleysi um sjálfa forntunguna. Norrænufræðingar gefa Íslenzku lítinn gaum eða engan, af því að frændþjóð smá á í hlut og fyrir það dylst þeim, að tungan, sem fornritin eru skráð á, lifir enn þann dag í dag á vörum Íslendinga, að sú danska tunga er Íslenzka. Því leynist þeim líka það, sem er meinlegt fyrir þá að menn eru lítt hæfir til að sitja kenslustóla í danskri tungu, þar til þeir hafa gengið í skóla hjá íslenzkum sveitabændum og alþýðufólki ein 3, 4 ár og numið tunguna af þeim til hlítar. Því það er um þá tungu eins og hverja aðra lifandi tungu, að hún verður ekki lærð til hennar fullnustu nema í landinu sjálfu, þar sem hún er töluð. Sjaldan er og ein báran stök.

Íslendingar eru lítilþægir, af því þeir eru fáir og smáir og verða fegnir hverri eftirtekt af umheiminum, sem þeim þykir taki til sín. Því hafa þeir ekki nema helzt hól fyrir norrænufræðingana, "að þeir kunni málið betur en menn geti vonast eftir af mönnum, sem hafi ekki numið það sem lifandi mál heldur orðið að læra það sem dautt mál," í staðinn fyrir að segja þeim, hvar þeir halli frá sannleik eða sennileik og skera ekkert utan af því. Þetta hefir og hjálpað til að halda við norræna sinnuleysinu á tungunni. Sannast að segja hafa íslenzkufræðingar og Íslendingar aldrei lagt þá stiku á kunnáttu þeirra, sem á að leggja á hana og lögð er

annars á kunnáttu allra annara manna, sem skipaðir eru til kenslu við háskóla og aðrar mentastofnanir, sem sé þá, að vera fullnuma í kennslugrein þeirra. Því er nú eins og er, að margir norrænufræðingar ganga og hafa gengið ómaklega með orðstír á sér um allan heim fyrir afburðafróðleik í danskri tungu. Þótt rit slíkra manna sýni, að þeir eru vel kunnugir fornritum, þá bera þau og á stundum svo mikinn brest á þekkingu orða og orðmyndanar í málinu, að furðar þá, sem tala tunguna. Það er engu líkara en þeir haldi, að tungan sé öll skráð á bókfellin, og nóg að vera þeim þaulkunnur til fullrar þekkingar á tungunni; en það er fjarri því, að Íslendingar hafi skrifað hana alla þar niður. Það er ekki við góðu að búast af norrænufræðingunum, meðan þeir eru haldnir öðru eins sinnuleysi á tungunni og þeir eru. Eins lengi eins og þeir halda sér frá að nema tunguna þar, sem hún er töluð, eins lengi verður fornfræði þeirra ekki nema hálfgjört kák, hálf vísindi, full af hleypidómum og getgátum þá um þetta eða hitt, eftir því sem forráðinni þóknast í hvert sinn.

Eitt af því, sem Norðmenn bera vínur í, er gamalt rúnaljóð. Það er ekki mikið að vöxtunum til, ekki nema 16 tveggja vísuorða erindi yfir rúnastafrófið, eitt erindi fyrir hverja rún, en það er hinn mesti kjörgripur, spakmált og gamansamt og svo einstætt í sinni röð, að indó-evrópskar tungur eiga ekki maka þess. Ljóðið hefir aldrei verið gefið út í neinum bókum eða tímaritum, sem ætluð eru íslenzkri alþýðu, en nokkrum sinnum hefir það verið gefið út erlendis og all eftirtekta verða sögu á það sér. Fyrsta vitneskjan um það er sú, þegar dönsk fornfræði endurvaknar, að það sé til í gamalli laga-kræðu á skinni í Háskólabókhlöðu Khafnar. Ole Worm hafði það þaðan í Literatura runica sína 1636. Hann skildi ekki hverskonar ljóð hann hafði fyrir sér og auðnaðist ekki svo mikið sem að ná réttri afskrift af því. Útgáfa hans varð því ómerkileg nema þá fyrir þá sögulegu merkingu, sem hún fékk fyrir það, að hún var almenningi eina þekkingarlindin um ljóðið um langt skeið sem sé frá 1636 allar götur fram til 1848. Háskólabókahlaðan í Khöfn brann árið 1728 og laga-kræðan gekk þá upp í loganum með, ásamt mörgum öðrum íslenzkum fornritum. Það er Íslendingunum Árna Magnússyni að þakka og Jóni Eggertssyni, sem safnaði fornritum fyrir Svía, að rúnaljóðið er samt enn til eftir þessari elztu heimild, sem menn þekkja til þrátt fyrir brunann. Því þeir höfðu tekið afskrift af ljóðinu fyrir brunann.

Fyrir Norðmenn gaf P. A. Munch ljóðið út í "Kortfattet Fremstilling af den nordiske Runeskrift", Christiania 1848. Bók þessi er víst sjaldgæf, því hvorumtveggja hinna seinni útgefanda ljóðsins, þeim Guðbrandi Vigfússyni og Kr. Kaalund leist yfir þessa útgáfu, hina fyrstu er birti

ljóðið í réttri afskrift, (afskrift Árna Magnússonar). Guðbrandur Vigfússon gaf ljóðið tvisvar út, fyrst í Icelandic Prose Reader 1878 og svo í Corpus Poeticum Boreale 1883, í bæði skiftin eftir útgáfu Ole Worms með texta leiðréttingum sínum. Fyrir danska fornfræðisvini var ljóðið gefið út af Kr. Kaalund í "Smaastykker No. 1 udgivne af Samfund til Udgivelse af gammel nordisk literatur 1884" ásamt nokkrum rúnaþulum í ritgerð, sem hann nefndi: "Et gammelnordisk Runerim og nogle islandske Runeremser." Gaf hann ljóðið út eftir afskrift Jóns Eggertssonar með afbrigðum úr afskrift Árna neðanmáls, sem eru alveg óveruleg, svo ber afskriftunum vel saman. Auk þess rekur hann sögu ljóðsins, sem getið er hér að framan, og vísar til að afskriftir þeirra Árna og Jóns séu að finna Árna í deild III (D) Bartholins safns Háskólabókahlöðu Khafnar og Jóns í pappírshandriti No. 64 í Kgl. Bókahlöðunni í Stokkhólmi.

Margt fleira fróðlegt er af ritgerð Kaalunds að læra. Hann færir rök að því, að þeir Árni og Jón hafi tekið afskriftir sínar líkast til á árunum 1680 til 1689 og getur þess, að skinnhandritið hafi ekki verið ilt aflestrar, því það megi ráða af merkjum í afskrift Árna og svo af því að afskriftunum beri svo vel saman. Afskriftirnar flytji samt ljóðið ekki óbagað. eins og það var frumort, heldur afbagað á sumum stöðum. og sé, vitaskuld handritinu að kenna um það en ekki afskriftunum. Afbögurnar hafi verið í skinnhandritinu sjálfu. Því heldur hann að skinnhandritið hafi ekki verið frumrit, heldur afskrift geggjuð af eldra frumriti. Skinnhandritið segir hann skráð af norskum manni á 14. öld. en ljóðið sjálft telur hann ort sjálfsagt ekki síðar en á 13. öld öndverðri. Í ritgerð sinni lagar hann og texta ljóðsins. eftir því, sem honum þykir föng vera til. og lét ekki þar við sitja, heldur birti hann í viðauka við ritgerð sína (í Smaastykker No. 4) athugasemdir og texta lagfæringar, er honum síðar bárust frá íslenzku fræðingnum Birni M. Olsen og norrænufræðingnum, professor S. Bugge um ljóðið. hins fyrra í ágripi en athugasemdir Bugges í heilu líki Það. sem ágripið fer með eftir Birni M. Olsen er alt saman afbrigða snjalt og óyggjandi, svo að söknuður er að því að fá ekki að sjá það í heilu líki sem hann hefir haft að segja um ljóðið. Athugasemdir próf. Bugges eru þar á móti á milli heldur djarfar getgátur og beinharðir sleggjudómar og sumstaðar bregður fyrir að hann kannast ekki við orð og orðmyndir. Hann segir fortakslaust að ljóðið sé ort af norskum manni. Eg veit ekki til að neinn hafi orðið til að hrekja þá staðhæfingu, og enda þótt eg hafi ekkert til brunns að bera nema það, að eg er borinn danskri tungu, vil eg taka hana fyrir og leitast við að sýna að

ljóðið er íslenzkt að uppruna, og það sé eignað Norðmanni af misskilningi.

Það er mál komið, að íslenzk alþýða fái að kynnast ljóði þessu, sem hefir svo oft verið gefið út fyrir aðra er ekki kunna að meta það neitt á borð við hana. Rúnaljóðið er því látið koma hér fyrst, en þar á eftir verður gerð grein fyrir helstu lagfæringum á því af hálfu málfræðinganna, og loks að ljóðinu lagfærðu í heild sinni er vikið að því af hvaða ástæðum ljóðið á að teljast íslenzkt.

Ljóðið er haft eftir útgáfu Kaalunds af afskrift Jóns Eggertssonar og er með fyrirsögn afskriftarinnar á þessa leið:

*Gömul Runa liod.*

(1) *F** vældr frenda roge,
föðezt ulfver i skoghe,
(2) *Ú* er af illu iarne,
oft löyper ræin a hiarne
(3) *Þ* vældr [kuenna k.
kater uærda faar af illu
(4) *Ó* er leid flestra færda
en [skalper suærda.
(5) *R* kuæda rossom uæsta
reghin [s. suerdet bædzsta.
(6) *K* er bæggja Barna
böl gorver naan fölfuan.
(7) *H* er kalldazter korna
krister skop hæimen forna
(8) *N* gerir næppa koste
nöktan kælr í froste.
(9) *Í* kollum bræ bræida,
blindan þarf at leida
(10) *Á* er gufna goðe,
get ek at orr var frode.
(11) *S* er landa liome,
luti ek helgum dome,
(12) *T* er æin-endr asa,
opt (uærdr smiðr at blasa
(13) *B* er lauf groenzstr líma,
loki bar flærdar tima
(14) *M* er molldar auki,
mikil er græip a hauki,
(15) *L* er þat fællr or fialli,
foss, en gull ero nosser,
(15) *Ý* er ueter grönster uida,
uant er þar er brennr at suida.

Svo sem Kr. Kaalund hefir tekið fram á rúnaljóðið að sjálfsögðu alt saman að vera 2 vísuorða erindi samhend að niðurlagi, með stuðlum og höfuðstaf, og vísuorðið sex atkvæða jafnaðarlega. Ljóðið hefir verið svo alt í fyrstu. Út af þessu ber með 4. vísuna, því þar vantar höfuðstaf, og 6. og 15. vísuna því þar eru ekki niðurlags hendingar, og þarf að laga þær vísur. prof. Bugge heldur því fram, að 6. og 15. vísan þurfi ekki að hafa niðurlags hendingar eins og hinar vísurnar, af því þær hafi hendingar (innrim); en það er ekki hægt að fallast á það með honum; því vísuorðið: "kaun er beggja barna" stendur ekki í neinum hendingum, og hin vísuorðin, sem um er að ræða, eru ýmis aðalhend eða skothend þ. e. a. s. reglulaus eins og vitlaust á að sér að vera. Af lagfæringum Björns M. Olsens virðist og mega ráða, að hann hafi talið að erindin ættu öll: að hafa niðurlagshendingar.

*) Með því að rúnaletur er ekki til í prentsmiðjum hér, eru rúnamyndirnar teiknaðar með tilsvarandi bókstöfum.

2. *vísan.*—Þar er ágreiningur um merkingu rúnar nafnsins Úr, og hvort eigi að laga "illu" í "eldu". Úr merkir regn, þétt smádropótt rigning, sögnin er ýra að rigna, Úr er af járni s. b. ýrir af því, merkir þá að regn þ. e. neistar standi af því, og svo hafa íslenzku fræðingar lagt það út fyrir löngu. Af því að neistar standa helzt af járni, þegar það er eldt, og af því að jafnt ýrir þá af því, hvort heldur járn er gott eða illt, er næsta líklegt að illu sé afbögun úr eldu, eins og Guðbrandur Vigfússon heldur, og vísuorðið eigi að vera: "úr er af eldu járni". Próf. Bugge vill halda, að úr merki gjalt ilt járn sé vont, lélegt járn. Hann styður það við það, sem Kaalund fer með eftir Jóni Ólafssyni frá Grunnavík, úr Runologiu hans, að Sunnlendingar kalli smiðjuwr það, sem Norðlendingar nefna smiðjugjall, og svo við norsku orðin: aur, smiaur og skyld orð í erlendum tungum, svo sem aust- og norð-frísnesku úr og ürre, lágþýzku ür, hollenzku oor og oir. Það er nú enginn efi á því, að norsku orðin og hin útlendu, sem Bugge telur upp, eru samstofna hljóðskiftis samstæðunni úrr, aurr, ori í íslenzku, en það kemur rúnarheitinu ekkert við. Úrr, aurr (ori) merkir mold blandin vatni og grjótmuli, en líka málmblendingur, sbr. járnúrr, úrt járn=iron ore á ensku, en úr merkir regn, og er víst forsetningin úr höfð fyrir nafnorð, sbr. orðmyndan sagnarinnar koma með forsetningum: ákoma, afkoma, úrkoma. o.s.frv, og frumlagslausan búnað hennar. Að rúnin merki regn, þarf heldur ekki að leiða neinum getum um, því rúnaþulurnar, sem Kaalund gefur út í ritgerð sinni, segja til þess. Úr er skýjagrátr, skara þverrir og hirðis hatr, allt merkir það regn. Próf. Bugge heldur, að lesa eigi skára þverrir. Ekki gæti það merkt annað en þurviðri, þurk (ljáfars þverrir), þveröfugt við hin orðin. Honum hefði ekki komið til hugar að halda slíkt, nema fyrir það, að hann skildi ekki orðið skari. Skari er hjarnskel á snjó og skaraþverrir merkir alveg hið sama og hin orðin.

3. *vísan.* — Þeim Kaalund og Bugge hefir ekki tekist að ná neinu viti úr þessari vísu. Ágrip Björns M. Olsens hefst með 4. vísunni, svo að á honum er ekkert að græða. Þeir Bugge lesa rúnina þurs og leggja út: þurs veldr kvenna kvillu = Tussen volder Kvinde klynken, þ. e.: kvenna veini, af því að þursarnir voru skelfilegar verur og kvenfólk var hrætt við þá, og svo líka af því, að þursar sóttust eftir því, segir Prof. Bugge. Það er nú víst öllu til skila haldið, að þessi þursaskoðun samrímist þeirri skoðun, er menn höfðu á þursum á þeim tíma, sem kvæðið er ort, og við það bætist svo að seinna vísuorðið kemur eins og skollinn úr sauðarleggnum við útleggingu þeirra. Þó snarar fyrst um þverbak fyrir þeim, þegar gáð er að hvað kvennakvilla er.

Prof. Bugge segir, að kvilla sé víst komið af kvíðla (sbr. frilla Frilleifur o.s.frv.), og skylt kvíða (sbr. I. Aasen og orðabók Rietz, sem hafi kvilla f. smaa klagorop, jämrande (smá vein, vein). Orðið kvilla merkir sýki, vanheilsu, og kemur sögninni kvíða ekkert við. Það er komið eftir algengum orðmyndunarreglum tungunnar af stofninum kval, sbr. kvelja, kvaldi, kvaldr. Af honum kemur kvalall eða kvölull, þar af aftur kvelli kvk., og sögnin kvella (sbr. kvellingasamr). Eftirfarandi lagarstafir dimma oft hljóðvarpið a-e, eins og kunnugt er, svo sem barn, (ein)-birni, görn, girni; sarpr, sirpa, og sama er um orðin kvelli og kvella, þau eru til í báðum hljóðvarpsmyndunum: kvelli, kvilli og kvella, kvilla. Kvilla, nafnháttur sagnarinnar hafður fyrir nafn, er nú sjaldgæft orð, en kvilli k.k. tíðast haft, og eru orðin samstæð, sitt í hvoru kyni, eins og kalda, kaldi; smáka, smáki, grótta, grótti og mörg fleiri, Kvenna kvilla merkir því vanheilsu kvenna, og er ilt að koma því saman, að þursar valdi henni. Ógöngurnar koma til af því, að þeir Bugge og útgefendur afskriftanna lesa rúnina skakt inn í vísuna. Hana á að lesa rúnaheitinu þorn; þá fellur alt í ljúfa löð. Þorn er írek hringju eða æsar; í vísunni haft hispurslaust pars pro toto fyrir mann. Þorn veldur kvenna kvillu, þ.e.: menn valda vanheilsu kvenna. Það vita allir og þá ekki síður auðskilinn sannleikur hin gamansama undantekning í síðara vísuorðinu.

4. *vísa*. Björn M. Olsen hefir lagfært þessa vísu með því að fella úr leið og setja inn ferill þannig:

óss er flestra ferða
feril, en skalpr er sverða.

Og er ekkert efamál, að vísan hefir verið þannig frumort.

5. *vísan*. Kveðr á sjálfsagt að lesa fyrir kveða, því sögnin er frumlagslaus og á að vera 3. pers. eint., enda fer svo betur í rími.

Rímna þulurnar segja: reið er sitjandi sæla, snúðig ferð ok jórs erfiði. Af jórs erfiði tekur próf Bugge það fram, að rossum í vísunni eigi að skiljast um hesta en ekki hryssur. Það er alveg öfugt við þann lærdóm, sem er að ráða af orðinu. Jór er safnorð og merkir alveg sama og hross, og hefir verið haft svo bæði að fornu og nýju. Það sýnir jórs erfiði, því reið er merum jafnt erfið sem hestum, og orðið nær, vitaskuld, yfir hvortveggja.

Í seinna vísuorðinu á að lesa einatkvæða þátíð úr s-inu. Prof. Bugge vill lesa sló, en Björn Olsen stingur upp á: sauð sverðit bezta, og er það ugglaust réttara. Prof. Bugge þykir sauð ekki nægilega fótað, þótt komi fyrir í Hervararsögu: sáralauk suðu um sverðs smíð, því sverð sé þar kent til lauks, og af því sé ekki að ráða, að eðlilegt sé að hafa sjóða yfir leitt blátt áfram um sverðasmíð. Þessi aðfinsla er aftur ekki sprottir nema af þekkingarskorti á íslenzku. Björn Olsen fótaði sjálfsagt ekki uppástungu sína ein-

vörðungu á Hervararsögu, heldur miklu fremur á móðurmáli sínu, sem er enn hið sama og var til forna. Það er eins algengt í íslenzku að tala um að sjóða járn, eins og að sjóða graut eða lauk. Að sjóða ljá, s.s. búa ljá til, er algengt mál, og eins eðlilegt er að segja sjóða sverð. Suðan er einmitt aðal atriðið í smíðinni, því bitið er komið undir henni, og smíðin hefir fengið nafn hennar af því, þegar um bitjárn er að ræða.

6. *vísan.* Í henni er að lagfæra orðin bæggja og naan , og svo það, að hún stendur ekki í hendingum. Björn Olsen hefir einnig komið þessari vísu í frumort lag á þessa leið:

Kaun er barna bölvan,
böl görver mann fölvan.

Professor Bugge vill aftur enga lagfæring á henni gera; hann tekur böl við fyrra vísuorðið: Kaun er beggja barna böl, görver nán fölvan, og heldur beggja barna megi ef til vill merkja sveinbarn og meybarn; barna beggja kynja; en það nær ekki nokkurri átt, að beggja barna geti merkt það. Málið heimilar ekki annan eins undanskilning, það vita þeir, sem tala málið. Þá telur hann, að bæggja kunni eiga að lesast bægit og tekur enn saman sem fyr; en bægit böl er hortittur og ekki sennilegt að laga fornljóðið, sem annars er alt hortittalaust, með hortitti; svo er og meining síðari hlutans afleit, því nárinn er fölur og getur ekki gerst eða orðið það. Líklegt er, að naan sé misskrift skinnhandritarans fyrir mann, eins og Björn Olsen getur til, og beggja sé og misritað fyrir bægja, sem ritarinn vildi ritað hafa.

Lagfæring Björns Olsens styðst við það, skilst mér, að vísan verði að hafa niðurlagsrím, og svo við rúnaþuluna; það er ekki hægt að lagfæra hana snildarlegar en hann hefir gert, svo vel fyllir hún, lagfærð, flokk hinna bæði að efni og rími. Rúnaþulan hefir: Kaun er barna böl, ok bardagaför ok holdfúa hús. Bardagaför heldur Prof. Bugge merki "et Sted, hvar Plage (Smerte) færdes (holder til". Misskilið er það; för er flt. hvk. af far=spor, mark eða mót eftir e-ð, og bardagaför sár, fengin í bardaga, eða örin eftir þau.

7. *vísan.* Líklega eiga rúnirnar að lesast einatkvæðum heitum alstaðar í ljóðinu, því þá verður engin klofning þar. Þeir Kaalund og Bugge lesa hagall í þessari vísu og bjarkan í hinni 13., en P. A. Munch hefir hagl og björk, og fer það betur. Raunar finnur próf. Bugge að því og kallar það rangt um björk, en tveir eru þeir þá á móti honum um það, því Guðbrandur Vigfússon les hér björk í orðabók sinni; og hagl segir Bugge ófært eða óhafandi, fyrst Munch haldi karlkynsmyndinni kalldazster; en það getur ekki verið á rökum bygt, því samdrátturinn veldur ekki kynbreytingu. Hagl, rúnaheitið, dregið saman úr hagall, er karlkyns, sbr. vagl

kk. úr vagall, og myndinni kalldazster því rétt að halda.

9. *vísan* er ekki orðuð í ágripi Björns Olsens, en Bugge kannast ekki við orðið bræ, sem afskriftirnar hafa, og vill gera úr því brú, eins og Ole Worm gerði, þó ekkert vit sé í því, að vér köllum ís brú breiða. Það er víst ótítt, að á-hljóð sé táknað með æ í norskri stafsetning, en kemur þó víst fyrir. Bræ er sama og brá í íslenzkri stafsetningu. Orðið er algengt í íslenzku og merkir gljá, og svo sögnin braga og með úr-feldu g-i brá; að gljá, leiftra, ljóma. Ljóma merkingin er svo algeng í sögninni og hljóðskiftisorðum hennar, að norrænufræðingum hefði fremur verið ætlandi, þótt þeir hefðu ekki þekt orðið bræ, að ráða rétt til merkingar þess, heldur en snúa því upp í brú, t. a. m. bragr (eig. ljómi. glæst orðbragð), Bragi, brandr, því svo heitir sverð af því það bráir, ljómar, og svo skipa- og dyrabrandar, því þeir voru steindir; sbr. og mannheitin: Brands Valbrandr, Brandís (ljómadís) og brá, brún, brý*) brúðr (ljómandi mær. búin skarti)í bróg kemur fyrir í Danabróg, sem blakti eitt sinn yfir Norðurlöndum öllum. Hvað munu norrænufræðingar telja að heitið merki? L'ori flamme danoise, mætti líklega snara því á frönsku. Brá er nafnháttar stofn sagnarinnar brá, hafður nafnorð eftir algengri orðmyndan málsins, því nafnháttar og þátíðar stofnar, óhljóðverptir og hljóðverptir, eru tíðhafðir nöfn í þessum sagnflokki. Sögnin er þó víst aldrei sterkbeyg, þótt rétt sé að beygja hana svo, heldur veik: brá, bráði, brá og ra-beyg brá, bröri brörinn. Eg hefi heyrt þátíðina bröri norður í Þingeyjarsýslu. Af ra-beygingu hennar kemur breði, bleytusnjór, sbr. breðafönn, og bræðingur heitir þá jökul setur niður svo varla sér á dökkan díl. Það er furða, að Prof. Bugge skyldi fortaka að orðið bræ væri til, fyrst hann þekti þó breði, í staðinn fyrir að láta álíkur í málinu hjálpa sér til rétts skilnings. Brá, breði, bræðingr standa af sér alveg eins og slá, sleði (c: slár til að aka á), slæðingr, af sögninni að slá; af sögninni lá (ljá): lá, leri, ler í samskeytingum, sbr. ættleri, Gangleri, Heimdallar heitið Vindler, sá sem lýr vindu, bragðal, eins og Rydeberg hefir komist að, af goðfræðislegum rökum, en ekki málfræðislegum, þó skrítið sé; vá, veð af sögninni vá o.fl. Það gefur góða meiningu, að vér köllum

*) Brún og brý merkja, vitaskuld ljómi. sbr. dagsbrún, óeig. rönd röð, því þar hefst brúnin, er sleppur hlut er ber við loft, sbr. fjallsbrúnn og svo þar af um aðra hluti. Brýr flt. af brý, er ranglega talin flt. of brún í málfr. ísl. tungu eftir Finn Jónsson. Í Orðakveri Finns Jónssonar er heldur ekki alls kostar rétt að 'afbrýði" sé af brúðr komið og merki "sú tilfinning að vera hræddur um konu sína (eða mann sinn) af af=of ei of sterk tilfinning um (fyrir) konu (sína)". Það er minkunarmerking í orðinu, en ekki hitt og orðið runnið af sagnbúningnum brá af og merkir dofnan (eig. ljóma), rénan, sljóvgan. sbr. ummerkisorðin: brýnn, afbrýnn eða afbrýðn.

breiða brá, ís, því svo er gljáin kölluð nú sem fyr á Íslandi.

13. *vísan.* Kyninu laufgrænstr ræður orðið líma, að því er Björn M. Olsen telur, og tími er það, sem e-n tímir, hvort heldur er gott eða ilt, álíka og ván er bæði ván og úván. Loki bar flærðar tíma merkir þá hlaut útíma fyrir flærð sína.

15. *vísan.* Um þessa vísu fræðist maður um það af Prof. Bygge, að lögr sé orðskýrður í fyrri málsgreininni og nosser í hinni síðari sé frumlag (subject* hennar). Þar færist sú skörin heldur en ekki upp í bekkinn fyrir honum, er hann kann ekki deili á frumlögum og umsagnarorðum. Frumlög málsgreinanna er: þat er fellr or fjalli, foss og gull, en lögr og nossar eru umsagnarorðin. Fyrri málsgreinin er hverfð, umsögnin sett fyrir tengilinn, en hin síðari bein, og gull er ekki eint. heldur flt. og merkir dýrgripir, gersemar (sbr. fingurgull, barnagull) en ekki gull (málmurinn).

Bjön Olsen telur vísuna aflaga og lætur þar við sitja. Fjöldi kvenkendra orða, sem í flt. nf. enda á -ar, fékk snemma -ir-endingu; meðal þeirra má telja hnoss, hnossir, eldri flt. hnossar og þá flt. hefir orðið sjálfsagt haft í þessari vísu. Að öðru er þessi vísa afböguð á líkan hátt og 6. vísan, skift á hendingarorðinu fossar og fellr og fellr sett framar í vísuorðið. Frumorta vísan hefir sennilega verið á þessa leið: Lögr er þat er or fjalli fossar: foss en gull eru hnossar.

16. *vísan.* Orðið víða er eignarf. flt. af víðir, haft hér um tré alment, líkt og eik og apaldur. Professor Bugge segir, að víðir geti ekki átt hér við, en engin rök færir hann fyrir þeirri staðhæfingu. Annars er víða líka eignarf. af víð kvk., eignf. -ar, flt. -ar, s. s. víðlendi, slétta og væri líkl. þá átt við á sléttunum við Eystrasalt og Englandshaf líklega svo sem gagnstætt barskógum fjallanna hið nyrðra.

Rúnirnar lesnar einatkvæðum heitum, verður ljóðið með ágerðum lagfæringum í íslenzkri stafsetning á þessa leið:

1. Fé veldr frænda rógi,
fæðist úlfr í skógi.
2. Úr er af eldu járni,
oft leypr reinn á hjarni.
3. Þorn veldr kvenna kvillu,
kátr verðr fár af illu.
4. Óss er flestra ferða
ferill, en skalpr er sverða.
5. Reið kveðr rossum versta,
Reginn sauð sverðit bezta.
6. Kaun er barna bölvan,
böl görir mann fölvan.
7. Hagl er kaldastr korna,
Kristr skóp heim inn forna.
8. Nauðr görir nappa kosti,
nökðan kelr í frosti.
9. Ís köllum brá breiða,
blindan þarf at leiða.
10. Ár er gumna góði,
get ek örr var Fróði.
11. Sól er landa ljómi,
lýt ek helgum dómi.
12. Týr er einhendr Ása,
oft verðr smiðr at blása.
13. Björk er laufgrænstr líma;
Loki bar flærðar tíma.

14. Maðr er moldar auki,
mikil er greip á hauki.
15. Lögr er þat, er or fjalli fossar,
foss, en gull eru hnossar.
16. Ýr er vetrgrænstr víða,
vant er þat, sem brennr at svíða.

Þegar gáð er nú að afbögunum, sem verið hafa í skinnhandritinu og hversu þær eru lagfærðar, þá er öðru nær en að halda þær stafi af eldra handriti, sem Kaalund getur til. Afbögurnar benda allar í sömu átt, að ljóðið sé skráð af manni, sem hafi verið ryðgaður í því. Alstaðar hafi hann munað efnið, en orðin sumstaðar ekki. Þannig hefir hann sett leið inn í 4. vísuna í staðinn fyrir höfuðstafsorðið ferill, því hann man efnið, en fyrir stuðlum og höfuðstöfum hefir hann ekkert eyra. Í 6. vísunni setur hann bægja fram fyrir barna í staðinn fyrir niðurlagsorðið bölvan; og fer rétt með efnið eins og rúnaþulan sýnir, og hið sama er um 15. vísuna. Það kemur og heim við þessa tilgátu að orðin, sem ritarinn hefir sett inn í staðinn fyrir hin frumlegu orð, eru algengari en þau, og því hægra að koma þeim fyrir sig; leið er algengara enn ferill um farinn veg, bægja um ama eða hindran heldur en bölvan, og foss falli algengar en fossi. Ekki er það hafandi móti tilgátunni, að ritarinn hefði að sjálfsögðu látð þess getið, ef hann hefði verið farinn að ryðga í ljóðinu. Því hann þarf ekki að hafa vitað af því. Margan hendir það, að þykjast kunna rétt það, sem hann ekki kann, og líklegur er sá til þess að vita ekki af, að sér skeiki, sem leggur á minnið kveðskap, sem hann hvorki hefir eyra fyrir né þekkir bragreglur fyrir, því hann hefir ekkert til að leiðbeina minninu eða styðja það nema efnið. Vera má og, að afbögurnar í 6. vísu og 15. vísu stafi með fram af ýmugust eða grýlu, sem ritarinn kann að hafa gert sér af því að byrja seinna vísuorðið með sama hljóði og niðurlagshending fyrra vísuorðsins.

Afbögurnar sýna tvímælalaust, að ljóðið sé fært í letur úr minni og þá líklega skinnhandritið frumrit en ekki afskrift af öðru frumriti, og má þá ráða af því, að ritaranum hafi verið orðin hlustin dauf fyrir íslenzku rími og Norðmönnum líklega yfirleitt á 14. öld, er ljóðið á að vera skráð. En hafi skinnhandritið verið frumrit, þá rís þegar upp sú spurning, hvar ljóðið þá hafi geymst munnmælum frá því það var ort á 12. öld og þar til það var skráð. Í Noregi gat það ekki geymst þá leið. Ísland er eini staðurinn, sem gat varðveitt það, og þaðan hefir það hlotið að berast til Noregs og verið fært í letur í þeirri mynd, sem afskriftirnar sýna. Kaalund kallar ljóðið "gammelnorsk", víst af því stafsetning er norsk á því, og þulurnar íslenzkar. Svo má nefna hlutina, vitaskuld, þótt óþarfi sé að brjóta það svo mjög brotum, því stafsetningin segir ekkert til um uppruna ljóðsins. "Fornbækur með svokallaðri norskri hendi og réttritan geta verið ritaðar á Ís-

landi af Íslendingum sjálfum, án þess nokkur maður í Noregi hafi nokkurn tíma vitað af tilveru þeirra,'' segir Jón Þorkelsson í fyrnefndri ritgerð, og sýnir það hve mikið sé leggjandi upp úr "hinni svo kölluðu norsku hendi'' og stafsetning.

Professor Bugge sker ekkert utan af því að ljóðið sé norskt að uppruna. Orð hans eru þessi: Digtet er ikke blot nedskrevet men ogsaa forfattet af en Nordman, da Forfatteren, som Alliteratio-nen viser, har brugt Former med r og l, hvor Islandsk har hr, hl, rossom, reinn, löyper''. (Ljóðið er bæði fært í letur og ort af Norðmanni, því höfundurinn hefir, eins og stuðlar sýna, myndir með r og l, þar sem íslenzkan hefir hr. hl.). Það er nú raunar gott mark, en þó óglögt, því Íslendingur getur vel hafa ort ljóðið eins fyrir því. Það er ekki nema skáldaleyfi, sem tíðkast í íslenzkum kveðskap, að fella stafi þessa niður til að fá stuðla. Það er annar prófsteinn betri um upprunann í ljóðinu. Það er rúnin í 3. vísunni. Í Cleasby, orðabók Guðbr. Vigfússonar segir um þ, að það sé tekið úr rúnastafrófinu, forna heiti rúnarinnar hafi verið þorn, og heiti svo enn á Íslandi, fornþjóðir (the ancients) kölluðu hana líka þurs og svo hafa þeir allir lesið, Ole Worm, Munch, Kaalund og Bugge, sem trúa má til að lesa hin sérstaklegu norsku rúnanöfn, en rúnina verður nú að lesa íslenzka heitinu þorn í vísunni, eins og þegar hefir verið gerð grein fyrir að framan. Og þá er engum blöðum um það að fletta, að ljóðið er íslenzkt að uppruna, ort af Íslendingi, því engum nema Íslendingi er ætlandi að binda íslenzka rúnastafrófið í rím. Svo er það og raunar fráleitt, að eigna Norðmanni ljóðið, því Norðmenn áttu um þær mundir engar bókmentir, engin skáld, enga sagnritan, sbr. fyrnefnda ritgerð Jóns Þorkelssonar, ekkert nema lög Ólafs konungs helga, sem Íslendingar líklega hafa verið hafðir til að skrásetja. Rúnaþulurnar vísa og til Íslands eins og ljóðið, því þær sýna, að þar hafi það geymst og verið tekið upp í þær.

Kaalund gaf rúnaþulurnar út ásamt ljóðinu sakir sambandsins milli þess og þeirra, vitaskuld. Það er ekki annar vegur beinni til að sýna íslenzkum lesendum bæði hvernig ljóðið sé tekið upp í þulurnar og hve þær styðji það, að ljóðið sé íslenzkt, en að fara að hans dæmi og láta þær fylgja ljóðinu. Kaalund gaf rúnaþulurnar út eftir 2 bókfellum frá 16. öld í Safni Árna Magnússonar, AM 687, 4 to, og AM 641, 12 mo., og 2 textum úr Runologiu Jóns Ólafssonar Grunnvíkings (JO a, b), þannig, að hann sauð þessar 4 þulur saman í eina með því að leggja AM 687 aðallega til grundvallar og færa afbrigði þeirra til neðanmáls. AM 687 hefir rúnir, en AM 461 rúnaheitin í upphafi erindanna. Rúnaþulan er þá á þessa leið í útgáfu Kaalunds:

*F* (Fé) er frænda róg [1]
ok flæðar viti [2]
ok grafseiðis gata.[3]
*Ú* (Úr) er skýja grátr
ok skaði þerris[4]
ok hirðis hatr.
*Þ* (Þurs) er kvenna kvöl
ok kletta búi [5]
ok varðrúnar ver.[6]
*O* (Óss) er aldingautr
ok ásgarðs jöfurr
ok Valhallar vísi.[7]
*R* (Reið) er sitjandi sæla
ok snúðig ferð [8]
ok jórs erfiði.
*K* (Kaun) er barna böl
ok bardaga för[9]
ok holdfúa hús.
*H* (Hagall) er kalda korn
ok krapadrífa [10]
ok snákasótt.[11]
*N* (Nauð) er þýjar þrá [12]
ok þungr kostr [13]
ok vossamlig verk.[14]
*I* (Íss) er ár-börkr [15]
ok unnar þak [16]
ok feigra manna fár.[17]
*A* (Ár) er gumna góði [18]
ok gott sumar [19]
ok algróinn akr.[20]
*S* (Sól) er skýja skjöldr [21]
ok skínandi röðull
ok ísa aldr tregi.[22]
*T* (Týr) er einhendr áss [23]
ok úlfs leifar [24]
ok hofa hilmir.[25]
*B* (Bjarkan) er laufgað lim [26]
ok lítit tré [27]
ok ungsamligr viðr.[28]
*M* (Maðr) er manns gaman
ok moldar auki
ok skipa skreytir.
*L* (Lögr) er vellandi vatn [29]
ok víðr ketill
ok glaumunga grund.[30]
*Y* (Ýr) er bendr bogi [32]
ok óbrotgjarnt járn [33]
ok fífu farbauti. [34]

Í 11. og 14. versinu hafa víst orðin skjöldr og skreytir skift um

---

1) JÓ. a og b: rógr. 2) 461 og JÓ. b: fyrða gaman. JO. a: Fofnis bana. 3) 461: grafþvengs gata, JO. a: þegna þræta, JO b. grafseiðis gata. 4) 678: sk.... þ..... hinir stafirnir ólesandi. 461: skarar þoris, JO b: skara þerrir. 5) 461: íbúi, í 687 er orðið ólesandi. 6) 687: eru þrír fyrstu stafirnir ógløggir, virðist vera málrúnar ver, 461: síðförull seggr. 7) 461 og J.Ó. a og b: vísir. 8) 461: snúðulig ferð; J.Ó. a og b: snúðig för. 9) 687, 461, J.Ó. a: bardagi. 10) svo víst í 687, en óglögt, fyrir krapa les 461: knapa J.Ó. a: krappa, J.Ó. b: knappa. 11) J.Ó. a: skýja skot. 12) J.Ó. a og b: þýja þrá. 13) ólæsilegt í 687; 461: þvera erfiði. 14) 461: og enn þyngri kostr; J.Ó. a: votsamlig verk, J.Ó. b: vosamlig verk. 15) ólæsilegt í 687. 16) ólæsilegt í 687; J.Ó. a: unnar þekja. 17* 687: far, 461: feigs manns forað; J.O. a: feigs fár, J.Ó. b: feigs forráð. 18) 461 :g. gleði; JO. a: g. gæði. 19) ólæsilegt í 687, í 461 eru tveir fyrstu stafirnir úrrotnaðir, J.Ó. b: glatt sumar. 20) 461: ok vel flest þat er vill; 687 hefir hér "dala dreyri"—fyrra orðið þó mjög óglögt—það er ár (fem. pl.) c: úr, vatn. 21) J.Ó. a og b: skipa skjöldr. 22) J.Ó. a og b: hverfandi hvel. 23) Fyrir víxl, sem verða oft í íslenzkum rúnastafrófum á T og L hafa þessar tvær rúnir og skýringar þeirra skift sætum í 687. 24) 461, J.Ó. b: úlfs leifr. 25) 461:Friggjar faðir, J.Ó. a og b: Baldrs bróðir. "Friggjar faðir" í 461 er vafalaust komið úr mislesinni stytting á "Friggjar faðmbyggvir", en þá hefir 461, og 687 líka, að því er virðist, haft kenning um Tý, sem á eiginlega við Óðin. 26) Biarka skrifar 461. 461: blómgat tré, J. Ó. a og b: lítit lim. 27) 461: lítil hrísla, J.Ó. a: laufgaðr viðr, J.Ó. b: laufgað tré. 28) 461: ást sæmilegs Viðar, J.Ó. a: lundr fagr, J.Ó. b: vaxandi viðr. 29) vatn, óvíst í 687; 461 JO. a og b: vellandi vimr. 30) 461: glummunga gnauð, J.Ó. a: heitt vatn, J. O. b: grunnunga grund. 31) Þennan staf og kenningar hans vantar alveg í 461. 32) ólæsilegt í 687, J.Ó. b: tvíbendr bogi. 33) J.Ó. a: fífu fleytir, J. Ó. b: bardaga gagn. 34) 687 hefir eyðu fyrir þriðju kenning. J.Ó. a: fenju angr.

sæti. Sól er skýja skjöldur, á líklega að vera skýja skreytir, og maðr í 14. er. skipa skreytir fyrir skipa skjöldur. Í textum J.Ó. er: sól er skipa skjöldur, þ. e. einkunn rúnarinnar maðr alveg flutt inn í 11. er.

Það er ofboð auðvelt að kannast við rúnaljóðið í þulunum: fé er frænda róg, þorn er kvenna kvöl, reið er jórs erfiði o.s.fv. Ekki síður er fróðlegt að sjá hversu þulurnar eru til orðnar eða myndaðar. Þær eru auðsjáanlega ágrip af rúnaljóðum, þannig að einkunnir þær, eða kenningar, sem rúnunum eru einkaðar í rúnaljóðum, eru teknar stuttlega upp í þulurnar og ekkert annað úr þeim. Hvert erindi þulunnar hefir 3 kenningar fyrir sína rún og þulan er þá ágrip af 4 rúnaljóðum að minsta kosti, því ekki eru allar kenningar þessa ljóðs teknar, eða fleirum. Þulurnar sýna því, að Ísland sé heimkynni rúnaljóðanna og þaðan sé rúnaljóð þetta þá komið. Þessi niðurstaða kemur og vel heim við allar þektar sögulegar ástæður. Því hún er ekki nema í sjálfsögðu samræmi við hina þjóðlegu málfræðisstarfsemi, sem átti sér stað á Íslandi einu af öllum Norðurlöndum um það skeið, er hér er um að ræða. Ef lesið hefði verið rétt úr rúninni í 3. vísunni í fyrstunni og því gaumur gefinn, að þá er ljóðið er ort, er um ekkert bókmentalíf að ræða í Noregi, þá hefði víst engum getað komið til hugar hégómi sá. að ljóðið væri ort af Norðmanni.



# Ísland.

Fjalla drotning, fríða grund,
Flý eg heim að brjóstum þínum.
Eftir langa, langa stund
Leita eg á æsku fund,
Þú ert eins og barn í blund
Blóma-rós í huga mínum.
Fjalla drotning, fríða grund,
Flý eg heim að brjóstum þínum;

Fegurð krýnir, sumar sól,
Sína Íslands fjalla tinda,
Hlýtt nær kyssir bóndans ból.
Brosir hýrt við dal og hól,
Þar á andans æðsta stól
Óðsnillingar ljóðin binda;
Fegurð krýnir, sumarsól,
Sína Íslands fjalla tinda.

Fræðimanna góða grund,
Góðskáldanna helgireitur.
Þorsteins undir ljóða-lund
Leitum vér að unaðs stund,
Þars á ástar fyrsta fund
Fórum, — kossinn þá var heitur;
Fræðimanna góða grund,
Góðskáldanna helgireitur.

*G. J. G.*

# Sigurvegarinn.

*Æfintýri*

Eftir *J. Magnús Bjarnason.*



Einu sinni fyrir aldaöðli var ungur kóngsson, sem svo var vitur og ljúfur og réttlátur, að hans líka var hvergi að finna í víðri veröld. Hann bjó í stórri og skrautlegri höll, er stóð á frjósömu, víðáttumiklu sléttlendi. Umhverfis höllina voru fagrir og þéttir rósarunnar, og lagði frá þeim sætan ilm langt út á sléttuna.

Einhverju sinni bauð þessi góði kóngsson öllum börnum í nágrenninu til hátíðaveizlu. Og snemma morguns, einn heiðskíran dag, komu þau í stórum hópum til hallarinnar. — Það var í júnímánuði, þegar rósarunnarnir stóðu með mestum blóma.

"Blessuð verið þið og margvelkomin," sagði kóngsonurinn við börnin. "Leikið ykkur hér umhverfis höllina mína í dag, og alt til kvölds. Um sólarlag skal eg gefa ykkur öllum verðlaun. En heiðurs-blómsveig að auki fær það barnið, sem eg, að leikslokum, álít að hafi skarað fram úr í einhverju."

Svo tóku börnin til að leika sér. Og þau léku sér alt til kvölds. — Sum þreyttu kapphlaup og stökk; önnur tóku þátt í knattleik og ýmiss konar leikfimi; sum sungu kvæði og sögðu sögur, drógu upp myndir, og léku sjónleika; nokkur fóru í feluleik, eða hlupu fram og aftur um runnana, og duttu þau oft og meiddu sig; og enn önnur lásu blóm af runnunum og stungu sig þá á stundum í fingurna, því að þyrnarir á ilmsætustu rósunum voru næsta oddhvassir.

Kóngssonurinn sást aldrei, allan daginn, eftir að börnin fóru að leika sér; en þau vissu, að hann var nálægur og mundi sjá alt, sem færi þar fram.

En hirðfólkið í höllinni bar börnunum við og við aldini, mjólk og hunang; og það horfði á leikinn með mikilli eftirtekt.

Einn hirðsveinninn sagði:

"Það er eg viss um, að það verður fóthvati drengurinn þarna, sem fær blómsveiginn í kvöld."

Þá sagði ein hirðmærin:

"Nei, það verður bláklædda stúlkan, því að hún syngur svo yndislega."

"Ætli það verði ekki heldur drengurinn, sem bjó til lagið, er hún syngur?" sagði einn af mönnunum.

"Eða þá drengurinn, sem orti vísurnar?" sagði annar.

Þá sagði ein af hirðmeyjunum með ofurlitlum ákafa:

"Eg er alveg viss um, að stúlkan, sem sagði fallegu söguna af góðu stjúpunni, fær blómhringinn."

"Ljóshærða telpan, sem kom fram áðan í gervi álfadrottningar, ætti vissulega skilið að fá þann heiðurskrans," sagði önnur.

"Skyldi ekki drenghnokkinn, sem málaði myndina af höllinni hérna, eiga það öllu fremur skilið, að fá þann krans?" sagði hvatskeytslegur hirðsveinn, sem kom að í þessu.

Þá tók til máls roskinn maður, og hann talaði hægt:

"Hræddur er eg um, að þið vaðið hér reyk, því að fallegi pilturinn, sem þarna fer, verður sigurvegarinn; — hann bjó til áðan gyðju-líkneski úr leir."

Þannig talaði hirðfólkið og leiddi að því ýmsar getur, hver hljóta mundi hinn eftirsóknarverða heiðurskrans.

En um kvöldið — um sólarlag — þegar börnin hættu að leika sér, þá kom kóngssonurinn út úr höllinni, lét raða börnunum í fylkingar og gaf hverju þeirra dýrmætan gimstein. Því næst tók hann lárviðarsveig og horfði yfir fylkingar barnanna um stund.

Öll börnin héldu niðri í sér andanum. Alt fólkið hélt líka niðri í sér andanum. Og það var jafnvel eins og höllin og rósarunnarnir, og hið frjósama sléttlendi, og sjálf kvöldgolan héldi niðri í sér andanum. — Því, hver átti að fá heiðurskransinn?

Það var ekki fóthvati drengursem átti að fá hann; ekki var það stúlkan, sem söng svo yndislega; ekki drengurinn, sem samdi lagið; né pilturinn, sem orti vísurnar; né telpan, sem sagði söguna af góðu stjúpunni; né drenghnokkinn, sem málaði myndina af höllinni; né ljóshærða stúlkan, sem lék álfadrotninguna; og ekki heldur var það drengurinn forkunnar fríði, sem bjó til gyðjulíkneski, úr leir. — Nei, enginn þessara var sigurvegarinn.

Alt í einu gekk kóngssonurinn þangað, sem lítil og feimin stúlka stóð yzt í einni fylkingunni. "Elskulega, litla stúlka," sagði hann blíðlega, "þú ert sigurvegarinn og—drotning þessa dags." —Og að því mæltu setti hann lárviðarsveiginn á höfuð henni.

Allir litu nú spyrjandi augum á kóngssoninn. Hann tók eftir því, og sagði við hirðfólkið:

"Undrist ekki, þó þessi feimna, litla stúlka hljóti lárviðarsveiginn. Hún hefir sem sé unnið til hans, og langt fram yfir það; því að þegar hin börnin voru að leika sér, þá *batt hún um sár* þeirra, sem rifu hendur sínar og andlit á þyrnum rósanna, og hún *þerraði tár* þeirra, sem grétu."

# Gunnbjarnarsker ið nýja.

Sjónleikur í einum þætti eftir Jóhannes P. Pálsson.

(Tileinkað Stepháni G. Stephánssyni.)



Persónur:

*Sannleikurinn,*
*Hugsjónamaðurinn,*
*Löggjafinn,*
*Hermaðurinn,*
*Vísindamaðurinn,*
*Auðmaðurinn,*
*Katólskur prestur,*
*Tízkan,*
*Velsæmin,*
*Tveir sjómenn.*

*Leiksviðið, sendin fjara. — Í baksýn sléttlygnt hafið. — Til beggja handa brattar klappir— —Til hægri teygist snös inn í fjöruna frá aðal klettinum. — Þessi klettasnös lokar útsýni á sjóinn sem svarar einum fjórða hluta breiddar leiksviðsins. — Yfir snösina bera siglutré á hafskipi, sem liggur fyrir Akkeri. — Sólin nýsezt. Það rökkvar smámsaman meðan á leiknum stendur, unz hann er á enda, þá er komið algjört myrkur. — Sannleikurinn stendur í miðri fjörunni og horfir út á sjóinn. Hann er íturvaxinn unglingur, tigulegur og bjartur yfirlits. Hann er því nær nakinn.— Hugsjónamaðurinn kemur fyrir klettasnösina. Hann er í sundklæðum og votur af sundi. Hann er góðmannlegur, gáfulegur og vel limaður.*

*Hugsjónamaðurinn* (*virðir Sannleikann fyrir sér*):

Eg steypti mér í sjóinn, til þess að verða á undan samferðamönnum mínum.

*Sannleikurinn*:

Þú ert ætíð á undan samferðamönnum þínum.

*Hugsjónamaðurinn*:

Þú ert Sannleikurinn og skalt vísa mér veg upp bjargið. — (*Bendir til vinstri*). Eg hefi ásett mér að kanna landið þitt.

*Sannleikurinn*:

En samferðafólkið?

*Hugsjónamaðurinn*:

Það tefur fyrir okkur.

*Sannleikurinn*:

Eg fylgi þér glaður hvert sem þú vilt. Komum þá. — (*Tekur í hönd Hugsjónamannsins. Þeir klifra upp klettana til vinstri*).

*Áraglamm heyrist bak við klettasnösina til hægri.*

*Rödd Vísindamannsins* (*úr bátnum bak við snösina*):

Þetta er land Sannleikans; og eg hygg, að það sé hann sjálfur, sem klifrar þarna upp klappirnar með Hugsjónamanninum.

*Rödd Löggjafans*:

Herðið róðurinn, piltar. Við megum ekki missa af honum. Hugsjónamaðurinn hefir aldrei reynzt góður borgari, og hann getur leitt Sannleikann í gönur.

*Rödd Prestsins*:

Öllu er óhætt. Sannleikurinn er þjónn, sem verður að hlýða hverri skipun heilagrar kirkju.

*Rödd Auðmannsins*:

Já, en hann hlýðir svo bezt, að náist tal af honum. Hundrað dali, drengir, ef þið komið okkur fljótlega í land.

*Rödd Vísindamannsins*:

Við höfum flúið úr landi Lygnnar. Náið þið landi Sannleikans í tæka tíð, verðið þið frægir sjómenn.

*Rödd Tízkunnar*:

Þá sæmi eg ykkur fleiri orðum og titlum en ykkur hefir nokkurn tíma dreymt um.

*Raddir Sjómannanna*:

Við róum líf-róður.

*Stutt þögn, nema hvað áraglamið gerist háværara. Stefni á róðrar-bát, sem er að lenda, sést undan klettasnösinni til hægri. Þeir, sem í bátnum eru, stíga á land: Vísindamaðurinn, dökk-klæddur, virðulegur og grár fyrir hærum; katólski Presturinn, hátíðlegur, alvarlegur, kjólklæddur; Auðmaðurinn, mið-aldra, feitur og bústinn, í gráum fötum; Löggjafinn, röggsamlegur, frakka-klæddur; Hermaðurinn, mikill vexti, í glæsilegum einkennis-búningi; Tízkan ung, fögur og skrautklædd; — öll bera sína handtöskuna hvert; — tveir sjómenn í sjóklæðum. Þeir standa kyrrir við bátinn. Hin líta forvitnislega í kring um sig.*

*Löggjafinn* (*við Vísindamanninn*):

Kalla þú á Sannleikann.

*Vísindamaðurinn* (*kallar*):

Sannleikur! Við höfum flúið úr landi Lyginnar og leitað ríkis þíns. Nú erum við komnir hingað með fríðu föruneyti, og væntum þess að þú greiðir fyrir okkur.

*Stutt þögn á meðan allir horfa með eftirvæntingu upp í bjargið til vinstri.*

*Tízkan*:

Hann er farinn með Hugsjónamanninum. En hvað sakar það? Við erum komin í nýtt land, og byrjum hér alt á ný. Hví skyldum við þurfa sannleikans við í nokkru?

*Vísindamaðurinn*:

Hér erum við með öllu ókunnug. Sannleikuurinn og enginn annar getur leiðbeint okkur í þessu landi.

*Auðmaðurinn*:

Hann og enginn annar veit hvar fjársjóðu þessa lands er að finna.

*Presturinn*:

Drottinn ræður einn. Hann mun leiða oss í allan sannleika í þessu nýja landi.

*Sannleikurinn kemur niður bjargið til vinstri.*

*Vísindamaðurinn*:

Þarna kemur hann!

*Auðmaðurinn:*
Hann er þá að eins óreyndur unglingur.

*Presturinn:*
Guð varðveiti oss frá því að treysta honum fyrir framtíð vorri. (*Krossar sig*).

*Löggjafinn:*
Hann getur verið efni í löghlýðinn borgara, ef rétt er með hann farið.

*Hermaðurinn:*
Hermannabúningurinn færi honum vel.

*Tízkan:*
Ó, hann er yndislegur! þenna líkama gæti eg klætt svo að hann þektist ekki.

*Vísindamaðurinn (gengur á móti Sannleikanum, sem kominn er niður í fjöruna):*
Við erum komnir frá landi Lyginnar. Þar var lífið orðið okkur óbærilegt; og nú treystum við á aðstoð þína.

*Sannleikurinn:*
Já, Hugsjónamaðurinn sagði mér frá ferðum ykkar.

*Auðmaðurinn:*
Og hvert er hann kominn,

*Sannleikurinn:*
Hann er að byrja að læra að klifra, og er því enn skamt kominn.

*Auðmaðurinn:*
Hann getur fundið gullið á undan okkur.

*Sannleikurinn:*
Hann er ekki að leita að guli. En hvað viljið þið mér?

*Löggjafinn:*
Þú fylgir okkur upp klappirnar og sýnir okkur landið.

*Sannleikurinn:*
Það geri eg, ef þið viljið taka leiðsögn minni.

*Presturinn (krossar sig):*
Hann villist. Látum oss biðja. (*Lítur til himins, lokar augunum, leggur hendurnar á brjóstið og krýpur á kné*).

*Löggjafinn, Tízkan, Hermaðurinn og Auðmaðurinn fara öll að dæmi Prestsins. Auðmaðurinn lokar ekki augunum, en gýtur þeim til Sannleikans og Vísindamannsins. Sjómennirnir krjúpa við bátinn.*

*Vísindamaðurinn:*
Eg vildi helzt að þú tækir af okkur öll ráð, að við gerðumst þjónar þínir.

*Sannleikurinn:*
Eg skal vera hvorttveggja í senn: þjónn og húsbóndi.

*Auðmaðurinn (stendur hvatlega upp):*
Þetta er drengilega mælt; en fái eg nokkru ráðið, vil eg að þú sért að eins þjónn okkar, þá getur þú leitt okkur hérna upp bjargið, sýnt okkur landið þitt og gefið okkur bendingar um hvar gull er í jörðu grafið. Og svo þóknast eg þér eitthvað fyrir þetta.

*Sannleikurinn:*
En það er erfið ganga hérna upp einstigið. Þar hafa margir hrapað og beðið bana af.

*Auðmaðurinn:*
Vísindamaðurinn fer, og hann

er bezti vinur minn. Eg fylgi honum, hvert sem hann fer, á enda veraldar.

*Sannleikurinn* (*kallar hátt og snjalt*):

Komum þá!

*Allir rísa á fætur frá bænagerðinni*).

*Löggjafinn*:

Það er eg, sem hefi alt um það að segja, hve nær við leggjum af stað.

*Auðmaðurinn*:

En því ættum við að eyða tímanum hér á ströndinni?

*Löggjafinn*:

Það þarf margt að athuga. Vér getum ekki lagt upp í förina nema Velsæmin sé með.

*Tízkan*:

Það færi betur á því, að Velsæmin kæmi með okkur.

*Presturinn*:

Sé hún ófáanleg til þess að verða oss samferða, neita eg að vera í förinni. Slíkt væri synd á móti réttlætinu.

*Vísindamaðurinn*:

En hún neitaði að fylgjast með okkur í land.

*Tízkan*:

Hún mátti það ekki, fyr en einhverjir höfðu farið á undan.

*Löggjafinn*:

Hún skal koma með okkur.— (*Gengur að bátnum til sjómannanna*). Rói, þið út í skipið og sækið Velsæmina. Segið henni að Sannleikurinn ætli að leiðbeina okkur um landið, en að án hennar viljum vér hvergi fara. Þið hafið sjálfir séð Sannleikann og getið fullvissað hana um að hann sé ekki eins ægilegur, eins og hún hugði hann vera.

*Sjómennirnir ýta bátnum í hvarf við klettasnösina. — Það heyrist ára-glam.*

*Auðmaðurinn* (*kallar*):

Þið skuluð fá það vel launað, piltar, ef þið eruð fljótir.

*Löggjafinn* (*kallar*):

Þið þurfið ekki að minnast á búning Sannleikans.

*Tízkan*:

Það verður að hylja nekt Sannleikans áður en Velsæmin sér hann.

*Löggjafinn*:

Alveg rétt. Og klæði hans skulu bera merki menningar okkar. — (*Opnar tösku sína og tekur upp hvítar buxur. — Við Sannleikann*): Þessum brókum skaltu klæðast næst þér.

*Sannleikurinn*:

En eg ber aldrei klæði. Þessar brækur mundu hefta för mína.

*Löggjafinn*:

En Velsæmin heimtar það.

*Sannleikurinn*:

Það gerir engan mun. Þær hefta för mína samt.

*Löggjafinn* (*við Hermanninn*):

Gjör þú skyldu þína.

*Hermaðurinn leggur Sannleikann flatan og klæðir hann í brækurnar.*

*Auðmaðurinn*:

En er þetta viturlegt? Ef hann kemst ekki upp bjargið eða hrapar, getum við mist af allri auðlegð þessa lands.

*Vísindamaðurinn:*
Sannleikanum skeikar aldrei fótur.

*Löggjafinn:*
Alveg rétt. (*Lítur í kring um sig*). Nú, nú. Hvað hafið þið hin í fórum ykkar, sem getur hulið nekt Sannleikans?

*Presturinn* (*opnar tösku sína og tekur upp gamla slitna hempu, kastar henni til Hermannsins*). Hérna, þetta er gömul og virðuleg flík. Hún getur skýlt þessum vesaling.

*Sannleikurinn:*
Það getur enginn klifrað klappirnar í þessum búningi.

*Hermaðurinn færir Sannleikann í hempuna.*

*Auðmaðurinn opnar* (*tösku sína og dregur upp gull-belti mikið og fagurt. — Við Hermanninn*): Reistu Sannleikann á fætur. — (*Hermaðurinn reisir Sannleikann upp, og Auðmaðurinn spennir beltið um mitti hans*). Eigðu þetta, kunningi, og ef aðrir gera betur við þig, þá láttu mig vita.

*Sannleikurinn:*
Þetta belti er að eins þræla-,hlekkir. Eg rís ekki undir þeim.

*Löggjafinn:*
Þú skalt! (*Við Vísindamanninn*). Hvað leggur þú til í búning Sanneikans?

*Vísindamaðurinn:*
En eg hygg að þetta sé heimska. Er nauðsynlegt að eg—?

*Löggjafinn:*
Eg býð þér að gera það.

*Vísindamaðurinn:*
En Sannleikurinn segir sjálfur, að búningurinn sé sér á móti skapi og muni hindra för sína.

*Löggjafinn:*
Hvað um það. Hann segist vera þjónn, og þá skal hann hlýða.

*Presturinn:*
Ef búningurinn er honum byrði, ætti hann að þakka almáttugum drotni fyrir þetta ok, sem vér leggjum á hann.

*Vísindamaðurinn* (*fer ofan í vasa sinn og tekur upp stór hornspangargleraugu og setur þau á Sannleikann:*
Þetta er nýjasta uppfundning vísindanna. Sú sterkasta smásjá, sem til er í heimi.

*Sannleikurinn* (*skimar í kring*):
Eg sé ekkert nema það allra smæsta.

*Vísindamaðurinn* (*brosir ánægjulega*):
En þú sér það líka alt glögt og skýrt.

*Sannleikurinn:*
Enginn sér alt glögt og skýrt, nema hann sjái alla hluti í senn.

*Allir* (*nema Sannleikurinn*):
Sjái alla hluti í senn!

*Sannleikurinn:*
Já, til þess að geta þekt nokkuð eitt til hlítar, þarf maður að þekkja alt; til þess að vera réttsýnn á eitt, þarf maður að sjá alt. En nú er eg að hálfu blindur.

*Presturinn:*
Hann guðlastar. Enginn er skygn nema guð einn.

*Tízkan*:

Þetta hefi eg aldrei áður heyrt, að maður sæi alla hluti á sama augnabikinu. Ó, er hann ekki fyndinn!

*Vísindamaðurinn*:

Eg hygg að hann sé brjálaður.

*Auðmaðurinn*:

En ef hann sér alt, þá veit hann líka, hvar allir fjársjóðir jarðarinnar eru fólgnir.

*Löggjafinn (við Hermanninn)*:

Hvað ætlar þú að leggja til í búning Sannleikans,

*Hermaðurinn*:

Eg á ekkert til, ekki einu sinni fötin, sem eg stend í, þó eg þurfi að bera þau, hvort heldur veðrið er heitt eða kalt.

*Löggjafinn*:

Þú hefir þó handjárnin.

*Hermaðurinn*:

En eg á ekki með að gefa þau. Þau tilheyra ríkinu — landi Lyginnar.

*Löggjafinn*:

Eg býð þér að setja þau á Sannleikann. Vísindamaðurinn segir að hann sé brjálaður.

*Hermaðurinn tekur handjárn upp úr tösku sinni og lokar um arma Sannleikans.*

*Sannleikurinn*:

Þessi járn hamla mér frá að benda ykkur á fegurð þessa lands. Eg get aldrei leiðbeint ykkur, í þessum búningi.

*Löggjafinn*:

Við sjáum síðar.

*Sannleikurinn*:

Það verður um seinan.

*Löggjafinn*:

Þú verður að hlýða. (*Við Tízkuna*). Þú átt eftir að leggja þinn skerf í búning Sannleikans.

*Tízkan (hefir horft á með aðdáun)*:

Þetta er dásamlegt. Nýr búningur! Nú skal eg bæta því við, sem hér vantar á. Krjúptu niður, herra Sannleikur.

*Sannleikurinn*:

Eg kann það ekki.

*Löggjafinn (við Hermanninn)*:

Kendu Sannleikanum að krjúpa.

*Hermaðurnn setur Sannleikann á knén. Tízkan fer ofan í tösku sína, tekur upp liti og andlits-duft. Hún málar andlit Sannleikans svo að hann verður óþekkjanlegur og líkist meira konu en karli.*

*Tízkan*:

Þú skalt verða óþekkjanlegur og allir skulu dá þig. (*Setur skrautlegan kvenhatt á höfuð honum*).

*Á meðan þessu hefir farið fram, hefir ára-glamm heyrst bak við klettasnösina.*

*Presturinn*:

Þessi ungi maður er að tapa guðsmyndinni.

*Vísindamaðurinn*:

Hann er með öllu orðinn óþekkjanlegur.

*Löggjafinn*:

Hann hefir hlýtt mér í öllu. Hann getur orðið góður borgari.

*Sannleikurinn* (*beiskum rómi*):
Eg er að missa máttinn.
*Auðmaðurinn* (*við Löggjafann*):
Gættu þess, að hann haldi fullu fjöri, þar til hann hefir sýnt okkur fjársjóðu þessa nýja lands.
*Löggjafinn*:
Láttu mig um það. (*Við Hermanninn*): Styð þú Sannleikann, ef hann ætlar að lémagnast.

*Hermaðurinn setur handlegginn um mitti Sannleikans.*

*Tízkan* (*hefir komið dóti sínu fyrir í töskunni. Klappar saman lófunum*):
Ó, þetta er yndislegur búningur! Alveg ný hugmynd. Tilviljun ein, en mesta afbragð.

*Báturinn er kominn að, og er brýnt sem fyr, þannig: að aðeins stefnið sést fyrir klettasnösinni. Sjómennirnir tveir stíga á land. Annar þeirra aðstoðar velsæmina úr bátnum. Hún er tiguleg kona, vel klædd og drambsöm á svip. Hún gengur til hinna, sem standa í kringum sannleikann.*

*Velsæmin*:
Hvað á þetta að þýða, Til hvers á eg að koma hingað?
*Löggjafinn*:
Þessi maður (*bendir á Sannleikann*) á að fylgja okkur upp björgin hérna og inn í þetta nýja land. En eins og þú getur skilið, álitum við það gjörræði, að takast ferð á hendur án þín.
*Velsæmin* (*horfir kuldalega á sannleikann*):
Hvers konar þvaður er þetta? Eg fæ ekki betur séð, en þetta sé kona, hversu einkennnilega búin sem hún er.
*Vísindamaðurinn*:
Nei, þetta er sannleikurinn. Hann ber að eins nokkur einkenni siðmenningar okkar. Við þorðum ekki að láta þig sjá hann í því gervi. sem hann var, þegar við fundum hann.
*Presturinn*:
Nú er hann líka hættur að guðlasta.
*Tízkan*:
Hann er yndislegur eins og hann er nú.
*Velsæmin*:
Eg skil ekki hvað þið eruð að fara. Þið talið um einhvern mann, sem hér er hvergi sjáanlegur . Eg skal fúslega viðurkenna, að Tízkunni hefir tekist mjög vel að skapa hér nýjan búning á þessa frú, en það eitt ætti að vera nóg, til þess að þið sýnduð henni almenna kurteisi.
*Auðmaðurinn*:
Það dettur engum í hug að misbjóða herra Sannleikanum.
*Velsæmin*:
En það er að misbjóða konunni að karlkenna hana.
*Löggjafinn* (*ráðaleysislega*):
Nú, er þá þetta kona?
*Presturinn*:
Efar þú orð Velsæminnar?
*Auðmaðurinn*:
En hvar er þá Sanneikurinn, sem átti að finna öll auðæfi þessa lands?

*Vísindamaðurinn* (*horfir á Sannleikann*):
Ef þetta er Sannleikurinn. þekki eg hann ekki lengur ..... Þetta er Lygin!

*Allir* (*hopa á hæl — hræddir*):
Það er Lygin!

*Sannleikurinn*:
Eg er að falla í ómegin. (*Fellur áfram á grúfu*).

*Presturinn* (*krossar sig*):
Guð varðveiti oss!

*Auðmaðurinn*:
En hvar er Sannleikurinn? Við verðum að finna hann aftur. Hann einn getur hjálpað okkur til að finna gullið.

*Vísindamaðurinn*:
Sannleikurinn er ekki hér. Við erum enn í landi Lyginnar,

*Löggjafinn*:
Burt með okkur öll úr landi Lyginnar! (*Allir hlaupa að bátnum og flýta sér í hann. Hermaðurinn síðast*). Farðu og legðu Lygina með sverði þínu.

*Hermaðurinn gengur þangað sem Sannleikurinn liggur. Á meðan er bátnum ýtt út og hann hverfur bak við klettasnösina. Áraglam. — Hermaðurinn dregur sverðið úr slíðrum, rekur Sannleikann í gegn, og skilur það eftir í sárinu.*

*Rödd Löggjafans*:
Róið nú. piltar, róið!

*Rödd Auðmannsins*:
Hundrað dali gef eg hverjum ykkar, ef þið róið eins og menn út í skipið.

*Hugsjónamaðurinn* (*kemur ofan klettinn til vinstri*):
Því eru þeir að fara? Hvar er sannleikurinn?

*Hermaðurinn*:
Sannleikurinn er ekki hér. Við erum enn í landi Lyginnar. En nú er hún dauð.

*Hugsjónamaðurinn*:
Lygin dauð! En því fórst þú ekki í bátinn með hinum?

*Hermaðurinn*:
Löggjafinn skipaði mér að vera eftir til þess að drepa Lygina.

*Hugsjónamaðurinn*:
Vinur minn, þetta er einhver misskilningur . (*Sér lík Sannleikans*). En hver liggur hér,

*Hermaðurinn*:
Þetta er Lygin, eg rak hana í gegn að boði Löggjafans.

*Hugsjónamaðurinn*:
Nú hefir ykkur illa skjátlast. (*Dregur sverðið úr sárinu og kastar því frá sér. Tekur handjárnin af Sannleikanum, sviftir af honum búningnum og þurkar litina af andliti hans*). Þú hefir lagt sverði þínu í hjarta sannleikans.

*Hermaðurinn*:
Hvað kemur það þér við? Eg hlýði að eins boði Löggjafans.

*Sannleikurinn* (*rís á fætur. Enginn áverki sést á honum. Hann er alheill og hress*):
Þú hefir fært mig úr hami Lyginnar.

*Hugsjónamaðurinn*:
Já, án þín kemst eg ekki upp klappirnar. En þetta var slæm töf. Samferðafólk mitt hefir

alt af það lagið, að tefja fyrir mér; og við að fara ofan bjargið hefi, eg tapað kröftum.

*Sannleikurinn:*

Viltu ekki hætta við uppgönguna? Kletturinn er hár og brattur. Þú getur hrapað.

*Hugsjónamaðurinn:*

Nei. Eg ætla að reyna enn á ný. Eg tók eftir því, að hendur mínar og fætur móta bergið. Þeir, sem á eftir koma, sjá sporin mín svo langt sem eg kemst.

*Sannleikurinn:*

Komum þá.

*Hermaðurinn:*

Má eg ekki vera með?

*Hugsjónamaðurinn:*

Þú getur ekki klifrað, nema þú farir úr hermannabúningnum.

*Hermaðurinn:*

Eg get ekki afklætt mig, nema mér sé skipað það.

*Hugsjónamaðurinn:*

Eg gef aldrei neinar skipanir.

*Sannleikurinn:*

Og eg ekki heldur.

*Hugsjónamaðurinn og Sannleikurinn klifra upp kettana eins og áður. — Neyðar- og angistaróp heyrist bak við klettasnösina til hægri.*

*Rödd Vísindamannsins:*

Við höfum róið á blind-sker.

*Rödd Auðmannsins:*

Það getur verið sokkin gullkista.

*Rödd Löggjafans:*

Eg drukna, ef þið bjargið mér ekki.

*Rödd Auðmannsins:*

Hundrað dali, ef einhver bjargar mér.

*Rödd Tízkunnar:*

Ó, kjóllinn minn! Dýrindiskjóllinn minn!

*Rödd Velsæminnar:*

Eg hélt eg væri á ferð með siðuðu fólki.

*Rödd Prestsins:*

Þetta hefst af því, að elta ólar við Sannleikann. — Drottinn miskuna þú oss! !

*Stutt þögn.*

*Raddir Vísindamannsins, Auðmannsins, Löggjafans, Prestsins, Tízkunnar og Velsæminnar:*

Við erum að drukna. „

*Hermaðurinn er sem steini lostinn á meðan á þessu stendur. Hrekkur við, þegar Hugsjónamaðurinn hrapar og fellur niður í fjöruna. Hann gengur að Hugsjónamanninum og skoðar líkið.*

*Hermaðurinn:*

Hann er dáinn. Eg lifi einn alla samferðamenn mína, og nú er enginn til að skipa mér lengur —líf mitt einskis vert. (*Tekur ur upp sverð sitt, lætur fallast á það og deyr*).

*Sannleikurinn kemur niður bjargið til vinstri. Gengur þangað sem hann stóð, þegar tjaldið var dregið upp, og horfir út á sjóinn. — Algert myrkur.*

T j a l d i ð .

## Eg sé - - -

Í æsku var námið um styrjöld og stríð,
En stefnan gegn ofveðri' og norðanhríð,
Og leikföng mín háfjöll og hafið. —
Eg tignaði Gretti og Gunnar og Njál
Og geymst hefir jafnan í íslenzkri sál
Það bernskunám, brent eða grafið.

Mig dreymdi um ættjarðar uppgang og frægð,
Og oft fanst mér landið og þjóðin mín rægð,
Í kuldanum heitt var mitt hjarta.
Þá fanst mér hver íslenzkur kotungsson, karl,
Sem kóngsson í álögum, hertekinn jarl,
Með framtíðar frægð júní-bjarta.

Þá lærði' eg þau gullaldarljóð, er nú syng,
Og langaði sjálfan í styrjöld, á þing, —
Því Íslandi vildi eg vinna. —
Eg hataði kúgun og hálf-danska stjórn,
Og háyfirvaldanna ættjarðarfórn,
Og kóngs-þræla og kaupmanna-sinna.

Vor þjóðsagna-auður var aleigan mín, —
Sá orustuljómi er frá sögunum skín
Og skuggalangt skammdegið lýsti.
Á Brávelli einatt eg barðist og vó,
Með bræðrum, í Drangeyju, grét eða hló.—
—Úr öskustó eitthvað mig fýsti.

En víkingaþráin og ættjarðarást
Í ísum og hungursneyð lang-flestum brást,
Og draumsýnir unglingsins deyja:
Við heybagga-illindi, höfðingja-ríg,
Og hræsninnar nútíðar frændmennavíg,
Er einvígi hugsjónir heyja.

— — —

Sem Leifur þótt bærist eg vestur um ver
Til Vínlands, eg þel hans til ættmenna ber, —

Á Íslandi' er hugurinn heima. — —
Nú trú mín á Ísland og íslenzka þjóð
Er endurfædd—hreinsuð í reynslunnar glóð,—
*Eg sé það sem suma' er að dreyma.*

Því nú sé eg lífæð, er landið mitt á, —
Sé ljóskrýnda, tármilda Fjallkonubrá
Í öndvegi alfrjálsra þjóða.
Sé fornaldarhetjur sem *framtíðarmenn,*
Sé frægð þeirra, drengskap og menningu enn
Sem óðal þitt, ættlandið góða!

*Jónas A. Sigurðsson.*



# Hrakningar Maeldunes.

Írsk þjóðsaga frá 700 A. D.

Eftir TENNYSON.



*I.*

Eg fór með goðorð á feðraleifð. — —
Hann föður minn heitinn vó. — —
Eg safnaði liði og sór þess eið,
Að svifta 'ann heilaþró.
Og allir voru þeir kónga kyns
Mjög konungleg sveit og hörð,
Og ættgöfgi þeirra allra spratt
Frá elztu þjóðum á jörð.
Hver jafnoki þeirra að hetjuhug
Er hrósa vor sagnrit merk,
Og heldur vildu þeir falla á fold
En fremja nein hermdarverk. —
— En *hann* bjó í úthafs eyju,
— Vér ýttum knerri þann veg—,
Er degi' áður feldi föður minn
Enn fæddist í heiminn eg.

*II.*

Vér lentum við úthafs eyna,
Hann eg þar á ströndu sá. — —
Í vindhviðu burt vér bárumst
Um breiðfeðman reginsjá.

*III.*

Vér þágum höfn við *Þagnarey,*
En þektum engin spell:
Að þögull sær við þögla strönd
Í þagnargildi féll;
Í sólargeisla glitra ár
Er gleymdu fornum söng,
Of þrumulaus þar fossinn féll
Um fjöll, í gljúfraþröng;
Þar aldrei söng við sedrustrén
Hinn svali fjallablær,
Né furutréð, á fjallaklöpp
Er feikna þroska nær;
Um sólarheima svífur hljótt
Án söngva lævirkinn;
Ei galar hani, grenjar naut,

Né geltir hundurinn.
Því enginn blær og ekkert hljóð
Um eyna barst né höf, —
Alt þekkilegt sem Þrúðvangs líf,
En þögult eins og gröf. —
Því hötuðum vér þá unaðs ey
Að orð vor heyrðust sízt,
En hreimstyrk rödd varð hás og þunn
Sem hljómlaust músar tíst;
Og hetjurnar, er herópin við
Til hildar kvöddu sjót,
Svo þeirra hundruð þeystu fram
Á þúsund banaspjót:
Að þær með kynjum mistu mál
Sem martröð á þeim lá,
Þær bárust nærri' á banaspjót; —
En brott vér sigldum þá.

*IV.*

Í hlé oss bar við *Hljóðaey* :
Þar hræfuglar tindum frá
Á manna tungum, með mannsins rödd
Sín meinlæti æptu flá;
Á stundarfresti sín æptu óp,
En ávalt, er barst það hljóð:
Hjá plóginum arður-uxinn féll
Og akurinn visinn stóð;
Þá helmingur penings haltur varð,
Hver húskarl um sveitir dó;
En þekjan ofan á arinn féll
Svo eldi í húsið sló. —
Mitt heillaði lið það hrafnaþing
Í hjörtun það eitri spjó,
Þeir æpa tóku, sem óðir menn
Hver annan í bræði vó. —
Eg Varbelgi skildi, en vopnadans
Þar vistina stutta hlaut;
Eg skildi þar eftir hröfnum hræ,
En hélt með særða á braut.

*V.*

Að *Blómaey* þá okkur bar:
Því angan barst um sæ;
En Vor og Sumar saman ljúft
Þar sátu í skauti á Blæ:
Hjá *ærupris* og *augnafró*
Þar *undafífill* spratt
Og *melasól,* en *sóldögg* rauð
Við *sóley trygðir* batt;
En fannhvít *liljan,* fyrir snjó,
Á fjallatindum lá,
Og greri niður giljadrög
— Sem gömul jökultá;
Við *hjónagrasi* og *baldursbrá*
Þar brosti *fjólan* glöð,
En miljón *rósir* uxu um alt
Með engin þorn né blöð;
Frá efsta tindi um eyna var
Þó ekkert tré að sjá,
Frá björtum himni' einn blómafoss
Rann bláum út að sjá; —
Þar byltumst vér um *brönugrös*
Og blessuðum sifjalið;
En sungum lof á liljubeð
Um lýðs vors hetjusið, —
Unz gullna blæju blómduft óf
Og breiddi á sérhvern mann,
Er þyrstur eins og eyðimörk
Og eygló sjálf — var hann.
En landið engan ávöxt bar,
Um alt var blóm við blóm!
Vér hötuðum það sem Þagnarey
Með þungan skapadóm.
Svo vígdrótt rúði víðfræg blóm
Um voga miljón flaut,
Og skildum þar eftir eyðisker, —
Í illúð vér sigldum á braut.

*VI.*

Að *Ávaxta-* þá *ey* oss bar:
Um útnes, kletta og björg,
Með öllum litum, allri stærð,
Þar aldin spruttu mörg;
Um gulan sand, lík sólar gýl,

Þar suðræn *melón* skein;
Frá sævarströnd um alla ey
Lá óskift fíkju-rein;
Sem öndvegi úr gulli ger
Þar gljá við ilmloft fjöll,
En gullnar perur, plómu-skraut,
Þau prýddu og þöktu öll;
Þar rauð sem skarlat ríktu ber,
En rekka að þeim dró:
Að ölteitinnar eitrað vín
Í ávöxtunum bjó;
Hin efsta gnípa úr eplum var
Svo enginn stærri sá,
Um rúm þau börðust, blésu út,
Svo blað var hvergi að sjá;
En mjúk og rauð sem meyjar vör —
— Sem meyjar kinnin rjóð, —
Þau kveiktu, þegar kvölda tók,
Þá kynja sólarglóð. —
Hér dvaldist okkur daga þrjá,
En drógum sverð úr skeið;
Í ofdrykkjunnar æði vó
Hver annan, vígdrótt reið.
Eg skildi þá með oddi og egg
Því ölföngin lét eg kyr,
Á föðurlát eg minti menn, —
Um mar þá rann á byr.

*VII.*

Vér komum næst að *Eldaey*:
Á eldborg stefndi far,
Því eldmökkinn úr efsta tind'
Við yztu stjörnu bar;
Oss heillaði sú ginnhelg glóð,
Vér gengum sem ölvuð sveit,
Því skalf og nötraði náströnd sú
Sem negg, er dauða hneit.
En auk þess reyndist ölteit sveit
Af aldinum, svo menn
Í gýgsins hlupu bálið bjart,
Á brott við sigldum enn. —
Þá neðan sjávar sáum ey
— Því særinn lofttær var—:
Í djúp það mændum, — Eden er
Sízt unaðslegra' en þar!
Í friðarbogans hulda heim
Hin horfna sæla bjó,
Um þöglar hallir andar ilm
Og eilíf drauma-ró! —
Þrír afbragðsmenn úr okkar hóp
— Mér enn við hugur 'rís—
Er hlupu um borð í hafsins djúp,
Sú hrundi paradís.

*VIII.*

Vér námum land við *Nægtaey*:
Þar nálgast himinn jörð,
Og árdagssólin sefamund
Oss sendi' í skýjagjörð;
Og hverjum manni, er hvíld'ans þraut,
Sú hönd gaf nægta arf,
Unz stritlaus dagur dýrðarlands
Í djúpi Vesturs hvarf. —
Sem alsæl börn á berjamó
Þann bikar tæmdum við!
Um forna sungum frægðaröld
Og feðra hetjusið; —
Á brimsins horfðum hrikaleik
Og hlýddum lækjarnið;
Um álfakónga, Edduskáld
Og Æsi kváðum við. —
Er tímar liðu oss leiðast tók
Og lið mitt varp oft önd,
Unz Nægtaey varð sveitar svarf
Og sólbjört morguns hönd. —
Því óvinur hér enginn fanst,
Oss eyjan frjósöm laut;
Vér knetti og steinum hrundum hratt
Svo hátt í knatttré þaut;
Vér lékum stríð, sá leikur var
Þó lífs vors hættuspil, —
Því feigð og styrjöld fylgdu oss,—
Vér flúðum um sævarhyl.

IX.

Við *Nornaey* vér lentum loks,
Mitt lið nam trölla'slag í:
"Ó, komið okkar, okkar til" — —
Um eldrauð storma ský.
Þær sveiptu fagra meyjarmynd
Í morguns skugga-glóð
Því seiðmynd, ber sem himinhvolf,
Á hverjum tindi stóð;
Sem hvítir mávar hundrað sköss
Sér hreyktu' um klettabönd,
En völvur stigu val-dans létt
Um vogrek hvert á strönd;
Sér hundrað léku um flúðir flögð
Og föðmuðu Ránar brjóst, —
Eg þekti hvað lið mitt þoldi sízt
Og þaðan í skyndi bjóst.

X.

Vér komum við *Tveggja-turnaey,*
Und töfra-norna heift;
Þar önnur súlan var sléttur steinn,
Hin steinsmíð blómum greypt;
Af huldu afli hauðrið skalf
Svo hrundust turnar á,
Í hamförum þeim heyrðu menn
Sem hringing klukkum frá;
Úr turnum hrafna hópur fló
Með hrægamms ys og garg,
Unz loks í heila og hjarta gróf
Sig: hringing, þys og arg.
Þá víga-andinn á menn sveif
Og allir fyltust heift:
Einn hópur valdi — sléttan stein,
Hinn stein — með blómin greypt.
En reiðiþruma réttláts guðs
Í ríki skýja þaut,
Og enn þá helftin helming vó, —
Með hina vér sigldum á braut.

XI.

Vér tókum höfn við *Helgsmannsey,*
Er helgum fylgdi Brand'. —
Nú jafna tíð við örvar-Odds
Hér átt 'ann hafði land.
Hans rödd var ómur æðra heims
Og augun dular-blíð;
En snjóhvítt hár og hæruskegg
Sem hempa klæddi 'ann síð.
"Þú Maeldune," ávarp öldungs var,
"Við áform hættu þín,
Og mun hið helga herrans orð
Að: 'hefndin æ er mín'.—
*Hans* feður vógu frændlið þitt
Við ferlegt heiftar kíf;
En *þínir* feður feður hans
Þá feldu, — líf fyrir líf.
Þinn faðir myrti föður hans,
Hví fjölga vígum þeim?
Nú flýt þér heim til föðurlands
Og fortíð þeirri gleym." — —
Vér kystum helgar hærur bljúgt,
Vér báðum þegar hann bað.
Hinn helgi maður helgaði oss, —
Vér hryggir sigldum af stað.

XII.

Vér fundum loksins *Feðraey,*
Og fyrstan ströndu á
Er lentum vér úr feigðarför
Minn föðurbana eg sá. —
Eg lét hann vera. Lúinn var
Við lífsins synda vei. — —
Með tíund liðs míns frið eg fann
Á feðra minna ey.

*Jónas A. Sigurðsson.*

# Óríana.

Eftir TENNYSON.



Mitt tærist hjarta af hugarþrá,
Óríana.
Í heimi er enga hvíld að fá,
Óríana.
Er sveipast hamra hauður snjá,
Og hvirfilvindar næða um strá,
Óríana,
Eg táplaus, einn, hrekst til og frá,
Óríana.

Enn húmþung njóla hauður fal,
Óríana,
Um hánótt gall við hanagal,
Óríana:
Við vatnagný í veðrasal
Og vopnabrak, menn þeystu' að val,
Óríana;
En lúðurþytur heimti hal,
Óríana.

Í lindiskógi, und laufgum hlyn,
Óríana,
Og fyr enn riði að fleina dyn,
Óríana,
Er stóðum, tárglöð, styrs hjá hvin,
Við stjörnuljós og mánaskin,
Óríana,
Eg hét þér trygðum, hjartans vin,
Óríana.—

Þar stóð á virkisveggnum, bein,
Óríana;
Af öllum hernum sá einn svein,
Óríana:
Hún sá mig bera bitran flein
Og berjast, þegar hetjan ein,
Óríana,
Sté millum okkar, auðarrein,
Óríana.

En miðið, örin — eitthvað brást,
Óríana:
Sú banvæn ör mér illa brást,
Óríana:
Á hjarta þínu holund sást,
Mín hjartans brúður, dauð þú lágst,
Óríana!
Mín hjartans brúður, líf og ást,
Óríana!

Nú vopnaþingi þröng varð á,
Óríana,
Og lúðra köllin hrynu ha,
Óríana.
Menn féllu, eins og falla strá
Í feigðardans, í Vopnalá,
Óríana:
Í dupti jarðar lágt eg lá,
Óríana.

Mig vega átti, er þar lá,
Óríana!
Hve má eg rísa foldu frá,
Óríana?
Hve má eg daginn dýran sjá?
Eg dauðan ætti að gista ná,
Óríana.—
Í moldu traðkast möðkum hjá,
Óríana.

Ó, brostið hjarta, er brestur ei,
Óríana!
Ó, fölva andlit, fagra mey,
Óríana!
Þú brosir, talar? — nei æ, nei,
Mig nista tár og biturt vei,
Óríana!
Hvers saknar þú? Er eg það ei,
Óríana?

Mín hönd — og boginn — bölvuð er,
Óríana!
En sæl ert þú, sem hvílir hér,
Óríana!
Og náttlöng þögnin þjakar mér,
Er þung og bitur sorg mig sker,
Óríana.
Og langa þreytu leið eg fer,
Óríana.

Eg græt, — mín engin heyrir hljóð,
Óríana
Þú byrgir himins bjarta glóð,
Óríana.
Eg finn í tár mitt breytist blóð
Er brýzt frá hjarta á hvarmaslóð,
Óríana.—
Minn hjör í þínu hjarta stóð,
Óríana!

Er norðan vindar næða um sjá,
Óríana,
Eg ráfa, en þín ei minnast má,
Óríana.
Þú grænum lundi hvílir hjá,
Eg hræðist dauðann — þig að sjá,
Óríana.—
Eg hafsins stunur heyri þá,
Óríana.—

*Jónas A. Sigurðsson.*



# Bill McAra.

Eftir *J. Magnús Bjarnason.*



Um eitt skeið átti eg heima í Nanaimo í British Columbia, Bær sá stendur á austur-strönd Vancouver-eyjar, um 73 mílur enskar frá borginni Victoria. — Sumir hafa kallað Nanaimo "Steinkola-borg" (*Coal City*), því að þar eru gríðar-miklar kolanámur; og er mikið af kolunum flutt til Californíu, Hawaii-eyja og Kína.

Eg var í þjónustu verzlunarfélags nokkurs í Nanaimo, allan þann tíma, sem eg var þar, og átti eg heima í litlu húsi í útjaðri bæjarins. — Fyrst framan af þóttist eg vera alveg viss um það, að eg og konan mín værum einu Íslendingarnir í þeim bæ; en síðar kom það í ljós, að eg fór þar vilt, eins og í mörgu öðru.

Svo bar við haust-kvöld eitt, þegar eg sat úti á svölunum fyrir framan húsið, sem eg bjó í, að eg sá lítinn mann, hvatskeytslegan, ganga heim að húsinu, og vissi eg undir eins, að það var Íslendingur. — Eg man það glögt, rétt eins og það hefði skeð í gær. Það var komið undir dagsetur; en tunglið var hátt á lofti, svo það var vel bjart. Um daginn hafði verið hvöss vestan gola, en veðrið var hlýtt og yndislegt.

"Gott kvöld!" sagði gesturinn á íslenzku, þegar hann var kominn upp á svalirnar til mín. "Eða ertu ekki landi?" Hann tók ofan hattinn og hneigði sig. — Á hattbarðinu sat sölnað laufblað, sem auðsjáanlega hafði dottið á það á leið mannsins fram hjá hlynviðartrjánum, er stóðu meðfram gangstéttinni.

Eg tók kveðju hans hlýlega, svaraði honum á íslenzku og spurði hann að heiti.

"Eg heiti Björn og er Ásbrandsson," sagði hann, tók laufblaðið af hattbarðinu og lagði það með mestu gætni á handriðið á svölunum; "en eg hefi kallað mig Snó (*Snow*) síðan eg kom til þessa lands."

Eg sá, að bros lék um varir hans, þegar hann bar fram nafnið, eins og hann þættist af því. — Eg brosti líka, en ekki þó að enska nafninu, heldur hinu íslenzka; því að mér datt í hug Björn Ásbrandsson Breiðvíkingakappi.

Þessi Björn Ásbrandsson leit samt ekki út fyrir, að vera neinn kappi. En hann var að sjá knálegur (þó hann væri lítill vexti), snar í hreyfingum og einbeittur. Hann var á að gizka þrítugur, dökkur á brún og brá, fremur úteygður, kringluleitur, og ekki ófríður sýnum, með hrokkið hár og vel-snúið efrivarar-skegg. Hann var í dökkum, íslenzkum

vaðmáls-fötum, sem fóru honum sérlega vel. Hálslín hans var drifhvítt og vel frá hálshnýtinu gengið. Búningur hans, fas og framkoma, bar þess órækan vott, að hann var hreinlátur og snyrtimaður með afbrigðum.

"Hvað lengi ertu búinn að vera hér í landi," spurði eg.

"Eg kom að heiman í sumar." —Hann brá vinstri hendinni upp að enninu, eins og til að laga á sér hárið, og setti upp hattinn.

"Komstu beina leið hingað til British Columbia?"

"Svo má það heita. Eg dvaldi hálfan mánuð í Winnipeg, og hélt svo áfram til Vancouver, því að þar bjóst eg við að finna bróður minn. Eg er sem sé að leita að bróður mínum."—Hann tók hlynviðarlaufið af handriðinu með þumalfingri og vísifingri vinstri handar, brá því upp að hægra auganu, en dró hitt í pung. "Já, alt af að leita að bróður mínum."

"Og hefirðu enn ekki fundið hann?" spurði eg.

"Nei, eg hefi ekki fundið hann," sagði Björn og stakk laufblaðinu í vasa sinn, eins og óafvitandi. Eg fór frá Vancouver til Victoria og frá Victoria hingað til Nanaimo. En í öllum þessum bæjum mun hann hafa verið."

Eg tók eftir því, að rödd þessa litla, snyrtilega Íslendings var mjúk og þýð og viðkunnanleg.

"Hvað heitir bróðir þinn?" sagði eg.

"Jóhann heitir hann, og er Kjartansson. Við erum hálfbræður."

"Er langt síðan hann kom hingað vestur?"

"Það eru nú um tuttugu og fimm ár. Eg var á fimta ári, þegar hann fór til Ameríku. Hann var þá seytján ára."

"Og þú manst þá lítið eftir honum," sagði eg.

"Mjög lítið."

"Skrifaði hann ekki við og við?" spurði eg.

"Fyrstu árin, eftir að hann kom vestur, skrifaði hann nokkuð oft. En aldrei eftir að móðir okkar dó. Eg frétti samt um hann stöku sinnum, úr bréfum, sem aðrir skrifuðu heim til manna í minni sveit."

"Heldurðu að hann sé hér í Nanaimo?"

"Eg held, að hann sé annaðhvort dáinn eða þá farinn austur aftur til Winnipeg," sagði Björn, eftir stundar þögn. — Hann sagði mér samt ekki, af hverju hann hélt það.

"Og ætlar þú þá austur aftur?"

"Já, undir eins og eg hefi innunnið mér nóga peninga til að komast til Winnipeg. En nú er eg peningalaus, og er því að leita hér atvinnu. Mér var sagt það í Victoria, að hér væri æfinlega mannekla. — Og erindi mitt hingað til þín í kvöld er það, að biðja þig að ganga með mér í fyrramálið til einhvers af verkstjórunum við námuna, og vita, hvort eg geti ekki fengið eitthvað að starfa. Eg get að vísu fleytt mér ofurlít-

ið í ensku, en þætti betra að einhver, sem kann hana vel, talaði fyrir mig." — Björn tók laufblaðið aftur upp úr vasa sínum og skoðaði það í krók og kring, og notaði nú vísifingur og þumalfingur á báðum höndum.

"En hvernig vissir þú, að eg er Íslendingur?"

"Eg fékk utanskrift þína í gær hjá manni í Victoria."

"Mundir þú treysta þér til að moka steinkolum af kappi allan daginn?" spurði eg.

"Eg er ekki hræddur við að vinna."

"En það er óþrifaleg vinna," sagði eg.

"Það fælir mig ekki frá vinnunni, ef hún er bara vel borguð, því að eg þvæ af mér kolarykið á kvöldin og fer þá í önnur föt."

"Vel og gott," sagði eg, "komdu þá hingað í fyrramálið. Eg skal ganga með þér til námunnar."

"Eg er þér innilega þakklátur," sagði Björn. Eg sá að það glaðnaði yfir honum. Hann braut saman laufblaðið með mestu vandvirkni og stakk því í vestisvasa sinn. Nokkru síðar kvaddi hann mig og fór.

Næsta morgun, þegar eg var að fara á fætur, sá eg út um svefnherbergis-gluggann, að Björn var á gangi fram og aftur eftir gangstéttinni fyrir framan húsið. Hann hélt á gulu hlynviðarlaufi í annari hendinni, bar það upp að hægra auganu við og við, en þess á milli leit hann heim að húsinu. Hann var nú í nýjum, blárönd-óttum strigafötum og hafði dálitla der-húfu á höfðinu. — Þegar eg kom ofan, kallaði eg á hann og bauð honum inn.

"Eg ætlaði ekki að þekkja þig," sagði eg, "því að þú ert öðruvísi búinn en í gær."

"Já," sagði hann, "eg vissi, að seint er að herklæðast, þegar á hólminn er komið."—Hann brosti og strauk efrivarar-skeggið mjög ánægjulega.

Strax og morgunverði var lokið, lögðum við á stað til námunnar. Þegar við komum þangað, voru námumennirnir í þann veginn að taka til starfa. En hinir, sem unnu ofanjarðar, voru byrjaðir fyrir góðri stundu, og var verkstjóri þeirra nefndur Bill McAra. Til hans var okkur vísað undir eins. Hann var að sjá um fertugt, hár maður vexti og samanrekinn um herðarnar, jarpur á hár og skegg, dökkeygður og snareygður og hinn karlmannlegasti ásýndum. — Við Björn gengum á tal við hann, og fanst mér hann heldur stuttur í spunann.

"Hvað viljið þið?" sagði hann hálf-önugur, þegar við höfðum heilsað honum.

Eg sagði honum, að Björn væri að leita sér að atvinnu.

"Er hann rússneskur, eða hvað?' spurði Bill McAra.

"Hann er íslenzkur," svaraði eg.

"Það gildir einu, hvort er," sagði hann, næstum illhryssingslega.

"Hví segir þú það?"

"Af því að Íslendingurinn og Rússinn eiga sammerkt í svo mörgu."

"Komdu með dæmi,' sagði eg og fann að eg roðnaði.

"Þeir eru báðir seinvirkir og hálfgerðir sjálfbirgingar." — Og það var kaldhæðni í röddinni.

"Skárri er það nú vitnisburðurinn" sagði eg og brýndi raustina ofurlítið. "Það er víst til lítils fyrir Íslendinga, að reyna að komast hér í vinnu."

"Ekki skaltu vera svo viss um það," sagði Bill McAra og brosti kaldranalega út í annað munnvikið. "Skilur hann nokkuð í ensku?"

"Dálítið. En hann er samt nýkominn frá Íslandi."

"Hvað heitir hann?"

"Hann kallar sig *Snow*."

"En skírnarnafnið?"

"Skrifaðu hann bara *B. Snow*" sagði eg.

Bill McAra horfði fast á Björn um nokkur augnablik, tók síðan upp hjá sér litla vasabók og blýant, skrifaði eitthvað í bókina, stakk henni svo í vasa sinn og sagði:

"Herra B. Snow, taktu eina af rekunum þarna, farðu yfir til mannanna, sem eru að vinna þarna yfir frá, og hjálpaðu þeim til að moka kolunum. Þú skalt fá þrjá dollara á dag, ef þú vinnur eins og maður; annars verðurðu rekinn. Skilurðu það?"

"Já," sagði Björn og hneigði sig.

"Farðu þá strax!" sagði Bill McAra í skipandi rómi.

Björn lét ekki segja sér það tvisvar. Hann þreif upp eina rekuna, gekk vasklega yfir til verkamannanna og tók að moka kolunum af mesta kappi.

"Eg er þér sérlega þakklátur," sagði eg við Bill McAra, þegar Björn var lagður á stað með rekuna.

"Fyrir hvað?"

"Fyrir að veita honum atvinnu," sagði eg.

"Við vorum í mann-hraki; það var því ekki af neinum brjóstgæðum við hann, að eg sagði honum að fara að vinna. Hann er engin liðleskja, ef hann heldur það út til kvölds." — Bill McAra bandaði til mín hendinni, eins og hann vildi, að eg færi burt, og gekk á stað í áttina til mannanna.

"Vertu sæll!" sagði eg.

Hann tautaði eitthvað fyrir munni sér, en eg heyrði ekki hvað það var. — Og eg fór mína leið.

Um kvöldið, þegar eg var kominn heim og búinn að borða, kom Björn á ný. Og nú var töluverður asi á honum, því að hann hljóp upp tröppurnar, sem lágu upp að framdyrum hússins, og barði nokkuð snerpulega á hurðina. Eg gekk til dyra og bauð honum inn. Eg þóttist vita, að eitthvað alvarlegt hefði komið fyrir hann. — Nú var hann kominn í vaðmálsfötin íslenzku og hafði drifhvítan línkraga um hálsinn; og sáust þess engin merki á honum, að hann hefði unnið við kol um daginn.

"Hvernig gengur það, Björn," spurði eg.

"Illa, illa," svaraði hann.

"Ertu búinn að missa vinnuna?"

"Ekki er nú það enn þá."

"En þér mun þykja hún þung?"

"Læt eg það alt vera."

"Nú, hvað er það þá, sem amar að?"

"Það eru mennirnir," sagði Björn og var fastmæltur.

"Er verkstjórinn önugur?"

"Hann lætur sem hann sjái mig ekki. — Nei, það er hann ekki."

"Nú, hver er það þá?"

"Það eru tveir af mönnunum, sem vinna með mér," sagði Björn; "Þeir láta mig aldrei í friði — gjöra gys að mér, kalla mig Eskimóa og blóðstokkinn Íslending."

"Einmitt það!" sagði eg.

"Já, eg þoli það glens ekki lengur," sagði Björn með allmiklum ákafa; "og þess vegna kem eg nú aftur til þín, til þess að biðja þig að ganga með mér í vinnuna í fyrramálið og reyna að fá verkstjórann til að áminna mennina. — Þeir heita Jack og Harry, og eru víst báðir enskir.

Eg reyndi til að gjöra lítið úr þessu og sagði að þetta alt lagaðist með tímanum; og eg ráðlagði honum, að láta sem hann skildi ekki, hvað þeir væri að segja, næst þegar þeir vildu glettast við hann.

En Björn lét ekki undan og vildi ekki annað heyra, en að verkstjórinn væri beðinn að áminna mennina. Og loks hét eg honum því staðfastlega, að vera kominn til námunnar næsta morgun um það leyti, er tekið yrði þar til starfa. Virtist hann verða rólegur; sneri hann efrivarar-skeggið mjög ánægjulega um stund, kvaddi mig því næst og hélt heimleiðis. Hann hafði daginn áður komið sér fyrir í litlu gistihúsi niður við sjóinn.

Morguninn eftir fór eg snemma til námunnar; þá var Björn kominn þangað fyrir nokkru, og sömuleiðis þeir Jack og Harry. Þeir voru rúmlega tvítugir, þéttir á velli og fjörlegir, en unggæðislegir nokkuð. Eg tók strax eftir því, að þeir hentu gaman að Birni og reyndu á allar lundir að erta hann. — Nokkru síðar kom Bill McAra. Eg heilsaði honum. Hann tók þurlega kveðju minni. Eg sagði honum í fám orðum, að Björn kynni illa glensi tveggja samverkamanna sinna, og eg nefndi þá á nafn. Og bað eg Bill McAra að sjá til þess, að þeir hættu því. En hann snerist við því önugur mjög.

"Þarna eru Íslendingar lifandi komnir," sagði hann. "Þeir eru svo hörundssárir og þóttafullir, að þeir þola ekki meinlaust spaug. Og mér dettur ekki í hug, að skifta mér af öðrum eins smámunum og þessu; og því síður, að ávíta góða drengi, þó þeir segi eitthvað í gamni."

Samt gat eg fengið hann til að lofa því, að skerast í leikinn, ef hann yrði þess var, að glettni þeirra Jacks og Harry, í garð Björns, gengi of langt.

Síðan kvaddi eg og fór.

En um kvöldið, þegar klukkan var um sjö, kom Björn til mín á ný. Hann hljóp nú upp tröppurnar og barði mjög áfergjulega að dyrum. Og á því þóttist eg vita, að honum væri mikið niðri fyrir. — Nú hafði hann langa og átakanlega sögu að segja mér; og bar hann svo ört á, að honum lá við andköfum.

Og efni sögunnar var það, að þeir Jack og Harry höfðu þá um daginn (þegar verkstjórinn var ekki viðstaddur) læðst aftan að Birni og látið nokkuð af smárri kola-mylsnu aftan á hálsinn á honum, og rann mikið af því ofan í hálsmálið á skyrtunni hans og niður bakið. Þetta sagði hann að þeir hefðu gjört af fúlmensku og í háðungarskyni, og væri sér ómögulegt að líða það bótalaust. Var hann æsilega reiður, og bað mig nú að fara með sér til námunnar í fyrramálið, klaga þetta fyrir verkstjóranum og fá hann til að reka Jack og Harry burt úr vinnunni.

Eg lét tilleiðast að gjöra sem hann bað. Og næsta morgun var eg kominn til námunnar í það mund, er taka átti til starfa. Björn var þar fyrir, og eins þeir Jack og Harry. Og Bill McAra var að byrja að segja fyrir verkum. Eg gekk til hans og bað hann að veita mér áheyrn fáein augnablik.

"Hvað er nú að?" sagði hann í óstillingar-róm.

Eg sagði honum, hvernig þeir Jack og Harry hefðu leikið Björn, saklausan manninn, og mæltist til þess, að hann vandaði um við þá.

"Þessi herra Snow er allra mesti vandræðaseggur," sagði Bill McAra; en eg skal samt gjöra honum og þér til geðs, rétt í þetta sinn, að tala við drengina." — Hann vék sér snúðulega að þeim Jack og Harry og mælti: "Heyrið þið mig, drengir! Er það satt, að þið séuð stöðugt að áreita hann herra Snow?"

"Við höfum verið að erta hann ofurlítið," sagði Harry og var kímileitur.

"Þið hafið kallað hann skrælingja og blóðugan Íslending. Eða er það ekki satt?"

"Það er hverju orði sannara," sagði Harry.

"Og þið hafið, að sögn, kallað hann ýmsum öðrum miður sæmilegum nöfnum?" sagði Bill McAra.

"Já, mörgum hæðilegum nöfnum," sagði Harry og leit glottandi til Jacks.

"Og þið hafið gengið svo-langt, að ausa yfir hann kolamylsnu?"

"Það er í alla staði satt," sagði Harry.

"Og hann á eftir að fá meira hjá okkur," bætti Jack við og krosslagði handleggina á bringunni, eins og til að bjóða verkstjóranum byrgin.

"Segið mér nú, af hverju þið látið ekki þenna mann í friði, þar sem hann virðist þó ekki gjöra á hluta nokkurs manns að fyrra

bragði og vinnur verk sitt vel og trúlega."

"Hann á engan rétt á því, að vinna hér með hvítum mönnum, frekar en Jappar og Kínverjar," sagði Jack, nokkuð þóttalega.

"Er hann þá ekki hvítur maður?" spurði Bill McAra.

"Það er ekkert hvítt við hann, nema nafnið," gall Harry fram í. "Hann er sem sé Eskimói frá Íslandi. En allir vita, að Eskimóar teljast ekki með hvítum mönnum."

"Þið segið, að Íslendingar séu Eskimóar, og þess vegna ekki hvítir," sagði Bill McAra. Og eg sá, að augu hans urðu nokkuð hvöss.

"Já," sagði Jack; "og við getum ekki liðið það, að Íslendingar séu látnir vinna hér samhliða hvítum mönnum, og það fyrir sama kaup."

"Álítið þið þá, að enginn Íslendingur sé jafnoki ykkar að karlmensku og mannkostum?"—Augu Bill McAra voru stöðugt að verða harðari og hvassari.

"Við álítum það," sögðu þeir Jack og Harry einum rómi.

"Heyrið þið, drengir," sagði Bill McAra og hvesti röddina ofurlítið; "eg andmæli þessu: Eg segi, að Íslendingar séu *ekki* Eskimóar. Eg segi, að Íslendingar séu *hvítir menn.* Og eg segi, að *enginn* Íslendingur sé svo aumur, að *þið* séuð þess verðir að leysa skóþveng hans!"

Mér heyrðist löng og þung fegin-stuna koma þaðan, sem Björn stóð. En þeir Jack og Harry litu stórum augum á Bill McAra.

"Þekkir þú Íslendinga, herra McAra?" sagði Harry eftir nokkra þögn.

"Eg þekki þá," sagði Bill McAra, og augu hans tindruðu eins og fægðir demantar. "Eg þekki Íslendinga mæta vel. Hér er einn, sem þorir að reyna við ykkur báða í senn, hvar og hve nær sem er. Og hann heitir—Bill McAra."

"Ekki ert *þú* Íslendingur, herra McAra?" sögðu þeir Jack og Harry, og augun ætluðu út úr höfðinu á þeim.

"Jú, eg er Íslendingur í húð og hár," sagði Bill McAra snjöllum rómi; "og eg er svo stoltur af því, að eg þoli það með engu móti, að landar mínir séu ertir og atyrtir, að raunalausu, og taldir með villimönnum. — Þið megið vita, að *blóðið rennur* ávalt til skyldunnar."

Björn leit til mín brosandi. Hann skildi nokkurn veginn, hvað Bill McAra var að segja, og hélt að hann væri að spauga. En það var samt langt frá því, að hann væri að gjöra að gamni sínu, því að hann var reiður, þó hann stilti sig.

"En nafnið þitt er skozkt eða írskt," sagði Harry hikandi.

"Eg hefi látið kalla mig Bill McAra síðan eg kom til þessa lands; en réttu nafni heiti eg Baldur Arason." (Hann bar fram íslenzka nafnið með enskum hreim). "Og nú skuluð þið, drengir, velja um tvo kosti: Ann-

ar er sá, að biðja þenna landa minn — hann herra Snow — fyrirgefningar, og lofa því, að áreita hann aldrei framar; hinn er þessi, að leggja niður rekurnar og fara. — Eg hefi lokið máli mínu.'' — Hann gekk snúðulega burtu, eins og honum lægi í léttu rúmi, hvorn kostinn þeir tæki.

Þeir Jack og Harry litu hvor til annars, og eftir augnabliks hik gengu þeir þangað, sem Björn stóð, tóku í hönd hans og báðu hann fyrirgefningar. En auðséð var, að þeir tóku það nærri sér.

Björn var nú ánægður. Og enginn vafi er á því, að hann fyrirgaf þeim af öllu hjarta. Og eftir það heyrði eg hann aldrei kvarta um það, að menn þar við námuna væri honum óvinveittir.

En Bill McAra var hinn sami eftir sem áður: þurlegur og óþjáll og talaði aldrei íslenzkt orð svo eg heyrði. Eg spurði hann tvívegis, hvort það væri áreiðanlegt, að hann væri af íslenzku bergi brotinn. Og svarið, sem eg fékk í hvorttveggja skiftið, var þetta:

''Eg stend við það, sem eg hefi sagt því viðvíkjandi. — *Blóðið rennur ávalt til skyldunnar.*'' Hann sagði þetta með hálfgjörðum þjósti, svo eg áræddi ekki að vekja máls á því í þriðja sinn.

Hvort Björn fann nokkurn tíma hálfbróður sinn, er mér með öllu óljóst. Hann var í Nanaimo um hríð eftir að eg fór þaðan. En þegar eg kom þangað aftur fimm árum síðar (það var haustið 1913), þá var hann farinn þaðan. Og Bill McAra hafði líka farið burtu úr þeim bæ um líkt leyti.

Og lýkur svo þessari sögu.



# Canada.

Gulls og grænna skóga
geislaheimur mesti;
óðul fríð þú framberð
ferðalang og gesti.
Brýtur, rífur, byggir,
brennir, skapar, gleypir.
Heila öld í einu
augnabliki steypir.

---

Það er eitthvað svo stormkend stæling
í staðviðris-kyrrunum þínum.
Þetta eitthvað, sem ei verður numið
og aldrei er skrifað með línum.

Þessi segull, sem sál til sín dregur
og seiður, er hendurnar binda
jafnt þótt útþráin útlendings fýsi
til ættlandsins fjarða og tinda.

Þessar þrumur og eldingar þínar!
sem þursarnir Bifröst moli —
bæði heimur og himnar brenni —
nær helftinni af flestra þoli.
Þessi feiknstafa harka og funi,
sem frystir og sýður blóðið,
hefir tekið mann allan með trompi
og trúlega umskapað hljóðið.

Þessi bláhiminn bjarti og djúpi
með blikandi daga og nætur.
Þetta sólarljós sumar og vetur,
er sýgst inn í hjarta manns rætur.
Þessi gróðrarmold sterklegra stofna
og stórgerðra urta og blóma.
Þetta "vilta", sem andanum ögrar
unz orkan það lýstur í dróma.

Þetta alt: — landsins máttur og megin —
þess mót, sem öll lífskjörin steypa,
eru sérkennin, líf alt sem lýtur.
sem leir eða snjór milli greipa.
Þótt vor andi sé eilífðum borinn
og ættunum raðað til kerfa,
verður lífið þess lands sem það starfar
og landnemans einkennin hverfa.

---

Nægtahorns þú nýtur,
norðurálfan vestra.
Sértu sífelt landið
sæmdarmanna beztra.
Þér skín fögur framtíð
frjálsra drengja, svanna.
Hafrúm heimsbygð mikla
hundrað miljónanna.

*Þor. Þ. Þors.*

# Ferðasögubrot.

Eftir STGR. MATTHÍASSON.



*Hringferð.*

Sumarið 1921 fór eg, ásamt elztu drengjum mínum, Baldri og Braga, hringferð um landið, gegn um 14 sýslur, fyrst vestur á bóginn og suður til Reykjavíkur, en þaðan austur um Suðurlandsundirlendið, norður á við austanlands og vestur til Akureyrar aftur. Ferðin var aðallega gjörð til fróðleiks mér og drengjunum í landafræði.

Frá barnsaldri hefi eg þráð, að sjá sem allra mest, bæði af þessu landi, sem öðrum, og er ætíð fús til ferðalags til að kanna ókunnar slóðir, þegar tækifæri býðst. Ef til vill er eg að langfeðgatali kominn af flökkurum (nóg var af þeim í gamla daga) og liggur þá flakktilhneigingin í blóðinu. Það er svo margt í okkar eðli, sem við ráðum ekki við. Einhver innri rödd skipaði mér að fara þennan hring um landið. Nú eða aldrei. Þú ert farinn að eldast. Ef til vill bannar gigt og getuleysi síðar. Og svo á stað.

Mér finst nú eftir á, sem eg hafi farið hringinn álíka tilknúður og eins föstum lögum háður og tunglin og stjörnurnar, sem reyka sína braut. Við mennirnir rásum að vísu skrykkjóttari leið ir en himintunglin, en sérhver þræðir sína götu upp á sinn hátt eins og þau. Og með stærri augum séð er leiðin okkar allra hvers um sig líklega öldungis álíka reglubundin innan síns örlagahrings, eins og himintunglanna. Ef vel er að gáð, eru þeirra leiðir líkja hlykkjóttar, eins og okkar.

*Áfangastaðirnir* á okkar hringbraut voru þessir:

*Bakki í Öxnadal,*
*Víðimýri,*
*Steinnes,*
*Grænumýrartunga,*
*Varmilækur,*
*Stóri Botn í Hvalfirði,*
*Reykjavík,*
*Kárastaðir,*
*Skálholt,*
*Birtingaholt,*
*Fellsmúli,*
*Kirkjubær,*
*Stórólfshvoll,*
*Drangshlíð,*
*Höfðabrekka,*
*Kirkjubæjarklaustur,*
*Kálfafell,*
*Fagurhólsmýri,*
*Kálfafellsstaður,*
*Nes í Hornafirði,*
*Stafafell,*
*Búlandsnes,*
*Arnhólsstaðir,*
*Brekka,*
*Hofteigur,*
*Möðrudalur,*

*Reykjahlíð,*
*Lundarbrekka,*
*Akureyri.*

Eins og þetta yfirlit sýnir, voru margir áfangarnir stuttir. Stundum dvöldum við nokkra daga um kyrt.

Viðstöðulaust hefði ferðalagið staðið 29 daga. Svo langan tíma tekur að fara hringinn um landið með gætilegri reið. Með sömu hestum alla leið, er illgjörlegt að fara þennan hring á svo stuttum tíma, nema með því að hafa fjölda-marga hesta til skiftanna. Sandar, hraun, mýrlendi, grýttir fjallvegir og þung og köld straumvötn, slæpa jafnvel góða hesta. Sumir heltast, sumir meiðast og sumir uppgefast, nema varlega sé farið. Þess vegna tók eg þann kostinn (þó dýrari væri), að leigja mér nýja og nýja hesta hér og hvar og hafði ýmsa fylgdarmenn.

Slík hringferð sem þessi tekur að minsta kosti þrisvar sinnum lengri tíma en sjóferð með strandferðaskipum. Landferðin er að vísu meir en þrefalt dýrari, en líka eflaust þrefalt skemtilegri en sjóferð. Og margfalt skemtilegri, ef maður hefir góðan tíma og getur dvalið hér og hvar, þar sem vistlegast er, og kynst sveit og fólki betur. Allra bezt væri að fara gangandi, nema að láta reiða sig yfir vötn og verstu torfærur. En það tæki vafalaust tvo og hálfan mánuð. Væri sumrinu vel varið fyrir þá, sem ráð hefðu á að eyða því þannig.

Mér reiknaðist eftir kortinu, að öll leiðin, sem við fórum, sé samtals um 1200 kílómetrar. Að jafnaði höfum við farið að eins rúma 40 kílómetra á dag, eða nálægt þingmannaleið að góðum og gömlum íslenzkum sið.

Skal eg í þetta skifti láta mér nægja, að skýra frá nokkrum stöðum, þar sem mér þótti sérlega skemtilegt að koma. En það var í Rangárvalla- og Skaftafellssýslum.

### *Austur um Fljótshlíð.*

Eftir að eg hafði legið 4 daga í influenzu í Kirkjubæ á Rangárvöllum, mataður eins og ungi í hreiðri og við mig dekrað af mestu nærgætni húsfreyjunnar þar, konu Gríms Thorarensens, og eftir að eg þar næst hafði dvalið tvo daga mér til hressingar og heilsubótar á Stórólfshvoli hjá Guðm. lækni Guðfinnssyni, riðum við austur um Fljótshlíð. Fylgdi hann okkur áleiðis og sömuleiðis sýslumaður Rangvellinga, Björgvin Vigfússon. Gerði hann sér meðfram ferð austur á bæ einn í Hlíðinni til að ganga úr skugga um, hvort fjárkláðasaga, sem þaðan hafði borist, væri sönn eða kviksaga ein. Þótti honum styrkur mikill að hafa okkur læknana með sér. En ekki þurfti á okkar vísdóm að halda, því vafagemlingurinn var löngu skorinn og etinn og gaf ekki einu sinni hljóð frá sér niðri í görnum neinna heimilismanna, eins og Móri forðum. Enda hefði tæplega heyrst á

hljóðinu, hvort um kláða hefði verið að ræða.

Fögur er Fljótshlíð, og von að Gunnar vildi heldur láta skera sig þar enn annarstaðar úr því hann hafði svo í pottinn búið. Væri það efni í langt mál eða vísindalega ritgjörð! En eg sló í klárinn og mátti ekki lengur um slíkt þenkja.

Það eru líklega teljandi þeir blettir á landi voru, sem eins eru vel fallnir til ræktunar og Fljótshlíðin. Og eitt er víst, að hvergi tekst betur matjurtarækt enn þar. Og Vísa-Gísla sýslumanni, hepnaðist prýðilega með allar slíkar tilraunir í Hlíðarenda forðum. Grasrækt er í bezta lagi og sjást óvíða jafnfagrar engjar og tún. En galli er, að rigningasamt er þar mjög, svo að hey bjargast oft illa. Þess vegna held eg, að réttmæt sé uppástunga Steingríms Jónssonar, sýslumanns, að gjöra skyldi Fljótshlíðina alla að jarðepla- og rófnagarði alls landsins, en hætta þar við allar beljur og búskap að öðru leyti. (Yfir höfuð er alt of mikið syndgað í þá átt hér á landi, að á öllum jörðum er sama búskaparlagið að mestu leyti með sama sniði, þó skilyrðin séu feikna ólík).

Því miður sjást ekki lengur aðrar menjar um ræktunartilraunir Gísla sýslumanns, en að *kúmen* (carum carvi) hefir breiðst út um alla Hlíðina, svo að tún eru hvít af kúmengrasi — og sáldrast hefir það alla leið austur á Síðu. En því miður er kúmenið talið illgresi og skepnur forðast það. Eru litlar horfur á, að það komi að verulegum notum fyr en farið verður að framleiða brennivín í stórum stíl, því kúmenolía er ómissandi krydd saman við ákavíti, sem nú er kallað *læknabrennivín.*

Eg kom að Hlíðarenda. Þaðan er víðsýnt úr brekkunni þar sem bærinn stendur, upp að Þórsmörk og til Eyjafjallajökuls — og út yfir eyrarnar, sem Þverá og Markarfljót hafa myndað og þenja sig yfir, svo að enn halda þeim engin bönd. Gaman verður að lifa, þegar því verður komið í framkvæmd, sem löngu er fyrirhugað og talið vel framkvæmanlegt, að marka þessum elfum rétta rás eftir söndunum, og þessar villiskepnur leiddar sem sauðþæg nytjahjú til sjávar. Má þá nota áburðarmagn þeirra eftir vild til að rækta stórar sandspildur og gjöra alt, sem nú er auðn, að Gósenlandi.

Erlendur gamli á Hlíðarenda gjörðist fylgdarmaður okkar austur á Síðu. Hann var, þó sjötugur væri, hinn ötulasti ferðamaður og vatnamaður góður. Við fengum Þverá skaplega, en Affallið og Markarfljót í meðallagi. Strákarnir vöknuðu í fæturna.

Áður fyr var Markarfljót aðalvatnsfallið, sem öllum stóð stuggur af. Nú er þetta orðið öfugt. Markarfljót hefir skenkt í Þverá miklu af sínu flóði, svo hún, sem áður var tær og vel viðráðanleg, er orðin mesta vatnsfall og spýt-

ir mórauðu. Líkt og þegar tveir sitja við drykkju og annar hellir úr sínu glasi í laumi í glasið hjá hinum, til að komast hjá ofdrykkju sjálfur, eins hefir Markarfljót farið lymskulega að við Þverá og hefir hún fyrir þetta orðið að mórauðu skaðræðisfljóti, sem skemmir bæði engjar í Odda og eyðileggur margar jarðir í Landeyjum. Þetta er alt saman Markarfljóti að kenna, því eg þekki Þverá að öllu góðu frá því eg var barn. Þá svalaði hún mér við þorsta með sínu blátæra vatni, þvoði mínar leirugu barnslappir, þegar eg hafði rekið kýrnar yfir mýrina berfættur (ekki af því eg ætti ekki sokka, heldur af því mér þótti sómi að því að vera sokkalaus og gaman að líkjast félögum mínum, Gunnari í Kraga og Sala í For). Það er von eg taki hennar málstað.

Hins vegar hefi eg frá barnæsku haft andstygð á Markarfljóti. Eg heyrði þess ætíð getið sem manndrápsforaðs — er alla vildi í sig gleypa. Og að engum dáðist eg jafnmikið í þá daga og Samúel (föður Guðjóns húsameistara), sem þá var ungur smíðasveinn við að smíða kirkjuna í Odda — hann sagðist eitt sinn hafa *vaðið* yfir Markarfljót og hafði þá aðeins lélegt stafprik í hendi. En það vissi eg engan annan hafa gjört. Hann sagðist að vísu hafa komist í hann krappann, og spurði eg hann þá hvers vegna hann hefði ekki bundið á sig hellur á bak og fyrir áður en hann fór út í, til að vaða með botninum (Vinnumennirnir höfðu spýtt í mig þeirri vizku — skal eg reyndar ekki enn neita, að sannleikur sé bak við.)

Ætíð síðan hefir þetta þrekvirki Samúels staðið mér fyrir hugskotssjónum, og það er ýmist sjálfur Þór hinn rammi eða Samúel í hans stað, sem eg sé vaða knálega yfir fljótið og styðja forstreymis Gríðarvöl.

En það var annað atvik óheillavænlegt, sem gjörði mig að fjandmanni Markarfljóts. Það var 1886, þegar það svalg í sínar dökku bylgjur, vaskleika manninn Bjarna Thorarensen frá Móheiðarhvoli. Hann hafði verið mér svo góður og það mat eg mikils af því hann var jafnframt svo vænn að yfirliti, fimur og sterkur.

Mér fanst hann vera Gunnar á Hlíðarenda, en Grímur bróðir hans Skarphéðinn, og þótti mér sómi að hafa eignast vinfengi þeirra. Fyrsta viðkynningin þótti mér líka sköruleg. Það var þegar eg kom í fyrsta sinni að Móheiðarhvoli. Þá hitti eg Bjarna í bæjardyrum og var hann önnum kafinn við að hýða einn vinnumanninn á heimilinu, og þótti mér karlmannlegt að hirta svo þrekvaxinn húskarl. Grímur stóð hjá í mesta hlutleysi og þótti gaman að, en lét Bjarna einan um hirtinguna.

Við áðum í Gunnarshólma, nálægt klettinum Stóra Dímon. Þar er grösug flatneskja og enginn afmarkaður hólmi lengur, en sama

fallega sýnin til Hlíðarinnar eins og þegar "Gunnar horfði Hlíðarbrekku móti."

"Nú horfir landið og væntir manns," segir E. Ben. í kvæði sínu.

*Undir Eyjafjöllum.*

Óvíða hefir mér fundist vistlegra en í Eyjafjallasveit. Þar liggur leiðin með fram grænum hlíðum og þverhnýptum klettavegg margra klukkutíma leið. Neðan undir standa bæirnir. Ein röðin undir brekkunum, en önnur lengra frammi, því grösugar hlíðar og eggsléttar, grænar grundir og engi breiða úr sér alla leið fram að sjó. En Vestmannaeyjar liggja fyrir landi og prýða útsýnið í þá áttina.

Hér og hvar eru skörð í klettastallinn. Gegnum þau opnast fagurt útsýni til jökulsins fyrir ofan. Því grænu hlíðarnar og klettarnir mynda fótstallinn undir honum. Það er sérstaklega fögur sjón á kveldin, að horfa upp skörðin, eins og t.d. skarðið upp af Þorvaldseyri. Þá er fagurt að sjá í aftansólskininu, háa, tignarlega Eyjafjallaskallann, skauta gullroðnum faldinum. Og að sjá ljósbláar, svartflikróttar skriðjökulsmóðurnar, sem hann sendir frá sér niður eftir giljum hér og hvar (en svartflikróttar eru þær af því að þær eru sandorpnar á pörtum). Klettarnir og grænu hlíðarnar á víxl eru með margháttaðri fegurð, móleitt berg skiftist á við dekkri stuðlabergs - stalla. Grængresið teygir sig upp eftir giljum og gömlum skriðum og sumstaðar alla leið upp fyrir stallinn, en alt af annað veifið sjást lækirnir "fossa af brún" og hjálpa til að prýða með því að leggja silfursíma og flétta margþætt silfurbönd niður hlíðarnar.

*Seljalandsfoss* og *Skógafoss* eru stærstu fossarnir. Heilsar maður þeim, sem gömlum kunningjum, því þeir eru alþektir af myndum. Það má ganga á bak við báða og dáðst að regnbogalitunum í sólskininu, en betra er að vera vel týgjaður, því úðinn er mikill.

Seljalandsfoss er vatnsminni, svo að á sumrin, þegar hvast er, kemur fyrir að vindurinn þeytir honum svo í sundur, að hann hverfi út í loftið í þokuúða. En stundum lætur hann sér nægja, að blása honum til hliðar, eða þyrla honum sem snöggvast upp á við, líkt og ljósleitri silkisvuntu á stúlku, sem kemur út í bæjardyr í hvassviðri.

Skógafoss er þrekvaxnari, því hann er miklu vatnsmeiri. Tárhreinn, gagnsær, steypir hann sér hiklaust út af sléttri bergsnösinni, allur í einu lagi, reglulegur í sniðum eins og bæjarlækjarbuna, sem fellur fram af fjöl eða hellu.

Af minni fossum hafði eg gaman af að horfa á *Gljúfrabúa.* Hann dregur nafn sitt af því, að hann felur sig inni í gljúfri og verður maður að klifra upp á háan klett, sem byrgir fyrir gljúfrið, til þess að fá að sjá hann í allri sinni dýrð. "Leyfist kett-

inum að líta á kónginn?" Hvort þessi Gljúfrabúi er sami fossinn og Jónas kveður um í kvæðinu "Fífilbrekka", læt eg ósagt. En hann ætti sannarlega skilið álíka gott kvæði. Þegar komið er upp á klettinn og sólin skín, þá er svipmikil sjón að horfa inn í gljúfrið. Þar breiðir fossinn úr kembu sinni niður skáhalt berg í miklum bratta, og bergið hefir hann fágað svo og mýkt, að hann strýkst alveg fyrirhafnarlaust eftir því, mjúklega og fimlega, líkt og mund um meyjarvanga — ætlaði eg að segja, en það nær því ekki — því flýtirinn er svo mikill. Það hlýtur hver og einn að öfunda fossskömmina af þessu ferðalagi. Og svo er hann svalandi tær á svipinn, að maður óskar sig þyrstan — já, með brennivínsþorsta, og langar til að krjúpa við fætur hans til að geta teygað hann með góðri lyst (sbr. brennivínsberserkinn, sem vaknaði einn morgun með slíkum þorsta, að hann kallaði og bað um — ekki vatn — heldur — *vötn!*).

Þegar eg hafði lengi glatt augun við að stara á alla fallegu fossana, fór mig að dreyma. Og mig dreymdi langa drauma um alt það gagn, sem þeir geta komið til að vinna í framtíðinni, þegar bændurnir undir Eyjafjöllum hafa lært að beizla þá, til að láta þá létta undir með sér og kerlingum sínum við alt bústritið.

Ekki má þó hóglífið ganga svo úr hófi, að allir hætti að hreyfa sig og vinna, — karlmennirnir hætti að slá og róa, og snerti ekki við að moka skít eða pæla jörðina, heldur láti vélarnar vinna verkin. Og kvenfólkið hætti að raka og snúa, þvo og vinda lín og voðir, losni alveg við að ræsta gólf og búsáhöld, og beri ekki við að snúa saumavél eða prjóna, hvað þá að rulla þvottinn, já, hætti jafnvel að mala kaffi — heldur láti rafmagnið um þetta alt saman, og margt meira. T. d. þurfi enginn lengur að ganga upp stiga eða fara bæjarleið nema fyrirhafnarlaust í lyptivélum eða á sjálfknúðum hjólum. Hendur og fætur rýrna þá af brúkunarleysi og fá læknar (sem enn láta hendur standa fram úr ermum) atvinnu við að skera það dinglumdangl burtu eins og botnlanga nú á dögum. En eftir verða ísrtubúkar limalausir, með afarstórum sitjanda, hvílandi í sjálfhreyfihægindum á silkimjúkum dúnsvæflum. Og "sjálft barsk öl ok matur."

Þá verður áreiðanlega seinni villan verri enn sú fyrri, þegar Fenja og Menja fá einar að ráða. Má þá að lyktum fara líkt og fyrrum, þegar þær áttu að mala gullið, en leiddist þrælkunin og mólu *her* að Fróða, eða líkt og þjóðsögunni lýkur um kverninn Grótta — "Malaðu bæði malt og salt — malaðu í fjandans nafni" — og kverninn mól eins og honum var sagt og skipið sökk og sjór varð saltur.

*Við gistum í Drangshlíð.* — Eg minnist ekki þess, að hafa

komið á sveitabæ, sem er öllu betur í sveit komið en Drangshlíð. Klettabeltið lykur um breiðan, grösugan hvamm. Þar stendur bærinn. En bak við gnæfa upp úr klettunum nokkrir háir, oddmjóir, einkennilegir drangar, líkt og Hraundrangar í Öxnadal. Þeir eru svo brattir, að menskir menn fá ekki klifað þá. Fram undan bænum stendur aftur gríðarstór drangur á miðju túninu. Hefir hann í fyrndinni hrapað ofan úr klettunum, þegar goðin voru reið. Klettarnir eru hér einkar skrautlegir, því þeir eru næstum algrænir af hvannstóði upp á brún. Og þarna úir og grúir af fýlungum og fýl, sem eiga heima á ótal sillum í berginu innan um hvannstóðið. En hópar af hröfnum og kjóum eru þarna einnig á sveimi. Fuglabjörg þessu lík eru víða undir Eyjafjöllum bak við bæina, og sömuleiðis í Mýrdalnum, og eru þau sumstaðar all-langan spöl frá sjó, en fýllinn telur ekki eftir sér, að fara margar ferðir á degi hverjum til að sækja síli. Út við sjóinn eru einnig fuglabjörg, t. d. í Dyrhólaey, klettunum hjá Vík í Mýrdal, í Hjörleifshöfða og í Ingólfshöfða þegar austar kemur.

Þá má ekki gleyma öllum hellirunum, sem eru fleiri undir Eyjafjöllum, en tölum verði talið. Og sízt vantar þá í Drangshlíð. Sjórinn hefir áður á öldum gengið upp að klettunum og grafið þessa hella, með lítilli fyrirhöfn, því bergið er meirt. Hellarnir koma víða að miklu gagni. Fyrrum voru sumir notaðir fyrir mannahíbýli, en margir eru nú notaðir fyrir peningshús og heyhlöður. Er þá oftast hlaðinn veggur fyrir hellismunnann með dyrum eða bygt framan við þá til að auka rúmið. Undir túndranganum í Drangshlíð, er einn slíkur hellir hafður fyrir fjós.

Nokkru sunnar en Drangshlíð er annar góður bær, sem heitir Skarðshlíð, og er þar álíka fagurt. Mikill arður er af fuglatekju á báðum bæjunum. Þar hefði eg haft gaman af að alast upp, þegar eg var strákur, bæði til að mega klifra í klettunum og sækja mér hvönn og egg, og eltast við fuglana til að kynnast þeirra háttum. Ef eg mætti kjósa hvar eg vildi aftur vakna til lífsins hér á landi, held eg að eg kysi mér óðal undir Eyjafjöllum a. m. k. um tíma.

*Fýlar og fýlungar.* — "Gagg-gagg", segir fýllinn, um leið og hann flýgur heim í hreiðrið með mat handa unganum. Hann á aðeins einn unga. En þessi eini ungi bakar honum mikla fyrirhöfn og margar áhyggjur. Egginu verpir hann í 5. viku sumars, en fleygur verður ekki unginn fyr en í 17. viku. Allan þann tíma verða foreldrarnir að ala hann og það er ekkert smáræði, sem hann þarfnast, enda verður hann stærri en foreldrarnir og hleypur svo bókstaflega í spik, að sagt er að fyrrum hafi menn notað fýlunga *fyrir grútarlampa.* Það var hægur vandi. Þeir drógu ljósgarns-

kveik gegnum fýlungann, eins og hann var sig til, hengdu skrokkinn upp á vegg og kveiktu svo á garninu. Þetta hefir til skamms tíma tíðkast á Suður-eyjum. Eg las það í "Brehms Tierleben."

Fýllinn er til að sjá líkur skeglu að lögun og lit. En hann er langt um fimari, og er gaman að horfa á, hve hann er listfengur í fluginu. Það kemur honum líka betur að vera fljótur í ferðum — því bæði þarf hann að bjarga sjálfum sér og sínum eina sanna fýlunga. Langt fram á sjó verður hann að sækja síli og ýms sjávardýr. Það er fullyrt, að hann gleypi í sig margglyttur og svo heim í hreiðrið. Unginn opnar ginið, en hinn þeysir úr sér spýjunni eins og Egill ofan í Ármóð, en kemur henni betur ofan í kokið, því unginn tekur á móti með góðri lyst.

Nú skal enginn halda, að fýllinn fari ekki stundum fýluferð. Auðvitað gengur honum fiskiríið stundum illa, alveg eins og Árna væna. En verra er annað. Hann á marga óvini — því bæði kjóinn og skúmurinn og ýmsir fleiri óráðsíufuglar eru sífelt á sveimi í vegi fyrir honum og lifa bókstaflega af hans dugnaði. Þeir sitja um hann margir saman — fara sjaldan út á sjó sjálfir, heldur bíða rólegir á sandinum eða uppi við bjargið. Þar ráðast þeir á hann, svo hann verður nauðugurviljugur að sleppa bráðinni líkt og krían. Einu varnarráðin, sem fýllinn þekkir, eru þau, að þegar óvinirnir nálgast spýr hann á þá afar daunillum grút, sem hann geymir langt niður í koki. Kjóinn og skúmurinn kæra sig kollótta um þetta, en mannkyninu er ver við þess konar traktéringar, og fyrir þær hefir fýllinn og fýlunginn einmitt fengið nafn sitt. Það var víst í fyrndinni, þegar Adam gaf fuglunum nöfn og fann fyrstur ólyktina í Örkinni. Þeir sem síga í fýlungabjarg — (það er gjört nokkru áður en unginn verður fleygur, því þá er hann feitastur), fá venjulega þessa óþægilegu skírn, nema þeir kunni vel að vara sig, og segja ljótt af. Svo megn er spýjulyktin, að fötin lykta árlangt eða meira, og sjálfur fuglinn verður aldrei laus við hana, og heldur ekki fiðrið af honum, eins og allir verða varir við, sem sofa á þesskonar fiðurkodda í fyrsta skifti. Ef eg á að nefna nokkuð, sem ferðamenn geta fundið að gistingu undir Eyjafjöllum, þá væri það fýlungaþefurinn úr sængunum og koddunum. Sjálfur svaf eg svefni réttlátra eins og á æðardún, því í ungdæmi mínu vandist eg þesskonar svæfli og borðaði kofu.

Á veturna drepa menn fuglinn sjálfan — veiða hann í stangarháf eins og lunda. Og á vorin taka menn eggin. "Fyr má nú rota en dauðrota." Hvað er kjóinn og skúmurinn hjá þeim herjans spellvirkja manninum? Og þrátt fyrir alt fjölgar fýlnum undir Eyjafjöllum og eins í Vestmannaeyjum. Jú, mikið rétt, en það skal enginn segja mér, að drepinn fugl

og deyddur ungi og eggið soðið, geti margfaldað fýlunga-kynið. Heldur mun því vera háttað eitthvað á þessa leið: Fýlar eiga heima víðsvegar um Íshafsstrendur og eiga víða við ill kjör að búa. Það er eðlilegt, að þeir leiti þangað, sem betra er og þar sem félagsskapur er mikill, fjölbreyttara líf og skemtilegra, eins og í fuglabjörgunum undir Eyjafjöllum, í Vestmannaeyjum og víðar hér landi og á Suðureyjum. Þeir leita þangað úr fásinninu í sinni strjálbygðu sveit norður við Ullarserk á Grænlandi—Angmagsalik. o.s.frv. Þeir leita til fuglabjarganna á Íslandi, þar sem vistlegra er að vera, og þar sem fuglagargið er mest. Öldungis eins og sveitafólkið sækir í kaupstaðina.

Alt af man eg eftir björgunum sunnan við Vík í Mýrdal, hvað þau eru snotur, skreytt af hvannstóði frá rótum upp á stalla. Hver er það, sem hefir gróðursett alla þessa hvönn? Hún er sumstaðar svo þrekvaxin, há og þéttvaxin, að erfit gengur að ná til fýlungans. Eg spurði um þetta í Vík, en enginn gat svarað nema eg sjálfur. Krummi borðar hvannarfræ og meltir stundum illa. Hann kemur að stela eggjum, "það sem eftir sat" er stundum á við gullskóinn. Sjálfur fýllinn borðar ekki hvönn, segja kunnugir. Vindurinn dreifir líka fræinu um bjargið. Nóg er af dritinu, sem fræið loðir við, og ber það síðan margfaldan ávöxt.

Auk hvannarinnar er annað, sem prýðir björgin. Það er (með respekt að melda) þetta drit sjálfs fýlungans. Með því hefir hann málað bjargvegginn á stórum blettum. Allavega einkennilegar myndir sjást þar á víð og dreif í hvanngrænum römmum. Eg horfði á þær lengi, bæði í kíki og með berum augum, og eg dáðist að myndunum, því þær mintu mig á listaverkin sumra okkar ungu málara, er eg hafði séð á myndasýningunni í Reykjavík, og sumar þeirra tóku þeim jafnvel fram og voru verðlaunaverðar. Fýlunginn hefir það áreiðanlega til, að geta verið bæði "fútúristi" og "kúbisti" þegar hann vill.



# Þrjú kvœði.

Eftir JAKOBÍNU JOHNSON.



*ÞÚ LEIZT HANN — — —*

Þú leizt hann þegar lýsti
af lífs hans fyrsta degi.
—Svo mörg þú smábörn mundir
og mismun greindir eigi. —
En hjarta mitt sló hraðar
og hörmungunum gleymdi.
—Það frægðardrauma dreymdi.

Þú sást hann sitja' og hjala
við sólargeislann blíða.
—Á ungbarns orðlaust skvaldur
þú entist vart að hlýða. —
En eg fann unaðs-óma
þar inst í sálu vakna,
og ljóð úr læðing rakna.

Þú sást hann vappa' um vengi
og veita öllu gætur.
— Þú vissir veika byrjun
og vanans djúpu rætur. —
En eg sá vísi viljans
til verka stórra og nýrra,
— og fanst í heimi hlýrra.

Þú sérð mig sitja hljóða
við sjúkra-beð um nætur.
— Þú hugsar: 'hvílík þreyta',
og — 'hve sú móðir grætur'. —
En eg finn enga þreytu,
ef að eins myrkrið rofar,
og morgun lífi lofar.

Þú sérð hann flytja frá mér
í fögrum æsku-blóma.
— Og þú sérð öran ungling,

og engan frægðar-ljóma. —
En eg sé giftu og gáfur
á góðum ungling skarta.
— Og eg gef hálft mitt hjarta.

---

### Í DRAUMI. — —

Í draumi er eg fleyg og fær
um fjalla-veg og sléttu-höf.
Á ljúfra vina leita fund
— við luktar dyr hef enga töf. —
Og hugur þá við hug fær talað
og hjartans löngun margri svalað.

— Eg staðnæmist við stólinn þinn
um stund, — og sé þig rita' á blað.
Ef það er ljóð, þá léttir mér,
þá losna vængir, og af stað
þú flýgur með mér, farfugl annar,
— því flugið enginn skáldi bannar.

Við fljúgum hægt um hljóða nótt
því hugi manna vil eg sjá
og heyra hverja heita bæn,
sem hjörtum þeirra stígur frá,
eg veit þar ómælt efni ljóða
hve allra hugir þrá hið góða.

Því þegar kliður dagsins deyr,
og deyr hver falsvon glysi klædd,
þá kemur þreytan þung og sár, —
— sem þunghent vera skyni gædd
hún þrengir hug til sannra sagna
og sér eins þá, sem láni fagna,

og aðra menn við örlög hörð
og ógnir heyja daglegt stríð.
— Frá innri-vitund allra jafnt
rís einlæg þrá um betri tíð.
—En atvik smá þeim áfram hrinda
í unninn farveg vanans blinda.—

En þessi hljóð og hálfsögð bæn,
sem hreyfir vitund sérhvers manns,
mun síðar verða undra-afl, —
— og alheims-vitund kærleikans
mun hefja alt í æðra veldi,
sem eymd og blekking dauða seldi.
— — — —
Eg kveð, því sólin kemur upp,
og kasta verðum drauma-ham.
— En eftir lifir löngun heit:
hve ljúft ef mættum 'geysa fram'
og hrífa í draumi hugi þjóða
svo hreyfðist fyr hið sanna og góða.

---

## EF TJALDIÐ FELLUR — —

(Hugsað til blinds manns.)

Ef tjaldið skyldi falla og fela minni sýn
þá fegurð, sem að glatt hefir líkams augu mín
og bætt mér flestar þrautir og þrek í stríði veitt,
— eg þreyja myndi burtför mína heitt.

Ef gullið blóm á vengi eg gæti ei lengur séð,
né grænan möttul vorsins um blómgað aldin-tréð,
og rauð-brystinginn fagnandi fljúga hreiðurs til,
— mér fyndist lífið svipað dimmum hyl.

Ef saklaust bros í barns-augum sæi eg ei meir
— hið sanna traust á kærleikans mætti, sem ei deyr,
og lífs-gleðina ungu, sem engan skugga sér, —
— til engla þinna, drottinn, lyft þú mér!

Ó, röðull, ef þú hyrfir — ó, hvílíkt vonlaust húm
— og hvergi blik né stjarna, en líf mitt grafar-rúm
— og enginn morgun-roði — og ekkert sólarlag —
Ó, hvílíkt ógnum-þrungið reiðarslag!
— — — — —
Eg veit að máttur andans er meiri hverri þraut
og mannraunum, á æfinnar grýttu og hálu braut, —
— og ef að tjaldið fellur, minn anda drottinn styrk,
svo að eins jarðnesk fegurð verði myrk.

# Um nýyrðing.

Eftir *Pál Bjarnarson.*



Það er hægt að kynnast nýyrðingunni í íslenzku fullvel af Orðabók þeirra Sigf. Blöndals hinni íslenzk-dönsku, þótt ekki sé nema fyrri hluti bókarinnar kominn út. Því hann tínir mjög mikið af nýyrðum. Ofurlítill baugur eða gat er sett framan við þau nýyrði, sem sjaldgæf eru eða öllu heldur ekki þykja hafa náð inngöngu í málið, og eru fjöldamörg auðkend svo; en hin verða menn að kannast við af eigin rammleik. Komast má að, hvaða aðferðir eru hafðar til að nýyrða, með því að fara yfir nýyrðin og taka eftir myndun þeirra, og finna að þrjár aðferðir eru helzt tíðkaðar til þess, sem sé 1. að skeyta saman gömul orð við orðstofna, 2. að skeyta orðstofna hljóðverpta eða óhljóðverpta endingu, er þeir hafa ekki haft fyr og 3. með því að auka gömlu orði merkingu.

Allmörg fyrirtaksgóð orð hafa tungunni fénast með þessu móti, svo sem eintak (exemplar), fruma (celle), frymi (protoplasma), sími (telegraph) o. fl.; en annars er því miður varla hægt að segja annað um allan þorra nýyrðanna, en að þau séu ofboð tilkomulítil og lítt hafandi. Gallinn á þeim er yfirleitt sá, að þau ummerkja ekki eins vel og skyldi hlutinn, sem þeim er ætlað að tákna, svo að jafnnærri liggur eða nær að halda, að þau eigi við eitthvað annað en það, sem þeim er ætlað að merkja. Samskeytingarnir leiða menn í gönur og í sumum þeirra er ekki botnandi, t.a.m. "alyrða". Hvernig á manni að detta í hug, að það eigi að merkja "generalisere"? "Fræðasyrpa" (conversations lexicon, encyclopædia) getur verið nærri því hvaða skræða sem er; skárra er hlutnafnabók. "Gagnrýna", "grannsjá" er eins og hinir hálærðu höfundar orðanna séu grómlausir þess, að verknaðurinn er hafður um hönd oftar en sjaldnar sjónlaust og til einskis gagns eða fullnustu. "Grannsjá" er gagnstætt "fjarsjá" (teleskopere) að myndinni til, og líklegt þá að merkja "mikroskop(ere)", þótt forskeytin gran—eða grand—væru þá betri, því þau ná forskeytinu "mikro" — en grann —ekki. "Grannsjá" er mesta afmán, þegar það er grandskoðað. "Frumvísir" (embryo) er heldur ekki gott að vita hvert vísar og hið sama "hringald" (amfitheater). "Hringleikald" ummerkti hlutinn til fulls "leikald" þar sem leikur er haldinn. Flestöll nýyrði eru á þessa leið, loðin og þokukend, og er óþarfi að rekja frekari dæmi um jafnalgeng lýti.

Það er óvíst hve mörg góð orð

tungunni hlotnast úr hverju hundraði nýyrða; en þau eru í miklum minni hluta, svo mikið er víst; því miklu meira ber á nýyrða óhroðanum, sem slæðist inn í málið, en hinum góðu orðunum. Margir kliða því og á því, að eins gott væri að leggja af nýyrðinguna og hafa evrópsk orð að dæmi annara þjóða, því íslenzku séu engin lýti að þeim, fremur en öðrum tungum; og það er raunar dagsatt. Þau gera ekkert til, þó þeim bregði fyrir í tungunni, ef menn gæta þess, að búa mál sitt eftir íslenzkri hugsun að öðru leyti. Þó er því ekki neitandi, að betra er hitt eða ákjósanlegra, að hafa snjöll og fögur orð runnin af íslenzkum rótum í staðinn fyrir útlend orð, ef kostur er þeirra; og ekkert ætti að geta verið því til fyrirstöðu í rauninni, því tungan er fim til orðmyndanar, svo að ekki nema grískan ein kemst til jafns við hana, eins og kunnugt er.

Helzt ber augum í það hjá nýyrðingunni, er maður kynnist henni, að samskeytingar eru nær einvörðungu hafðir til að nýyrða. Útlend orð eru einstöku sinnum dubbuð upp í íslenzkan búning, svo sem berklar (tuberkler og bíll (automobil) hvorttveggja ágætisorð; en aldrei er nýyrt með hljóðskifti. Þó er hljóðskiftisorðmyndan snjallasti og fegursti orðmyndanarháttur Íslenzku, og furða, að hann skuli ekki iðkaður af þeim, sem nýyrða. Það er svo rart um það, að eina hljóðskiftisnýyrðið, sem eg þekki til, er komið inn í Íslenzkuna úr útlendum tungum. Það er orðið gas. Í Orðakveri Finns Jónssonar er það sagt "upphaflega búið til úr gr(ísku)", en það er ekki rétt. Orðið er hljóðskiftisorð, runnið af þýzku sögninni 'giessen, gass, gegossen" samstofna ísl. sögninni gjósa (gisa). Hljóðskiftið er í Íslenzku gas, gaus, gus, gos, sbr. gassi (innskots-s), gassalegr; í ensku: ghastly, ghost o. s. frv. Nafnið gas var fyrst gefið lofttegundum lífrænna efna, af því að þær geisa úr þeim, þegar þau eru eld.

Hljóðskiftisorðmyndan er, vitaskuld, ekki höfð til nýyrða, vegna þess að hún er miklu vandameiri en skeyta saman gömul orð og orðstofna; en þeir, sem nýyrða, mega ekki setja þann vanda fyrir sig. Eigi nýyrðingunni að lánast að leggja íslenzk orð við evrópskum orðum, eftir því sem þörf gerist, þá verður að taka hljóðskiftið til hjálpar, því það er frumlegasti og snjallasti orðmyndanarháttur tungunnar. Samskeytingar hrökkva ekki til og reynast ekki smellnir nema í viðlögum, eftir atvikum. Reynsla er fengin um það. Þeir, sem nýyrða, verða því að færast í aukana, taka upp hljóðskiftisstofna, þótt ekki séu hafðir í málinu, með hagsýni og smekkvísi, svo samboðið sé tungunni, og nýyrða af þeim. Því bregður fyrir í nýyrðingu, að útlend áherzluatkvæði eru höfð til nýyrða, og ekki þarf neitt meira áræði til að taka upp hljóðskiftastofn, sem ætti að vera til í mál-

inu, þótt ekki sé hafður, og nýyrða af honum. Það er ekkert hafandi á móti því, að nýyrða af útlendu atkvæði, ef það tekst vel; en hitt er þó betra. Því nýyrðið er þá runnið af íslenzkri rót og hefir fólgið í sér dálitla vísbendingu um merkinguna. En vitaskuld er vandasamara að nýyrða af hljóðskiftisstofni, því oftast mun vera um fleiri en einn stofn að velja, jafnauðug og lipur og tungan er, og kvöl á sá, sem völ á. Af stofninum frum t.a.m. er þegar nýyrt fruma og frymi, sem bolar líklega út nýyrðunum "frumgervi" og "frumkvoða", og samskeytingar vitaskuld, frumefni, "frumeind", sem virðist raunar lakara en ódeili, "frumbú" (býflugna) o. fl. Ef orðs þyrfti nú við í þá átt, sem stofn þessi vísar, þá er vænlegra til góðs nýyrðis að líta svo á, sem vel má vera, að frum sé hljóðskiftisstofn í hljóðskiftinu a-au-u-o og nýyrða af nýjum hljóðskiftistofni, heldur en auka við "frum"skeytinga. Ekki þarf að kvíða því, að alþýða skildi ekki, hvert orðið vísaði fyrir því. Hún er vön hljóðskiftinu og á það í vitum sínum frá blautu barnsbeini að tamur og taumur, taug og tog séu af sama bergi brotin.

Tungan býður fram urmul af hljóðskiftisstofnum til nýyrðingar af öllum tegundum hljóðskifta. Sagnir nýyrtar ætti æfinlega að hafa sterkbeygar, þegar hægt er að koma því við, og hafa hljóðskiftið til frekari nýyrða. Það er óhagsýni að hafa sögnina síma veikbeyga í staðinn fyrir að gefa henni sterka beygingu og nota hljóðskiftið. "Bifreið", sem þokar líklega fyrir bíll með tímanum, er myndað eftir fyrirmyndinni bifröst, er merkir runa, röð eða brú, sem á kemur í einni svipan. Því bif hefir skjótleik fólginn í sér, en röst er eins og röð og runa komin af sögninni að renna. Orðin bif (kvik), sögnin bifa, bifr (það að hrærast af e-u), titringur, hrollur, sbr. e-m er b. á e-u, hafa góðan, illan b. á e-u, e-m stendur illr b. af e-m; e-ð býðr e-m illan b), býfa (ganglimur, fótur), bófi,vísa öll á sterka sögn, sem verið hafi fyrrum bæði með í-ei-i hljóðskifti og líka ó(ú)-au-o, því sagnflokkar þessir eiga samstæður eins og allir vita, með skyldum merkingum, svo sem rjóða, ríða, sjóða, síða, gjósa, gísa o. fl.; og hefir líklega merkt að tifa eða láta tifa ótt, samstofna latn. sögninni *fugare* til að geta. Miklu snjallara hefði verið að taka upp aftur hinar frumlegu sagnir og nýyrða af hljóðskifti þeirra, heldur en hafa samskeytinginn bifreið. Það liggur og beint við, að hafa skyldleikann, sem drepið var á, milli sagnflokkanna til að nýyrða af t.a.m, á krjúfa ekki samstæða sögn í í-ei-i flokknum, og mætti vel taka hana upp og láta merkja "kritisere" og mynda "kritik" og "kritisk" o. s. frv. af hljóðskiftinu á vanalegan hátt. Því "kritisere" er það að greina samsetning einhvern eða greiða sundur til að sýna hversu hann sé samkvæmur listar hugtökum eða öðrum, og er oft

lagt út með kryfja eða krjúfa til mergjar í óeiginlegri merkingu, og bendir það beint til að taka upp samstæðu sögnina.

Það er kostur við hljóðskiftisorðmyndan að hún fer ekki með neinn í gönur. Það er enginn þokulæðingur utan um nýyrðið. Orðið er hreinlega nýtt, svo að merkinguna verður að fá að vita; en að henni fenginni, er hægt að ráða af orðinu, hví heiti svo. Orðið freistar einkis manns til að geta sér til merkingarinnar, eins og samskeytingar æfinlega gera, því þeir eru eftir eðli sínu meira til ummerkingar í tungunni heldur en til nýyrða. Svo er til dæmis um nýyrðið gas. Enginn skilur það nema honum sé sagt það, en hver íslenzkur alþýðumaður, sem vanist hefir á að bera hlust við móðurmáli sínu, skilur þá þegar í stað til hverrar einkunnar hlutarins orðið vísi, og sama er um öll hljóðskiftisorð, jafnt hvort þau eru forn eða ný.

Einn er kostur ótalinn enn, sem horfir til nýyrðingar. Hann er sá, að taka upp aftur sterkar sagnir, sem farið hafa undir lok í málinu eða eru ekki hafðar nú. Það er alveg eins snjalt að taka þær upp aftur, í líkum merkingum og stofnar þeirra vísa til, eins og að nýyrða vel. Þær eru til í öllum hljóðskiftisflokkunum, eins og kunnugt er. Margar sterkar sagnir eru ra-beygar og hafa þá tvennan afruna, því sagnbeygingin ræður honum; og er takandi eftir því þeim, sem nýyrða, því ra-beygingin er myndfrjó bæði sakir líkingar r-sins og svo að r og ð skiftast á, stundum svo að tvö orð verða úr sömu mynd í rauninni; til dæmis að taka sögnina gjósa. Hún er bæði sterkbeyg og rabeyg: gjósa, göra, görinn. Af sterkri beygingu eru: gassi, gjóstr, gjós-æð s.s., blóðtökuæð, guss, gyss, gustr, gusa og gos, sem allir kannast við, og af ra-beygingu: geð; ger eða gör; göróttr eða geróttr, og svo sögnina gera, eig. vekja e-u, gang. ger eða líf, svo alm. að starfa; ker, karl (eig. bruggari), kerla, af sama stofni; gómstafirnir víxlast oft í stofnupphafi, sbr. ensk. girl. Slíkt stafvíxl gæti og komið að liði í nýyrðingu. Enn fremur er af rabeygingunni: goð (það sem vekur ger eða gefur önd), guð. Gutti (stytt úr Guttormr, Goðþormr), gjóðr (fálka heiti, af því hversu hann geysist að bráð sinni, líklega); gaurr (geðillur maður), gorr (meltingarlögur og moltin fæða, sbr. gorvömb); geirr (lagvopn eig. það sem geisar eða geyst er fram, sbr. gorgeir), þar af geiri af lögun vopnsins, sbr. setgeiri, túngeiri. Loks er orðið gýll, ranglega ritað gíll í Orðakv. F. J. og í bág við venju, tillíkt líklega úr gýrill eða gýrl, gýll og merkir eig. gjósandi eða gjós, geislagjós í skýjum, sbr. sjaldan en gýll fyrir góðu nema úlfur á eftir renni. Úlfur heitir geisla gjósin eða kjósin eðakvosin austur af sól, vitaskuld. Í dönsku er orðið gjælle (tálkn), heitir svo af því það geysir vatn eða sjó út undan tálknlokum fisksins.

Oftast nær munu nýyrðin vera rétt mynduð eða rétt samskeytt. Þó er t.a.m. "frumkvæði" (initiativ) rangt, því kvæði er þolmyndar og ekki eigindar merkingar; það ætti að vera frumkveðli af frumkvöðull, kvenkyns, eða frumkvelli með tillíkingu. Hitt er víst tíðara, að annar partur orðsins sé útlendur, en hinn ramíslenzkur, t.d. "belgflauta" (sækkepibe), "axlablað" (Akselblad) og "axlabrum" (Akselknob), er enn verra, því þau geta bæði hæglega misskilist, ætti að vera kverkblað og kverkbrum. Þau hafa víst fyrir ógát sloppið undan litla baugnum orðbókarinnar þeirra Sigf. Blöndals.

Það er enginn efi á því, að skjótt mun skifta um, taki nýyrðingin hljóðskiftið sér til fulltingis, og þrautin reynast létt, að segja hvað er vill íslenzkum orðum í orða stað evrópskra. En hitt, að það segist vel, er, vitaskuld, undir því komið, að beitt sé list tungunnar og lögum hennar til þess. Hljóðskiftisorðmyndan heimtar miklu meiri þekkingu á máli og smekkvísi, heldur en samskeytingur. Henni fylgir og miklu meiri ábyrgð, því tungan getur beðið stórtjón af því að hafa hljóðskiftisorðmyndan hvatvíslega um hönd. Það er ekki hægt að bjóða of strangan varnað á því. Það tjáir ekki að ausa niður hljóðskiftisnýyrðum eins og ausið hefir verið niður samskeytingsnýyrðum. Ráðlegast er að láta vísindamönnum vandann að nýyrða og þeim, sem fara með málið af snild. Nýyrðið "almin" (alluminum) kann t.a.m. guðfræðingum þykja smellið, en efnafræðingarnir telja það óhæft, og svo er um hverja grein vísinda, að iðkandi hennar er vænlegastur til að nýyrða hugtök hennar. Háskólaráðið íslenzka ætti svo að taka sér eftirlit um nýyrðinguna, athuga hana við og við á fundum sínum og birta ómerking á nýyrðum, sem því þættu óhæf. Það mundi þeim nóg til aldurtila. Það mætti og verða til þess, að ráðið ræði líkum tökum á varðveizlu tungunnar og Vísindafélagið franska hefir á Frönsku, og væri það ákjósanlegt. Því Háskólaráðið er líklegt til að reynast ótrauður forgarður nýgirninni þeirri að byggja stafsetning málsins og þar með viðhald þess á hverfandi hveli framburðarins, sem því miður á sér málsmetandi formælendur.

Ef gengið er að hljóðskiftisnýyrðingu, eins og nú var talið, þá er málinu engin hætta búin af henni, heldur er hún vænleg til þess að leysa verkefni sitt af hendi, svo vel megi við hlíta.

# Eitt er nauðsynlegt.

Eftir *Þ. Þ. Þ.*



Það er sumar og sunnudagsmorgun.

Túnasláttur víðast hvar hálfnaður.

Búverkareykurinn stendur beint upp í loftið úr hverjum strompi í dalnum. Hann veit á gott.

Sólin er byrjuð að þerra döggfallið. Seinna kemur hafgolan og hjálpar henni til. Þá þornar taðan í brakandi þurkinum, svo það er næstum freistandi að snúa henni, þótt helgidagur sé. En reykurinn, loftþyngdar-mælirinn og gigtarskrokkarnir, sem nú kenna sér einskis meins, spá allir framhaldandi heiðum himni og sól. Svo taðan fær að eiga sig í dag.

Jarðirnar Háls og Holt liggja andspænis hvor annari í dalnum. Holt að austan, Háls að vestanverðu.

Sí-raulandi dalsáin sker þær í sundur, en nýja brúin yfir hana sameinar þær að nokkru leyti.

Báðar eru farsælar bújarðir, en sitt á hvorn máta.

Túnið á Hálsi er tíu kúa tún, og næstum alt sléttar, grösugar öldumyndaðar hæðir og grunnar lautir, sem nýlega fengin sláttuvél gerir hin beztu skil, sumar eftir sumar. Eins er engið að mestu sléttlendi: flæðiengi og grundir. Vélin, með einum manni — honum Snorra — og tveimur hestum, slær átta karla dagsverk á einum degi. En útibeit á Hálsi er engin, þegar vetrarríki er, og því löng innigjöfin suma veturna.

Þvert á móti þessu er það í Holti, þar sem aldrei bregst snöp í verstu vetrum, og hið bezta beitiland bæði fyrir hesta og sauðfé, og óþrjótandi, þó skepnur væru margfalt fleiri. En túnið og engið þar er seinunnið: mestmegnis kargaþýfi og finnungsmóar. Raunar hefir hin gamla sléttuaðferð verið stunduð þar við túnið til margra ára: að rista grassvörðinn ofan af þúfum og skorningum í smá ferhyrningum, og stinga sundur og mylja þúfurnar, eða plægja þær niður og herfa í ávöl beð og þekja svo yfir með grassverðinum og bera áburð undir og ofan á. En þetta er sein aðferð og lýjandi, og því sjaldnast stórir flákar, sem bætast við á hverju ári.

Nú hefir ungi, ókvænti óðalsbóndinn í Holti, Skúli að nafni, sem hefir peningana fyrir sinn guð, þykir sómi að jörðinni og hefir hugann fastan við búskapinn, nýbyrjað á því að plægja og herfa niður í sléttlendi vissa skika af túninu, holt og bolt, án þess að hirða um þökurnar, og gefst það vel, en vinst þó ekki nógu fljótt,

að honum finst, fyrir sláttuvélina, sem hann hefir keypt þá um vorið. Hlutverk hennar er búið strax og það er byrjað, en eftir standa eintómar, eilífar þúfur á velli og engi.

Skúli er einbirni látinna foreldra.

Hann er snemma á fótum þennan morgun.

Hey-ilminn ber að vitum hans, þegar hann kemur út á hlaðið. Og nú sem endrarnær blasir við honum reisulegi bærinn á Hálsi og landareignin öll, þar sem hann staðnæmist á hlaðvarpanum hjá sér.

Túnið þar er alt slegið, því sláttuvélin, undir handleiðslu Snorra, hefir hamast þar um sléttlendið.

Skúli lítur yfir þúfurnar hjá sér og andvarpar.

—Gott á hún Gyða á Hálsi! Mikið framúrskarandi stórbú mætti hafa á báðum jörðunum. Túnið og engið svona eggslétt og auðunnið á Hálsi og útibeitin óþrjótandi í Holti.

Skúli hugsaði þessar hugsanir, morgun, kveld og miðjan dag. Þótt hann hefði viljað rýma þeim úr huga sér, þá hefði það líklega orðið honum ofurefli. En hann reyndi það heldur ekki. Þær hafa þroskast með honum áafvitandi frá því hann var unglingur. En fullum vexti náðu þær fyrst, þegar Dalbúar tengdu jarðirnar saman með brúnni, sem, þótt sveitareign væri og allra gersemi, var sérstaklega handhæg búendum þessara jarða og næstum lagði túnin saman.

Gyða á Hálsi er ekkja á sextugsaldri.

Hún er skörungur mikill.

Jörðin er erfð frá foreldrum hennar. Þar er hún fædd. Maður hennar hafði sezt ríkur í bú hennar. Þau áttu engin börn, en ólu upp dreng þann, sem Snorri hét, og nú sá um búið með henni

Þegar maðurinn dó, eignaðist hún ein allar eigurnar. Mæltu það flestir, að hún ætti fleiri tugi þúsundum af krónum í peningum, auk ágætarar búslóðar og hagfeldustu jarðar.

Gott á hún Gyða!

Alt Holt væri hægt að slétta með peningum hennar.

Hvílíkar jarðabætur!

Bóndinn á báðum jörðunum yrði stærsti og mesti búhöldurinn í allri sýslunni.

Skúli horfir hugfanginn, sem í leiðslu, yfir að Hálsi. Gyða er komin á fætur. Hann þekkir að það er hún, sem gengur út úr bænum og fer inn í skemmuna.

Hví hefir hann aldrei reynt það?

Nú — og því þá ekki að reyna það?

Nógu er hún myndarleg, þó hún sé orðin vel fullorðin, eins og Sunnlendingurinn segir.

En það er ekki spursmáilð — og þó. — Nei. Hún er þúsund sinnum nógu góð handa honum, en er hann einu sinni nógu góður handa henni?

Hann sér sig í skuggsjá hugar síns, háan og herðabreiðan. Ljós-

an á hár og hörund, með blágrá augu og heilsuroða í kinnum.

En það er jafnvel ekki aðalspursmálið.

Hann veit upp á sínar tíu fingur, að hann er myndarlegur maður. Að hann gengur í augu kvenfólksins, og að hann er álitinn, og er líka, einn bezti búforkur allra ungra manna í sveitinni.

En hefir þetta nokkurt gildi í augum Gyðu?

Hvað getur hann gefið henni, sem hún hefir ekki? — — Æsku og manndóm? — og — og — ást! Ást!

Hvað er annars ást—?

Inga fóstursystir hans og ráðskona, á reki við hann, kemur út úr bæjardyrunum. Hún er annáluð í dalnum fyrir að hafa flesta þá kosti til að bera, sem eina konu má prýða. Andlit og vaxtarlag var í fegursta samræmi. Litblær hörundsins gaf til kynna góða heilsu og styrkleika, án þess þó að vera grófgerður. Augun voru dökk og stór. Hárið þykt, ljósjarpt, með gullnri slikju, og svo langt að hún gat setið á því, hvort sem það var laust eða í fléttum.

Inga gengur fram á hlaðið og aftan að Skúla. Hún grípur upp puntstrá og lætur puntinn kitla hálsinn á honum.

Hann lítur snögt við og horfir í augu hennar. Og eins og eldingu lýstur þeirri hugsun niður í sál hans:

—Úr þessum augum hefði eg átt að lesa svarið við spurningu minni.

Hann mintist þess nú, að hann hafði séð áður meiri dýpt og viðkvæmari innileika skína til sín frá þessum augum, en nú. Þá hafði hann haft um annað að hugsa og enn þá hefði hann um annað að hugsa en augu fátækrar fóstursystur sinnar.

Hann snýr sér aftur við, horfir yfir að Hálsi og segir:

—Þú ert orðin of stór, Inga, til að vera að hrekkja mann.

Það var hvorki gleði né gremja í rómnum.

Hún svarar:

—Eg var ekki að hrekkja þig. Eg var að reyna að vekja þig. — Kaffið bíður eftir þér, Skúli.

Hann segir:

—Eg kem bráðum.

Hún svarar:

—Kondu áður en það verður kalt. Eg er búin að hella í bollana. Og þú ert nógu lengi búinn að standa hérna á varpanum eins og merkisstaur, og stara yfir að Hálsi.

Hann segir:

—Eg vildi eg ætti þá jörð.

Hún svarar:

—"Hvað gagnar það manninum, þótt hann eignist allan heiminn, ef—"

Hann grípur fram í:

—Vertu ekki að þessari vitleysu.

—Vitleysu! Veiztu hvað eg sá í augunum á þér, þegar þú leizt við áðan?

Hann segir:

—Nei.

—Eg sá alla Háls landareignina speglast í þeim. Hálshnjúkinn, hálsinn, hlíðina, túnið, engið,

hagann, fjárhúsin, bæinn. Og Gyða stóð í dyrunum, en sjálfur stóðstu bundinn á hlaðinu við stjakann — eins og hestur.

Skúla verður orðfall.

Tvær mjaltakonur ganga út í fjósið með mjólkurfötur í höndum, og renna um leið góðviðrislegum forvitnisaugum fram á varpann.

Snati gamli dillar skottinu frammi fyrir Ingu. Hún er ekki búin að gefa honum morgunmatinn sinn.

En uppi á stofumænir læðist kisa í vígahug. Hún hefir rétt í þessu mist tvo morgunverði. Fyrst steindepil, þegar Inga gekk út. Svo máríötlu, sem mjaltakonurnar stygðu. Nú er hún að komast í stökkfæri við ofurlítinn grátitlingsunga.

Inga gengur inn í bæinn. Þá Snati. Skúli síðastur. En um leið flýgur grátitlingsunginn burtu, og kisa stekkur í bræði sinni niður úr bæjarsundinu og lemur sig utan með skottinu. Svo lúpast hún inn í bæinn á eftir þeim, þótt nýmjólkin sé enn ekki komin úr fjósinu.

Sökum þess hve veðrið er gott, fara margir til kirkju um daginn frá bæjunum í dalnum. Skúli býður Ingu gæðing til reiðar, ef hún vill fara, en hún kærir sig ekki um það, og sjálfum sér ætlar hann annað starf, en hlusta á messu.

Hann veit, að Gyða er heima, því hann sér reiðhest hennar uppi í hlíðinni.

Því ekki að tala við hana?

Ja, því ekki að reyna það?

Til þess að geta orðið eigandi að Hálsi, varð hann fyrst að eignast Gyðu, um það var engum blöðum að fletta.

En hann kveið fyrir að biðja hennar, eins ag skólapiltur fyrir vorprófi. En til þess að ná takmarkinu fram undan, og verða sá maður með mönnum, sem æskuna dreymdi um, varð að ganga undir prófið. En fyrir gat það komið, að maður stæðist ekki prófið. Og það var einmitt sú tegund kvíða sem þrengdi sér inn í sál hans.

Ef hún nú neitaði honum — skyldi það þá fréttast?

Hvað er það, sem ekki fréttist í fámenninu í dölunum?

Eins og hann viti ekki ósköp vel, að þar verður oft lítið efni að langri sögu.—Jafnvel ekkert efni, að heilum heimi, eins og sköpunarsagan segir frá.

Þótt Hálsauðurinn hafi gagntekið hann allan, og stöðug umhugsun að eignast hann, sé búin að sýra sál hans, metur hann enn þá mannorð sitt mikið. Hann vill ekki einungis að aðrir hafi gott álit á sér og tali vel um sig og með virðingu, heldur vill hann standa hreinn og beinn og sem lýtaminstur í eigin augum .

Hann hefir, þótt ungur sé, séð ástina bláfátæku lepja dauðann úr krákuskel, eins og gömlu mennirnir kölluðu það.

Hann hefir vitað hreppsnefnd-

ina fleygja ástinni og afleiðingum hennar eins og gólfdruslu út í veður og vind, þegar kýrin drapst úr doða eða maðurinn misti heilsuna. Séð helztu menn sveitarinnar aðskilja mann og konu, sem sögðust elskast og þráðu og vildu búa saman, en hola afkvæmum þeirra niður hingað og þangað af ísköldu handahófi, að eins sökum þess, að börnin urðu svo mörg, að kraftar foreldranna megnuðu eigi lengur að standa straum af þeim.

Honum finst skynsamlegu hjónaböndin, svo nefndu, oftast nær fara vel. Öryggið og vissan, sem góður efnahagur skapar, virðist vega upp á móti ástasælunni, og stundum langt fram yfir það, þegar fram í sækir.

En vonin og kvíðinn um Gyðu og alt það, sem henni fylgdi, vegur salt í sál hans á ási óvissunnar, og flæmir burt ró hans og frið.

Hann finnur, að hann verður að láta til skarar skríða. Hann verður að ganga hreint til verks og sigra eða falla — með sæmd. En árennilegt er það ekki.

Hann klæðir sig í dimmbláu sparifötin sín. Setur hvítan kraga um háls sér og svertir skóna, þótt þess þyrfti ekki með, því Inga hélt þeim alt af í bezta lagi. Svo setur hann svartan hatt á höfuðið, úr ágætum flóka, með gríðarstórum, flötum börðum.

Þótt leiðin sé stutt, kýs hann heldur að fara ríðandi. Þegar hann kemur út á hlaðið, hefir vikadrengurinn lagt á Jarp hans. Hann grípur nýsilfurbúna svipu, stígur á bak og ríður í hægðum sínum niður tröðina.

Hann sér ekki betur, en Snorri, fóstursonur Gyðu, standi úti á hlaðinu og horfi á sig.

Það er óheillamerki.

Snorri er sá versti maður, sem hann getur mætt í þessari för. En um það hefir hann ekki hugsað áður.

Þeir eru jafngamlir. Fermingarbræður, búnaðarskólabræður, en engir félagsbræður. Þeim hefir æfinlega komið illa saman.

Snorri var skarpari við bóklegt nám, og náði hærri einkunnum og stóð ofar fermingardaginn, og á skólanum stóð hann Skúla stöðugt hærra. Eins hafði það orðið við burtfararprófið. Þá urðu samt verklegu námsgreinarnar hjá Skúla, sem var dugnaðarforkur, svo þungar á metunum, að þær nærri jöfnuðu hlutföllin milli bóklega lærdómsins. Svo Skúli varð loksins hér um bil jafn Snorra í burtfararlistanum.

Snorri sagði þá, að Skúli ætti skítnum alt sitt lán að þakka, og og var hinn hæðilegasti í orðum. Enda var hann ertinn og orðhvatur þegar því var að skifta, og hafði Skúli fengið margt óþvegið orð frá honum, án þess borgun kæmi fyrir í sömu mynt, því Skúli var heldur orðfár og stirðmæltur, og virtist hugsa margt betur en hann fékk með orðum lýst. En ef í bröndótta var slegið, var Snorri sem fis í höndum hans í glímunni, því hann var lítill og léttur, en svo var hann liðugur, að erfitt var að koma honum af fótunum.

Eiginlega hefir Snorra stöðugt veitt betur í öllum þeirra viðskiftum. Skúla er því heldur þungt í skapi til hans. Verst af öllu er þó, ef hann eignast aðra eins ágætis jörð og Háls og allan auðinn með. En hvað er líklegra, ef Gyða skyldi nú ekki taka honum og deyja barnlaus og mannlaus!

En eitt er þó verst af öllu.

Hann er alls ekki laus við þann grun, að Snorri líti hýru auga til fóstursystur sinnar og ungu bústýru. Hann veit, að Snorri er sá maður, sem stendur á sama hvort kærastan á eina krónu eða tugi þúsunda, ef honum að eins líkar stúlkan. Snorri hefir svo oft sagt það í sinn hóp, og þá um leið storkað Skúla, og sagt, að ef einhver byggi til beinakerlingu úr gulli, þá skyldi hann ábyrgjast að Skúli bæði hennar.

Það er ekki svo leiðis, að hann elski Ingu, en hann má ekki missa hana frá búinu. Kaupið eiginlega ekki neitt, en bústjórn hennar öll hin bezta.

Nú. — Og eiginlega finst honum að hann geti ekki vitað af henni í faðmlögum Snorra — helzt ekki í faðmi nokkurs manns. En auðvitað hlýtur þetta að vera makalaus heilaspuni hégómlegustu eigingirni. Líklega er honum hlýtt til hennar eins og bróður til systur.

En nú er hann kominn heim á hlaðið.

Hann kastar kunnuglegri kveðju á Snorra, og bindur hest sinn við hringinn í stjakasteininum.

—Þú munt ætla langt að fara, svona vel ríðandi og uppdubbaður, mælti Snorri, með gletnisspurningu í augum og háðbros á vörum.

Skúli verður hvimsa við þessar kveðjur og seinn til svars. Honum vefst tunga um tönn að gera strax orð eftir húsfreyju. Í stað þess fer hann í mesta ákafa að ræða um veðrið og heyskapinn og búskaparhorfurnar, en lætur ei uppi erindi sitt og gerir ekki boð fyrir neinn.

Snorri er hinn ræðnasti. En þegar honum þykir úttalað um almenn tíðindi, segir hann kankvís:

—Þú hefir annars ekki ætlað lengra í bili, fyrst þú fórst að binda klárinn?

—Nei, eg eiginlega reið þetta svona að gamni mínu, af því veðrið er svo gott.

Skúli bölvar Snorra í hjarta sínu fyrir að bjóða sér ekki inn, eða láta húsfreyju vita, að hann væri kominn, án þess hann þyrfti sjálfur beinlínis að segja honum að hann hefði komið að sjá hana. En það skrítnasta af öllu er það, að Skúli finnur það vel með sjálfum sér, að ef hann hefði ekki komið í þessum erindum, heldur eitthvað viðvíkjandi búskapnum, þá myndi hann strax hafa gert orð fyrir Gyðu, þótt hann rækist á Snorra þarna á hlaðinu, án þess að láta sér bregða hið minsta.

—Það er nú heldur fáment heima núna, segir Snorri, — svo eg held það verði ekki mikil skemtun fyrir þig hér. Við erum bara þrjú, sem ekki fórum til kirkjunnar:

mamma og eg og Sigga gamla. En hún er ekki svo slök, skal eg segja þér. Þú ætlar þér þó ekki að fara að ná gömlu Siggu frá okkur fyrir næsta ár? Það væri svo sem rétt eftir þér. Máske þú viljir, að eg skili til hennar að þú þurfir að finna hana?

Það fer heldur að þykna í Skúla. Nóg til þess að hann segir:

—Máske þú vildir segja húsmóður þinni, ráðsmaður góður, að mig langi til að sjá hana sem allra snöggvast? Eg kom ekki til þess að munnhöggvast við þig.

—Heyr á endemi! Það er naumast, að þú sért mikil með þig í dag! Þú ert þó líklega ekki á biðilsbuxunum? Nógu ertu fínn til þess. En erindi þínu hefði eg skilað þó fyrri hefði verið.

Skúli sótroðnar við svar Snorra, þótt hann reyni af fremsta megni að láta ei á því bera, að örin hafi hitt. Ef Snorra grunar eitthvað, sem ólíklegt er, þá er það Skúla sjálfum að kenna.

Án þess að segja fleira, og áður en Skúli svarar, gengur Snorri inn göngin, og kallar þaðan fullum hálsi inn í baðstofuna:

—Óðalsbóndinn í Óræktar-Holti gerir boð fyrir húsfreyjuna á Hálsi. Þú heyrir það, mamma.

Fleira eigast þeir ekki við, en von bráðar gengur Gyða út og býður gesti til stofu, sem nær furðu fljótt sínu fyrra jafnvægi þegar Snorri er horfinn.

Þótt Gyða sé farin að eldast, er hún fríð kona sýnum, og yfir allri framkomu hennar hvílir göfug prúðmenska, og í svip hennar býr sú tign, sem svo mörgum íslenzkum konum er meðfædd, þótt þær einar sýni hana bezt, sem hvorki þurfa að leggjast undir basl og bágindi kotkonunnar, né bera ok útlendra hirðsiða og þorptízku.

Stofan og húsgögn hennar eru hin prýðilegustu. Þaðan sem hann situr þægilega í fjaðrastólnum við borðið, getur hann séð bæinn í Holti út um stofugluggann, og mestalla landareignina. Hvað það er gaman að vera eigandi alls sem maður sér! Hann sér að maður gengur yfir brúna heim að Holti. Það er Snorri. Hvert skyldi hann vera að fara?

Gyða heldur uppi samtali, sem Skúli reynir að taka þátt í, en hann er stöðugt að leitast við að koma erindi sínu sem bezt fyrir, en því meira sem hann fæst við það, þess óþægra verður það.

Gyða býður honum kaffi, sem hann þiggur, og eftir litla stund fer hún út úr stofunni og biður hann afsökunar á því að hún verði að láta hann eftir einan, á meðan hún útbúi það.

Skúli reynir að safna öllum huggeislum sínum saman á einn brennipúnkt, meðan hún er í burtu. En hvað átti hann að segja?

—Eg elska þig?

—Nei!

—Jörðin þín er svoddan ágæti að mér hefir hugsast — —

—Afleitt — Ómögulegt.

Að koma fram fyrir hana æstur af ást, eru látalæti, sem Gyðu

mun illa geðjast að. Hún myndi ekki trúa honum.

Að byrja mál sitt með því að hann sé nú kominn til að biðja auðsins hennar, er þó enn álappalegra.

Það er að eins einn vegur fær: spyrja hana blátt áfram að því hvort hún vilji verða konan sín, og láta svo kylfu ráða kasti. Annað getur hann ekki gert. Það er eina skynsamlega leiðin, sem hann getur farið. Svo verður auðna að ráða svari.

Falleg var stofan!

Hún er öll máluð í hólf og gólf. Sumt eins og marmari, sumt eins og eik.

Skyldi hún nú ekki koma fljótlega aftur, húsfreyjan.

Hefðu fleiri konur verið heima, þá hefði hún ekki þurft að búa til kaffið sjálf. En Sigríður gamla er líklega aldrei látin gera það.

Annars er gott að fá að vera einn svolitla stund til að átta sig.

Skyldu nú peningarnir hennar vera þarna í spónlagða skattholinu, eða í stórri kistu einhverstaðar uppi á stofulofti, eða í vellæstum kistli inni í baðstofuhúsinu hennar; eða skyldi hún hafa þá á sparisjóð, eða á banka í Reykjavík?

Hann lítur yfir að Holti. Honum sýnist Snorri standa á hlaðinu. Svo hverfur hann inn í bæjardyrnar. Hvern fjandann er hann að gera þar?

Það hlýtur að hafa soðið á katlinum.

Eldavélin hennar er líka dæmalaust góð.

Gyða er komin inn í stofuna með bakkann, kúfaðann af kaffi, sykri, rjóma og öllum þektum tegundum af brauði.

Og hvað var þetta?

Flaska!

Benedictine!

Þetta blessaða, gamla múnkavín, sem jafnvel góðtemplarar geta tæpast neitað að neyta í góðum vinahóp.

Fornbýl var Gyða, og svona var gestrisnin.

—Eg hélt að þú vildir heldur staup af þessum kryddlegi með kaffinu, heldur en bolla af súkkulaði á undan því.

Skúli játar því fegins hugar.

Hann er enginn vínsvelgur, og kaupir sjaldan vín, en hefir samt gaman af að fikta við það.

Hún hellir kaffinu í bollana og fyllir staup handa honum, en lætur aðeins sem svarar einni teskeið í sitt staup, honum til samlætis.

Skúla er nú farið að líða betur. Gyða er svo blátt áfram og alúðleg við hann, að kjarkur hans og sjálfstraust kemur til baka.

Þegar hún ætlar að fara að hella í seinni bollann, snertir hann hendi hennar og mælir hægt en þungt:

—Gyða!

—Já, hvað er að? Viltu ekki kannske í seinni bollann?

—Jú. Það er ekki það—

Gyða horfir beint framan í hann.

Hann heldur áfram:

—Mig hefir lengi langað til að tala um nokkuð við þig — spyrja þig að dálitlu, og hið alúðlega viðmát þitt hjálpar mér—

Gyða horfir hvast og alvarlega á hann. Hann þagnar andartak, svo segir hann hægt og skýrt:

—Viltu verða konan mín, Gyða?

Hún dregur að sér hendina, sem hann hefir snortið. Sárindasvip bregður fyrir í andliti hennar. Hún horfir að nýju fast í augu hans. Hann reynir að standast þetta augnaráð og horfa á móti, en augu hans hörfa undan til gólfsins. Honum finst hann vera veginn í huga hennar og fundinn léttvægur.

Loks segir hún í mikilli alvöru:

—Hví biður þú mig þessa, ungi maður? Þú elskar mig ekki eins og menn á þínum aldri elska.

Það er sem jökulvatni sé skvett í andlit hans. En honum dettur ekki í hug að gefast upp.

Hann segir:

—Það er ekki satt, að eg elski þig ekki. Það er líklega ekki blind ást sem eg ber til þín. En eg elska þig sökum allra mannkosta þinna, og eg veit að eg virti þig og yrði þér góður, og yrði hamingjusamari með þér en nokkurri annari konu.

Það er svo sem ekki tekið út með sældinni að segja þetta. Hann næstum svitnar af áreynslunni.

Hún segir:

—En ef eg nú gæfi burtu allar eigur mínar: jörð, bústofn og alt; vildir þú samt kvænast mér allslausri? — Myndir þú hafa beðið mín ef eg hefði verið bláfátæk og umkomulaus?

Skúli svarar ekki.

Hún heldur áfram:

—Eg ætlast ekki til svars. Eg þekki þig Skúli. Og eg met þig mikils fyrir dugnað þinn og framtakssemi. En ást handa mér áttu enga til. Ef til vill er gróðaást þín svo sterk, að hún dregur að sér alla aðra ást og heldur henni fastri innan vébanda sinna. Um það skal ekki dæmt. Sumir menn hafa mikla ást að gefa og margskonar mótlæti í meðgjöf. Aðrir gefa litla ást og leggja líka léttar sorgir á herðar konum sínum.

Hann segir í hita:

—Skynsamlegu hjónaböndin fara æfinlega bezt.

Hún svarar:

—Þetta yrði ekki einu sinni skynsamlegt hjónaband, Skúli, eins og eg lít á málið. Eg er víst nálægt þrjátíu árum eldri en þú. Eg get ekki gefið þér æskuhitann. Hann er farinn fram hjá mér. En eg gæfi þér jörðina og eigurnar. Ef til vill gætir þú haft hitann úr því. Þú yrðir stór og mikill bóndi, sem gætir reist þér lofsamlegt minnismerki í framkvæmdum — að minsta kosti hér í sveit. En þú hefir ekkert að gefa mér, sökum þess að þú getur ekki elskað mig á þann hátt sem eg vil vera elskuð. — Hugsaðu þér! Jörðin mín yrði stöðugt hærri og fyrri í huga þér en eg sjálf —

Skúli grípur fram í:

—Þetta er ekki satt, Gyða!

Hún segir:

—Jú, það er satt. En þú sérð

ekki þá hlið sannleikans. En eg veit samt að þú ert svo skynsamur, að þú getur skilið að mér sé ómögulegt að verða konan þín. En eg skal fyrirgefa þér þótt þú hafir misboðið mér með því að bjóða mér hönd þína kalda og ástlausa.

Kaldur, langvarandi grunur, sem alt af hafði gægst inn um allar gættir framtíðarbygginga hans, klæddur í Móra-búning með Lallasvip, hlær nú á miðju gólfi yfir rústum fallinna borga. Ólánið er skeð. Gyða hefir hryggbrotið hann. Aldrei verður Háls og Hálsauður annað en sýnd veiði, sem aldrei verður gefin. Augnayndi, sem aldrei næst.

Það er löng, lamandi þögn.

Skúli hefir engin orð á hraðbergi. Hann stendur þegjandi upp og sýnir á sér ferðasnið.

Gyða er í þungum þönkum.

Hún segir:

—Farðu ekki strax.

Rómurinn er næstum biðjandi.

Hann svarar hryggur:

—Mér finst erindinu sé lokið — eins og því líka lauk.

Hún segir:

— Um það verður ei lengur rætt. En mig langar til að tala við þig um annað mikilsvarðandi mál, sem ef til vill gæti snert þig. Það sem okkur hefir á milli farið í dag, finst mér að geri mig opinskárri við þig. Og eg vona að þú misvirðir það ekki, þótt eg tali við þig eins og móðir við son. Viltu ekki gera svo vel og setjast aftur?

Hann gerir það, en segir ekkert.

Hún spyr blátt áfram:

—Er þér ekkert hlýtt til fóstursystur þinnar, eða henni til þín?

Hann svarar dræmt:

—Það held eg ekki — eins og þú meinar það.

Hún segir:

—Hún er afbragðs konuefni.

Hann segir:

—Það hugsa eg hún yrði þeim sem væru nógu loðnir um lófana.

—En hún á ekkert, bætir hann við sorgmæddur.

—Hún er þér góð ráðskona? spyr hún.

—Ágæt í alla staði, svarar hann.

—Og ykkur hefir alt af komið vel saman?

—Já.

Hún hugsar sig um litla stund. Svo segir hún:

—Má eg eyða tímanum fyrir þér í nokkrar mínútur?

Skúli er farinn að gerast forvitinn og játar því.

Hún hefur mál sitt á þessa leið:

—Í banalegunni sagði maðurinn minn mér frá því, að Inga uppeldissystir þín, væri ekki dóttir Helga þess, sem hún er sögð að vera. Hann trúði mér fyrir þessu leyndarmáli, sem eg nú ætla að trúa þér fyrir.

Nú hefst brúnin á Skúla, en Gyða heldur áfram án þess að hann grípi fram í.

—Þegar Helgi, maðurinn minn, sem varð, var um tvítugt — fimm árum áður en eg giftist honum, kyntist hann móður Ingu, sem þá

var átján ára gömul, og feldu þau hugi saman. Hún var mjög fríð sýnum og vel gefin stúlka, en einstæðingur, og var hún vinnukona hjá foreldrum hans.

—Foreldrana mun hafa grunað um samdrátt þeirra, því þau létu hana fara burtu árið eftir, og fór hún í vist að bæ einum þar skamt frá. Sama vor, druknaði vinnumaður þaðan í hákarlalegum, sem hét Helgi eins og maðurinn minn. Sumarið eftir fundust þau nokkrum sinnum, og einhverju sinni segir hún honum að hún sé þunguð af hans völdum, og biður hann ásjár. Hann herðir upp hugann og segir foreldrum sínum hvað komið sé, og vill ganga að eiga hana þegar í stað. En þau leggja blátt bann fyrir, og móðir hans segist ætla að tala við hana, og það gerir hún víst svo lítið bar á. En Helgi var sendur á annað landshorn, og kom hann ekki heim fyr en eftir veturnætur. Þá var Inga fædd, en móðirin dáin, og faðirinn var af öllum sagður Helgi sá, er í hákarlalegunum druknaði. Hvernig því var þannig komið fyrir, held eg hann hafi aldrei grenslast eftir, að minsta kosti sagði hann mér aldrei frá því.

—Eg býst við að manninum mínum hafi fundist að hann hafi breytt smámannlega. En einhvernveginn fékk hann sig ekki til að raska ráðum foreldra sinna og leiðrétta misskilning almennings, þótt hann á deyjanda deyi segði mér leyndarmálið. En eg býst samt við að hann hafi engu síður liðið fyrir yfirsjón sína, en þótt hún hefði verið heyrum kunn. Og honum mun það óbeinlínis að þakka, að barnið komst í hinar góðu hendur foreldra þinna, og naut þar bezta uppeldis.

—En þótt eg nú hafi sagt þér þetta, og þótt eg telji sjálfsagt að Inga viti hið sanna, þá álít eg alls ekki nauðsynlegt, né heldur tel eg það skyldu mína, að kunngera öllum heimi hvor þeirra Helganna sé hinn rétti faðir hennar, fyrst hún er í raun og sannleika Helgadóttir. En það tel eg helga skyldu mína að hún taki arf eftir mig á móti fóstursyni mínum — að minsta kosti sem svarar fullum föðurarfi.

—Eg hefði líklega ekki haft kjark í mér að byrja á þessu samtali, ef ekki hefði staðið svona á. Ef til vill hefði þessu ekki verið hreyft fyr en eftir minn dag, og þá hefði erfðaskrá mín sýnt arfinn sem gjöf til hennar, eins og hann líka alt af verður og á að sýnast. — En ef þú hefðir ekkert út á Ingu að setja, nema fátæktina, og álítur að hún væri til með að giftast þér, þá skal eg gefa henni tíu þúsund krónur sama daginn og þú kvænist henni. Þær ættu að gera stórt skarð í þúfurnar og holtin heima hjá þér. Og nú hugsa eg að þú farir eins ánægður frá mér, drengur minn, og þó að eg hefði gefið þér sjálfa mig, okkur báðum, að eg hygg, til angurs og óyndis.

Gyða er alvarleg, þó brosandi. Skúli er staðinn á fætur. Hann

getur naumast skýlt fögnuði sínum.

—Hvernig get eg þakkað þér nógsamlega, kæra Gyða, segir hann og grípur um báðar hendur hennar.

Augu hennar lýsa meðaumkun, þegar hún lítur á hann með sömu stillingunni og svarar:

—Þetta krefst ekki þakkar. — Máske þú líka þekkir ei Ingu fremur en mig.

Á heimleiðinni hugsar Skúli um Ingu. Foreldrar hans höfðu tekið hana í gustukaskini, þegar hún var barn að aldri. Hún var búkonuefni. Á því var ekki vafi. Það hefir hún sýnt í svo mörgu, frá því móðir hans féll frá, og hún hafði tekið við ráðskonustöðunni. Raunar hefir honum aldrei komið til hugar að hún yrði konan sín, því ríkt kvonfang ætlaði hann sér alt af að fá. En nú er fátæktin ekki lengur til fyrirstöðu. Tíu þúsund krónur í glerhörðum peningum strax, og mikið af Hálsauðnum, máske jörðina þegar Gyða fellur frá — það er ekki svo afleitt!

Hann ætlar að nefna það við hana strax um kvöldið. Honum finst lítill vafi að hún taki honum orðalaust. Samt veit hann að hún hefir átt völ á að giftast góðum drengjum. En tæplega hefir hún samt nokkurn í huga, nema ef það skyldi vera ráðsmanns skrattinn, hann Snorri á Hálsi. Hann hefir einstöku sinnum verið að flækjast í kringum hana, sá bansettur angurgapi, sem alt af hefir honum á kné komið. Og nú er hann líklega yfir frá hjá henni. Hann skyldi nú bara ná í alt saman eins og það legði sig. Skúla sortnaði fyrir augum. Hann er kominn yfir brúna, slær í Jarp og hleypir í sprettinum heim í hlað.

Inga er hvergi sjáanleg í bænum þegar inn kemur. Fólkið segir honum að hún hafi gengið út með Snorra á Hálsi. Hann hafði komið og viljað finna hana.

Skúla er órótt innanbrjósts.

Hann sest niður í ómáluðu stofunni sinni, styður olnbogunum á borðið og lætur höfuðið hvíla í höndum sér.

Einhver saknaðarþrá og tómleika tilfinning, sem hann hefir ei áður þekt, tekur hjarta hans köldum tökum. Það er hvorki hryggbrotið né auðsmissirinn, sem ollir því. Jafnvel ekki kvíðinn fyrir að kunna að tapa þessum tíu þúsund krónum, og því, sem þeim átti að fylgja seinna meir.

Nú þegar margra ára loftkastalar um Gyðu og auð hennar, eru hrundir til grunna, og skyggja ei lengur á sálar útsýn hans, þá birtist honum í fyrsta sinn broshýr mynd Ingu fóstursystur sinnar, í sama stað og kastalarnir hafa áður verið bygðir. Og það er ekki myndin af Ingu, dóttur Helga þess, sem honum hefir verið sagt frá í dag, heldur hin örsnauða Inga, dóttir Helga vinnumannsins, sem druknaði í hákarlalegunum.

Hví hefir hann eigi skilið sjálfan sig fyrri? Alt af hefir hún brotið sig í mola vegna hans. Alt af viljað hans hag í öllu. Alt af jafn góð — jafn elskuleg.

Honum finst að sér standi öldungis á sama um alla peninga. Það er Inga sjálf og ekkert annað, sem hann má ekki missa — sem hann verður að eignast og eiga.

Skúli heyrir að gengið er um bæjardyrnar. Hann þekkir þetta lipra fótatak. Það er Inga.

Hann lítur út um guggann, og sér að Snorri er að ganga heim til sín yfir brúna, fattur og léttur og vingsar ofurlítið handleggjunum, eins og þegar bezt liggur á honum.

Stofuhurðinni er lokið upp og Inga gengur inn. Henni verður felmt við að sjá Skúla þar inni. Auðséð að hún hefir haldið að enginn væri þar. Skúli tekur eftir að hún er óvanalega rjóð og heit.

—Fyrirgefðu! Eg hélt að enginn væri hér, sagði hún um leið og hún snéri sér við til að ganga út aftur.

Skúli er staðinn upp, og segir um leið og hann gengur til hennar:

—Þér er sama þó þú lofir mér að tala við þig fáein orð, Inga.

Inga starir forviða á hann. Alrdei hefir hann talað til hennar í þessum róm. Það býr svo innileg blíða og sárbeiðni í röddinni, að Skúli verður næstum hissa að heyra til sjálfs síns.

Inga sezt á stól við borðið Hún er í mikilli geðshræringu.

Skúli gengur um gólf í stofunni nokkur augnablik.

Alt í einu staðnæmist hann frammi fyrir henni og tjáir henni ást sína.

Það verður löng þögn.

Hún horfir undrandi á hann.

Augu konunnar eru skörp að lesa úr andlitslínunum og ljósstöfum augnanna, og náttúra hennar er næmi skynugri að skilja tilfinningamál.

Einlægni hans leynir sér ekki.

—Hvenær?—Síðan hvenær hefir þú elskað mig? spurði hún loks, svo forviða og utan við sig, að hún átti erfitt með að koma upp orðunum.

—Eg vissi það fyrst í kvöld. En eg veit að eg hefi elskað þig lengi óafvitandi, í djúpi hjarta míns. Máske frá því að við vorum börn.

Hann talar ekki langt mál, en sál hans speglar sig í hverju orði. Hann minnist á barnæsku þeirra, skemtanir og samverustundir. Minnir hana á þegar þau bygðu bæinn sinn saman, vöktu saman yfir vellinum, lærðu "Kverið" saman og mintu hvert annað á. Hina sameiginlegu sorg þeirra við fráfall foreldra hans, en fóstru hennar og fóstra. Og svo árin sem liðið höfðu síðan. Hann mintist á hve vel hún hefði staðið í stríðinu síðan. Hve mikils virði hún væri honum og yrði framvegis, ef hún vildi verða konan hans. Hann hefði aðeins

ekki kunnað að meta hana. Augu hans verið svo haldin að hann hefði ei þekt hana. En nú þekti hann hana og sæi í réttu ljósi, því nú væru augu hans opnuð. Nú væri hann viss um, að í þeim byggi ei lengur sýnin, sem hún sagðist hafa séð í morgun.

Svo segir hann henni, án þess að draga nokkuð undan, að hann hafi beðið Gyðu. Hann skýrir henni frá því hverju hún hafi svarað, og einnig hvað hún hafi sagt honum um ætt sjálfrar hennar og auðsvon. En hann fullvissar hana um, með óbilandi sjálfstrú, að hann sé að biðja hennar sjálfrar, en ekki peningavonarinnar.

Inga horfir tárvotum einlægnisaugum á hann, er hann lýkur máli sínu og bíður eftir svari, sem kemur brátt:

—Mér þykir þungt ef eg þarf að valda þér sorgar, því bæði þú og foreldrar þínir hafa svo mikið fyrir mig gert. Og þú átt það heldur ekki skilið. En mér datt aldrei í hug að þér myndi nokkurntíma þykja vænt um mig, öðruvísi en leiksystur þína. Þú hefir ætíð metið eigurnar mest, eins og þú sjálfur veizt, en eg allslaus.

—Skúli! Eg held eg megi til með að segja þér það núna! Mér þótti einu sinni ósköp vænt um þig. Eg held eg hafi elskað þig, þegar eg var um ferminguna og þar til þú fórst á búnaðarskólann. Þau tvö ár, sem þú varst í burtu, beitti eg öllu mínu litla viljaþreki til að verða þér afhuga, þar sem eg ímyndaði mér að þú myndir aldrei endurgjalda ást mína. Og mér tókst það. Að minsta kosti að mestu leyti. Það er eins og alt fari upp í vana á endanum. Og nú elska eg annan, Skúli. En þú getur fengið svo miklu fullkomnari konu en mig.

Skúli hefir gripið um vinstri hendi hennar, þá sem á borðinu hvíldi, án þess hann eiginlega vissi hvað hann gerði. Honum finst hann vera að missa alt.

—Sleptu mér.

Hún segir þetta lágt, og reynir að losa vinstri hendina með þeirri hægri, sem legið hefir í keltu hennar undir borðinu. Þá sér Skúli glampa á gildan einbaug úr gulli á heiðarmána, þegar hún hreyfir hendina. Þennan hring hefir hann aldrei áður séð. Hann sleppir hendinni, eins og hann hefði tekið á hvítglóandi járni, og hrekkur afturábak.

—Trúlofuð!

Orðið brýst fram af vörum hans eins og upphrópun, spurning og stuna.

Hún svarar svo lágt, að hann varla heyrir það:

—Já.

—Snorra?

Hann segir nafnið á þann hátt, að það er engu líkara en í þessu eina orði búi útskúfun hans frá öllum gæðum, þessa heims og annars.

Henni verður bilt við geðshræringuna, sem lýsir sér í rödd hans. Það er þögn nokkur augnablik. Þá segir hún:

—Já. Hann kom seinni partinn og við settum upp hringana. En þú mátt ekki taka þér þetta svona nærri, góði Skúli minn. Við vorum búin að vera heimuglega trúlofuð næstum í ár.

—Og þú ferð frá mér í vor?

—Já, eg giftist honum þá. Þú mátt ekki vera reiður við mig fyrir það, Skúli. Hann hefir ekki sagt Gyðu fóstru sinni frá þessu ennþá. En ætlar að gera það í kvöld. Hann segist þekkja hana svo vel og hún sé svo góð, að hann viti upp á sínar tíu fingur að hún taki þessu vel. En hann, og við bæði, höfum kunnað því bezt, að eiga sjálf einkamál okkar út af fyrir okkur sem lengst. En eg er viss um að hann veit ekki annað en eg sé fátæk og umkomulaus.

—Eg vildi hann væri dauður!

Skúli hvæsir þessu fram úr sér, og fingurnir kreppast inn í lófann, svo hnúarnir hvítna. Það býr svo átakanleg sorg, gremja og vonleysi í setningunni, að Inga hrekkur við.

—Eg ætlaði ekki að hræða þig, segir hann angurblítt.

—Viðtali okkar er nú lokið, Inga mín. Eg má sjálfum mér kenna um alt.

Inga gengur nokkur skref fram að hurðinni. Þar staðnæmist hún og segir:

—Vertu mér ekki reiður, Skúli, þótt eg segi það við þig, að eg er viss um, að Snorri gefur það eftir að peningarnir gangi til þín, þessir, sem Gyða ætlaði okkur ef þú kvæntist mér, eins og þú varst að segja áðan.

—Farðu nú Inga og lofaðu mér að vera einum. — Það er hægt að tapa án þess að verða aumingi, og bíða lægri hlut, án þess að verða lítilmenni.

—Bíddu annars við, örlítið, segir hann enn fremur og tekur hægri hendi hennar í sína og þrýstir hana innilega:

—Eg ætla að vera fyrsti maðurinn að óska þér til hamingju með trúlofunina. Megi þér æfinlega líða sem bezt. Snorri er enginn ódrengur, þótt mér hafi orðið skuggi hans ærið stór.

Nokkru eftir að Inga er farin burt úr stofunni, inn í baðstofu, gengur Skúli út á hlaðið.

Kvöldið er hlýtt og rólegt. Heiður himinn spáir fögrum morgundegi — sýnilega betri þurkdegi en sláttudegi.

Á móti honum blasir í kvölddýrðinni Hálslandareignin, með rennslétt tún og engi, sem eru honum töpuð um aldur og æfi.

Sumar eftir sumar brunar Snorri áfram með sláttuvélina, meðan hann sjálfur stendur á hausnum í þúfunum í Holti og kemst hvergi áfram. — Snorri! sem hefir sparkað honum aftur fyrir sig við ferminguna, á skólanum og í kvonbænunum! Náð frá honum bezta konuefninu í sveitinni og öllu — öllu, meðan hann hefir bitið sjálfan sig svo fastan í aur og urð hversdagsholtanna, að hann hefir gleymt að eitt er nauðsynlegt:

*að elska.*

# Þrjár venzlakonur.

Eftir **Guðmund Friðjónsson.**



Tímarit norðl. kvenna, "Hlín", flutti á s.l. hausti frásögn um þjár systur, kvenkosti þeirra og úrræði, þegar vanda bar að höndum. Sú frásaga var að því leyti merkileg, að hún kastaði ljósi, eða bregður upp birtu, svo að bæði sér einstaklinga og aldaranda. Ein þessara systra var áður nafnkunn — móðir Matthíasar skálds.

Mér datt í hug, þegar eg las þessa frásögu, að fleiri framliðnar konur væru þess verðar, að þeirra væri minst opinberlega, og betra væri lítið af því tagi en alls ekki. Mér komu þá í hug *þrjár venzlakonur,* sem eg kyntist fyrir hér um bil 30 árum og nú eru fallnar í valinn og voru stórmerkilegar, hver á sína vísu. Konur þessar voru: Katrín, móðir Einars skálds Benediktssonar, Þorbjörg ljósmóðir, systir Benedikts, og Ólafía, systurdóttir og fósturdóttir Þorbjargar. Þó að þessar konur væru venzlaðar, vissi eg eigi til, að Katrín væri í vináttutengslum við fóstrurnar. Svo er oft um afburðasálir, að þær eiga ekki saman.

Vissulega gætu sumir menn sagt meira og fleira frá þessum konum, en eg get, þeir sem hafa kynst þeim lengur og meira. T. d. var eg þeim ekki svo kunnugur, að eg geti nefnt atburði úr hversdagslífi þeirra, sem varpa jafnan beztum bjarma yfir innri manninn. En þá eru þær og óskemdar af þeirri smámuna sögusögn, sem stundum getur orðið nærgöngul í hversdagslífinu, jafnvel úrvalsfólki. Því að manndómur eða mannræna er ekki ávalt bláþráðalaus.

Það er þá af Katrínu Einarsdóttur að segja, að hún var kvenna fríðust á þeim aldri — mun hafa verið um sextugt. En þó fanst mér meira til um málsnildina en fegurðina. Hún talaði íslenzku afburða vel. Bæði var orðavalið frábært og samfara því áherzlur og málrómur með hinum fegursta hreim eða hrynjanda. Hún var sögð skáldmælt, en duldi það. Ekki mun Katrín hafa tamið sér ræðuhald, nema í sæti sínu. Aldarandinn hefir eigi veitt henni þess háttar tækifæri. En víst hefir hún haft til þess alla burði að tala á mælskumanna vísu. Þeir, sem heyrt hafa Einar Benediktsson tala, hafa og heyrt Katrínar málfæri—svo að segja. Og þeir, sem séð hafa Einar son hennar, hafa einnig séð andlitsfall móðurinnar.

Einar hefir kveðið erfiljóð um móður sína, snildarlegt. Þar gef-

ur hann í skyn, að hún hafi verið skáld. Hann segir:

"....Þú áttir hjarta míns loga.
Og þitt var mitt ljóð og gígjugrip.
Þú gafst mér þinn streng og boga."

Og um málsnild hennar kemst hann svo að orði:

"Við spor hvert, um Bifröst, að Heljar hyl,
til himins, vor tunga bjó vörðu.
Þú last—þetta mál, með unað og yl,
yngdan af stofnunum hörðu.
—Eg skildi að orð á Íslandi er til,
um alt, sem er hugsað á jörðu."

Ætla mætti, að Einar hafi tekið arf eftir föður sinn, mælskumanninn mikla og gáfugarpinn. En þeir, sem þektu Katrínu, munu sjá meiri ættarmörk með móður og syni, en föður og syni. Það er og gömul sögn, að afburðamenn sæki gáfur til mæðra sinna.

Þorbjörg Sveinsdóttir var þjóðkunn fyrir mælsku. Hún talaði um stórmál þjóðarinnar (stjórnarskrár málið og háskólamálið) á borgarafundum í Reykjavík. Mig minnir, að Björn Jónsson annálaði ræðusnild hennar í Ísafold. Sú saga gekk um mælskugarpinn Benedikt Sveinsson, að hann teldi sig ekki hrökkva við systur sinni í orðum. En þessháttar er þó ekki fyllilega að marka, af því að flestir karlmanna vægja til fyrir kvenmönnum, þegar um kappleik er að ræða. Eg heyrði Þorbjörgu tala í sæti sínu að eins — reyndar mun hún hafa sprottið á fætur, þegar hún tók til máls, þó að yfir einum eða fáum væri að tala. Þorbjörg var eldfim í máli og hafði áherzlur miklar. Hún talaði helzt um stórmál, þó heima væri. En að sumu leyti var Katrín mágkona hennar málslyngari, eða réttara sagt orðslyngari. Þorbjörg unni mjög bróður sínum og öllum áhugamálum hans. Bæði þau systkin mátu þjóðernið mikils. Mér er það í fersku minni, að til Reykjavíkur kom á þessu ári, sem eg kyntist Þorbjörgu, Vestur-Íslendingur, sem mun hafa mentast í skóla vestur þar, og ræddu þeir Benedikt um málefni ýms í húsi Þorbjargar. Um hann sagði Benedikt svo að eg heyrði m. a.: "Hann hefir ekki minstu hugmynd um "nationalitet".—Hann mun hafa litið öðrum augum á landsréttindin okkar en Benedikt og Þorbjörg og gat verið mætur maður fyrir því. Hann mun hafa haft aðra stjörnu yfir stafni vestur í þjóðahafinu en Benedikt Sveinsson við Íshafið, sem glímdi við Estrúp og Nellemann um sjálfstæði þjóðar vorrar.

Þorbjörg var ógift alla æfi og veit eg eigi hvað olli. Hún var ekki fríð kona í sjón, né heldur svo stórmannleg í bragði, sem gáfur hennar voru miklar.

Matthías kvað erfiljóð eftir Þorbjörgu. Þau byrja svona:

"Ertu dáin, aldna vina mín,
öskuhrúga sálarborgin þín,
liðin, búin, þessi þunga raun —
þú varst eldborg, nú ert orðin hraun."

"Þú varst eldborg"—í þeirri líkingu, eða með henni, er Þorbjörg máluð ágætlega. Mælska hennar líktist gosi og tilfinningarnar sömuleiðis. Hreinlynd var hún og opinská, og hinn mesti "agitator", þegar kosningar voru í nánd, annað hvort til þings eða í bæjarstjórn. En ekki sízt þegar dómkirkjuprest skyldi kjósa. Hún var aldrei hálf, gamla konan, né haltrandi í framgöngu.

Það þykist eg sjá gegnum svarta tjaldið, að aldrei fæðist kona á landi voru, né annars staðar, því lík sem Þorbjörg var. Reyndar er hún mér minnisstæðari en hver kona önnur. Stundum þegar eg kom í hús hennar, kom hún móti mér með hendurnar votar upp úr drykk—hafði þá verið við þesskonar verk: að hagræða vistum. En áður en hún var búin að þerra hendurnar, var hún farin að tala um stórmál landsins, án þess að eg vekti þá ræðu. Því að eg bar þá fyrir brjósti fyrst og fremst vöxt og viðgang alþýðunnar og þar næst skáldskapinn. Henni var svo ríkt í hug, að þjóðin fengi réttarbætur, að alt annað þokaði fyrir þeirri kröfu og lenti út í horn, eða afsíðis.

Ólafía Jóhannsdóttir var systurdóttir og fósturdóttir Þorbjargar. Eg kyntist henni ári áður en hún fór út í lönd fyrir Hvítabandið, félag, sem ruddi veg líknarmálefnum (bindindi og hreinlífi, ef eg man rétt). Þá var Ólafía ekki trúuð á þann hátt, sem síðar varð. En guðrækni var þó stunduð í húsi Þorbjargar: lesinn húslestur t. d. á sunnudögum. Ólafía var logandi af áhuga og eigi skorti hana mælsku né skilningsgáfu. Hún hafði verið í latínuskólanum (upp í fjórða bekk) og var mentaðri en flestar konur á þeim tíma. Hún var úrræðaskjót og fim í öllum háttum. En minna sópaði þó að henni en eldri konunni, sem eg nefndi. En vel var hún vængjuð þó.

Ólafía óx alt af með aldrinum, eins og kunnugt er. Fimtug, eða eldri, samdi hún bók um aumustu vesalinga stórborganna — fallnar og gjöreyðilagðar konur á sál og líkama. Þær sögur eru svo vel settar saman, að listfengi, að stórskáld Norðmanna gera ekki betur. Hún telur sögurnar sannar og svo mun vera. Nærri má geta, hvaða hæfileikar hafa búið og blundað í konu heilsubilaðri, sem ritað getur svona upp úr þurru. Margir rithöfundar þurfa að æfa sig og brýna alla æfi til þess að ná tökum á efni, sem *tök* geta heitið. En auk þessarar listar í meðferð efnisins, er undirstraumurinn í frásögnunum hlýr og tær. Og uppi yfir myndinni allri skín sól brennandi kærleika til veslinganna.

Trú og manngöfgi Ólafíu gnæfði yfir gáfurnar eða kórónaði þær. Henni varð víst aldrei orðfall í ræðustól og aldrei ráðafátt, þegar vanda bar að höndum. Þó var hún langan aldur heilsubiluð svo mjög, að hún treysti sér ekki til að ferðast yfir Íslandshaf. En

þrátt fyrir heilsuskortinn, óð hún eld brennanda — eldinn og eiturárnar, sem voru milli hennar og spillingarinnar í borgunum. Hugrekki hennar studdist við trúna og kærleikann og vonina um árangur.

Eg sá Ólafíu ári áður en hún lézt — snjóhvíta af hærum. Var að sjá aftan á höfuðið eins og álftar ham.

En hvað er eg að hugsa! Enginn lýsir með orðum yfirbragði konu, sem helgað hefir allar gáfur sínar málefnum eilífðarinnar og mannkærleikans.

Matthías kvað um Þorbjörgu og Einar um móður sína. — Ólafía átti inni fyrir því, að stórskáld mintist hennar. Nú var Matthías fallinn frá, svo að ekki varð við hann átt um kvæðisgerð. Og í Einar varð ekki náð — eg gat það ekki a. m. k. Eg varð þess vegna að eiga við sjálfan mig um þetta mál, — eða láta það falla niður að öðrum kosti. Eg settist niður, og lagði höfuð mitt í bleyti, eftir því sem eg gat, og getur hér að líta þann árangur. Kvæðið hefir verið prentað í blaði í Reykjavík, en hér er það nokkuð aukið. Og þess vegna m. a. læt eg það fylgja þessum orðum. Mér þótti seint fullgert við Ólafíu í orðum og þess vegna var eg svo lengi og oft að renna hugskotsaugum í áttina til hennar.

*Ólafía Jóhannsdóttir.*

Er drýgir á þjóðvegum forsælu og fjúk
og fúa, er mann-sóma granda —
hjá ástvinu lausnarans krýp eg á kné
með kveðju, sem ljúft er að vanda.

Á kven-sóma tiginn þó kastað sé mold
og kafaldi úr loftinu fenni,
er sama fegurð á svanhvítum hadd'
og sífeldur ljóminn á enni.

Það valkvendi stundaði' að liðsinna lýð
og leysa úr spillingar viðjum,
er flakandi vesling á herðar sér hóf
með hugð, sem er ættuð frá gyðjum.

Því eftirleit gerði að úrvinda sál,
er öll tók í skjólin að fenna,
og bar inn í kytrurnar bjarma og yl,
var bjargvættur fallinna kvenna.

Sá orðstír varð fleygur um eyjar og lönd
fór inn í þau svörtustu myrkur,
'in goðborna mælska og hlýja sem hreif
og heilagur siðferðisstyrkur.

En ítæk er gangan um annmarka torg;
þann yrmling ei mannúðin temur,
sem bernskuna ginnir á einnættan ís
og æsku í launsátri kremur.

Þó hart yrði' í spori, var hugrekkin þíð,
er hafnaði veraldar seimi.
En hins vegar ól hún þó lífræna list,
sem ljómar í bókmenta heimi.

En hrópandi rödd var harmsögu grein,
er hún færði' í málsnildar letur;
með sanninda innileik grípur svo geð,
að grátstaf í kverkarnar setur.

Hún barðist við launsátra ísmeygin öfl
og eitrið, sem drýpur af tungu,
og rennur um varir og ratar í brjóst
og rænunni sviftir þá ungu.

Hve jörðin vor fóstrar þau aðdráttaröfl,
sem ómenning fúslega þjóna:

í svartnætti vaxa á syndinni klær,
á singirni sporður og trjóna.

Og það vissi dísin, sem eldana óð
að ofvöxnu stórborga grómi,
og innundir brýrnar á ósóma leit,
er eitraði frá sér í tómi.

Um svaðiltorg borgar hin sextuga mær
fór sjálfsfórnar guðvefi brynjuð.
Og faðmurinn hennar var móðurskaut mjúkt,
sú mildi frá dísum var kynjuð.

Hver góðvild, sem starfar, að lokum fær laun,
þeim lögum nær enginn að rifta,
sem ber inn í kimana brjóstgæða ljós
og bjargráð, er manngildi lyfta.

Þín sál var að mælsku og fjölhæfni fleyg,
var förul um dýrðlega geima.
Og kærleikann hyltirðu, konunginn þann:
Hjá krossinum þú áttir heima.

Hin viðfeldna, dýrðlega vorbirtu nátt
þitt verðmæti lætur ei smækka.
Þín minning er dúfa, sem hefur sig hátt,
Því hærra, sem aldirnar stækka.

*Guðmundur Friðjónsson.*

## VIÐ FREGN HINS ÍSLENZKA FÁNA

Undir fána frelsisins bjarta
Fagur-bláan, við norðurheims skaut:
Safnast straumar míns svifhraða hjarta,
Sólarljóss hvar í æsku eg naut.
Titrar önd þar á töfrandi fundi;
Táp, sem elding, sér þrýstir í blóð:
Glaður líf mitt eg láta þar mundi
Liðs til forgöngu hugrakkri þjóð.
:,: Fram á frelsisins slóð! :,:
Glaður líf mitt eg láta þar mundi.
Liðs til forgöngu hugrakkri þjóð.

*Jón Kernested.*

## HEIMÞRÁ.

Vínland bjart, þó veldi þitt
Vel eg finni og sjái:
Öldu-vafið Ísland mitt
Alt af samt eg þrái.

*Jón Kernested.*

# Enn um Vínlandsfundinn.

Þýðing með athugasemdum.

Eftir GÍSLA JÓNSSON.



Grein sú, er hér fer á eftir, er að sögn eftir sænskan fræðimann, Dr. A. Fredenholm að nafni, og kvað hafa komið út í sænsku tímariti, er eg hefi því miður ekki séð, og kann því eigi að nefna, því þess er eigi getið í sambandi við þýðinguna, hina ensku. En sænskur blaðamaður hér í landi, J. A. Hagglund, þýddi hana á ensku og birti í hérlendu tímariti, The McLean's Magazine, og þaðan hefi eg hana.*)

Greinin er alþýðleg og lipur aflestrar og að ýmsu leyti eftirtektarverð, einkum fyrir þá, er eigi hafa aðgang að fornbókmentum vorum. Eigi að síður eru í henni eigi allfáar viðsjárverðar staðhæfingar, sem erfitt mun að finna stað. Ættu mentamenn vorir, sem á enska tungu rita eins vel eða betur en á íslenzku, að láta eigi undir höfuð leggjast að taka hana til íhugunar. Skal hér að eins bent á ættfærsluna.

Hingað til hafa Norðmenn einir seilst eftir og helgað sér flesta hina merkustu Íslendinga til forna, —þeirra á meðal Leif hinn hepna, sem auðvitað var innborinn Íslendingur. Og þeim, Norðmönnunum, hefir jafnvel ekki vaxið í augum að kalla Snorra Sturluson Norðmann, sem vitanlega fæddist á Íslandi, var búsettur á Íslandi og var myrtur á Íslandi á fjórðu öld frá fyrstu landnámstíð.

En svo er að sjá, sem Norðmenn séu ekki lengur einir um hituna, því nú er hér Svíi líka risinn upp á skotleggina, og kallar með köldu blóði alla merkustu mennina, er við þessa sögu koma, ekki að eins af sænskum ættum, heldur hreint og beint Svía — alla leið frá Garðari Svavarssyni og fram til Þorfinns Karlsefnis og Snorra sonar hans.

Er eigi laust við, að það sé broslegt, að sjá nú Norðmenn og Svía togast á um þjóðerni innfæddra Íslendinga; og því óskiljanlegri sú tilraun að rengja þjóðernið, þegar ekki verður hjá því komist, að byggja á sögum vorum að öllu öðru leyti.

En þrátt fyrir alt þetta álít eg þó, að grein þessi geti vel átt heima í Tímariti Þjóðræknisfélagsins, því til þessa hefir hvergi verið drepið á eins mörg atriði þessa máls í ritum vorum, að undantekinni grein próf. H. Hermannssonar í fyrsta árg. Tímaritsins, er flestum lesendum ritsins mun hafa þótt óþarflega varfærin, enda þótt hún sé samin af

---

*) Síðan þetta var skrifað, hefir greinin verið endurprentuð í The Winnipeg Tribune og útdráttur úr henni þýddur og prentaður í vikublaðinu Heimskringla.

fróðleik miklum. Stingur þessari mjög í stúf við hana; og ætla eg auðvitað hvoruga að lasta eða bót að mæla.

Greinin er nokkurn veginn þýdd orði til orðs, og hefi eg þess vegna gjört við hana nokkrar athugasemdir neðanmáls, lesendum mínum til hægðarauka, þar sem mér þótti mest máli skifta, en þó hvergi nærri alstaðar.

— — — —

"Það er ekki lengur neinum vafa undirorpið, að meginland Ameríku var eigi að eins fundið, heldur og numið og bygt af norrænum þjóðum um fimm öldum áður en Columbus fann Vesturheimseyjarnar.

Sú viðurkenning, að þeir urðu fyrstir til að finna Vesturheim, ætti eigi að kasta neinum skugga á frægð Columbusar né heldur rýra gildi hinna dirfskufullu og hættulegu sjóferða hans, er hafnar voru í trássi við almenningsálit þeirra tíma. En að strendur Grænlands, Labrador og mikils hluta Bandaríkjanna, voru ekki eingöngu kunnar, heldur og voru uppdrættir gerðir af þeim og nærliggjandi héruðum löngu fyrir árið 1492 (árið, sem Columbus steig fæti á San Salvador ey), er nú viðurkent meðal allra ráðvandra sagnaritara.

Það er aðallega áhuga kaþólsku kirkjunnar að þakka, að Columbus hefir fengið viðurkenninguna fyrir að hafa fyrstur fundið Vesturheim. Það er auðvelt að skilja, hvaða þýðingu það hafði fyrir rómversk-kaþólsku kirkjuna, að fá Columbus viðurkendan fyrsta landkönnuð og dýrðling álfunnar. Hún fékk því líka til leiðar komið, að Columbus-dagur var viðurtekinn sem almennur frídagur í Bandaríkjunum, og að öll sögugögn um fund og landnám Norðurlandabúa á meginlandi Norður-Ameríku, voru dæmd dauðar og ómerkar þjóðsagnir.

Það er nú litlum vafa bundið, að Columbus fékk fyrstu hugmyndir sínar um nýtt land í vestri úr norrænum sögnum. Vér vitum, að hann kom til Íslands árið 1477. Í ævisögu Columbusar, er Ferdinand nokkur Colon gaf út, er þess getið, að í febrúarmánuði 1477 hafi hann siglt "100 sjómílur norður fyrir eyna Týli, sem nú er kölluð Frísland". Vér vitum einnig með vissu, að land það, er hann nefnir "Frísland", er ekkert annað en Ísland. En auk þessa eru til fleiri söguleg skjöl, er geta um Íslandsferð Columbusar. Rithöfundur einn, kaþólskur, segir, að Columbus hafi í Íslandsför sinni fengið vitrun frá Heilögum Anda um, að leita lands langt úti í vestri. Mr. Vignaud, er til margra ára var ritari amerísku sendiherrastofunnar í Rómaborg, segir í einu sagnriti sínu, að Columbus hafi haft með höndum býsna áreiðanlegt landabréf, þegar hann lagði vestur um haf. Þrjú landabréf voru til af Grænlandi um það bil. Frá árinu 1477 er til

frásögn, er getur um eitt þetta landabréf. Og sjóferðir og landafundir Norðurlandabúa voru alkunnar meðal mentaðra manna á þeim tímum.

Enn fremur eru sérstakar ástæður til að spyrja, hvort Columbus hafi farið til að leita ókunnra landa? Það er eigi ólíklegt, að hann hafi farið fyrir fjárhagslegar ástæður eingöngu. Skáldið Washington Irving, sem ritað hefir einhverja hina beztu æfisögu Columbusar, sem þekkist getur þess, að hann hafi haft með sér fimm hundruð þræla, er hann kom til baka.

Ástæðurnar fyrir ferð Columbusar kunna að hafa verið margar og með ýmsu móti, en sá sannleikur verður aldrei hrakinn, að norrænir sjófarendur fundu Vesturheim nálega fimm hundruð árum áður.[1])

Ísland var fyrst fundið um árið 861. Í "Sögunum" er sagt frá því, að Svíi, Garðar Svavarsson að nafni, hafi á einni sjóferð sinni rekið fyrir vindi og lent á Íslandi.[2]) Hann gaf því nafn eftir sjálfum sér og kallaði Garðarshólm. Síðar var landið fundið af Naddodd víkingi, er nefndi það Snæland. Nokkrum árum síðar fór þangað Flóki Vilgerðarson, og breytti nafninu í Ísland. Norðmenn tóku þá að byggja landið, og settu þar á stofn lýðveldi 874, er stóð um fjögur hundruð ár, eða fram að árinu 1262. [3])

Á þessum tíma mynduðust í landinu hinar ágætustu bókmentir, er gefa hinar ábyggilegustu upplýsingar um menningu og lifnaðarháttu Norðurlandabúa á þeim tímum. Það er úr þessum bókmentum, er vér fáum fyrstu vitneskjuna um meginland Ameríku.

Ísland stóð, jafnvel þá, í lifandi og nánu sambandi við önnur lönd Norðurálfunnar, og var á mjög háu menningarstigi. Skömmu eftir kristnitökuna í landinu (árið 1000), voru eigi færri en fjórar mentastofnanir settar á fót, þar sem unga fólkinu var gefinn kostur á að stunda "bókliga íþrótt."

---

1) Hertoginn af Alba, sem hér var á ferð síðastliðið sumar, og er 15. maður í beinan karllegg frá Columbusi, dró enga dul á það við blaðamenn hér, að Columbus hafi haft greinilega vitneskju um Vesturheim áður en hann lagði út. Gat hann meðal annars um bréf. er enn væri til í skjölum ættar sinnar, sem skýrði frá því, að síðustu lýsingu landsins og íbúa þess hefði hann fengið frá deyjandi sjómanni, er hann tók að sér og hjúkraði. Hafði skip hans vilst vestur um haf; en í bakaleiðinni kom upp skaðvæn sótt á því, og dóu allir skipverjar úr henni. Var þessi hinn síðasti.—Þýð.

2) Ekki veit eg úr hvaða "Sögu" höf. fær þessa fullyrðingu. Landnáma segir, að Naddoddur sé talinn fyrstur, og hafi hann ætlað til Færeyja, sem þá virðist hafa verið alþekt víkingabæli, en hrakið af leið og fundið land það er hann nefndi Snæland. Þá er skýrt tekið fram, að næstur hafi Garðar farið að leita Snælands að tilvísun móður sinnar framsýnnar, en eigi rekið þangað. Þá er og alment talið, að landið hafi fundist 870, enda þótt það hafi kunnað að vera fáum árum fyr. En regluleg Íslandsbygð hófst eigi fyr en 874, eins og kunnugt er.—Þýð.

3) Eins og kunnugt er var lýðveldið eigi sett á stofn fyr en milli fimtíu og sextíu árum síðar, eða árið 930. Að vísu höfðu héraðsþing áður verið háð, undir stjórn vissra höfðingja, eins og t. d. Kjalarnessþing, Þórsnesþing og ef til vill fleiri. Lýðveldið stóð því í 332 ár.—Þýð.

Frá Íslandi sigldu þeir svo lengra vestur — til Grænlands. Árið 877 sá maður, að nafni Gunnbjörn, land í vestri, er hann kallaði Hvítserk, þegar hann var á siglingum vestur undan Íslandi. Dró hann nafnið af því, að landið var alt snævi þakið.[4]) Hundrað árum síðar fann svo Eiríkur hinn rauði landið aftur, og gekst fyrir landnámi þangað frá Íslandi. Eiríkur rauði var, samkvæmt áliti ýmsra núlifandi fræðimanna, Svíi, ættaður úr héraði því, er Bohuslän nefnist.[5]) Hann hafði verið gjörður landrækur af Íslandi um þrjú ár fyrir víga sakir. Af afspurn vissi hann um landafund Gunnbjarnar og réði því af að fara og leita þess. Hann lagði því undan Snæfellsnesi, og sigldi í vestur unz hann kom að landi. Hann sigldi suður með ströndinni og í kringum höfða, er hann nefndi Hvarf, en sem á nútíðar-

*Landabréf Antoniusar Zeno, sem sýnir hugmyndir manna á 14. öld um legu Íslands, Grænlands og fleiri landa á vestur-helmingi jarðar.*

4) Við hann og þessa ferð hans eru kend Gunnbjarnarsker, einhversstaðar í Grænlandshafi. Sjá grein próf. H. Hermannssonar í II. árg. Tímarits Þjóðræknisfélagsins, bls. 3—6, og ýmsar fornar heimildir.—Þýð.

5) Landnámu og öllum hinum sögunum, er Eiríks minnast, ber saman um, að hann og Þorvaldur faðir hans hafi komið af Jaðrinum í Noregi, en þeir feðgar ættaðir af Ögðum. Guðbrandur Vigfússon álítur, að þeir Þorv. og Eiríkur hafi komið til Íslands á árunum milli 940—50, og hefir þá Eiríkur eigi verið tvítugur að aldri. Sbr. Safn til sögu Ísl., I. bindi, bls 264-5.—Þýð.

landabréfum er kallaður "Farewell" höfði. Að lokum lenti hann í smáey einni og hafði þar vetursetu. Hann staðnæmdist þar í landi hin næstu þrjú ár, kannaði landið og lagði niður ráð sín um bygginguu þess. Í firði þeim, er hann nefndi Eiríksfjörð, fann hann haglendi gott fyrir kvikfénað sinn og reisti þar bæ sinn, Brattahlíð.

Eiríkur rauði sneri nú til Íslands aftur. Safnaði hann brátt um sig frændum og vinum, er fúsir voru að fylgja honum til Grænlands. Eigi færri en 25 skip með allri áhöfn lögðu út vorið 986 frá Íslandi. Af þeim komu að eins 14 út. Hin týndust í hafi eða urðu afturreka.

Meðal þeirra, er til Grænlands fóru það ár, var Bjarni Herjólfsson. Um hann er það sagt, er hann lagði frá Grænlandi, að hann hafi séð meginland Ameríku.[6])

Sögurnar hafa margt af Eiríki hinum rauða að segja, en þetta verður að nægja, því nú koma synir hans til sögunnar. Snorri Sturluson segir, að Eiríkur hafi átt fjögur börn — þrjá sonu, Leif, Þorvald og Þorstein, og eina dóttur, er Freydís hét.

Leifur Eiríksson var stórhuga maður og djarfur. Hann lét sér eigi nægja að standa í verzlunarsambandi við Ísland, en ásetti sér að stofna bein viðskifti við Norðurlönd. Hann bjó því skip sitt og lagði út af Grænlandi, austur um Atlantshaf, árið 999. Var ferðinni heitið til Noregs. Með þeirri litlu þekkingu, er hann hafði af gangi sólar og himintungla, tókst honum að ná til Suðureyja fyrst, cg síðan til Noregs stranda. Eins langt og þekking sagnaritara nær, er þetta fyrsta ferð yfir Atlantshafið og tvímælalaust meira þrekvirki, en ferð Columbusar, einkum þegar þess er gætt, að Columbus hafði fengið vitneskju um þessar fyrri sjóferðir af viðkynningu við Norðmenn og Íslendinga, og enn fremur vegna þess, að skip og áhöfn Leifs voru engan veginn saman berandi við útbúnað Columbusar.

Fornsögurnar geta eigi ósjaldan um ferðir yfir Atlantshafið. Í sögu Ólafs konungs Tryggvasonar, er Gunnlaugur munkur Leifsson ritaði á latínu um árið 1200 og þýdd var á íslenzku öld síðar, er þetta meðal annars sagt um beinar ferðir í milli Noregs og Grænlands:

"Svá segja vitrir menn, at ór Noregi frá Staði sé 7 dægra sigling í vestr til Horns á austanverðu Íslandi. En frá Snæfellsnesi, þar sem skemst er, til Grænlands fjögra dægra haf í vestr at sigla. En svá er sagt, ef siglt er ór Björgyn til Hvarfsins á Græn-

---

6) Í sögu Eiríks rauða er svo frá sagt, að Bjarni var í Noregi, er faðir hans, Herjólfur fór af Íslandi með Eiríki til Grænlands. Þegar Bjarni kom út seint um sumarið, réði hann það af, að fara á eftir föður sínum. Í þeirri ferð viltist hann til suðurs og sá lönd skógi vaxin, en steig þó hvergi á land, en komst að lokum norður til Grænlands um veturinn. —Þýð.

landi, at þá mun siglt vera tylft fyrir sunnan Ísland." [7])

Í öðru gömlu riti, lýsingu Ívars Bárðarsonar af Grænlandi, er sagt: "Þat er tveggja daga ok tveggja nátta sigling beint í vestr frá Snæfellsnesi á Íslandi til Grænlands, ok liggja Gunnbjarnarsker beint í leiðinni." [8])

Ólafur Tryggvason var konungur í Noregi, er Leifur kom þangað. Hann hafði tekið kristna trú á Englandi, er hann dvaldist þar; og er hann tók við ríkjum í Noregi leitaðist hann við að kristna landið. Leifur Eiríksson var heiðinn er hann kom til Noregs. Ari fróði segir, að Eiríkur rauði hafi farið með fólki sínu af Íslandi fjórtán árum áður en kristni var lögtekin þar í landi. Fyrir áhrif og beiðni Ólafs konungs gerðist Leifur brátt kristinn og lét skírast.

Þegar Leifur fór til Grænlands árið eftir, lofaði hann konunginum því, að vinna að kristniboði meðal þjóðar sinnar heima fyrir. Tók hann með sér prest norskan sér til aðstoðar við kristniboðið.

En í bakaleiðinni rak hann of langt til suðurs, líklega vegna óveðra, og lenti á ströndum Norður-Ameríku, svo sunnarlega, að hann fann þar þroskuð vínber. Því kallaði hann landið Vínland. Þeir gáfu sér ekki tíma til að kanna landið í það skifti, því þeir óttuðust veturinn og ísa. Héldu þeir því hið bráðasta til Grænlands, og náðu þangað um haustið 1000.

Í sögu Ólafs Tryggvasonar er þessari ferð þannig lýst:

"Ólafr konungr sendi ok þat sama vár Leif Eiríksson til Grænlands at boða þar kristni, ok fór hann þat sumar til Grænlands; hann tók í hafi skipsögn þeirra manna, er þá váru úfærir ok lágu á skipsflaki, og þá fann hann Vínland it góða ok kom um sumarit til Grænlands ok hafði þannug með sér prest ok kennimenn ok fór til vistar í Brattahlíð til Eiríks föðr síns. Menn kölluðu hann síðan Leif hinn hepna, en Eiríkur faðir hans sagði, at þat var samskulda, er Leifr hafði borgit skipsögn manna ok þat er hann hafði flutt skémanninn til Grænlands; þat var prestr." [9])

Amerískur vísindamaður einn í Boston var svo sannfærður um að hann hefði fundið lendingarstað Leifs, að hann lét reisa þar minnisvarða með þessari áletran: "Á þessum stað reisti Leifur Eiríksson búðir sínar árið eitt þúsund."

Bjarni Herjólfsson, sem áður er nefndur og séð hafði strönd Vesturheims árið 986, frétti nú af ferð-

7) Þetta er orðrétt upphaf 112. kap. í Ólafssögu þeirri, sem nefnd er ,og er nálega orðrétt eins og kaflinn um sama efni í Landnámu öndverðri —Þýð.

8) Sjá enn fremur sögu Grænlands eftir prófessor Finn Jónsson, bls. 43, 48 og víðar.—Þýð.

9) Þessi kafli er orðréttur upp úr Heimskringlu Snorra Sturlusonar, og er að mestu samhljóða frásögn Gunnlaugs munks. Skémaður var haft í fyrstu biblíuþýðingum í stað hræsnara. "Vei yður hræsnarar", o.s.frv.—Þýð.

um Leifs og bar þeim alveg saman. Eftir frekari undirbúning lagði Leifur af stað til Vínlands næsta ár til nánari rannsókna og landnáms. Ef vér fylgjum honum á þessari sjóferð, sjáum vér, að fyrsta land, er hann kemur að, er klettótt, og kallar hann það Helluland. Næst komu þeir á land, er slétt var og skógi vaxið, og nefndu það Markland. Að líkindum er það Nova Scotia. Síðar fundu þeir þann hluta strandarinar, er Bjarni hafði séð, og bar lýsingu hans af því nákvæmlega saman við það, er þeir sáu. Þar fundu þeir viltan vínvið og hveiti sjálfsáð og fleiri tegundir ávaxta. Af þessu er augljóst, að land þetta gat ekki verið Grænland eða annað norðlægt land, eins og sumir hafa viljað fullyrða. Það er nú nokkurn veginn einróma álit, að svæði það, er Leifur nam, sé þar sem nú er Massachusetts ríkið í Bandaríkjunum, og bera fleiri sagnir af þeim leiðangri þess nægan vott.

Þeir fóru til Grænlands aftur næsta ár og höfðu margt að segja af ferðum sínum. Þetta varð til þess að aðrir, þeirra á meðal Þorvaldur bróðir Leifs, er áleit landið ekki nægilega kannað, freistuðust til að leita þangað gæfunnar. Hann keypti skip af bróður sínum, og sigldi af stað að leita Vínlands hins góða vorið 1002. Þeir náðu til áfangastaðarins og bjuggust um fyrir veturinn að Leifsbúðum.

Vér getum auðveldlega gert oss í hugarlund sálarástand þessara ævintíragjörnu manna í hinu nýja og óþekta umhverfi. Þeir leituðust við að kanna og rannsaka alla hluti, fóru langar ferðir um nærliggjandi landsvæði, firði og víkur. Þar af leiddi, að þeir fengu all-nákvæma þekkingu á landinu umhverfis sig.

Þeir urðu og brátt þess varir, að landið var bygt, og nefndu þeir íbúana Skrælingja. Sló oft í bardaga með þeim, og var Þorvaldur skotinn banvænni ör, og dó hann af því sári eftir mikil harmkvæli. Þorvaldur var kristinn og bað félaga sína að reisa kross yfir gröf sinni. Þetta var fyrsta greftrun kristins manns í amerískri mold.

Þessi leiðangur stóð yfir í tvö ár. Á þeim tíma höfðu þeir komist þangað, sem nú nefnist Connecticut, og jafnvel ferðast lengra suður. En hve langt suður þeir fóru, er ekki auðið að segja með vissu. Samt sem áður, ef dæma má af þjóðsögum Indíána, höfum vér ástæður til að halda, að vegsummerki þeirra hafi fundist eins langt suður og Maryland nær. Af fornsögunum vitum vér og með vissu, að tilætlun þessara manna var að setjast að í hinu nýfundna landi.

Leifur átti annan bróður, er Þorsteinn hét, sem nú ákvað næst að sigla til Vínlands hins góða. Sú för mishepnaðist nú samt, og eftir hafvillur, hrakninga og nokkurra mánaða útivist komst hann að lokum heim til Grænlands aftur og dó þar skömmu síðar.

Um þetta bil bar svo til, að sænskur maður[10]), Þorfinnur Karlsefni að nafni, kom til Grænlands. Maður þessi var beinn afkomandi Bjarnar Járnsíðu, er getið er í sögu Svíaríkis. Hann kvæntist Guðríði, ekkju Þorsteins Eiríkssonar, og dvaldist í Brattahlíð um veturinn. Margar og furðulegar sagnir heyrði hann um Vínland á hinum löngu vetrarkvöldum, landið er konu-mágar hans höfðu fundið, og varð það til þess, að hann einnig ákvað að leita þangað. En hann var ekki á því að fara rannsóknarför eingöngu. Á skipi sínu hafði hann með sér sex menn og fimm konur og allskonar kvikfénað. [11])

Fyrsti veturinn í hinu nýja landi leið án nokkurra vandræða, en um sumarið komu Indíánarnir til sögunnar. Komu þeir út úr skóginum og buðu grávöru í skiftum fyrir vopn og málnytu.

Í þessu sambandi má eigi gleyma að geta þess, að þeim Karlsefni og Guðríði fæddist sonur þar í nýlendunni árið 1008. Var hann því fyrsta barn af hvítum foreldrum í þessu landi — sænskur drengur. [12]) Hann var nefndur Snorri, og gekk undir nafninu Snorri Þorfinnsson. Hann var forfaðir hins fræga myndhöggvara Alberts Thorvaldsens, og skáldsins alþekta Björnstjerne Björnsons.

Smámsaman fóru Indíánarnir að koma í stærri og stærri hópum, og réðu örlögin því, að fundir þeirra urðu eigi eins friðsælir og hinn fyrsti. Sló að síðustu í bardaga með þeim, og börðust menn Þorfinns svo við yfirgnæfandi meiri hluta Indíána og drápu fjölda þeirra, en hinir flýðu. Eftir þann atburð réði Þorfinnur af að hætta þessu fyrirtæki, er hann hafði til stofnað með svo mikilli fyrirhyggju. Hann var af þann vetur í Vínlandi, en sneri til Grænlands aftur um vorið, og tók með sér hleðslu af vínberjum og skinnavöru, en varð jafnframt að viðurkenna, að landnám sitt hefði mis-

---

10) Þorfinnur var samkvæmt Landnámu fjórði maður frá landnámsmanni, en sjöundi frá Ragnari Loðbrók föður Bjarnar Járnsíðu, og Þorfinns saga telur hann í áttunda lið frá Ragnari. Faðir Þorfinns var Þórir hesthöfði, Snorrason, Höfða-Þórissonar, er nam Höfðaströnd alla í Skagafirði. En Þórður sá var sonur Bjarnar Byrðusmjörs, Hrólfssonar Hryggs (Ásleikssonar) Bjarnarsonar Járnsíðu, Ragnarssonar Loðbrókar, Danakonungs. Mætti því eins vel kalla Þorfinn danskan, eða írskan því langamma hans var af ætt Kjarvals írakonungs, ef ómögulega má unna honum Íslendings-nafnsins. Þar við bætist það, að Karlsefni lifði lengstan hluta æfinnar á Íslandi, og í Skagafirði bjó hann til dauðadags, eftir Grænlands- og Vínlandsför sína.—Þýð.

11) Í Eiríkssögu hins rauða er sagt, að í för með Karlsefni hafi verið ráðnir fyrir skipverja sextigi karlar og konur fimm En í Þorfinns sögu er sagt, að í leiðangrinum hafi alls verið fjórir tugir manna og hundrað. Og ber því betur saman við áletrun Assonet steinsins, er getið er um síðar í grein þessari.—Þýð.

12) Sjá skýringu mína um ættlegg Þorfinns hér að framan. Snorri kom með foreldrum sínum til Íslands 1014 og bjó eftir föður sinn að Glaumbæ í Skagafirði til dauðadags. Er þá liðið á aðra öld frá útkomu Höfða-Þóris landnámsmanns, forföður þeirra, og líkl. hátt á þriðju öld frá tíð Bjarnar Járnsíðu, Svíakonungs, hins eina í ættinni, er í Svíþjóð ílengdist svo sögur fari af. Og samt er drengurinn sænskur.—Þýð.

hepnast. Þessi óhöpp urðu þó eigi til þess, að fæla aðra frá margendurteknum tilraunum til að byggja hið nýja land, eins og betur skal skýrt.

Frá þessum tíma eru til söguleg gögn um ferðir ýmsra sjófarenda til Vínlands. Vér vitum einnig, að biskup einn, Jón að nafni, fór til Vínlands til að sjá fyrir hinni andlegu þörf nýlendubúa. Þetta var árið 1059. Hann var brátt myrtur, og varð því fyrsti kristinn píslarvottur í hinum nýja heimi. Á eftir honum kom Eiríkur Gnúpason, áður biskup í Grænlandi, en sem var vígður biskup yfir Vínlandi af engu minna smámenni, en sjálfum erkibiskupinum í Lundi í Svíþjóð. Forn skjöl sýna, að frá árinu 1150 til ársins 1408 voru vígðir hvorki meira né minna en fimtán biskupar til þjónustu á Grænlandi og Vínlandi. Kyrkjur voru bygðar, sem auðvitað sýnir, að söfnuðir hafa verið stofnaðir, svo á tólftu öld hefir, þegar tekið er tillit til kringumstæðanna, verið komið á stofn fast og skipulegt mannfélags fyrirkomulag í Vínlandi.

Söfnuðirnir í Grænlandi og í Vínlandi hafa hlotið að standa í beinu sambandi við páfastólinn í Róm. Í bókasafni Vatíkansins eru skjöl, er bera með sér, að páfinn hafði tekjur frá þessum biskupsdæmum handan við Atlantshaf. Eitt þeirra er dagsett "*Ann. Dom. MCCCXXIII et die mensis Augusti.*"

Af páfabréfi, gefnu út af Nikulási páfa V. árið 1448, sjáum vér, að kyrkjurnar á Grænlandi og á Vínlandi biðu stórtjón af árásum Skrælingja. Níu kirkjusóknir sluppu samt undan. Pílagrímsferðir voru farnar frá Grænlandi til Róm, og voru menn frá Vínlandi í þeim förum. Alt þetta sýnir mjög ljóslega, að Vínland var vel þekt meðal æðri stéttarinnar í Róm. Hví þá ekki meðal annara mentamanna í Evrópu?

Sagnaritarinn Adam af Brimum færir og óhrekjandi rök fyrir sannindum íslenzku frásagnanna. Í riti sínu "*De Situ Daniæ*", frá árinu 1073, getur hann Vínlands, og segist vita með vissu, að það séu eigi skröksögur, heldur áreiðanleg frásögn, er hann hafi fengið frá Dönum ("*non fabulosa opinione sed certa Danorum comperimus relatione.*") Þess er vert að geta, að bók þessi var rituð löngu áður en norrænu sögunum var safnað og áður en nokkur maður hafði tækifæri til að kynnast atburðunum frá ritum Íslendinga.

Auk þessa ritverks eru til biskupaskýrslur og bréf til páfa, og enn fremur ítölsk frásögn frá þrettándu öld, rituð af Antonius Zeno. Árið 1390 var Nicola bróðir Antoníusar í förum norður í höfum og kom við á Grænlandi. Síðar varð hann skipreika við Færeyjar. Þar gekk hann í þjónustu norræns sækonungs og var með honum í mörgum svaðilförum. Antonius kom til Færeyja árið 1392 og dvaldist þar í fjórtán ár, og á

þeim tíma skrifaði hann þessa frásögn sína. Hann getur um atburð, sem skeði 1360, er fiskimenn nokkrir lentu í sjóhrakningum og brutu skip sitt við land, er þeir kölluðu Estitoland. Konungurinn þar tók vel á móti þeim, og komu þeir þar í ljómandi fallegt þorp og sáu þar marga sjaldséða hluti, og þar á meðal latneskar bækur. En að eins einn maður þar gat lesið þær. Hafði hann borist þangað á svipaðan hátt og þessir fiskimenn, og vann þar eins og túlkur fyrir þorpsbúa. Eftir mikla erviðleika tókst sjómönnum þessum að bæta skip sitt og sigla heim til Færeyja. Frásögn þessari fylgir landabréf, sem ennþá er til og eftirmynd er af hér að framan. Hinn frægi landkönnuður Nordenskjöld fullyrðir, að frásögn þessi og kort séu algjörlega ábyggileg — að hvorugt hefði getað verið búið til af ókunnugum mönnum.

Þegar fyrstu landnemarnir á dögum Columbusar komu á vissan stað á austurströndinni, fundu þeir þar fyrir blómlegt þorp með lifnaðarháttum algjörlega ólíkum lifnaðarháttum Indíánanna. Í þessari borg sá John Walker sútunarhús, þar sem hann taldi þrjú hundruð villiuxa húðir, er mældust um átján ferhyrningsfet hver. Borg þessi hét Norumbega. 13)

Frá því er John Cabot kom á þessar slóðir Ameríku árið 1479 og fram að komu Wintrops, 1634, minnast eigi færri en seytján landkönnunarmenn, að þeim báðum meðtöldum, á borgina eða héraðið Norumbega, er þeir settu á landabréf sín nálægt 43. breiddarstigi. Thevet, er kom þangað árið 1556, merkir hana á 42.14 breiddargráðu, sem eigi er fjarri svæði því, er Boston stendur á (42° 18"). 14) Þegar Daniel Ingraham 15)

---

13) Um uppruna orðsins hafa orðið mjög skiftar skoðanir, eins og títt er, þegar fræðimenn deila. Grotius stakk fyrstur upp á því, að það væri sama og Norbergia, og væri af norrænum stofni. Prófessor E. N. Horsford, sem manna mest rannsakaði þessi mál og skrifaði tvær bækur um þau efni, "Defences of Norumbega" og "Discovery of the Ancient City of Norumbega", telur orðið óhikað norrænt, og getur sér til að það sé afbökun af Norvegur. Aðrir, sem ekki mega heyra neitt norrænt nefnt í þessu sambandi, reyna að leiða það af frönskum eða spænskum uppruna, eða jafnvel úr Indíánamáli; og þýði þá eitthvað svipað orð þar "stöðuvatn" eða "stórborg"(!!)—Þýð.

14) Því fer fjarri að öllum þessum mönnum beri saman um legu eða stærð Norumbega héraðsins. Gastaldi, t.d., merkir það á landabréfi sínu (1556) nálægt Cape Breton; aðrir hér eða þar á Nýja Englands ströndinni — sumir eins sunnarlega og Virginia. Einn ferðalangur, er ritar undir dularnafninu "Kapteinn Dieppe" árið 1539, telur Norumbega ná alla leið sunnan frá Florida og norður að Cape Breton.—Þýð.

15) Þetta minnir á annan mann með líku nafni, David Ingram, er kvaðst hafa verið í leiðangri með Sir John Hawkins, hinum nafnkunna þrælaverzlara og sjóliðsforingja Englendinga, og verið settur á land suður við Mexicoflóa. Hann segist hafa þrætt slóðir Indíána alla leið norður að St. Johns-á í Canada, og komið þangað árið 1569. Á þeirri ferð fór hann í gegn um Norumbega þorpið, er hann kvað vera um þrjá mílufjórðunga á lengd. Húsin voru með súlum úr krystalli og silfri, og þar sá hann mæliker full af perlum, og rúbína sex þumlunga langa. Kvað hann fólkið hafa verið skreytt gulli og gimsteinum og klætt í dýrindis loðfatnað. Þetta var síðar prentað, og vakti svo mikla eftirtekt, að Sir Humphry Gilbert gerði út leiðangur nokkru síðar (1583) til að kynna sér landið. Hafði hann með sér skáld, er Parmenius hét, til að frægja för-

kom til Norumbega árið 1569, segir hann að borgin hafi náð yfir fulla þrjá fjórðu hluta úr mílu, og Bellinger taldi eigi færri en áttatíu íbúðarhús innan landamæra þorpsins. Það má því telja vafalaust, að Norumbega er sama og Estitoland, er Zeno talar um.

Prófessor E. N. Horsford komst, eftir nákvæma rannsókn, að þeirri niðurstöðu, að á sú, er nú nefnist Charles River, væri hin forna Norumbega-á, og að þorpið hefði staðið á bökkum hennar. Hann er enn fremur sannfærður um, að borgin Watertown í Massachusetts ríkinu, sé bygð ofan á hinum fornu rústum Norumbega. Á takmörkum Cambridge og Watertown fann hann staðinn, sem Leifur Eiríksson bygði á hlöður sínar. Honum auðnaðist einnig að grafa upp undirstöðu húsa, er samkvæmt öllum lýsingum voru bygð af hinum norrænu landnemum, ásamt verkfærum og öðrum munum af sama uppruna. Minnisvarði úr steini hefir þessum norrænu víkingum verið reistur í Watertown.

En nú eru þetta ekki öll sönnunargögnin fyrir norrænu landnámi í Ameríku. Þó-nokkrir rúnasteinar hafa fundist í Rhode Island ríkinu, sem eru óyggjandi sönnunargögn. Í bréfi, dags. 31. okt. 1835, frá Dr. Thomas H. Webb, þáverandi ritara Rhode Island Historical Society, til próf. C. C. Rafn í Danmörku, er greinilega skýrt frá hvar steinar þessir hafi fundist, ásamt letrinu, sem á þeim er. Á þremur þessara steina eru rúnirnar vel læsilegar.



*Assonet steinninn, eða Dighton kletturinn, við Tanton ána. sem lýst er hér í greininni.*

Merkastur þessara rúnasteina er hinn svonefndi Assonet steinn, eða Dighton kletturinn, eins og hann er líka kallaður, er liggur á austurbakka Tanton árinnar. Er hann tólf feta langur og fimm feta breiður. Letrið á honum hefir verið lesið og ráðið af mörgum fræðimönnum, og ber þeim öllum að meira eða minna leyti saman um, að þetta sé efni þess:—

ina í ljóðum og riti. En Sir Gilbert kom aldrei þangað; enda fórst hann í þeirri ferð.—Þýð.

Fyrst sjáum vér rómversku tölurnar CXXXI (131). Fast við þær eru samandregnar rúnir, er tákna stafina N A M, og neðan undir til vinstri stafur, er í fyrsta áliti líkist P, en er óefað norræna *þornið* (Þ); næst er konumynd, og á eftir henni orðið ORFINS. Það, sem með vissu er læsilegt, er því: "CXXXI NAM ÞORFINS". For feður vorir töldu 120 í hundraði hverju, og þá sjáum vér, að stafurinn C táknar 120, að viðbættu XXXI kemur út talan 151, sem er tala þeirra manna og kvenna er voru í leiðangri Þorfinns til Vínlands. NAM er vafalaust þátíð af íslenzku sögninni *nema* (sbr *nehmen* á þýzku) og þýðir að *taka* Í fornsögunum er stundum að eins sagt *nam* fyrir *nam land,* og þýða þá rúnirnar: 151 (*menn*) *Þorfins tóku* (*landið*) *undir sig.*[16])

Sívali turninn í Newport, R.I., er einnig álitinn menjar frá Vínlandsbygð hinni fornu. Prófessor R. G. Hatfield ritaði grein um turn þenna í "Scribner's Magazine" í marz 1879, og segir þar meðal annars þetta:—

"Vér vitum með vissu, að turn þessi var bygður og brúkaður fyrir skírnar-kapellu, og ætti því með



*Sívali Turninn, eða Gamla Steinmyllan í Newport, R. I.*

réttu að nefnast "*Skírnar kapella Vínlands*". Hann er elzta bygging kristinna manna í Ameríku—að minsta kosti 800 ára gamall, og ætti því að varðveitast sem sögulegt minnismerki, og vera hafður fyrir forngripasafn."[17])

---

16) Síðan hafa fundist fleiri steinar með rúnaristum á, þar á meðal Kensington-steinninn í Minnesota. Fanst hann undir rótum trés eins, er höggvið var, og grasafræðingar sögðu, að eigi gæti verið yngra en 100 ára í minsta lagi. Um þann stein hefir mikið verið skrifað, eigi síður en Dighton klettinn, og báðir lýstir falsaðir eða marklausir af sumum, en fullgildir af öðrum. En sé Dighton steinninn nokkuð líkur mynd þeirri, sem hér er prentuð, er álíka nærgætið að fullyrða, að hann sé Indíána verk, og það að Norumbega sé Indíána orð eða spánverskt, af því að í spænsku eru til orðin vagas og bagas, sem þýða grund eða slétta.—Þýð.

17) Til skamms tíma voru flestir, er um þessa gömlu byggingu skrifuðu, á sama máli, að hér væri um fornar rústir norrænna manna að ræða, þeirra á meðal var skáldið Fenimore Cooper. Gátu sumir þess til, að hún hefði verið höfð fyrir vígi gegn árásum villimanna. Nýskeð

Þegar vér nú yfirvegum þessar óhrekjanlegu sannanir fyrir því, að Norðurlandamenn urðu fyrstir til að finna og byggja meginland Vesturheims, þá rís sú spurning upp í huga vorum: Hver urðu endalok þessara nýlenda? Spurningunni má svara á þann hátt, að heimurinn hafi eigi verið þvílíkum landafundum vaxinn. Þessir fáu landnemar voru látnir afskiftalausir um fund sinn. Jafnvel móðurþjóðirnar á Norðurlöndum létu sér annara um innbyrðis ófrið og styrjaldir, í stað þess að styðja að eða taka þátt í þessu landnámi. Önnur lönd Evrópu einblíndu á Jerúsalem, og sendu herflokka sína í miljóna tali undir merki krossins með því augnamiði að ná á sitt vald gröf Krists. Páfinn var á þeim tímum einvaldur í heiminum, og hann hafði öðru að sinna en að skifta sér af landnámi og byggingu Vesturheims.

---

þykjast menn þó hafa komist að því með sanni, að þetta sé uppgjafa vindmylna, er Benedict Arnold nýlendustjóri í Rhode Island hafi bygt árið 1675. Í merku alfræðiriti, nýlega útgefnu í Bandaríkjunum, hefi eg séð á tveim stöðum minst á þetta. En í hvorugum staðnum er það þó fullyrt, — að eins sagt að **alment sé nú álitið**, og að **svo virðist**, sem hann hafi bygt þarna vindmylnu. Er eigi ólíklegt að hann hafi látið hressa upp á þetta forna vígi, og snúið því svo upp í vindmylnu.— —Þýð.

Þrátt fyrir alt þetta, hefðu nýlendubúarnir þó vafalaust haft það af, ef hinn illvígasti og sterkasti óvinur mannkynsins, Svartidauðinn, hefði eigi sótt þá heim, sem á árunum 1348—1350 tók þvílíkar voða mannfórnir. Að minsta kosti tuttugu og fimm miljónir Evrópubúa dóu úr þessari plágu á tiltölulega fáum mánuðum, og vissa er fyrir því, að á Íslandi, Grænlandi og Vínlandi urðu menn afar hart úti í þessari landfarsótt. Það er skiljanlegt, að ferðir til Vesturheims legðust niður undir þvílíkum kringumstæðum. Eftir það var Indíánum hægurinn hjá, að afmá síðustu leifar nýlendumannanna.

Þau sannindi, að Leifur Eiríksson var fyrsti hvítur landnámsmaður Ameríku, eru alt af vinna sér fleiri áhangendur á meðal málsmetandi sagnfræðinga, og nú sem stendur eru til þrír minnisvarðar til maklegs heiðurs þessum hugdjarfa manni, — einn í Boston, annar í Milwaukee og hinn þriðji í Chicago. Auk minnismerkisins í Watertown, er og Þorfinni Karlsefni reistur minnvarði í Philadelphiu.

Það er eigi nema skylt, að þeim sé veittur heiðurinn, sem heiðurinn ber.



# Þjóðræknis-samtök Íslendinga í Vesturheimi.

Eftir RÖGNV. PÉTURSSON.

(Framh. frá IV. árgangi)



Þó þessi yrðu úrslit fundarins, var málinu eigi þar með lokið. Óánægja var megn meðal þeirra, er breyta vildu til um daginn, og höfðu þeir fund með sér 3. júní og báru saman ráð sín um, hvað gjöra skyldi. Ekki var fundur sá alment boðaður. Álitu margir, að almenningsviljinn hefði eigi komið í ljós við þessa síðustu atkvæðagreiðslu, en vissu um það var eigi unt að fá, nema fólk væri alment fundið að máli. Var þar því ákveðið, að farið skyldi manna á meðal og komist eftir vilja fólks í þessu efni, og þá, ef svo réðist, efnt til fundar að nýju. Skipuð var sjö manna nefnd til að semja yfirlýsingu, er svo skyldi lögð fram til undirskrifta. Eftir nokkura daga var svo boðað til almenns fundar með auglýsingu í Lögb. 9 júní, að tilhlutan flestra þeirra manna, er mælt höfðu með 17. júní. Skyldi fundurinn haldinn að kveldi hins 13. júní í stórum samkomusal niður í miðhluta borgarinnar, svo nefndu Albert Hall. Eigi var fundarboð þetta afhent til birtingar í "Heimskr.", og spunnust út af því deilur síðar.

Eigi var fyr boðað til þessa fundar en báðir málsaðiljar tóku að safna liði hvor í kapp við annan. Þá voru og tekin loforð af þeim, er kerrur áttu og flutningstæki önnur, svo sem mjólkursölumönnum og fleirum, um að flytja fólk á fundarstaðinn, er annars treystist eigi til að fara. Gekk á þessu dagana fyrir og var þá búið að hafa tal af flestum Íslendingum, er heima áttu í borginni.

Er leið að fundartíma, þess þrettánda, var fjöldi manns kominn á samkomustaðinn, en einkum þeir, er þangað höfðu verið fluttir, svo að all-nokkurri stundu áður en fundur átti að byrja, var salurinn alskipaður, og höfðu þá 2. ágústs menn orðið heldur fyrri til að koma þangað liði sínu. Sat nú hver þar sem hann var kominn og rótaði sér hvergi, enda voru þar margir lítt örir í vendingum — aldraðir menn og konur, er aflagt höfðu fundarsókn. Að lokum komust eigi fleiri inn, svo að aftur varð að snúa með suma, er ekið hafði verið með þangað. Fyltist þá gangurinn niður úr fundarsalnum og alt út á stræti og svo gangtröðin fram með húsinu til beggja hliða, og út á aðalstræti borgarinnar. Er það allra mál, að eigi hafi fjölmennari fundur

haldinn verið meðal Íslendinga í Winnipeg. Er svo var komið, varð fundarsköpum naumast við komið. Sendur hafði verið þangað lögregluþjónn að undirlagi einhvers, til að gæta góðra siða Var fundur settur.

Tilraun gjörði fundarstjóri, Sigtryggur Jónasson, að skýra málefni það, er fyrir lá, gat þess, að fundurinn væri boðaður svo gott sem að beiðni 300 manna, er allir hefðu tjáð sig fylgjandi því, að 17. júní yrði kjörinn þjóðminningardagur í stað 2. ágústs. Eigi heyrðist ræða hans fram um salinn. Eftir nokkrar tilraunir, er fóru á sömu leið, af hálfu ýmsra annara ræðumanna, sáu þeir, er fyrir fundinum stóðu, að til einskis myndi koma. Var því eigi annað fyrir en einhverjum ráðum að hafa mannsafnaðinn burtu og slíta fundi. En það var vandinn meiri. Var nú komið í orðasennu millum ýmsra forgöngumanna beggja flokkanna og fremur tekið að óspekjast. Hétu þá einhverjir nærstaddir á Magnús Paulson að finna til þess ráð að af fundi yrði gengið. Kvaddi hann sér þá hljóðs, gat þess, að þegar væri ofmargir komnir í fundarsalinn til þess að hættulaust mætti heita Kvað hann loftsal þenna eigi svo traustan vera, að hann mætti þola þyngsli þau, er nú væri þar saman söfnuð, ef til nokkurs kæmi, væru því fundarmenn í hinni mestu hættu staddir eins og komið væri. Mæltist hann til, að menn léti að orðum sínum og hefði sig á burt, áður en til skaða kæmi. Einn vin sagðist hann eiga hér inni, er sér væri öðrum fremur ant um, en það væri konan sín, kvaðst hann nú vilja biðja hana að verða fyrsta til þess að rýma úr salnum. Eigi hafði hann fyr lokið erindi þessu, en nokkurir fóru að hafa sig burtu. Stóð þá B. L. Baldwinson upp og bað fólk að hreyfa sig hvergi. Ef salur þessi væri svo ótraustur, sem látið væri, ætti almenningur ekki sök á því, heldur þeir, er boðað hefðu til fundarins, en sjálfur kvaðst hann ekki álíta, að hin minsta hætta væri á ferðum. Kom þá stanz á marga, er ætluðu að fara. Bar hann því næst fram þá tillögu, að haldið væri fast við 2. ágúst sem Íslendingadag. Eigi vildi forseti taka tillöguna til greina. Bar þá uppástungumaður upp tillöguna sjálfur, og var hún samþykt með stórum atkvæðamun. Voru þá 17. júní menn margir gengnir af fundi. Virtist þá ekki vera eftir fleiru að bíða. Sundraðist fundurinn svo að eftir lítinn tíma voru flestir farnir. Var nú haldið í smá-hópum vestur göturnar og heimleiðis. Heyrðist þá sagt, er farið var af stað frá fundarsalnum: "Við höfum tapað, en skríllinn vann." Voru orð þessi höfð að máltæki síðar, og hafa þau þannig í minni loðað.

Nokkru fyrir þenna fund hafði B. L. Baldwinson, sem forseti fráfarandi Íslendingadags - nefndar boðað til fundar á "Northwest

Hall''; "til að kjósa nefnd til að standa fyrir Íslendingadags haldi 2 ágúst." Fundarboðið var birt í báðum blöðunum 9. júní og skyldi fundur haldinn að kveldi þess 15 Eigi komu 17. júní menn til þess fundar. Nefnd var kosin, og urðu þessir fyrir kjöri:

B. L. Baldwinson, forseti,
Gunnar Sveinsson, féhirðir,
Magnús Pétursson, skrifari,
Þórhallur Sigvaldason,
Björn F. Walters, (ritst. Hkr.)
Hjörtur Lárusson,
Eiríkur Gíslason, og
Sigfús Anderson.

En það er frá 17. júní mönnum að segja, að þeir ákváðu að taka engan þátt í hátíðahaldinu í Winnipeg það sumar. Gjörði Sigtryggur Jónasson yfirlýsingu í "Lögb." (16. júní), þess efnis, að þeir "segðu sig úr lögum við 2 ágústs menn." Ákváðu þeir að fara til Selkirk og vera á þjóðminningarhátíð Íslendinga þar, er haldin var 17. júní. Vistuðu þeir sérstaka járnbrautarlest, er þangað fór að morgni þess 17. Um 200 manns fóru þangað norður (4 járnbrautarvagnar, "Lögb." 28. júní 1898). Ræður fluttu af hálfu Winnipeg manna: Sigtryggur Jónasson, fyrir minni Canada; en fyrir hönd gestanna: séra Jón Bjarnason, Magnús Paulson og Árni Friðriksson. Auk þess mælti Klemens Jónasson fyrir minni Íslands og Matthías Þórðarson fyrir minni Vestur-Íslendinga.

Í Winnipeg fór hátíðin fram sem ákveðið var 2. ágúst og mæltu þessir fyrir minnum: Guðmundur A. Dalmann frá Minneota, Minn. fyrir minni Íslands; Skafti B. Brynjólfsson, er þá bjó í Dakota fyrir minni Vesturheims, og Einar Ólafsson fyrir minni Vestur-Íslendinga — Utan Winnipeg var hátíðin haldin á þessum stöðum auk þeirra, er þegar eru taldir: Í Laufásbygð; á Big Point vestan Manitoba vatns; í Brandon; í Álftavatnsbygð og við Íslendingafljót, 17. júní. Í Spanish Fork í Utah; í Alberta nýlendu og að Hnausum í Nýja Íslandi, 2. ágúst

Lá nú mál þetta niðri það sem eftir var ársins og fram á næsta vor, en þá byrjuðu umræður um það aftur. En eigi dró til samkomulags. Sátu báðir flokkar við sinn keip. Um vorið kölluðu nokkurir leiðandi menn í Argylebygð til fundar þar innan héraðs til þess að ræða málið. Komu fundarmenn saman 30. maí. Ákveðið var á fundinum að leita samkomulags um daginn og svohljóðandi tillaga samþykt: "Vér ráðum til, að hvergi verði haldinn Íslendingadagur á þessu ári, fyr en eftir að búið er að gjöra ítrustu tilraunir til samkomulags um málið". Nefnd var kosin á fundinum, er að þessu skyldi vinna, og birti hún í "Lögb" 15 júní 1899 ávarp til Íslendinga, og skýrði þar jafnframt frá fundarsamþyktinni. Í nefndina voru kosnir: Friðjón Friðriksson, Björn Jónsson og Sigurður Christopherson. En til

eins kom með þetta, sem áður. Ávarpinu var enginn sjáanlegur gaumur gefinn og fór svo hinu sama fram sem hið fyrra ár Hátíðin var haldin 2. ágúst í Winnipeg, í Alberta nýlendu, í Spanish Fork í Utah, og ef til vill víðar, þó þess finnist ekki getið

Vorið eftir, 2. apríl 1900, kallaði þessi samkomulags-nefnd Argylebúa, aftur til fundar þar í bygðinni. Skýrði hún frá hvaða tilraunir hún hefði gjört til þess að koma á samkomulagi og að allar hefðu mishepnast. Réði hún nú til þess, að horfið væri frá báðum dögunum, 17. júní og 2. ágúst, því að um þá myndi aldrei verða eining, en í þess stað tekinn upp 19. júní, landtökudagur Íslendinga 1870. Voru tillögur hennar samþyktar og henni á ný falið að vinna að því að þessi dagur yrði viðtekinn. Enn fremur samþykti fundurinn, að halda hátíð þenna dag, þar í bygðinni. Birti nú nefndin opið bréf í "Lögb." 24. maí, og rituðu undir það Friðjón Friðriksson og Björn Jónsson. Fram á það er farið, að efnt skuli til einskonar almenns fulltrúamóts í Argyle-bygð eigi síðar en 18. júní það ár, og skuli fundur þessi skera úr því, hvenær hátíðin skuli haldin framvegis. Vill nefndin, að haldnir séu fundir meðal manna í hverju bygðarlagi og fulltrúar kosnir til hins fyrirhugaða allsherjarfundar, er fult umboð hafi, hver úr sínu héraði, til þess að útkljá þetta mál. Enn fremur leggur nefndin það til, að úr þeim bygðarlögum, er sökum fjarlægðar við fundarstað kostnaður verði of mikill við að senda erindisreka á fulltrúafundinn, sé nefndinni skrifað og með bréfum tekið fram hvaða stefnu héraðsmenn aðhyllist í málinu. Ritstjóri "Lögb.", Sigtryggur Jónasson mælti eindregið með þessum tillögum, en meðal almennings urðu undirtektir daufar Engir voru fundir haldnir og engir fulltrúar sendir. Var áhuginn víða tekinn að dofna, er deila þessi hafði nú staðið yfir í samfleytt þrjú ár, svo að hátíðahöld lögðust víða niður, þar sem þau höfðu áður verið. Í Winnipeg var fylgi manna jafn-eindregið með 2. ágúst og verið hafði.

Er tilraunir þessar urðu að engu, endurnýjuðu 17. júní menn ákvæði sitt frá fyrra ári, að eiga engan þátt í hátíðahaldi í Winnipeg 2. ágúst. Kom þeim saman um, að fara vestur til Argyle, svo margir, sem því gætu við komið, og vera þar viðstaddir hátíðahaldið 19. júní. Vistuðu þeir aukalest frá Winnipeg, er þangað fór að morgni þess 19. og með henni um 200 manns (sbr. "Lögb." 21. júní 1900).

Í Winnipeg fór hátíðarhaldið fram sem að undanförnu 2. ágúst og enn fremur á þessum stöðum: Hnausum í Nýja Íslandi, Markerville í Alberta-nýlendu; Spanish Fork Utah; og í Álftavatnsbygð.

Ekki voru fleiri tilraunir gjörðar til samkomulags eða daga-

breytingar. Féllu þá og deilurnar út af deginum, er staðið höfðu á milli blaðanna, að mestu leyti niður. Stöfuðu þær að stórum hluta frá pólitiskum ágreiningi milli ritstjóranna. Þá um sumarið lét Sigtryggur Jónasson af ritstjórn "Lögbergs", en við tók af honum Magnús Paulson (18. júlí 1901), sem áður er sagt. Flokkadráttur hélst þó manna á meðal um allnokkurn tíma. Þetta sumar var hátíðin haldin 2. ágúst í Winnipeg, í Alberta-nýlendu, í Spanish Fork, að Hnausum og í Álftavatnsbygð, og sömuleiðis hið næsta ár.

Eigi hafði opinberum umræðum slitið fyr en að draga tók úr almennum áhuga fyrir hátíðahaldinu, svo innan Winnipegbæjar sem utan. Í þeim bygðarlögum, er áður höfðu haldið Íslendingadag 17. júní, lagðist hátíðin niður og hefir eigi verið tekin upp aftur. Á sömu leið fór í sumum hinna bygðarlaganna, er haldið höfðu upp á 2. ágúst. Ekki er hátíðarhalds getið um langt skeið að Hnausum eftir þetta, né í Álftavatnsnýlendu eftir sumarið 1902. Nokkru seinna mun og Íslendingadagur hafa verið lagður niður í Spanish Fork. Í Winnipeg hnignaði hátíðinni að mun með ári hverju, þó yfir tæki sumarið 1903. (Sbr. "Lögb." 20. ágúst 1903, og mótritgjörðir í "Hkr." sama ár). Var það einróma álit allra, að sú hátíð hefði verið ómerkilegust allra, er til þess tíma höfðu haldnar verið. Þá dvínaði áhugi manna fyrir því að sækja fundi, er kjósa skyld forstöðunefnd til að standa fyrir hátíðahaldinu. Um ekkert var að keppa og við ekkert að fást. Sumurin 1903 og 1904 voru fundir svo illa sóttir, að boða varð í bæði skiftin til nýs fundar, svo nefnd yrði kosin (sbr. "Hkr." 1. júní 1905). Er svo var komið, lét að líkum með nefndarkjörið, en á því valt í hvert skifti, hvernig hátíðin myndi takast. Nokkrir slógu sér og fyrir á fundum þessum, vildu helzt einir öllu ráða, sem væri þetta þeirra einkamál er öðrum kæmi ekki við. Þá fanst og mörgum, sem hinn upprunalegi tilgangur hátíðarinnar vera tapaður, er kraftarnir voru sundraðir, skoðanir skiftar og samtök engin. Þessi varð þá ávinningurinn við deilurnar, að sem næst lá við, að hátíðin legðist hvarvetna niður og yrði hvergi haldin. Hefði að líkindum svo farið, ef ekki hefði ýmislegt annað komið til sögunnar til að afstýra því.

Um og eftir aldamótin fluttu margir Íslendingar inn til bæjarins og settust þar að. Komu þeir úr hinum eldri bygðarlögum og allmargir beina leið frá Íslandi. Þetta breytti að miklu leyti hinu íslenzka félagslífi í bænum, braut niður marga smá fordóma, er farnir voru að festast og vilti fyrir um flokkaskiftingu. Fæstir eða engir þessara manna höfðu tekið nokkurn þátt í deilunum um þjóðminningardaginn. Flestum, ef

ekki öllum, var ant um alt það sem stuðlað gat að því að efla og glæða þjóðræknistilfinninguna út á meðal almennings. Meðal þeirra, er til bæjarins komu um þetta leyti má sérstaklega tilnefna tvo menn, er þegar höfðu við mál manna komið, þó í öðrum efnum væri, en það voru þeir Skapti B. Brynjólfsson og séra Friðrik J. Bergmann. Komu þeir báðir frá Dakota, hinn fyrnefndi vorið 1902 og hinn síðarnefndi haustið 1901, þá til vetrardvalar sem kennari í íslenzkum bókmentum og tungu við Wesley College, en alfluttur sumarið eftir. Eigi löngu eftir komu þeirra til bæjarins tóku báðir að gefa sig við almennum félagsmálum. Þó aðkomumenn væru, voru báðir þjóðkunnir og áttu mörg og mikil ítök í hugum fólks í bænum. Séra Friðrik var annar æðsti maður kirkjufélagsins, og því sjálfkjörinn leiðtogi þeirra manna, er innan þess félagsskapar stóðu, er deilt höfðu um daginn og verið með breytingunni, — en þeir voru flestir þaðan. Hann skipaði embætti, er kirkjufélagið hafði stofnað og var í sérstökum skilningi *íslenzkt embætti*. Öll þjóðernisleg sundrung hlaut að draga úr áhrifum þess og tefja fyrir, að þeim tilgangi væri náð að áhugi yrði almennur meðal Íslendinga, að leggja rækt við tungu sína og sögu. Mun honum hafa fundist fátt til um deilu þessa, er eingöngu stóð um dagahald. Lét hann hana sig engu skifta. Aftur var Skapti sjálfkjörinn leiðtogi þeirra manna er hölluðust í frjálstrúaráttina. Stóra atriðið í hans augum var ekki hver dagurinn væri kjörinn til hátíðahaldsins, heldur hitt, að hátíðin gæti svo farið fram, að hún væri Íslendingum til sóma. Er þeir báðir urðu fúsir til að gefa sig að hátíðarhaldinu, leiddi það sem af sjálfu sér, að eindreginn flokkadráttur gat eigi lengur staðið um daginn. Með þátt-töku Skapta breyttist bæði yfirbragð og svipur hátíðarinnar svo að hún óx í áliti og virðingu í hugum manna, og náði að mestu leyti hinni fornu hylli, er hún hafði áður haft. Fyrir tilstilli séra Friðriks var stýrt hjá því, að deila þessi gengi upp í hinn margþætta vef trúarágreiningsins, er hún virtist vera á góðum vegi með. Þó þessir tveir menn séu hér að eins tilnefndir, þá voru margir fleiri, er þátt áttu í því að hátíðin hélzt við og ein og óaðgreind, og að ágreiningurinn smá hjaðnaði niður, en snerist ekki upp í langvarandi óvild.

Þá bar og annað til, svo að deilunum sleit sem næst alt í einu og að frekari tilraunir voru eigi gjörðar til þess að halda uppi tveimur andstæðum hátíðisdögum á sumrinu hvorum í kapp við annan. Á öndverðu vori árið 1902 (16. marz) efndu nokkurir Eyfirðingar til félagsskapar, í bænum, er þeir nefndu "Helga magra", og verður síðar skýrt frá félagsstofnun þessari. Eigi var það til-

gangur forgöngumanna með þessu að etja kappi við Íslendingadaginn, né kom þeim til hugar að óbeinlínis yrði þessi "klúbbur" þeirra til þess að eyða þrætum um þjóðminningardaginn. Félagið var reist á þjóðlegum grundvelli og auk skemtifunda gekst það fyrir samkomuhaldi að miðjum vetri, er það nefndi *"Þorrablót"*. Var alt kapp lagt á, að gjöra samkomu þessa sem þjóðlegasta, svo sem frekast var unt. Var ort og mælt fyrir minnum, borinn fram íslenzkur matur og efnt til ýmiskonar leika að loknum ræðuhöldum. Varð samkoma þessi einskonar Íslendingadagur að vetri.

Að félagsskap þessum og miðsvetrarhátíð hölluðust nú brátt margir þeirra manna, er mest höfðu mælt fram með 17. júní. Virtist svo, sem að með þessu væri úrlausn fundin all-viðunanleg, svo að báðir hefði nokkuð til síns máls. Varð þeim það áhugaefni, að samkoman gæti farið sem bezt fram og náð sem almennastri hylli. En brátt kom það í ljós, að eigi varð því takmarki náð án samkomulags, og almenn gat hún eigi orðið, ef fólk átti enn að skiftast í tvo andstæða flokka. Varast varð því að vekja deilur að óþörfu, eða ala á þeim ágreiningi er orðinn var og hlaut að verða fyrirtækinu að fjörlesti fyr eða síðar. Því það varð brátt sýnilegt, að það var engu síður nauðsynlegt, ef vel átti að fara, að fá 2. ágústsmenn til að sækja mótið en þá, er hölluðust að 17. júní. Að öllu leyti gat hvorugur flokkurinn verið án hins, og ef hver studdi annan, voru Íslendingar nógu liðmargir til þess að halda uppi, með sæmilegum myndarskap, tveimur almennum samkomum, annari að miðju sumri, hinni að miðjum vetri, ef meginþorri þeirra fylgdist að. Það varð því að einskonar þegjandi samkomulagi, að sækja samkomurnar á víxl og að hvorugur legði stein í annars götu. Fór þannig að smá draga saman aftur og þess betur sem lengur leið.

Kemur þetta fyrst í ljós við Íslendingadagshald 1904. Er hátíðin með meiri myndarskap en árið áður og samhygð meiri. Ræðumenn eru séra Guðm. Einarssson í Ólafsvík, er þá dvaldi vestra sem stúdent; Jón alþingism. Jónsson frá Sleðbrjót og Skúli G(uðmundsson) Skúlason lögfræðingur, er þá átti heima í Grand Forks. Árið eftir, 1905, er hún búin að ná sínu forna gengi. Það sumar mælti séra Friðr. J. Bergmann fyrir minni Íslands, Skapti B. Brynjólfsson fyrir minni Vestur-Íslendinga, og B. L. Baldwinson fyrir minni Canada. Var hátíðin vel sótt. Gísli (Guðmundsson) Goodman (úr Aðaldal í Þingeyjarsýslu), er þá um undanfarin ár hafði verið organisti við Fyrstu Lúthersku kirkju í Winnipeg, gaf $10.00 til verðlauna "fyrir bezt samið frumort fjórraddað sönglag við eitthvert Íslendingadags-

kvæðið. Átti forstöðunefndin að velja kvæðið og skipa dómnefnd. Valdi nefndin kvæði Jóns Ólafssonar: "Já vér elskum Ísafoldu," og skipaði sem dómnefnd þá Gísla Jónsson (frá Háreksstöðum á Jökuldal) og Steingrím (Jónasson) Hall, söngkennara. Hét nefndin þá og öðrum verðlaunum fyrir það lagið, er næst gengi hinu bezta. Um verðlaun þessi keptu 13 manns, og hrepti Gunnsteinn tónskáld Eyjólfsson fyrstu verðlaun, en Hjörtur Lárusson söngkennari önnur. Meðan á hátíðinni stóð, barst forstöðunefndinni svolátandi kveðjusending frá samkomunefnd Alberta - Íslendinga:

"Að útheims endum til Íslendinga
Um leiðir sendum vér ljóshreyfinga,
Frá strönd að strönd, um storð og lög,
Vor handabönd, vor hjartaslög."

Eigi var getið höfundar, en engum getum þurfti að því að leiða hver hann væri. Könnuðust þar allir við orðalag Stephans G. Stephanssonar. Þetta ár var hátíðin tekin upp á tveim stöðum, þar sem hún hafði eigi áður verið haldin, að Gimli í Nýja Íslandi og í hinni nýstofnuðu stóru nýlendu Íslendinga við Wynyard í Sask. Hefir hún verið haldin á báðum þessum stöðum síðan.

Hið næsta ár fór hátíðin fram með sama hætti, var vel sótt og samkomulag gott, og árið 1907 er hún að öllu leyti komin í sitt forna horf, svo að þeir sem mest greindu á áður eru nú í forstöðunefndinni og hefir það haldist síðan. Veturinn 1915 kom það til tals, að hátíðin yrði lögð niður, meðan á veraldarófriðnum stæði. Var það lagt fyrir almennan kosningafund um vorið, en ekki náði það samþykki.

Frá því fyrsta var inngangseyrir settur að hátíðasvæðinu; hefir hátíðin jafnan verið haldin úti undir beru lofti. Útgjöld voru nokkur í sambandi við samkomuhaldið, svo sem auglýsingar, íþróttaverðlaun og fleira. Afgangur varð lítill fyrstu árin og gjörði hátíðin lítið betur en að bera sig. Árið 1904 var tekið upp það nýmæli, að gefin var út skemtiskrá dagsins í prentuðum bæklingi og safnað á hann auglýsingum. Varð töluverður hagur af útgáfu þessari og hefir svo verið til þessa. Safnaðist þannig dálítið á ári hverju, svo að vorið 1906 voru orðnir rúmir $300 í sjóði. Kom nú fram tillaga þá um vorið á almennum kosningafundi, að fé þetta væri gefið til styrktar íslenzka kennaraembættinu við Wesley College. Ekki urðu allir á eitt mál sáttir um þá tillögu. — Þá um vorið voru mannskaðarnir miklu á Faxaflóa (7. apríl), er sviftu fjölda heimila allri fyrirvinnu. Áskoranir höfðu birzt í R.víkurblöðunum, að skotið væri saman fé til styrktar ekkjum og munaðarleysingjum, er mist höfðu menn sína og heimilisstoð í sjóinn. Gekst félagið "Helgi Magri"

fyrir þeim samskotum meðal Íslendinga vestra. Kom þá fram sú breytingartillaga, að það úr sjóðnum, er missast mætti, væri lagt til þessara samskota í stað þess sem fyrri tillagan færi fram á. Eigi var frá málinu gengið það sinn, en á fundi 16. ágúst um sumarið, að afstöðnum Íslendingadegi, var skýrt frá því, að arður af hátíðarhaldinu það ár hefði orðið um $200, og í sjóði væri því rúmir $500.00. Lagði nefndin til, að gefnar væri kr. 1,000 í ekknasjóðinn og var það samþykt. Vorið eftir var brotið upp á því á kosningafundinum, að peningar þeir, er nú væri í höndum nefndarinnar og safnast myndu á komandi árum, yrði notaðir til þess að kosta samning og útgáfu Landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi. Þótti vissa fengin fyrir því, að tekjuafgangur hlyti að verða all-nokkur af hátíðahaldinu á ári hverju, og yrði þá þeim peningum ekki til annars betur varið. Var ritað all ítarlega um þetta ("Hkr." 7. júní 1907), og þess getið, að innan fárra ára gæti þetta orðið vandasamara verk, er þeim fækkaði er fyrstir hefði vestur komið. Nokkrir þættir um landnám í eldri bygðarlögunum höfðu þegar verið samdir og gefnir út í Almanaki O. S. Thorgeirssonar og sumir glöggir og greinilegir. Alls kostar voru menn þó ekki ánægðir með þá. Þótti sumum nokkuð fljótt yfir sögu farið og eigi allra getið, er nefna hefði mátt. Gat það nú hugsast, þó þetta yrði gjört, að ekki tækist betur. Valt það á því, hve nákvæmlega yrði út í sögu farið, hvaða augum atburðir yrði litnir og hver kjörinn yrði til þessa verks. Vakti þetta því andmæli á fundinum, vildu þeir, er andæfðu, enn um nokkurn tíma að haldið væri áfram eins og byrjað hafði verið, og að almenningur tæki eigi á sig þann vanda, að bera ábyrgð á þessu verki. Lauk svo því máli, að lengra var ekki farið. Var þá og líka eftir þetta farið að kosta meira til hátíðahaldsins, einkum íþróttanna og ýmiskonar áhalda og tækja, er að þeim lutu. Varð hinn árlegi tekjuafgangur því fremur lítill, og stundum eigi stærri en svo, að stóðust á kostnaður og ábati.

Eigi leið þó á löngu eftir þetta, að heyrast tóku kvartanir yfir því, að of mikið kapp væri lagt á leiki og íþróttir, svo hátíðin tapaði hinum þjóðlega blæ, er hún hafði borið, en líktist meir innlendum íþróttamótum. Einkum voru það hinir eldri, er um þetta kvörtuðu. Vildu þeir láta kosta meira til söngs og ræðuhalda. Eigi stóð á því, að nefndirnar, er kosnar voru ár frá ári, vildi eigi láta að vilja fólks í þessu efni. Vildu þær gjöra hátíðina sem tilbreytilegasta að unt væri, en nokkrum vanda var það bundið. Fyrirkomulagi hátíðarinnar varð eigi breytt, það hlaut að standa. Hin eina tilbreytni varð þá helzt að vera fólgin í því, að fá menn lengra að, er almenningi gæfist eigi endrar nær kostur

á að hlusta á, til að flytja ræður hátíðisdaginn, og hefir það hepnast vonum framar, og skal nú skýrt frá því í sem styztu máli.

Sumarið 1914 bauð forstöðunefndin Hannesi ráðherra Hafstein vestur sem gesti Vestur-Íslendinga og mæltist til, að hann mælti fyrir minni Íslands hátíðisdaginn. Boði þessu gat hann ekki tekið sökum stjórnar-anna og afþakkaði það með mjög vinsamlegu bréfi.

Þó ekki yrði af komu Hannesar Hafsteins, kom annar nafnkunnur gestur vestur það sama sumar, síra Jón Helgason forstöðumaður prestaskólans í Rvík—nú biskup Íslands. Ferð þessa fór hann að tilhlutan síra Friðriks J. Bergmanns og kom til Winnipeg 13. júlí. Var hann fenginn vestur til þess að aðstoða við vígslu hinnar nýreistu Tjaldbúðarkirkju, er söfnuður séra Friðriks hafði þá látið byggja. Dvaldi hann í bænum fram yfir Íslendingadag og fékk forstöðunefndin hann til að mæla fyrir minni Íslands. Jók það á tilbreytni hátíðarinnar, að einn ræðumanna var svo langt að kominn og jafn nafnkunnur maður. Mun sú hugsun hafa vaknað hjá mörgum, að æskilegt væri að svo gæti verið sem oftast. Með því varð og hátíðin í enn fyllri skilningi þjóðminningardagur. Hún varð einskonar stofnun, er sameinaði þjóðina í eitt.

Rúmu ári síðar kom leikritaskáldið Goðmundur Kamban vestur. Nam hann staðar í New York um veturinn. Sumarið eftir (1916) ákvað nefndin að bjóða honum vestur á kostnað hátíðarinnar og að mæla fyrir minni Íslands. Komu þau hjón bæði nokkru fyrir Íslendingadag. Flutti hann ræðuna, og að hátíðinni afstaðinni ferðaðist hann um hin ýmsu bygðarlög í samkomu erindum fyrir sjálfan sig. Hvarf hann eigi austur aftur fyrr en komið var fram á vetur.

Sumarið eftir, 1917, kom Einar Jónsson myndhöggvari til Ameríku ásamt konu sinni, til ársdvalar í Bandaríkjunum. Settust þau að í borginni Philadelphiu. Vann hann þar við að fullkomn myndastyttu þá hina miklu, er hann bjó til af Þorfinni Karlsefni fyrsta landnámsmanni í Vesturheimi—og sett var þar upp í hinum fagra og fræga listigarði borgarinnar, — Fairmount Park. Þráðu það nú margir, að hann kæmi vestur lengra, áður en hannn hyrfi heim aftur. Kom því Íslendingadagsnefndinni saman um, að bjóða þeim hjónum sem heiðursgestum til Winnipeg 2. ágúst sumarið eftir, 1918. Tóku þau boðinu, en fyrir töf, er þeim bar að höndum við landamærin, náðu þau eigi vestur fyrir þann tíma og eigi fyr en tveimur dögum síðar, eða 4. ágúst. Fundu löggæzlumenn Canadastjórnar að vegabréfi þeirra og þótti það ekki svo fullkomið, sem herrétturinn krafði í þá daga. Þótti nú mörgum súrt í broti, að þannig sykldi til takast, en við enga var að sakast, nema lands-

lögin, er svo rækilega höfðu friðað landið og heft samgöngur að mestu við umheiminn. Dvöldu þau hjónin um nokkurn tíma í bænum, sem gestir þeirra Jóns J. Bildfells og konu hans.. Meðan þau töfðu í bænum, stofnaði nefndin til heiðurssamætis við þau, er haldið var 23. ágúst í fundarsal Tjaldbúðarkirkju. Að loknu borðhaldi voru heiðursgestunum flutt kvæði og þau ávörpuð. Svaraði Einar í samkomulok, með einkar fagurri ræðu. Benti hann á, að sterkasti þátturinn í fari norrænna þjóða frá því sögur hefjast, sé ljósþrá þeirra. Þær hafi verið og séu ljóssæknar. Hafi það skapað útþrána óviðráðanlegu og ferðinni jafnan heitið vestur, í fylgd með sól. Austur héldu þau nokkru seinna og vorið eftir heim.

Sumarið 1920 bauð nefndin próf. Halldóri Hermannssyni bókaverði við Fiske-safn Cornell Háskólans í Ithaca vestur, til að flytja Íslands-minnið. Þáði hann boðið og kom til Winnipeg 29. júlí. Ekki hafði hann langa viðstöðu. Að lokinni samkomunni hélt hann ferðinni áfram vestur í Klettafjöll og fáum dögum síðar til baka aftur. Höfðu færri kynni af honum en vildu. Óskuðu Íslendingar í Wynyard eftir að fá hann vestur til sín og hefðu viljað fresta hátíðahaldi svo að af því hefði getað orðið, en ástæður hans leyfðu það ekki.

Vorið 1921 gjörðist nefndin enn stórhugaðri en nokkru sinni fyr. Bauð hún þá vestur Einari Benediktssyni og konu hans alla leið frá Lundúnum á Englandi, og kostaði ferð þeirra báðar leiðir. Tók hann boðinu, en fór fyrst skyndiför til Íslands þá um sumarið, til þess að vera viðstaddur, er konungur Kristján X. kom til Rvíkur 26. júní. Flutti hann konungi drápu mikla á Þingvöllum 28. s. m. og hélt svo skömmu síðar rakleiðis vestur. Til Winnipeg komu þau hjónin 31. júlí. Mælti hann fyrir minni Íslands, sem til stóð 2. ágúst og í Wynyard 5. ágúst, en þar var Íslendingadagshaldi frestað, til þess að hann gæti verið þar viðstaddur líka. Áður en þau hjón sneru heimleiðis aftur, hélt nefndin þeim mjög veglegt skilnaðarsamsæti á einu helzta hóteli bæjarins, Hotel Royal Alexandra, 22. ágúst. Voru þau ávörpuð með mörgum ræðum. Í samsætislok þakkaði skáldið fyrir þá sæmd, er þeim hjónum væri sýnd og brýndi fyrir veizlugestum að vera ávalt minnugir á ágæti íslenzkrar tungu. Heimleiðis héldu þau svo daginn eftir.

Sumarið 1923 veittist nefndinni aftur tækifæri á að fá mann beina leið frá Íslandi til þess að flytja aðal hátíðisræðuna—Dr. Ágúst H. Bjarnason háskólakennara frá Reykjavík. Kom Dr. Bjarnason vestur þá um vorið að beiðni og sem gestur Dr. Samuel A. Eliots í Boston. Eftir nokkra dvöl í Boston hélt hann ferðinni áfram ásamt konu sinni, er með honum var; töfðu þau nokkra daga í

Chicago hjá Ólafi lækni Olafsson, bróður frú Bjarnason, en héldu því næst áfram ferðalagi sínu vestur um íslenzku bygðirnar, alla leið vestur að Kyrrahafsströnd. Til Winnipeg komu þau aftur úr því ferðalagi 29. júlí. Töfðu þau þá í bænum fram yfir Íslendingadag og flutti Dr. Ágúst ræðu fyrir minni Íslands á hátíðinni. Til heiðurs þeim hjónum hélt nefndin þeim samsæti 7. ágúst, kveldið áður en þau lögðu af stað heimleiðis, á hinu nýreista hóteli bæjarins, Hotel Marlborough. Margar ræður voru fluttar. Fyrverandi dómsmálaráðherra Manitoba fylkis, hra. Tómas H. Johnson, ávarpaði gestina og vék orðum sínum að réttarstöðu Íslands með millilandasamningunum 1918. Kvaðst hann vilja, að Ísland léti sín að fullu getið sem sérstaks ríkis. Þetta gæti það bezt gjört, með því að ganga í Alþjóðabandalagið, og myndi það verða því til gagns bæði nú og síðar meir. Á engan annan hátt gæti það betur kynt sjálfstæði sitt út á við. Sagðist hann hafa gjört fyrirspurn um það haustið 1921, er hann dvaldi í Genf yfir mánuðina október og nóvember (sem fulltrúi Manitoba-fylkis), hvort íslenzka þjóðin hefði sótt um inntöku í Alþjóðabandalagið, og hefði það eigi verið, en fúslega myndi þannig lagaðri beiðni verða tekið. Kvaðst hann geta þessa, til þess að prófessorinn gæti flutt þá fregn heim, og þjóðin heima snúið sér að þessu máli, ef henni svo sýndist. Að samsætinu loknu þakkaði Dr. Bjarnason ræðumönnum og svo forstöðunefndinni fyrir þann góðhug er sér og konu sinni væri sýndur með samsæti þessu og kvaðst vilja flytja þessa orðsendingu heim. — — —

Með þessu er þá skýrt frá því helzta í sögu þessarar hátíðar, en hinu öllu slept, er síður þykir koma henni við eða hafa haft áhrif á anda hennar og almenna þýðingu. Margt fleira hefði mátt tilfæra, er yfir hefir orðið að hlaupa í stuttu yfirliti sem þessu. Hátíðin er nú 35 ára gömul og því með elztu stofnunum íslenzkum, — en svo má gjarna nefna hana — vestan hafs. Er hún fyrst tekin upp í Winnipeg og hefir þaðan færzt út til sem næst allra bygða Íslendinga yfir þvera álfuna. Auk þeirra staða, sem þegar hafa verið nefndir, hefir Íslendingadagur verið haldinn í Blaine í Washington-ríki 1907 í fyrsta sinn vestur við Kyrrahafsströnd; í Sayreville í New Jersey-ríki austur við Atlansthaf, og ef til vill víðar, þó þess sé ekki getið. Þá hafa á þessum síðastliðnu tíu árum nokkrir meðal hinna alkunnustu manna þjóðarinar verið staddir við hátíðahaldið í Winnipeg að beinni eða óbeinni tilhlutan forstöðunefndanna. Alt þetta hefir haft stórkostlega þýðingu. Má svo að orði kveða, að Íslendingadagurinn hafi verið að mörgu leyti einhver áhrifamesta og víðtækasta þjóðernishreyfingin í sögu Íslendinga vestan hafs.

# Fimta ársþing

*Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.*

Þing þetta var sett og stóð í þrjá daga í Goodtemplarahúsinu á Sargent Ave., í Winnipeg, 26. febr. síðastliðinn, kl. 2.30 e. h.

Forseti félagsins, séra Albert Kristjánsson, bað þingheim að syngja sálminn: "Ó, blessa, Guð, vort feðrafrón", og hélt séra Friðrik Friðriksson frá Wynyard þvínæst stutta bæn.

Lýsti forseti því næst fund settan, og las upp þingboð það, er ritari hafði auglýst í blöðunum. Eftir það lá fyrir fundinum:

Skýrsla embættismanna,
Viðaukar við grundvallarlögin,
Lesbókarmálið,
Söngfélags stofnun,
Samvinna og sjóðstofnun,
Stúdentagarðsmálið,
Útgáfa Tímaritsins,
Íslenzkukenslan,
Útbreiðslumál,
Ný mál,
Kosningar embættismanna.

Var dagskrá þessi samþykt, að undanskyldu því, að embættismannakosningin skyldi fara fram síðasta þingdag, kl. 3 e h.

Forseti flutti því næst skýrslu sína blaðalaust. Þakkaði hann ágæta samvinnu nefndarinnar yfirleitt. Kvað aðeins eitt mál hafa orðið ágreiningsefni, en það var ráðning ritstjóra tímaritsins. Óskaði, að það gerði allar ákvarðanir sínar framvegis svo úr garði, að ekki orkaði tvímælis. Taldi framtíðarhorfur glæsilegar, óhugur væri að hverfa, en góðhugi víða áberandi. Taldist til, að 8 eða 9 deildir væru starfandi, en 2 eða 3 lægju í dái. 500 dalir hefðu verið veittir til útbreiðslustarfsins, en eytt að eins 150. Hefði leiðangur verið gerður út í tvö bygðarlög. Hinn fyrri til Nýja Íslands farinn af séra Jónasi A. Sigurðssyni, Ásmundi P. Jóhannssyni féhirði, og Árna Eggertssyni varaforseta. Árangur, 130 nýir meðlimir. Hinn síðari farinn af forseta sjálfum til Vatnabygðar í Saskatchewan, og vann hann 65 nýja meðlimi og stofnaði deild í Foam Lake. Um kenslumál sagði hann, að laugardagsskóla og umferðarkenslu nytu um eða yfir 200 nemendur, kveldskóli væri tvisvar í viku í Selkirk og sérstök íslenzk kensla fyrir unglinga og börn í Brown, Man., og líkt muni vera annars staðar. Söngmálið kvað hann hafa strandað á samtakaleysi, þótt herra Jónas Pálsson hefði boðist til þess að stjórna flokk ókeypis. Tímaritið hefði annast séra Rögnvaldur Pétursson og væri fullprentað. Íslandssaga próf. Gjerset væri komin út og hefði nefndin að vilja síðasta þings, ábyrgst 1000 eintök af bókinni, er kostaði 4 dali. Kvað þurfa að endurprenta lögin. Mintist samsætis, er próf. Ág. H. Bjarnasyni og frú hans var haldið í fyrrasumar af félaginu, og því til sóma. Þá mintist hann á stúdentagarðsmálið og kvað samskot hafa gengið afartregt og væri þetta þó þjóðræknismál Vestur- sem Austur-Íslendinga.

Næst var stungið upp á og samþykt, að hver skýrsla skyldi afgreidd sérstak-

lega, og skýrsla forseta því næst samþykt athugasemdalaust.

Þá gaf ritari stutta skýrslu um gerðir nefndarinnar. Hefðu 12 fundir verið haldnir á árinu, í heimahúsum nefndarmanna og hefðu á þeim verið afgreidd mál félagsins, samkvæmt því, sem forseti hefði skýrt frá. Lýsti hann því næst yfir því, að hann gæti ekki setið þingið vegna forfalla, og þar eð vararitari var ekki mættur, var stungið upp á séra Friðriki Friðrikssyni til ritara og hann kosinn í einu hljóði.

Þá las féhrðir, Ásm. P. Jóhannsson, prentaða skýslu um fjárhag félagsins og var henni útbýtt meðal þingmanna. Var hún samþykt eins og hún lá fyrir. Þá var og borin upp og samþykt tillaga um, að fundurinn greiddi féhirði þakklætisatkvæði fyrir framúrskarandi dugnað í féhirðisstarfinu.

Þá las skjalavörður, Finnur Jónsson, upp skýrslu sína yfir seldar bækur og óseldar á árinu. Kvað söluna ganga dræmt og þetta væri eitt hið mesta vandamál félagsins. Var skýrslan að því búnu samþykt.

Þá las fjármálaritari F. Swanson, skýrslu sína. Höfðu 82 skuldað sig úr félaginu, 10 sagt sig úr, 1 dáið, 204 nýir meðlimir bæzt við 1923, og nokkrir síðan, og 762 meðlimir alls við árslok. Var þessi skýrsla síðan samþykt.

Þá var lesin upp athugasemd yfirskoðunarmanna, er fann lítið eitt að skýrslum fjármálaritara og skjalavarðar Var kosin 3 manna nefnd til að athuga skýrslur þessar og aths. yfirskoðunarmanna, og voru í því efni kosnir séra Ragnar E. Kvaran, Þorsteinn Gíslason og Björn Pétursson.

Næsti liður: grundvallarlaga-viðaukar, var þá tekinn fyrir. Var stungið upp á 3 manna nefnd í það mál, og kosnir Þorsteinn Gíslason, Fred. Swanson og Jónas Jóhannesson. Kom nefndin fram með álit sitt daginn eftir og lagði til, að lagabreytingartillögu No. 2 væri bætt við 1. og 3. kafla grundvallarlaganna, svo að sú grein hljóði þannig:

1. gr. "Félagsmenn eru: heiðursfélagar, félagar — æfifélagar, og aukafélagar, þó hafa félagar og æfifélagar einir atkvæðisorð á fundum."

2. gr. breytist þannig: "Heiðursfélagar skulu kosnir af þingi samkvæmt meðmælum félagsstjórnarinnar — séu þeir réttir félagar eiga þar atkvæðisrétt. Heiðursfélagar borga ekki tillög fremur en þeir sjálfir vilja. (Upphafssetningin: "heiðursfélaga skal kjósa eftir verðugleikum" falli burt).

3. gr. óbreytt.

4. gr., breyting — í staðinn fyrir "$2.00 í félagssjóð á ári hverju", komi "$1.00 í félagssjóð á ári hverju."

5. gr. hljóði þannig: "Æfifélagar geta þeir gjörst, sem í eitt skifti fyrir öll greiða $25.00 í félagssjóð.

6. gr. — 5. gr. óbreytt.

7. gr. hljóði þannig: "Heimadeild skal heimilt að kjósa fulltrú, einn eða fleiri á ársþing félagsins ,og fela þeim skriflega umboð á atkvæði allra gildra meðlima þeirrar deildar, er í hlut á, undirritað af forseta og ritara. Þeir meðlimir heimadeildar, er eigi eru fulltrúar, hafi þó tillögurétt og málfrelsi á þinginu. Kosning fulltrúa fari fram að minsta kosti 2 vikum fyrir þing ár hvert.

Heimilt skal öllum þeim félögum, er eigi eru meðlimir heimadeildar, að gefa

öðrum félögum umboð á atkvæði sínu til ársþings — með handskrift sinni."

8. gr. — *(6. gr. óbreytt).*
9. gr. — *(7. gr. óbreytt).*
10. gr. — *(8. gr. óbreytt).*
11. gr. — *(9. gr. óbreytt).*

Allmiklar umræður spunnust út af þessu nefndarmáli. En svo fór, að 1. gr. var samþykt; 2. gr. samþykt í fyrra og því vísað frá; 4. gr. sömuleiðis samþykt í fyrra; 5. gr. um æfifélaga samþykt með þeirri breytingu frá B. Péturssyni, að æfitillag nemi að eins 15 dölum; 5. gr. verði 6. gr. óbreytt; 7. gr. samþykt tillaga um að skifta henni í tvo liði. Langar umræður um fyrri liðinn og samþykt loks að vísa honum aftur til nefndarinnar. — Daginn eftir, á fimtudag, komu fram tvö álit frá nefndinni. Var minnihlutatillagan feld: "Heimilt skal öllum atkvæðisbærum félögum, að gefa öðrum félögum með handskrift sinni umboð á atkvæði sínu til ársþings." Meirihlutatillagan var samþykt, en hún hljóðar svo: "Vér leggjum til, að þessu máli sé vísað til heimadeilda og þær beðnar að senda stjórnarnefndinni tillögur sínar mánuði fyrir ársþing", undirritar N. S. Thorláksson, Th. Gíslason og J. Jóhannesson.

Næsti liður á dagskrá, lesbókarmálið, var í milliþinganefnd. Séra R. Kvaran kvað nefndina ekkert umboð hafa haft til að vinna upp á eigin spýtur, og gerði að tillögu, að ef skipuð sé hún á ný, þá fái hún umboð til þess að gefa út lesbók á árinu. Stakk upp á 3 manna nefnd. Ásm. P. Jóhannsson var á móti umboði, þar til kostnaðaráætlun væri fengin, og hefði það verið nefndarinnar. Séra R. Pétursson áleit engum rekspöl komandi á þetta mál, fyr en þingið kysi nefnd með fullu umboði að semja og gefa út bókina. Því næst var þriggja manna nefnd kosin, að athuga málið, og hlutu kosningu: J. Th. Jónasson, séra Rögnv. Pétursson og séra Friðrik Friðriksson. Kom nefnd þessi fram með álit sitt síðasta þingdag. Lagði hún til, að lesbók yrði gefin út í 1000 eintaka upplagi, er sé 120 bls. í 8vo., samin fyrir ísl. unglinga í Vesturheimi með hliðsjón af lesbókum alþýðuskóla ríkisins. Skuli þetta falið 5 manna nefnd í samráði við framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfél. Ásm. Jóhannsson var á móti áliti þessu, en með séra Guðm. Árnason, er áætlaði kostnað $600,—og vel kleifan. Loks var samþykt, að fela málið framkvæmdarnefndinni á hendur.

Þá var tekið fyrir söngfélagsmálið. Skýrði forseti það á ný. Sömuleiðis Ásm. Jóhannsson og kvað alt stranda á áhugaleysi að ganga í söngflokkinn. Séra R. Kvaran skýrði frá, að Páll Ísólfsson organleikari mundi koma með sönglög með sér eða senda bráðlega að öðrum kosti.— Voru 3 menn kosnir í nefnd, að athuga málið á þinginu og hlutu kosningu: séra Ragnar Kvaran, Björgvin Guðmundsson og Ásm. P. Jóhannsson. Kom nefnd sú fram með álit sitt næsta dags morgun. Taldi betri horfur á því máli en áður. Væri nú þegar stofnaður karlaflokkur undir stjórn hr. Björgvins Guðmundssonar. Væri vél sú, er Þjóðræknisfél. á og lætur prenta með nótur, nú í höndum hans og notuð til afskrifta; ættti framkvæmdarnefndin að fá 25 til 30 eintök af hverju lagi, sem prentað er fyrir söngflokkinn; leggi nefndin til efni, en eintökin séu síðan eign félagsins. Var nefndarálit þetta samþykt í einu hljóði.

Fleiri mál voru ekki tekin fyrir hinn fyrsta dag, og fundi frestað frá kl. 6, til kl. 9.30 að morgni.

Kl. 8.30 að kveldi var aftur komið saman í efri sal G. T. hússins. Flutti séra Ragnar Kvaran þar erindi, er hann nefndi "Grímur", og var honum að því loknu greitt þakklæti samkomunnar með því að allir risu úr sætum sínum.

Enn fremur söng karlakór þar 3 lög eftir Björgvin Guðmuundsson og aðra, en hann stýrði sjálfur. Gerðu menn góðan róm að því.

Annar þingfundur var settur kl. 10.50 fyrir hádegi og komu þá fyrst fram sum nefndarálit þau, er getið hefir verið um hér að framan, og því næst tekið fyrir stúdentagarðsmálið. Skýrði Ásm. P. Jóhannsson hag málsins. Er innkomið fé 260 kr. og $51.50. Var málið sett í nefnd og sátu hana séra R. E. Kvaran, séra Albert Kristjánsson og Ásm. P. Jóhannsson, og fundi því næst frestað til kl. 2 e. h. — Nefndin kom svo fram með álit sitt daginn eftir. Áleit hún lofsvert og sjálfsagt að styðja hugmyndina, en þyrfti miklu betur að vekja menn til skilnings um, að þetta væri ekki einungis einkamál Austur-Íslendinga. Lagði nefndin til þess að þingið skoraði á stjórnarnefndina að sjá um, að málinu sé haldið vakandi í blöðunum, og áhuga manna haldið vakandi, ennfremur að nefndin skrifi öllum deildum félagsins um að veita málinu liðsinni og í 3. lagi, að nefndin sjái um, að menn séu fengnir til þess að vekja eftirtekt á nauðsyn þessa máls við öll Íslendingadags hátíðahöld, er haldin kunni að verða á komandi sumri. Var stungið upp á, að samþykkja nefndarálitið óbreytt. Samþykt.

Fundur var settur aftur kl. 2.20 e. h. Var þá sett 3 manna nefnd til að fjalla um útgáfu Tímaritsins og hlutu sæti: Á. P. Jóhannsson, Stefán Einarsson og séra Guðm. Árnason. Þá var og sett 3 manna nefnd til að athuga íslenzkukensluna. Kosnir: Ásm. P. Jóhannsson, Jón J. Bildfell og séra Ragnar E. Kvaran.

Þá var samþykt, að útbreiðslumál séu falin væntanlegri framkvæmdarnefnd.

Því næst voru tekin fyrir ný mál. Séra Guðm. Árnason benti á, að ekkert íslenzkt bókasafn væri til í Winnipeg, og spurði hvort ekki væri gerlegt að koma upp bókasafni, þar sem hornsteinninn væri dýrar bækur, nauðsynlegar til fróðleiks, er almenningur ekki hefði efni á að kaupa. Urðu um þetta nokkrar umræður með og móti og var þriggja manna nefnd sett til að athuga málið til morguns, og voru kosnir: séra Guðm. Árnason, Bjarni Magnússon og séra Rögnv. Pétursson.

Þá lýsti séra Rögnv. Pééétuérsson því yfir fyrir hönd samvinnu- mannaskiftaog sjóðstofnunarnefndarinnar, að hennar starf væri orðið samgróið stúdentagarðsmálinu. Lagði hann því næst fram skriflegt álit nefndarinnar. Áleit hún erfitt að stofna sjóð til styrktar vestur-ísl. nemendum við nám við háskóla Íslands. Vildi hún því leggja til, að Þjóðræknisfélagið styrkti eindregið stúdentagarðsmálið, með því að koma upp íbúð fyrir nemendur héðan við háskólann á Íslandi, að þeim sé gert fært að fara og fullnuma sig í móðurmáli sínu, ef þeim líkar.

Um önnur mannaskifti álítur nefndin að eigi sé að ræða í bili, en nemendaskifti, en mælir líka fastlega með, að þau geti komist á hið bráðasta.

Þá kom enn nýtt mál, er séra R. Pét-

ursson las upp bréf frá Mrs. Chiswell á Gimli, er ritara barst samdægurs, er fer fram á, að Þjóðr.fél. styrki viðleitni hennar í íslenzkukenslunni í unglingastúkunni á Gimli, með peningaverðlaunum eða verðlaunapeningum. Bað ritari hann í fjærveru sinni, að geta þess, að þetta væri nauðsynl. að styrkja eigi aðeins á Gimli, heldur í öllum íslenzkum bygðarlögum. Var kosin 3 manna nefnd að íhuga málið, og kosnir: séra Rögnv. Pétursson, Jón J. Bildfell og Arinjörn S. Bardal.

Þá var lesið bréf frá séra Jakob Kristinssyni viðvíkjandi Eyjólfi Jónssyni Eyfells. Kosnir í nefnd til að íhuga það mál þeir séra Friðrik Friðriksson, Ólafur Bjarnason og séra Guðmundur Árnason.

Séra Friðrik Friðriksson lagði þá fram skriflega tillögu um að Þjóðræknisfélagið reyni að hlynna eitthvað að listgáfu Björgvins Guðmundssonar. Voru kosnir í nefnd til að íhuga þetta mál: Eiríkur Ísfeld, Friðrik Friðriksson og Thorsteinn Gíslason.

Þá benti forseti á æskilega samvinnu milli stúdentafél. og Þjóðræknisfélagsins og var samþykt tillaga séra Guðm. Árnasonar um að framkvæmdarnefndinni sé falið að kynna sér möguleika á því. — Kl. 6 var fundi frestað til næsta dags.

Að kvöldi var samkoma haldin undir umsjón deildarinnar "Frón". Var þar kórsöngur, einsöngur, fiðluspil, ræður og upplestrar. Fór samkoman fram undir stjórn séra Rúnólfs Marteinssonar, og tókst hið bezta. Á eftir voru hinar rausnarlegustu veitingar og dans til kl. 1.30 um nóttina.

Á fimtudagsmorgun var fundur settur aftur kl. 10. Komu þar fyrst fram ýms nefndarálit, er getið hefir verið að framan, og því næst álit nefndarinnar um skýrslu fjármálaritara og skjalavarðar.

Áleit nefndin nauðsynlegt, að útvega fullkomnari form fyrir reikningsfærslu fjármálaritara. Væri enginn efi á því að örðugleikarnir, sem nú væru á reikningsfærslunni, færu vaxandi með ári hverju, nema þetta væri lagað. En athugasemdir yfirskoðunarmanna, viðvíkjandi útistandandi eint. af Tímaritinu áleit nefndin, að stjórnarnefnd. beri að vinda bráðan bug að því, að innkalla þau, þar eð ekkert sé unnið við legu þeirra úti á landi. Nefndin treysti sér ekki vegna tímaleysis, að bera fram sjálfstæðar tillögur um meðhöndlun á útsölu ritsins. Var tillaga um að samþykkja nefdnarálitið óbreytt síðan borin upp og samþykt.

Þá kom Tímaritsnefndin fram með álit sitt og talaði Ásm. P. Jóhannsson fyrir því. Leit nefndin svo á, að ritið væri mjög sterkur þáttur í þjóðernisbaráttunni hér og leggur til, að tímaritið sé gefið út, sem ársrit á komandi ár, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið að sjá um útgáfu ritsins, kostnað og ritstjórn, og að verð ritsins sé einn dollar á ári, sem að undanförnu.

Tllaga kom um að nefndarálitið sé tekið fyrir lið fyrir lið, og hún samþykt. Breytingartillaga frá séra Ragnar Kvaran við þriðja lið nefndarálitsins kom og fram og var fundi því næst frestað til kl. 1,30. Var þá komið aftur saman og 1. liður borinn upp og samþyktur. Breytingartillaga séra Ragnars Kvaran kom og fram, að þingið feli stjórnarnefndinni að fá séra Rögnvald Pétursson til að taka að sér ritstjórn Tímaritsins, sem að undanförnu, með

sömu kjörum. Bjarni Finnsson gerði breytingartillögu við breytingartillögu séra Kvarans. Voru tillögurnar ræddar af miklu kappi og allmiklum hita, en breytingartillaga Bj. Finnssonar var borin upp og feld. Því næst var breytingartillaga séra R. Kvarans borin upp og samþykt, og alt álitið því næst samþykt með áorðnum breytingum, og séra Rögnvaldi Péturssyni þar með falin ritstjórn Tímaritsins fyrir næsta ár.

Þá hófust embættismanna kosningar. Stungið upp á séra Alberti Kristjánssyni og séra Jónasi A. Sigurðssyni, en sú tillaga tekin aftur, þar eð hann ekki væri viðstaddur, séra Albert því kosinn gagnsóknarlaust. Fyrir varaforseta var stungið upp á Gísla Jónssyni og Jóni J. Bildfell; hinn síðastnefndi afsakaði sig og Gísli Jónsson því kosinn gagnsóknarlaust. Til ritara var stungið upp á Hannesi Péturssyni, Arnljóti Ólafssyni, séra R. E. Kvaran, Einari P. Jónssyni og Sigfúsi Halldórs frá Höfnum. Afsökuðu sig allir, nema sá síðastnefndi, og var hann því kosinn gagnsóknarlaust. Til varaskrifara var stungið upp á séra Fr. Friðrikssyni, Ragnari Stefánssyni, Trausta Ísfeld og Páli S. Pálssyni Hinn síðastnefndi afsakaði sig og fóru fram kosningar um hina 3 og hlaut R. Stefánsson kosningu. — Til féhirðis var stungið upp á fyrverandi féhirði, Ásm. P. Jóhannssyni; afsakaði hann sig og var ófáanlegur þrátt fyrir ítrekaðar bænir og áskoranir alls þingheims og einstakra manna. Var þá smátt og smátt stungið upp á nálega öllum kjörgengum karlmönnum í salnum, því allir skoruðust undan að taka kosningu, unz tillaga var samþykt um að fresta kosningum, sem eftir voru, til kvölds, eftir fyrirlestur séra Guðm. Árnasonar.

Því næst kom fyrir fundinn álit bókasafnsnefndarinnar. Áleit nefndin, að veita bæri framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins leyfi að verja alt að $200.00 á árinu til þess að koma upp íslenzku bókasafni í Winnipeg. Enn fremur, að deildinni "Frón" sé falin stofnun og varðveizla þess safns, sjái framkvæmdarnefndin sér fært að veita slíka upphæð, og taki deildin sömuleiðis til íhugunar hvort koma megi upp lestrarsal, er opinn sé 1—2 kvöld í viku, í sambandi við safnið, þar eð heppileg meðferð þessa máls muni mest undir deildinni "Frón" komin. — Að þessu búnu var álitið rætt og samþykt lið fyrir lið.

Þá kom fram nefndarálit út af bréfi Mrs. Chiswell á Gimli. Telur nefndin þetta mál mjög áríðandi og leggur til, í fyrsta lagi, að Þjóðræknisfélagið leggi árlega til 3 verðlaunapeninga, úr bronsi, silfri og gulli, er nefnist "Verðlaunapeningar Þjóðræknisfélagsins". Veitist bronzpeningurinn þeim, sem fram úr skarar í heimafélögum, og sé eign þess, er vinnur. Um silfurpeninginn skal kept af verðlaunahöfum innan hvers fylkis í Canada og ríkis í Bandaríkjum, þar sem Íslendingar búa, og skal hann einnig vera eign þess, er vinnur. Um gullpeninginn skal að eins kept af þeim, og skal hann verða eign þess, er hann hreppir samfleytt 3 ár, en vera þó í vörzlum þess er vinnur, ár hvert.

Í öðru lagi leggur nefndin til, að á annari hlið verðlaunapeninganna sé skjaldarmerki Íslands, með ofan í gröfnu nafni Þjóðræknisfélagsins, en á hinni skjaldarmerki þess fylkis eða ríkis, er sá

er vinnur á heima í, með áletruðu nafni vinnanda.

Í þriðja lagi, að framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið að semja reglugerð og sjá um alla samkepni, er fram fer um þessa peninga.

Var nefndarálitið síðan samþykt eins og lesið var.

Þá kom fram nefndarálit út af bréfi séra Jakobs Kristinssonar um Eyjólf Eyfells listmálara. Leggur það til, að einhverjum manni sé falið að komast sem fyrst að því hjá listamanninum, með hverjum kjörum hann vildi senda málverk hingað vestur, og að framkvæmdarnefndin aðstoðaði þennan mann, að fenginni þeirri vitneskju. Tillaga kom fram um að breyta til og fela stjórnarnefndinni algerlega þetta mál. Var hún borin upp og samþykt.

Þá kom fram álit sönglaganefndar. Tekur hún fram, að Björgvin Guðmundssyni sé ljúft að leita þess stuðnings, er félagið kann að geta látið í té, og sömuleiðis láta handrit sitt af hendi við félagið, tryggi það honum alþjóðaprentunarrétt. Álítur nefndin heppilegra að félagið gangist fyrir útgáfu bókarinnar, en lítt þektir einstaklingar, og stingur upp á, að kosin sé nefnd á þinginu, er í samráði við stjórnarnefndina og hr. Björgvin Guðmundsson ráði málinu til lykta á þessu ári. Síðan var álitið rætt. Bent var á fjárhagserfiðleika við útgáfuna, félagið fátækt, en að lokum var samþykt tillaga um, að vísa málinu til stjórnarnefndar til íhugunar.

Þá kom fram nefndarálit í íslenzkukenslumálinu. Er nefndin þakklát félagsdeildum fyrir áhuga á málinu, en vill um leið leggja til, að hert verði á því enn meira og að stjórnarnefndin gerði tilraunir sem ítrastar, að koma íslenzkukenslu á við háskóla fylkisins. — Séra R. Pétursson kvað álitið fara of stutt. Þyrfti að vinna að því, að íslenzkan kæmist að sem námsgrein, ekki að eins við háskólann, heldur og á kensluskrá miðskóla fylkisins. Var það gert að viðaukatillögu og nefndarálitið samþykt, að því viðbættu.

Dagskrá var þá á enda og hófust frjálsar umræður. Séra Rögnvaldur Pétursson lagði til, að Guðm. Grímssyni lögmanni væri send kveðja þingsins og honum þökkuð hin framúrskarandi og happasæla hluttaka hans í Floridamálinu alræmda. Var samþykt að fela forseta það mál. Samþykt var og tillaga frá séra Fr. Friðrikssyni, að votta frú Láru G. Salverson og hr. Emile Walters samfögnuð þingsins yfir velgengni þeirra.

Þá var samþykt hluttekningar yfirlýsing þingsins út af fráfalli fyrv. alþingismanns Jóns Jónssonar frá Sleðrjót.

Þá var fundi frestað þar til lokið væri erindi séra Guðm. Árnasonar, er hófst kl. 8 e.m. Var það um íslenzka tungu, fegurð hennar, meðferð og málvenjur og hið fróðlegasta og skemtilegasta. Var honum greitt þakklæti með lófaklappi og með því að menn risu úr sætum.

Þá var fundur settur kl. 9.30. Mr. J. Gillies stakk upp á, að sungið væri "Hvað er svo glatt, sem góðra vina fundur", og var það gert af fullum hálsi.

Lágu þá fyrir embættismannakosningar, er frestað hafði verið. Var stungið upp á B. B. Ólson og Hjálmari Gíslasyni í féhirðisembætti. Afsakað hinn fyrnefndi sig og var H. Gíslason því kosinn féhirðir gagnsóknarlaust. Sem varaféhirði var stungið upp á J. Jóhannessyni, Jakobi Kristjánssyni og J. Gillies frá

Brown. Hinir fyrstnefndu afsökuðu sig og var J. Gillies því kosinn án gagnsóknar.

Sem fjármálaritara var stungið upp á Fred. Swanson og Kl. Jónassyni, er afsökuðu sig báðir. Þá kosinn Ólafur Bjarnason gagnsóknarlaust.

Vara fjármálaritari kosinn Kl. Jónasson frá Selkirk í einu hljóði.

Eftir árangurslausar áskoranir til ýmsra manna, sérstaklega fyrv. skjalavarðar Finns Johnson, lét Arnljótur Olson tilleiðast að taka kosningu, gagnsóknarlaust.

Yfirskoðunarmenn voru kosnir: H. S. Bardal og Björn Pétursson.

Nefndin mælti með því, að skáldin J. Magnús Bjarnason og Þorbjörn Bjarnason, er kallar sig Þorskabít, yrðu gerðir heiðursfélagar. Talaði forseti fyrir því máli. Var samþykt tillaga í þá átt, með því að allur þingheimur stóð á fætur.

Þá var samþykt tillaga um það, að fráfarandi embættismönnum skyldi greitt þakklætisatkvæði, og það gert á sama hátt.

Forseti þakkaði þá góða samvinnu á þinginu, góða aðsókn að samkomum og þingfundum, og bað alla að endingu að singja þjóðsöng Íslands: "Ó, Guð vors lands!"

Að því búnu sagði hann þingi slitið.



# Morðið.

Guð fann þann mann, sem framdi morðið,
Á fóta sinna lágu skör
Og sá það: hvað hann hefði orðið
Við hlýrri' og betri æfikjör;
Í bernsku, öllum yfirgefinn,
Af agaleysi varð hann dýr,
Til fyrirmyndar frjálsan refinn
Hann fékk, sú eina mynd varð skýr.

Og fyrir augu Guðs bar glaðan
Og gæfusaman, frjálsan mann;
Er fyrir minstu bræðrum bað hann,
Sem barn, og alt til þarfa vann.
Já, svona hefði 'ann eflaust orðið,
Og eftir því hann dæmast hlaut.
En hvern var svo að saka um morðið?
Guðs sálarlíf var eintóm þraut!

Og Drottinn vissi um hvern ættlið:
Ef einn af miljón hefði sint
Því góða' í honum, glætt og bætt við
Þann gimstein smáa, upp hann kynt,—
Þá hefði' hinn verri hálfi maður
Til hliðar þokað tafarlaust,
Hinn betri sungið sigurglaður
Frá sumarmálum fram á haust.

Að var hinn betri maður myrtur
Í manni þessum, Drottinn sá,
Hinn verri síðan, viti firtur,
Án verndar hins, sem fallinn lá.
Hinn kærða því að sýkna sæmdi;
Guð setti' hann við sitt náðarborð
Og þá með orðsins þrumum dæmdi
Alt þjóðfélagið fyrir morð.

*Guttormur J. Guttormsson.*

# Dufferin lávarður og Nýja Ísland.

Á þessu komandi hausti verður Nýja Ísland 50 ára. Fyrsti landnema hópurinn sté þar á land, sem nú heitir að Gimli, síðasta sumardag, 22. október 1875. Þá var Dufferin lávarður landstjóri í Canada (1872—78). Var hann hinn mesti Íslands-vinur og aðalhvatamaður þess, að Íslendingar settust að í Canada. Fyrir tilstyrk hans veitti Canadastjórn stórlán til þessarar nýlendu-stofnunar, og lét hann sér mjög ant um hag nýlendumanna allan þann tíma, sem hann dvaldi í landinu. Haustið 1877 ferðaðist hann vestur til Manitoba og heimsótti á því ferðalagi (14. sept.) Íslendinga á Gimli. Er hann hinn eini landstjóri, er fæti hefir stigið á land í Nýja Íslandi, og eini landstjórinn er heimsótt hefir Ísland, en þar kom hann við land í norðurferð sinni sumarið 1856. Fagnaðargildi var honum haldið á Gimli, eftir því sem föng voru á; flutti hann þar ræðu, er seinna var birt í útdrætti í "Framfara" (3 tölubl. 1877). Á baka leið sagði hann frá ferðalagi sínu um fylkið og hversu honum segðist hugur um hinar ýmsu nýlendur, er hann hafði komið í, í skilnaðarsamsæti, er honum var haldið í Winnipeg 17. sept. Í ræðu þeirri mintist hann Íslendinga og komu sinnar til Nýja Íslands, á þessa leið:

— — — "Þá var heimsókn mín til íslenzku nýlendunnar eigi síður ánægjuleg en til meðborgara vorra Menónítanna. Fyrir sérstakar ástæður varð eg mjög heillaður af sögu og bókmentum norrænna þjóða, nú endur fyrir löngu, og svo þegar eg minnist góðvildar þeirrar, er eg eitt sinn varð aðnjótandi frá hendi íslenzku þjóðarinnar, heima hjá henni, er það mjög eðlilegt, að eg láti mig nokkru skifta framtíðarhag þessara nýju innflytjenda."

"Þegar vér athugum hina einangruðu afstöðu íslenzku þjóðarinnar í þúsund ár, veðráttu og hnattstöðu, er hún á við að stríða, væri ósanngjarnt að ætlast til þess, að innflytjendur þaðan sýndu hina sömu hæfni til jarðyrkju og nýlendu-náms, sem þeir hafa til að bera, er búið hafa við æðri verklega menningu Norðurálfunnar."

"Á Íslandi eru engir skógar, engir kornakrar, engir akvegir. Þér getið því ekki búist við því, að Íslendingurinn sýni innblásna verkhæfni við að fella skóg, plægja jörð og byggja brautir, þó, því miður, þetta séu þær þrjár íþróttir, sem nauðsynlegastar eru hverjum canadiskum landnema. Ef þeir eru í þessum efnum síðri, skuluð þér samt ekki ætla, að aðrir hæfileikar þeirra fari eftir því. Þeir eru gæddir miklum vitsmuna gáfum og skörpum skilningi. Þeir eru vel mentaðir. Eg kom naumast inn í það hreysi á Gimli, að þar væri ekki bókasafn. Þeir eru siðferðisgóðir, trúhneigðir og friðsamir. En umfram alt eru þeir löghlýðnir og fúsir að nema. Ekki ætti húsmæðrum þessa lands að þykja það óhagræði, þegar á það er litið, hve erfitt það er að fá þjónustustúlkur, að í boði eru nú hundruð góðlyndra, skynsamra, ungra íslenzkra kvenna, þó í einhverju sé þeim ábótavant, er taka munu fúslega þesskonar starfa. Ef nú svo færi, að dreyfing þessa unga fólks yrði til þess, að enn nánari tengsli mynduðust og viðkvæmari bönd en nábýlið skapar, millum hins canadiska fólks og íslenzku innflytjendanna, þá þori eg að fullyrða, að eigi yrði það að eftirsjárefni á aðra síðuna fremur en hina." — —

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

Sjöundi árgangur, 1925

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON




WINNIPEG, MANITOBA
GEFIÐ ÚT AF ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGI ÍSLENDINGA
1925

# Efnisyfirlit

# Skjálfhendan.

Eftir Stephan G. Stephansson.

---

("Þenna hátt fann Veili. Þá lá hann í útskeri nokkru. Vóru komnir af skipbroti og höfðu þeir ilt til klæða og veður kalt. Þá orti hann kvæði er kallað er: Kviðan skjálfhenda, og: Drápan steflausa og kveðið eftir Sigurðar sögu."

Heimild: *Háttatal Snorra*.)

I.

Á skerinu brotnaði skipið hans.
Þeim skolaði samt upp á klettinn —
Af slysinu flaug ekki fréttin.
Og koldimm var nóttin og langt var til lands.

Og beljandi stormur og brimið sauð
Við bergið, og náttmyrkrið flæddi,
Og skammdegis nístingur næddi,
Og hvergi fanst skúti, sem skjól honum bauð.

II.

En alt sem að um hann menn vita,
Þá afdæma-liðlöngu haustnótt, er það:
Í nötrandi skeri hann skjálfhending kvað,
Þeim skálaði lífgjöf og hita.

III.

Lát þig ei lygasögn gruna.
Leitaðu inst þér í muna:
Hefirðu ei sungið þér sálarbætur
Svartar illra veðra nætur?
Í skeri, við skiptjón beðið,
Skjálfhent kveðið?

Og heimskt væri að eyða um það orðum,
Að ýtt muni sannleik úr skorðum!
Því gefist þér sjón yfir sögunnar haf:
Þér rofar til lýðs, sem að lifði svo af
Út lágnætti aldanna forðum!

17.—11.—'25.

# Metnaður.

Eftir **Stephan G. Stephansson.**

I.

Bannaði bústörf bálviður íslenzkt,
orfi né árum ýtt varð ei gegn því,
byljir sér byltu, brim var fyrir sandi.

Gegningum gegnt hafði, grópað í stuðla
saknaðar sárs síðasta torrek,
að gremju sinnar getu-lögum goðheimi stefnt
fyrir aftökur ósekra — Egill gekk til skemmu.

Aflæstar útidyr opnaði lykli,
hrikti í hjörum, hengi-lás spratt upp,
sté hann yfir stokk inn, stóð á miðju gólfi.

Skrín stóð á skákum, skjöldur hékk yfir.

Síðbrúnir svartar sigu þá Agli,
það var skjöldur Skálaglams, sem skein á þili.

Skálaglams skjöldur skenktur af kænsku,
eigið hrós sér Einar á Egil lék,
sem skuldbundinn skáldavenju: skjaldargjöf
launa varð með lofstöfum ljóða sinna.

Þá sem vissi og vildi vammið fjarsta
—Braglist sína blekkja varð, sig betur mat hann sjálfur—
verða að lúta í ljóði lægra skáldi!
Öðlingum, sem Arinbirni einhæfast sem var,
eða úr helju höfuð sjálfs sín á hálfri nótt að kveða dýrt.

II.

Lykla bar að læsing luktrar kistu,
skauzt upp skrá á skríni járnbendu.

Dýrir dómar: daglaun Braga,
orða íþróttar, undir opnu loki
láu, allir ótýndir— metfé hans og manndómsgjöld.

Andar-egg hreiðraðist þar efst í kistu
—þegið vel af þrévetling— og þrír kúfungar,
skyldmennis skenkur og skáldlaun hans fyrstu,
og bernsku-breks hans bætifláki.

Hýrnaði hengibrún, hrukkur stigu á enni.

Váeygur varð hann, vöðvar þrútnuðu:
fyrir sér fann hann fésjóðu tvo,
bróður-bætur bónda greiddar,
sem hefði konung-kyns kappi fallið.

Ó-eytt geymdi hann enn enska silfrið.

Í þungra hefnda hug hann heygði í muna
vaskan bróður á Vínuheiði.

Ó-sínkt varð Agli þar sitt eigið fé,
bjó svo bróður hrer: að í báðum höndum
með gull hann gengi í gröf til heljar.

III.

Gló-hneptar, gullseymdar glæsi-slæður
hóf upp úr handraða hirzlu sinnar
Egill í yfirsýn: Arinbjarnar-naut!
tilhalds og trygðagjöf, tignarklæði.

Einn kunni Arinbjörn Egils dáðir:
klæðnaður konunga þótti kostum sæma.

Eitt sinn að Alþingi bar Egill síðar
skraut-skrúða þann — skimaði þingheimur,
ei eygt þóttist áður hafa atgervi svo prútt.

Annað var, er albúinn úlfhéðni gráum,
í ofviðrum illum að útistörfum
gekk hann um bónda-bú í bíti morguns.

Glatt var Agli, að geta gengið á þing
höfðinglegast — en heima höldslegast,
Kunnað að bera búning bús og hirðar.

Lýtum var lakrað fat, leirugur var faldur!
Óleyft hafði einhver Egils búnað tekið,
vaxinn upp úr aurnum ökla-lægra en hann.

Vandlega vildi hann viðtakendum geyma
óspjöllum klæði sín og kvæði.

Sigu svartar brúnir, svall í skapi stórráð.

IV.

Fingur-bauguð, beltislykluð, bjartfölduð hlaðhönd,
fagur-skikkjuð, sköruleg Ásgerður í útidyrum stóð.

"Syni þínum Þorsteini þitt skrúð, Egill,
léði eg á mannamót.

Fóru flughraðar, er fljóð sitt leit,
margar minningar um muna Egils,
sem yfir húm-himin hríslast eldingar.

Einn dag á æfi lá Egill sjúkur,
þann sem sú brúður björt var bróður hans gefin!

Stóð hann í styrjöldum, storkaði ófærum,
einstæður og útlagi, en ofurhugi
í að ásanna ættgöfgi með arfi hennar,
því aldrei skyldi Egils kona með ambáttum teljast!

Og í andstæði ennþá var hún,
fyrirkona fremst og fegurst kvenna!

V.

En afrek hans öll fóru eina leið!
Saga hans og söngvar féllu á sömu þögn,
orðstír hans og íþróttir fór, ótilspurt,
fyr en flíkum hans fullslitið varð.

Sígildar sögur gerðust um silfur og gull!
Einkum ef orkuðu illu heilli.

Sáð skyldi því sjóðunum ensku síðar um þingvöll,
rísa skyldi af rógmálmi rán og mannfall,
Ágirnd myndi uppi halda Egils sögu.

22.—12.—'25.

# Aftur og -- fram.

## Hugleiðingar um Nýja Ísland.

Eftir Eggert Jóhannsson.

---

Það vefst í huga mínum, en óljóst þó eins og svefnrofa sýn, að þegar lagt var í langferð frá sveitabæ heima á Íslandi, og þegar komið var upp á næstu heiðarbrúnina, þá væri þar áð um stund og augum manna þá ósjálfrátt rent yfir héraðið og heimahaga, svo fagra og brosandi á sólbjörtum sumardegi, en sem innan stundar myndu huldir sýn vegfarendanna.

Vestur-Íslendingar, hvar helzt sem þeir kunna að vera niðurkomnir í Norður-Ameríku, eru einmitt á þessu ári staddir á heiðarbrún, — á heiðarbrún sögu Íslendinga í Vesturheimi, á þeim 50 ára áfanga, sem nú er umliðinn. Á þessum víðsýnisreit er þá gott og gagnlegt, ef ekki sjálfsögð skylda, að nema staðar um stund og líta í svip yfir þessi liðnu ár, sérstaklega fyrstu árin, og þær þrautir og þjáningar, sem þau höfðu í för með sér, á mislyndri strönd, með torfærum skógi á aðra hönd en stórrisulu stöðuvatni á hina, áður en gleymast allir svipmestu drættirnir, er fyrstu árin geymdu í skauti sínu.

Þökk sé þeim, sem mintust þessara ára með ræðum og söngvum á liðnu sumri, á Gimli. Og þökk sé þeim því fremur, sem gangast fyrir að þar verði reistur veglegur minnisvarði, því til sönnunar, að meðan varir "grafletur á grjóti", að þar var stofnuð íslenzk nýlenda í október 1875. Að vísu var upphafið í smáum stíl, því hann var fámennur, hópurinn, sem þangað kom fyrsta dag vetrar, og sorglega fámennari þó, þegar síðasti vetrardagurinn reis yfir ísbreiðuna á Winnipegvatni, en upphaf íslenzkrar bygðar var það samt. Upp af þeim vísi er sprottin sú þróttmikla bygð Íslendinga í Ameríku, sem með fullum rétti má nefna Nýlendumóður. En svo er það sannast, að áður en ár væri liðið frá því, er kjaltré fyrstu landnemanna mörkuðu fjörusandinn á Gimli í fyrsta sinn, voru meira en þúsund Íslendingar komnir í þessa nýju bygð.

Það er stórmerkilegt atriði, þetta, og einstakt í sögu Íslendinga, að útlend stjórn helgaði þeim um margra ára skeið ákveðna spildu af landeign þjóðarinnar til ábúðar og til eigineignar, ef þeir svo vildu, en vitanlega háð þeim skyldum, er lög landsins ákveða. Þetta sérveldi þeirra, ef svo má að orði komast, yfir þessum reit, hefir ef til vill meiri þýðingu, en í fljótu bragði kann að vera sýnileg. Er ekki hér fólgin einmitt sú hlíf og skjöldur, sem bezt hafa varið íslenzka tungu og íslenzkt þjóðerni í Ameríku, alt til þessa?

Þótt nýlendan væri um allmörg ár fyrir utan takmörk Manitobafylkis, og þótt landið sjálft væri erfitt að vinna, sökum skógarins, og útilokað að mestu frá vaxandi samgöngufærum í tiltölulega fárra

mílna fjarlægð, þá er lítill efi, að margan annara þjóða mann hefði fýst að festa sér land á vatnsbakkanum innan nýlendunnar, ef gildandi samningur hefði ekki bannað, og án þess samnings hefðu engin ráð verið til að koma í veg fyrir tungumáls- og þjóðablöndun þegar í upphafi. Þetta sýndi sig berlega, þegar þar kom, að samningurinn var numinn úr gildi, svo annara þjóða mönnum var frjálst að festa sér land hvar sem þeim sýndist, innan takmarka nýlendunnar.

Það væri að bera í bakkafullann lækinn, að fara hér að setja saman nýtt ágrip af Landnámssögu Nýja Íslands. Þeir söguþættir eru nú orðnir svo margir og fyllilega ábyggilegir fyrir sagnaritara síðar meir, að ný frásögn yrði bara gagnslaus endurtekning þess, er aðrir hafa sagt áður. Tilgangurinn með þessum línum er sá einn, að rifja upp endurminningar um svip nýlendunnar, eins og hún kom þeim fyrir augu, er þangað náðu nálægt haustnóttum 1876, — að rifja upp endurminningar um fyrstu sporin, fyrstu handtökin, fyrstu erfiðleikana og fyrstu harmkvælin, er biðu þeirra. Og þetta yfirlit er sett hér fram í þeirri von, að sem flestir þeirra, sem þar voru í upphafi, og sem enn eru á lífi, finni hvöt hjá sér til þess, að segja frá sínum endurminningum. Sé það sögu og framtíð lítill eða enginn hagur, þá er það samt, eða ætti að vera, ljúft verk og skemtilegt, að segja frá markverðustu viðburðunum, sem gerðust á vegum þessa eða hins, og í þeirra nágrenni, og að bera saman Nýja Ísland nú og fyrir 49—50 árum, þegar frumbyggjarnir litu það vonaland sitt í fyrsta sinni. En svo er það nú ótvíræð skoðun allmargra manna, að í sögulegu tilliti sé ekki í augnablikinu á öðru brýnni þörf, en á alvarlegri tilraun til að safna endurminningasögnum allra fróðleiksmanna, sem heimili höfðu í nýlendunni á fyrstu árunum. Og efstir á blaði, að því er það ætlunarverk snertir, eru að sjálfsögðu frumbyggjarnir, sem þar hafa búið frá upphafi bygðar, sem á örvæntingarárunum stóðu þar eins og "klettar úr hafinu", og létu aldrei bugast, þó skortur og þrengingar kreptu að á alla vegu, og þótt drepsótt og flóð geisuðu yfir nýbygðina þvera og endilanga, með ógn og dauða. Þessir mikilsverðu öldungar eiga og geyma óefað grúa af endurminningum, sem sögulega þýðingu hafa, ef ekki nú þegar færðar í letur, þá í minni sér, og í þær sagnir þarf að ná á meðan dagur er á lofti.

Með þær sagnir, þær heimildir við hendi, samhliða söguþáttunum, sem birtir hafa verið á ýmsum tímum, og sem birtast kunna á komandi árum, geta þá sagnaritarar samið verðmæta og viðfeldna sögu Nýa Íslands og Vestur-Íslendinga. En án þeirra sagna verður hún meira og minna sundurlaus, því þrátt fyrir ágæti söguþáttanna flestra, sem birtir hafa verið, hafa þeir alt of lítið að geyma af endurminningum frumbyggjanna, og séu þær ekki færðar í letur nú þegar, og annaðtveggja birtar á prenti eða geymdar í óhultu skjalasafni, er hætt við, að erfitt veiti að safna

þeim síðar. En þá er illa farið, ef fyrstu slóðirnar verða svo orpnar sandi, er til kemur að rekja þær, að óvíða heggur fyrir spori.

* * *

Þó "fossar og fjallshlíð" sé þar hvergi nærri, þá er það að mínu áliti ekki fjarri sanni, að Nýja Ísland sé svipmesta, ef ekki útsýnisfegursta íslenzka bygðin austan Klettafjalla, — að Albertanýlendunni einni undanskilinni, sem hefir háfjallabálkinn að baki sér, og sýnilegan í björtu veðri frá flestum heimilum. Auðvitað er víða sérlega fallegt í akurlendissveitunum, einkum þó máske í Dakota og Argyle, þar sem hæðir og hólar prýða svo mjög bygðirnar. Og enda mishæðalitla sléttan er fögur um hásumarleytið, þegar ljósgulur og bylgjandi kornstangaflöturinn er svo víður, að helzt hvergi sjást endimörk. En það er auðsældarfegurð, sem þar mætir auganu, fremur en útsýnisfegurð, nema þá í örfáum stöðum, sem svo eru happasælir, að eiga "sína ögnina af hvoru". En jafnvel fögru reitirnir í sléttusveitunum, geta aldrei öðlast eins breytilegt, eins tilkomumikið útsýni, eins og það, sem sjór og skógur sameiginlega færa nágrenninu.

Það er aðlaðandi fegurð, sem mætir auganu, þegar maður lítur í kringum sig frá heimili á vatnsbakkanum, á heiðskírum og lygnum sumardegi. Nærlendis eru engjabreiður og grænir hagar, og sumstaðar kornakrar, þó fæstir þeirra séu stórir. Nokkru fjær rís skógurinn út frá þessum fjölgresisgrundum, eins og hamragarðar, til ævarandi prýðis og til skjóls í hretviðrum. Til beggja handa bugar ströndin sig norður og suður, með skógi vörðu bændabýli á hverri hálfri mílu. Framundan blasir Winnipegvatn við auga, hógvært og broshýrt í ládeyðu, en æðandi holskefluhaf í stormi, og út við sjóndeildarhringinn í austri, og í 12—14 mílna fjarlægð, blámar fyrir klettótta hálendinu á austurströndinni. Áþekt þessu er útsýnið á endilangri ströndinni, og þessa útsýnis, þessarar svipfegurðar njóta nú allir sem vilja, ef þeir ferðast um nýlenduna á heiðríkjudegi, hvort heldur sem farið er eftir þjóðveginum eða í járnbrautarvagni, því báðir vegir liggja samhliða nær alla leið norður að Fljóti, og óvíða meira en mílu frá vatni.

Fljótsbygðin, eða sá hluti hennar, sem liggur meðfram Íslendingafljóti, hefir alt annan svip, og engu síður fagran, þó gagnólíkur sé hann ströndinni. Til norðausturs að sjá frá Möðruvöllum og Ósi blasir við víðáttumikið graslendi, er stórvaxinn skógur girðir norðanmegin og skógarbeltin norðvestur frá Sandy Bar að sunnan. Það þarf þess vegna ekki svo mikið ímyndunarafl til þess að sjá þarna fagran, breiðan og grasgefin dal, með fljótinu eftir honum miðjum, en dalshlíðar allar gerðar úr háum og gildum, þéttstæðum skógartrjám, í stað fjalllendis og kletta. Og víst var þetta björgulegt hérað, ekki síður en svipfagurt, í augum frumbyggjanna, er þeir á sólríkum septemberdegi (1876) reru upp straumlaust fljótið, í logni og blíðu. En galli var á graslendi þessu, að

mikið af því var og er flæðiland, áþekt því, er liggur austur og vestur frá Rauðárósum. Dalslíking þessi smáþrengdist, er ofar dró með fljótinu og hvarf að lyktum algerlega skamt fyrir ofan Möðruvelli. Fljótið eitt var eftir, er liðaði sig straumlítið og krókótt um þögulan skógargeim, stundum yfir og stundum undir dyngjum af rótföstum trjám, er fallið höfðu af bökkunum fram í fljótið.

Áþekkur þessu var svipur þessarar hagsælu sveitar, þegar bygð var hafin, að sumarlokum. Og þá kom fjölgresisbreiðan meðfram skóginum norður frá Ósi sér vel, því heytekja var auðveld á "Almenningi", eins og þetta "engi" var þá kallað, enda brýn þörf á, því nautgripirnir, sem reknir höfðu verið alla leið frá Winnipeg, voru tiltölulega margir, en heyfangatími naumur.

Enn ber sveitin dalslíkinguna, sem frumbyggjunum kom svo vel fyrir, en "dalurinn" er nú orðinn miklu lengri en hann var sýnilegur í upphafi, — nær nú að mestu óslitinn alt vestur á Fögruvelli, en þar var skógur í fyrstu meir til skjóls og prýðis en til fyrirstöðu. Og víst er fagurt að líta yfir grænar grundir, akra og engi, sem komið er í stað skógarins út frá fljótsbökkunum, með tvísettri bæjaröð, sinni hvoru megin við fljótið. En neðarlega í "dalnum", einmitt þar sem frumbyggjarnir fyrst stigu á land, liggur nú járnbraut yfir fljótið, og með henni, í hlýjum vagni og þægilegum, fara menn nú á 4 eða 5 klukkustundum þá leið, sem í upphafi var ógreið og örðug þriggja daga ferð.

* * *

Þó svipur landsins yfirleitt væri sá sami fyrir 49—50 árum, þá er þó sá munur á aðkomu þá og nú, að enginn, sem ekki var þar í upphafi getur gert sér ljósa grein fyrir hve ógnar mikill sá munur er. Það getur enginn, sem ekki var þar viðstaddur og tók þátt í verki, gert sér hugmynd um, hvílíkir erfiðleikar fylgdu þó ekki væri meira en hálfrar mílu ferð á landi. Braut var engin, það segir sig sjálft, um auðan skógargeim í allar áttir frá fjörusandi. Landmælingalínurnar, sem óhultastar eru allra vegavita í skóglendi, voru enn ókomnar nema á stöku stöðum. Frá lendingarstaðnum á fljótsbökkunum eða á fjörusandinum, lágu engar slóðir, enginn stígur. Alt beið komu frumbyggjanna, og fæstir þeirra, er að heiman komu 1876, höfðu séð skógartré fyr en á vesturferðinni, og þá ýmist í fjarlægð, frá þilfari á skipi, eða á flugferð með járnbraut. Þeir höfðu því helzt ekki séð skóg og því síður haft náin kynni af honum, fyr en þeir stigu á land, í grend við fyrirhugaðan framtíðarbústað sinn.

Þar sem mýrlendisflákar láu ekki fram á fjörusandinn, var vatnsbakkinn víða hár og brattur upp að ganga, einkum í Árnesbygðinni. En hvort sem bakkinn var hár eða lágur, þá var hann víðast vel varinn. Há og digur, hvítgrá poplartré stóðu svo þétt strax á bakkanum, að litlu var meira en manngengt á milli trjánna. En erfið viðureignar, eins og þau hlutu að

vera, kom brátt í ljós, að fyrir vegfarendur var undirskógurinn "sjöfalt skæðari öllum hinum", eins og Bólu-Hjálmar einhverntíma komst að orði. Kræklótt, glerhart og ólseigt hrís, mannhæðarhátt og meir óx svo þétt á milli trjánna, að ekki varð "stungið niður saumnál", sem maður segir, og varð þar að gæta allrar varkárni, að ekki skemdust augu eða andlit þeirra, er brutu sér leið um þenna ófagnaðar gróður.

Hér gaf nú að líta Nýja Íslandsskóginn, sem svo oft og mikið hafði verið talað um á ferðinni. En fæstum mun hann hafa komið fyrir sjónir í þeirri mynd, er menn höfðu gert sér um hann. Hvílíkur ógnarmunur að litast um hér og í sveitum heima á Íslandi, og hvílíkt þó verkefni, að ryðja þessum ósköpum burtu, þó ekki væri meira en af einnar dagsláttu stærð. En hingað var nú komið einmitt í því skyni, að rýma skóginum burtu og gefa jörðinni tækfæri að framleiða daglegt brauð, í einni eða annari mynd. Hér var nú að standa, eða falla. Eitt var sýnilegt, en það var, að hér skorti ekki efni til húsagerðar, og því síður var ástæða til að óttast eldsneytisskort, og var hvorttveggja ómetanlega mikill og góður kostur.

Vatnið var að sjálfsögðu alfaravegurinn og vatnsleiðina fóru þess vegna allir, þegar lagt var upp frá Gimli til þess að skoða landið og festa sér reit til ábýlis. Það lætur því nærri, að frá vatnsbakkanum, upp frá lendingarstað hvers um sig, hafi landnemarnir háð sína fyrstu orustu við skóginn. Þar beittu þeir skógarexi sinni, flestir að líkindum í fyrsta sinn, til þess að höggva hrísflækjuna, búta sundur niðurfallin tré og fella önnur, svo að greiður gangstígur fengist frá fjörunni og upp að ákveðnu hússtæði.

Í aðalatriðunum er þetta nokkurnveginn rétt lýsing af upphafi verka, eftir að komið var á áfangastaðinn, og þó hún sé hvorki eins glögg eða eins ítarleg og skyldi, þá gefur hún þeim samt nokkra hugmynd um ástandið, sem ekki hafa séð, og því síður reynt, hvað það er, að byrja búskap í veglausum eyðiskógi, al-ókunnur allri skógariðn, og — með tvær hendur tómar.

Því má ekki gleyma, að þegar hér kom, var sumarið því nær á enda, — september byrjaður. Hér þurfti því á röskleik að halda, því tvent varð að gerast í senn og tafarlaust. Það þurfti að koma upp húskofa yfir fólkið, svo lífvænlegt yrði á komandi vetri, og það þurfti að ná saman einu eða tveimur kýrfóðrum af heyi og koma upp fjóskofa yfir skepnurnar.

Þegar svona var áliðið tímans, þá er auðskilið að ekki hafi komist upp nærri eins mörg hús eins og þurfti fyrir þann fjölda, sem kominn var, eða aðeins ókominn, í nýlenduna. Það var ómögulegt. Eðlileg afleiðing af húsaskortinum var auðvitað sú, að tveir og þrír menn skipuðu það rúm, sem sízt var of stórt fyrir einn. Það er auðskilið, þegar ekkert var ráðrúm til umsvifa og efnin lítil eða engin, þá voru flest þessi bráðabyrgðarhús gerð eins lítil og framast mátti. Voru þau því mörg bæði vegglág og ummálslítil, — veggir vart hærri en mannhæðar háir og þekjan rislítil. Þegar þá allir voru

komnir inn, að kvöldi dags, sem þar höfðu heimili, þá segir sig sjálft, að hversu mikið hreinlæti sem anars var viðhaft, hlaut andrúmsloftið innan skams að verða þungt og óheilnæmt. Hjá því varð ekki komist og engin heilbrigðisnefnd, þó til hefði verið, hefði getað ráðið nokkra bót þar á, því innan húsveggja varð fólkið að vera, hvað þröngt sem var setið. Þegar athugaðar eru þessar heimilisástæður, þá virðist nær undravert, að fólkið stráféll ekki úr bólusóttinni, þreytt og þjakað eins og það var eftir sex þúsund mílna ferð frá föðurlandinu. Virðist þetta bera þess vott, að umgengnin öll hafi verið betri og varúðarreglum betur fylgt en framast mátti vænta og mögulegt mátti virðast, eins og allar kringumstæður voru.

* * *

Þegar haustaði, lét stjórnin byrja á vegagerð eftir nýlendunni. Þar fékst atvinna fyrir fjölda manns og kom það í góðar þarfir, því lítil var von um atvinnu út í frá, á þeim tíma árs. En brautargerðin var fólgin í því, að hreinsuð var 25—30 feta breið rönd af vegstæðinu, tré öll feld og rifnar upp rætur og stofnar svo vel sem varð. Úr nokkurri fjarlægð að líta, var þessi rönd eins og örmjó geil gegnum skóginn, því til beggja handa risu poplartrén 50—70 feta há, og mun hærra þó grenitrjátopparnir, er stórum prýða skóginn, skrúðgrænir jafnt á vetri og sumri. Og þessi rönd varð áður lyki nær 60 mílur á lengd, frá suðurjaðri skógarins við Netlulæk norður að Íslendingafljóti. Var þetta upphaf þess þjóðvegar, er smám saman, en hægt og sígandi, óx upp af þessum brautarvísi, þangað til hann náði óslitinn norðan frá Fljóti til Selkirk og Winnipeg.

Gimli er sem næst miðja vega milli Íslendingafljóts og Netlulækjar; þar var stjórnarsetur nýlendunnar og þar var geymt mest af vöruforða stjórnarinnar. Þaðan var því brautargerðin hafin, bæði norður og suður. Vinnuboði þessu var vel tekið og þustu nú allir í brautarvinnu, sem vetlingi gátu valdið og sem að heiman máttu fara, og nutu þar gagnlegrar tilsagnar og æfingar við skógarvinnu, jafnframt því, er þeir innunnu sér peninga. Kaupgjaldið var eins og alment gerðist þá, aðbúnaður tiltölulega góður í tjöldunum, og fæðið betra en margir höfðu áður átt að venjast. Flestir brautarmanna voru ungir og hraustir og var því oft glatt á hjalla á kvöldin. Þeir, sem vígfúsir voru, þreyttu þá glímur og aflraunir úti á nýrri og sléttri brautinni. Aðrir hlýddu á söngva, og á sögur af svaðilförum að heiman, — af "Höfðabrekku-Jóku", af "Skottu" og af "Móra" m. m. Alt var látið fjúka.

Útlitið var hið vænlegasta og í svipinn lék alt í lyndi. En fyr en varði fóru þungar fréttir að berast að tjaldbúðum brautarmanna, óljósar að vísu og í molum, en þeim fjölgaði dag frá degi og urðu æ meiri og ískyggilegri. Menn fóru úr vinnunni, heimilisþarfa vegna, nærri á hverjum degi, en aðrir komu í þeirra stað, og þeir sem að norðan komu, færðu fréttirnar. — Bólusóttin, er í upphafi var vonað að yrði tjóðruð og kveðin niður í

kofanum, þar sem hún fyrst kom upp, var nú óðum að breiðast út og magnast, en ókunnugt var hvað víða hún var komin. Menn urðu hljóðir er þeir hlustuðu á þessar síendurteknu fréttir, og gáleysishjal og ærsl þokuðu á augnabliki fyrir alvarlegri hugsun, því allir áttu vini eða vandamenn og margir nánustu ástvini, konur og börn, einhversstaðar á leið þessa herfilega sjúkdóms. Voru þessir vinir óhultir enn, eða voru þeir máske á þessu augnabliki að byltast hálfrænulausir á sóttarsænginni. Upp á þá spurningu fékst ekkert svar. Innan skamms barst sú frétt, að bólan væri farin að stinga sér niður á Gimli, og að alment væru menn nú að einangra hús sín. Annað gátu þeir ekki gert, að svo stöddu, en sannast er, að virkileg einangrun var nær ómöguleg, eins og ástæður voru. Um alt þetta varð tíðrætt í tjöldum brautarmanna, og um það, hvort ekki væri hugsandi, að vágestur þessi væri einmitt nú kominn í tjöldin yfir höfði þeirra,þó enn lægi hann í leyni. En hvað sem nú um alt þetta var talað, þá afréðu sumir með sjálfum sér, að kendu þeir minsta lasleika, þá skyldu þeir ekki eiga neitt á hættu, en hraða ferðum heim til sín.

* * .

Það var komið fram í nóvember; brautin var komin suður nálægt Merkjalæk, og stóðu tjaldbúðirnar í þéttum hnapp á mýrarflesju á brautarjaðrinum. Kvöld eitt, er heim kom að búðum frá vinnunni, gekk unglingspiltur einn rakleiðis að fleti sínu og fleygði sér þar niður, áður en hann gengi til kvöldverðar. Var þetta á móti venju og eftir því tók maður sá er næsta flet átti, Jón að nafni, og spurði piltinn hvort nokkuð væri að. Neitaði pilturinn því en kvaðst hálfslæptur. Morguninn eftir vaknaði hann með höfuðverk, en gat ekki um og gekk til vinnu. Hann hélt að höfuðverkurinn myndi rjátlast af sér, en af því varð þó ekki, og laust fyrir hádegið gat hann þess við Jón, er þeir streittu við að losa illyrmislega rótarflækju. Jón rétti sig upp, athugaði piltinn, og sagði svo: "Eins víst er þetta bara kvef, en eins og ástatt er, hefði eg í þínum sporum undireins farið af stað heim, því hér vildi eg ekki þurfa að liggja veikur." Þetta varð úr, og litlu eftir hádegið gekk pilturinn norður braut, með föggur sínar á baki. Nokkru fyrir sunnan Gimli gekk hann heim að húsi til þess að fá sér að drekka, því hiti var í honum, og sótti á hann þorsti. Vatnið var veitt tafarlaust, en nú var sú breyting orðin á siðvenju, að dyr voru ekki opnaðar meira en svo, að bollinn kæmist um gættina. Hér sá hann nú í fyrsta sinn, hvað einangrun þýddi, og flaug undireins í hug, að máske fengi hann nú hvergi húsaskjól á Gimli, og fór að velta fyrir sér, hvað þá yrði vænlegast að gera. En það kom ekki til neinna örþrifsráða, því gistingu fékk hann orðalaust, og sagði hann þó hreinskilnislega, að hann hefði höfuðverk og snert af beinverkjum. "Það er bara kvef, drengur minn," sagði húsfreyja, eftir að hafa horft á hann um stund. "Eg dríf það úr þér með "Pain-Killer" (einkaleyfis meðal alment notað á þeim ár-

um). Morguninn eftir voru beinverkir horfnir og höfuðverkurinn að mestu og nokkru eftir hádegi var pilturinn albata, og kendi sér einkis meins síðan, allan þann hörmungavetur.

Sólin var að hverfa niður í skóginn, þegar hann var kominn svo nærri, að hann sá litla, lága húsið gægjast fram á milli trjánna, húsið, sem nú var heimili foreldra hans og systkina, auk annars fólks, sem þar hafðist við um veturinn. Hann var kominn heim. Og þótt þreyttur væri, tók hann á sprett heim krókótta stíginn, sem að húsinu lá, og lauk upp hurðinni með fögnuði. En þegar inn kom, sá hann það, er svifti hann málfæri og sem því sem næst stöðvaði slög hjartans. Í einu rúmi lá móðir hans og ungur bróðir í öðru, bæði hálf-rænulaus og aðframkomin.

Áður en dagur rynni að morgni, voru bæði dáin.

— — — —

Þessi frásögn er ekki neinn tilbúningur, heldur blátt áfram og óýkt lýsing virkilegra viðburða. Og víst væri lítill vandi fyrir þá, sem þar voru og sáu ef til vill mörg sjúkdómstilfelli, að segja margar sögur áþekkar þessari. En það væri máske lítill velgerningur að ýfa við sárum, þó gömul séu, eða vekja svæfða harma, enda tilgangslaust. Hvar sem bólusóttin náði sér niðri, var aðkoman jafn-nístandi fyrir þá, sem um tíma höfðu verið að heiman, því alstaðar var þá einhver ástvinur í voða. Og kvalafull var reynsla þeirra, er dag eftir dag og nótt eftir nótt stóðu við sóttarsængina, og horfðu á það hræðilega stríð á milli lífs og dauða.

* * *

Veturinn var kaldur og langur, og víst var þá dauf vistin fyrir flesta, en einkum þó fyrir þá, er mist höfðu ástfólgna vini. Það kom sér þá vel og var þakklætisvert, að ætíð var nóg verkefni heima við, að fella trén og telgja bolina til húsagerðar, og að höggva hrísið og smávíkka rjóðrið kringum húsið. Öðruhvoru þurfti og að sækja vistaforða suður að Gimli og draga heim á rammdrægum handsleða, eftir ís og snjó á vatninu, í hörkufrosti og oft í mótvindi og renningi, eða í dimmri ofanhríð, sem brast á sviplega, stundum á miðri leið. Þannig var altaf eitthvert verkefni fyrirliggandi, og þótt frosthart væri að jafnaði, skein sól í heiði oftar en ekki og logn var ætíð í skóginum. Væri vindur til muna, þá hristi hann og sveigði trjátoppana, svo brakaði og small í frosnum trjánum, en niður til jarðar náði hann ekki, svo heitið gæti, á meðan rjóðrin voru lítil sem engin. Það var því vandkvæðalítið að vinna úti alla daga, og sú útivist og iðjusemi dreifði hugsunum manna, svo að í bráðina gleymdist sviðinn, sem brann í brjósti.

En hafi nú dagurinn liðið tiltölulega fljótt, þá var öðru máli að gegna með kvöldstundirnar. Þær voru langar og þreytandi í dauflýstu húsi, og með það sverð yfir allra höfði, fram yfir miðjan vetur, að þegar minst varði, kynni bólusóttin að grípa einhvern þeirra, er til þessa höfðu sloppið. Það segir

sig sjálft, að samræður gátu varla verið fjörugar, þegar grimmasta alvara grúfði yfir allra huga, og sumstaðar autt sæti þess ástvinarins, er máske mátti sízt missa við, sem fyrir svo stuttri stund kom til nýja landsins hraustur og hress með björtustu framtíðarvonir í brjósti, en sem nú hvíldi í nýtekinni gröf. .... En svo kom svefntíminn með hvíld og endurnæringu, og nýr starfsdagur fylgdi fast á eftir.

* * *

Og svo kom nú vorið, hagstætt og blítt og bjart, og glæddi nýja lífslöngun, nýtt þor og nýjan þrótt til starfsemi og framsóknar. Vonuðu nú allir, að gott eitt byggi í framtíðinni, að upp væri nú komið á örðugasta hjallann, og að með samtökum og samvinnu tækist á stuttri stund að ryðja svo skógi frá húsum, að jörðin gæfi af sér einhverja uppskeru. Á því var líka þörf, því alt til þessa urðu þeir, er efnalausir voru, að treysta einvörðungu á stjórnarlán, sér og sínum til lífsframfærslu. Undireins þegar ísa leysti svo frá fjörusandi, að netstúf yrði varpað í víkina, fékst oftast einhver björg úr vatninu, og allur fiskur var þá góður fiskur. Nú var og tekið til að stinga upp jörðina og gera kartöflugarða á milli stofnanna, heima við húsin, og flestir fengu furðanlega góða uppskeru af svo illa undirbúinni jörð.

Með vorinu kom frumstjórn nýlendunnar til sögunnar, heimafengin og alíslenzk stjórn, er annaðist um öll almenn mál í héraði, á líkan hátt og sveitarstjórnir alment gera. Var þar stígið stórt spor og bráðnauðsynlegt til umbóta og heilla. Framvegis vissu nú allir, hvert leita skyldi, þegar leysa þurfti úr vandamáli, eða finna ráð til þess að framkvæma eitt eða annað búendum og bygðinni til hagsmuna. Og alment var það álitið, að vel hefðu verið valdir menn í þessa fyrstu stjórn, — reyndir menn og ráðhollir, sem æfinlega voru búnir og boðnir til að leiðbeina einstaklingnum og aðstoða hann eftir föngum, ekki síður en þeir reyndust sívakandi fyrir öllum velferðarmálum sveitarinnar í heild sinni.

Nú var líka fullgerð brautin um skóginn eftir endilangri nýlendunni, norðan frá Fljóti og alla leið til Netlulækjar, en þaðan voru þá bara 10—12 mílur til Selkirk og þær greiðfarnar. Hér var virkileg umbót og öllum sýnileg, því nú var þó ratljóst á landi, hvert sem fara skyldi meðfram ströndinni og í grend við hana. Með köflum var brautin auðvitað allsendis ófær akvegur að sumri til, einkum um flóaflæmin fyrir sunnan nýlenduna, og yfirleitt var hún illfær sumarvegur, og það um margra ára skeið, því vegabætur voru seinfengnar en brautin þurftarfrek. En landvegur var þetta samt og slarkfær göngumönnum á öllum tímum árs, enda kom hann mörgum lausgangandi manni að góðu haldi frá upphafi, því bátar voru ekki æfinlega við hendina og langt frá því að vatnið væri ætíð ugglaus farvegur á smábát. Á vetrardegi aftur á móti, eftir að snjór var kominn, var brautin greiður og góður alfaravegur, og svo mjög fanst ferðamönnum öllum til um veðra-

brigðin, er þeir sluppu hjá helköldum beljandanum á sléttunni inn á skógarbrautina, að það varð alment orðtak: "Að koma í Nýja Íslands skóginn, er eins og að koma inn í hús."

Að svo miklu fengnu í umbótaáttina, í vorbyrjun 1877, var ekki ónáttúrlegt, þótt framtíðarvonirnar væru nú bjartar og fagrar, þó flest sýndist mögulegt og allir vegir færir. En flestar þessar vonir áttu stuttri æfi að fagna. Óhöpp nýlendunnar voru ekki enn á enda kljáð. Áður en nokkurn varði, gaus upp brottfararsýkin, svo skæð og svo ill viðureignar, að henni varð ekki haslaður völlur fyr en eftir þrjú eða fjögur ár. Voru þá Víðines- og Árnesbygðir rúnar þremur búendum af hverjum fjórum, eða þar nálægt, og skörð einnig höggvin í hópinn í Fljótsbygð, þó minst riðlaðist fylking Fljótsbúa, á þessum styrjaldarárum. Með þessu brottflutningsfargani kollvörpuðust auðvitað flestar fyrirætlanir leiðtoganna, og mjög lömuðust þá í svipinn framtíðarvonir búendanna, sem þrek höfðu til að sitja eftir. En óbifanleg var þó sú trú þeirra, að nýlendan hefði marga og mikla kosti til að bera og að viðreisn og framtíð væri fyrir dyrum. Og þessum mönnum varð að trú sinni. Flestir þeirra lifðu það að sjá samgöngufæri um endilanga nýlenduna greiðari og betri en nokkur þeirra hefði leyft sér að vona á fyrsta áratug bygðarinnar.

En þó nú brottfararsýkin rénaði með flóðárinu mikla 1880, og þó menn færu að smáslæðast þangað undireins á næstu árunum, þá hófst endurreisn Nýja Íslands í raun réttri ekki fyr en 1884—1885, sem næst tíu árum eftir stofnun nýlendunnar.

— — — — — —

Greiðfær vegur, eins og Nýja Íslands brautin var á vetrum, þá leið þó langur tími þangað til reglulegar ferðir með fólk og flutning komust á. Og frumbýlingsleg voru fyrstu flutningatækin, eins og auðvitað er, einkum opnir sleðar, eða sama sem, og oft með fullfermi af varningi, og ofan á því háfermi sátu farþegarnir. Lék þar kaldur gustur um "sætin", og urðu margir fegnir að stökkva ofan af ækinu og hlaupa sér til hita sprett og sprett í senn. En þó kalt væri að sitja á opnum sleða í hörkufrosti, frá morgni til kvölds, þá var þó þetta mikilsverð breyting til batnaðar frá því sem áður var, þegar flestir urðu að ganga alla leið og oftar en hitt með þunga byrði á baki.

Nokkru síðar, þegar lögboðin pósthús voru orðin mörg í nýlendunni, og þegar stórir, yfirbygðir og upphitaðir póstsleðar fóru að þeysa eftir brautinni, fanst mönnum þeir hafa himinn höndum tekið, svo mikill var munurinn á að ferðast. Í sleðunum voru bekkir, sinn með hvorri hlið og sæti fyrir fimm eða sex á hvorum, en oft voru talsvert fleiri farþegar en áætluð sætu voru fyrir, og var þá stundum þröngt setið og sætis leitað hvar sem álitlegast þótti, því óstætt var á sleðunum á ferð, er þá rugguðu og byltust eins og skip í hafróti. En gleði og kæti ríktu í sleðunum þótt þröngt væri. Kýmnissögur voru sagðar og kveðið og sungið svo

glumdi í skóginum, einkum þó í ljósaskiftunum, á seinasta sprettinum, frá Kjalvík norður að Gimli, og enda pósthestarnir hertu þá ferðina ótilkvaddir, rétt eins og þeir einnig vissu, að gististöðin var í nánd.

Þeir sem aldrei ferðuðust til Nýja Íslands að vetrarlagi, á þessu tímabili, geta ekki gert sér hugmynd um, hve undra skemtilegt það ferðalag var. Það var eitthvað við það svo frjálslegt og yfirlætislaust. Hér voru Íslendingar einir á ferð, og um íslenzka nýlendu, þar sem gleðilegt viðmót og hlýtt handtak mætti ferðafólkinu á öllum viðkomu og gististöðum, því allir þektu alla. Vitanlega eru fólksvagnar á járnbraut rúmmiklir, hlýir og þægilegir, en hálf þumbaralegt er þar samt stundum. Þar húkir hver maður þögull í sínu horni, oftar en ekki, af því að þar þekkir enginn annann nema fyrir tilviljun, en hver um sig finnur til þess, að með þessum eða hinum á hann fátt eða ekkert sameiginlegt. Íslenzki ferðamannahópurinn á sleðanum aftur á móti átti alt það sameiginlegt, sem mest stuðlar til glaðværðar á samferð, þ. e. þjóðerni, sögu, ljóð og mál. Það var þess vegna létt verk, og undireins sjálfsagt að reka þögn og þyrking á dyr, en setja samhygð og gleði í öndvegi.

En nú eru póstsleða-ferðalögin, svo frí og frjáls og gleðirík, löngu síðan enduð, og sjást ekki framar á brautum Nýja Íslands. Alt þetta er horfið, alt varð að víkja fyrir tröllavélinni, sem, með langa vagnlest í taumi, brunar um þessar slóðir með dunum og dynkjum, og svo þungstíg, að harðvellisgrundin titrar.

Í augum þeirra, sem ekki þektu neitt til í Nýja Íslandi á fyrstu árunum, er ef til vill flest af því, sem þar gerðist á þeim tíma, smámunir einir, varla þess virði að festa í minni og því síður að færa í letur. Það er afsakandi. Þeir sem ekki sáu nýlenduna fyrir en 15—25 árum eftir að bygð var hafin, sáu vitanlega engin vegs ummerki þeirra þrenginga og þeirrar neyðar, sem frumbyggjarnir liðu, eða þeirra hörmunga er tveir fyrstu vetrarnir höfðu í för með sér.

En í augum þeirra, sem þar voru lengri eða skemri tíma á fyrstu árunum, sem sáu og reyndu eitthvað af sársaukanum, sem þeim árum fylgdi, — í þeirra augum hefir það tímabil alt annað útlit. Og þegar þeir nú, við lok fimtíu áranna, líta í svip yfir farinn veg, þá finst þeim að fyrstu árin í nýja landinu séu að mörgu leyti markverðustu árin á æfinni, svört og sorgleg að vísu, en svipstærri og atburðaríkari en flest þeirra er á eftir fylgdu.

Þess vegna er þeim þá meira en lítil nautn í að sitja við arineld sinn á langdregnu skammdegiskvöldi, og, eins og indverskur töframaður, láta reykjareiminn upp af glæðunum framleiða glóbjartar og glöggar myndir af Nýja Íslands ströndinni, af svipmestu atburðunum, er þar gerðust á löngu liðnum árum, og af góðvinum öllum og göfugmennum, sem þá voru á ferli á þessum hugþekku, gömlu og góðu slóðum, en sem nú eru ekki lengur samferðamenn.

* * *

um fram alt frjálsir og vinsælir. Þeir voru settir á kvöldin, þegar búið var að kveikja ljósin í baðstofunum. Baðstofan var þá notuð í einu sem vinnustofa og kenslustofa. Heimilisfólkið settist þá að vinnu sinni í sínum vanasætum; kom þá húsfreyja fram í hjónahúsdyrnar, leit yfir hópinn og tók svo til máls: "Hvað ætlar þú nú að lesa eða kveða. N. N. minn? Þú verður að fara að byrja, stúlkunum leiðist og tíminn er stuttur. Við stúlkurnar ætlum að koma með volgan sopa bráðum, til að hressa þig." Unglingarnir færðu sig í nánd við sögulesarann, en rokkarnir fóru á fleygiferð, þegar ríman byrjaði; stúlkurnar lögðu lítið eitt undir flatt, urðu broshýrar, og flestar voru þær viljugar til að ljá kvæðamanninum sæti við hlið sér, ef hann æskti þess og kvað vel. Stundum var setið í rökkrunum: sagði þá eldra fólkið sögur; af þeim kunni það mikið; en stundum voru kveðnar vísur eða smá-ljóðaflokkar, og þótti þetta góð stundar skemtun. Á þeim tímum voru margir góðir kvæðamenn, sumir ágætir, er höfðu tök á mörgum yndislega fögrum kvæðalögum, og kváðu þau við raust, svo undir tóku björg og bekkir og botnverja hallir. Beztu kvæðamennirnir voru oft fengnir á öðrum heimilum, til að skemta. — Að veitt hafi verið athygli því, sem með var farið, mátti meðal annars ráða af því, að oft hófust umræður á eftir um það, sem lesið var, og varð þá lesarinn oft að gefa skýringar, og færa til það sem týnzt hafði og gleymst, og unglingarnir tóku þátt í þessum umræðum með áhuga, mintu á söguhetjurnar og hreystiverkin. —

— — — — — —

Hér að framan hefir þá verið skýrt frá því helzta, sem dró líkur að því, hvílík alþýðumentun var á Íslandi fyrri part 19. aldar, fram yfir 1870. Má af því nokkuð ráða, hversu námfús þjóðin var í eðli sínu. Fróðleiksfýsn og skemtanaþrá sleptu aldrei haldi á henni. — Margt höfðu fornmenn til skemtana, en flest var það háð nokkrum kostnaði, og tíðum mannhættu. — En skáldskapur og sagnalestur er með litlum kostnaði, engri mannhættu. Þar getur einn maður — heimaskólakennarinn — skemt fjölda fólks, sem á vill hlýða. Má þá líka hafa þessar skemtanir fyrir fáu fólki; hún er jafn nothæf nótt sem dag, í björtu og dimmu. Einn frægur sagnaritari, kvaðst ekki vilja selja yndi sitt af bóklestri fyrir óteljandi auðæfi; hann vissi ekkert jafnágætt að kaupa fyrir verð. Eg held ekki að íslenzka þjóðin, með þeirri aðstæðu og menningu, sem hún hefir haft við að búa, ætti kost á nokkrum skaðabótum fyrir fróðleik og skemtun af skáldskap og sögum, ef hún glataði því.

Eg held ekki, að alþýðumentunin á Íslandi hafi verið mjög lítils virði. Hún hefir, að mér virðist, skapað að ekki litlu leyti bókmentirnar. Hún hefir lagt ríflegan skerf til þeirra; og naumast held eg, að á næstliðinni öld hafi aðrar þjóðir haft betri né jafnari mentun til að dreifa.

# Svarti stóllinn.

**Sjónleikur í einum þætti.**

Eftir **Jóhannes P. Pálsson.**

(Tileinkað **frú Jakobínu Johnson.**)

---

Persónur:—

*Allan Konráð* (heimsfrægur málari.)
*Frú Konráð* (kona hans).
*Haraldur Arnold* (vel þektur málari, og gamall lærisveinn Konráðs).
*Móna* og *barn hennar* (á öðru ári).
*María Merry* (15 ára gömul).
*Ungfrú Graman* (um tvítugt).
*Frú Morgefell* (á þrítugs aldri)
Hundur, köttur og api.

Leiksviðið: — *Biðstofa Arnolds málara, í stórborg í Ameríku. Á miðjum bakvegg breiðar dyr, með vængjahurð, sem hulin er fögrum og veigamiklum hengitjöldum. Dyr þessar eru milli biðstofunnar og vinnustofu Arnolds. Á veggnum, hægra megin innarlega,, stór gluggi með tjöldum fyrir; framar, dyr, sem vita út að bakstræti. Á miðjum vegg vinstra megin, dyr. Framan við þær (nær áhorfendunum) legubekkur. Lítið borð á miðju gólfi. Á því eru nokkur amerikensk tímarit. Nokkrir hægindastólar eru í stofunni; einn þeirra stærstur, með hátt bak og bríkur og fóðraður með svörtu leðri. Nokkrar myndir hanga á veggjunum. Allir húsmunir bera vott um smekkvísi og velmegun. — Þegar tjaldið er dregið upp, er leiksviðið autt. Arnold kemur inn frá vinstri, í yfirhöfn með hatt á höfði. Gengur þvert yfir leiksviðið og opnar dyrnar til hægri. Staðnæmist, lokar dyrunum aftur og hugsar sig um. Lítur um stofuna. Sækir stóra, svarta stólinn og setur hann undir vinstri vegginn, milli dyranna og skarar leiksviðsins. Stólnum snýr hann á hlið við áhorfendurna. Því næst dregur hann hengitjöldin til hliðar, opnar vængjahurðina, sem gengur út í vegginn, fer inn í vinnustofuna og sækir þangað stórt og skrautmálað stand-tjald. Tjaldinu hagræðir hann þannig fyrir framan svarta stólinn, að hann sést ekki frá hinum hluta leiksviðsins, né heldur dyrnar bak við stólinn; þó sést hvorttveggja vel frá áhorfendunum. Meðan hann er að athuga þetta, er hurðinni, til hægri, loki upp og Konráð kemur inn.*

*Arnold:*

Sæll og blessaður. (*Heilsast með handabandi.*) Þú kemur heldur snemma, því eg þarf að skjótast út sem snöggvast; en svo getur þú beðið hér á meðan.

*Konráð:*

En hvar eru fyrirmyndirnar, sem þú lofaðir mér? Þú ætlar þó ekki að skilja mig einan eftir hjá þeim?

*Arnold:*

Þær eru, held eg, ekki komnar. Gilbert vísar þeim inn í skrúðhúsið og síðan hingað. — Við skulum koma út fyrir tjaldið. (*Þeir færa sig inn í miðja stofuna.*)

*Konráð:*

Já, eg er hæzt ánægður með að komast út úr þessum klefa. En hvað á annars að fara hér fram? Til hvers er svarti stóllinn?

*Arnold:*

Eg setti hann þarna handa einni fyrirmyndinni þinni. Hún er svo frábreytt hinum, að mér fanst ekki réttlátt, hvorki gagnvart þeim eða henni, að gera þeim öllum jafn-hátt undir höfði, eða láta þig sjá þær allar í senn. Það verður að gæta allrar varúðar, þegar um stórt listaverk er að ræða. (*Þeir setjast.*)

*Konráð:*

Og hverjar eru þessar fyrirmyndir?

*Arnold:*

Það er nú fyrst og fremst hún María litla með persneska köttinn sinn.

*Konráð:*

Góði Haraldur minn, vertu nú ekki með neinn flysjungshátt. Þetta er —

*Arnold:*

Svo er ungfrú Graman, með hann Fidó; og ef þú lest dagblöðin, veiztu að hann er fyrir löngu orðin heimsfrægur hundur.

*Konráð* (*stendur upp*):

Þú skilur ekki, hversu mikið áhugamál mér er þetta. Þú veizt ekki, hvernig þessi hugsjón liggur á mér eins og mara, þangað til hún kemst á dúkinn; en það kemst hún aldrei, nema eg finni viðeigandi fyrirmynd.

*Arnold:*

Jú, eg skil þetta alt saman. Þú varst stundum í þessu ástandi, þegar eg var lærisveinn þinn. Og mig langar til að hjálpa þér. Eg hefi jafnvel farið þess á leit við frú Morgefell, að hún komi hingað í dag, og hefir hún lofast til þess að leyfa þér að líta á sig og apann sinn.

*Konráð:*

Eg á bágt með að trúa því, að þú sért að skopast að mér. Geturðu ekki skilið það, að nú ætla eg mér að mála mynd — listaverk? Eg er nógu lengi búinn að kitla mannshjartað. Nú ætla eg að grípa um það og kreista það, þar til augun fljóta í tárum — tárum, sem þvo burtu moldryk meðalmenskunnar og sýna mannlífið eins og það er.

*Arnold:*

En listamaðurinn ætti þó ætíð að vera mannkærleiksmaður.

*Konráð:*

Listamaðurinn ætti ætíð að vera listamaður. Þú ert ungur enn, Haraldur minn; og alt leikur þér í lyndi; en einhverntíma kemur að því, að þér finst frægð og auður létt á metunum.

*Arnold:*

Þetta má vel vera, og er ef til vill ástæðan fyrir því, að eg er rétt að leggja út á sorphaug mannfélagsins, eftir fyrirmynd handa þér.

*Konráð:*

Mér stendur á sama, hvaðan hún kemur, ef hún aðeins nær hugsjón minni.

*Arnold:*

En hafir þú gert þér ljóst, hver sú hugsjón er, því skyldir þú þurfa nokkra fyrirmynd?

*Konráð:*

Hún getur ekki orðið mér ljós fyr en eg hefi séð fyrirmyndina. Hitt veit eg, að það þarf að vera kona — kona, sem veit, hvað það er, að hrópa í himininn, bölva tilverunni og hlæja að dauðanum, alt í sömu andránni.

*Arnold* (*blístrar*):

Nú? Ekki neitt minna!

*Konráð:*

Nei, ekkert minna. Einhverntíma hefir kona kastað þessum neista í sál mína. Þar hefir hann síðan verið að brenna um sig; og nú er hann orðinn að báli, sem eg skal bera á alt ruslið og allan óþverrann — alt þetta, sem keypt er og selt fyrir peninga.

*Stutt þögn.*

Um hvað ertu að hugsa?

*Arnold:*

Eg var að hugsa um, hvort þú — hvort konan þín slyppi við eldinn.

*Konráð:*

Hver veit? Við skulum ekki gera hana að umtalsefni okkar. Haraldur minn! En vel á minst: hún er á keyrslutúr og ætlar að taka mig heim með sér í bakaleiðinni.

*Arnold:*

Jæja, vinur minn, farðu nú inn í vinnustofuna mína. Eg loka ekki hurðunum, dreg aðeins tjöldin fyrir. (*Konráð fer inn í vinnustofuna. Arnold dregur tjöldin fyrir, lítur inn.*) Eg hefi lagt svo fyrir, að dömunum verður vísað hingað inn í biðstofuna. Þú getur því hlustað á viðtal þeirra, og ætti það að hjálpa þér í valinu. Biddu mín þarna. (*Fer út um dyrnar til hægri.*)

*Leiksviðið autt eitt augnablik.*

*María Merry (kemur inn um dyrnar vinstra megin, með stóran kött í fanginn. Dansar inn leiksviðið. Hún er búin þannig, að hún sýnist yngri en hún þó er. Kastar sér niður í stól inst á leiksviðinu hægra megin þar sem hún getur gægst inn í skýlið bak við stand-tjaldið.)*

Jæja, kisi minn. Húsbóndinn er víst ekki heima; og við verðum að bíða hans allranáðugasta. Eða haga þeir ekki þannig orðum á Persalandi? (*Stutt þögn*). Svarar þú mér ekki, óhræsið þitt? Ertu þá kanske ekki af aðalsættum Persa-katta?

*Kötturinn:*

Mja-á.

*María (strýkur kettinum):*

Jú, eg hélt það. Þeim væri ekki svona ant um þig, listamönnunum, værir þú bara svona einhver almúgaköttur.

*Kötturinn:*

Mja-á.

*María:*

Veiztu það, kisi minn, að eg er stundum dálítið afbrýðissöm? Eg er nefnilega ekki alveg viss um, hvort það er þú eða eg, sem meiru varðar á myndinni.

*Kötturinn:*

Mja-á.

*María (stendur upp með köttinn í fanginu og gengur að borðinu. Velur eitt tímaritið og sýnir kettinum kápuna á því.)*

Sjáðu til, kisi minn. Hérna erum við bæði tvö. Þessi mynd er eftir einn af helztu málurum Bandaríkjanna. En hver getur sagt, hvort okkar mætti heldur missa sig á myndinni. (*Leggur köttinn undir vanga sinn.*) Jæja, kisi minn. Við skiljum ekki leyndardóma listarinnar. En þú sérð, að við getum hvorugt án annars verið.

*Kötturinn:*

Mja-á.

*María:*

Og þó eg sé stolt af kyni þínu, máttu gjarna vera stoltur af, hve falleg eg er. (*Tekur upp lítinn handspegil, skoðar sig og lagar á sér hárið.* Eða er eg kanske ekki falleg, kisi minn?

*Kötturinn:*

Mja-á.

*María:*

Þú ert tregur á lofsyrðin, en þess meira virði eru þau.

*Ungfrú Graman (kemur inn um dyrnar til vinstri. Hún er í ermalausum, flegnum kjól, sem er sniðinn í þeim tilgangi, að sýna sem bezt, hversu fagurlega hún er vaxin. Undir hendinni ber hún lítinn, hvítan, ófríðan kjölturakka. Lítur kuldalega til Maríu, en yrðir ekki á hana. Legst mjúklega og letilega í legubekkinn.)*

Við skulum hafa það náðugt, Fidó minn, og bíða hérna.

*María (Lítur kankvíslga til ungfrú Graman):*

Hvað heitir þú, ungfrú góð? (*Stutt þögn. Ungfrúin kembir hundinum með gyltum kambi.*) Ekki stæði nú þessi rakki lengi í þér, kisi minn, ef því væri að skifta.

*Kötturinn:*

Mja-á.

(*Hundurinn kemur auga á köttinn og urrar.*)

*Ungfrú Graman:*

Hafðu hægt um þig, hjartað mitt. O-hræsis kötturinn sá arna stendur þér svo langtum neðar, að þú ættir ekki að láta-ast sjá hann.

*María:*

O, það væri nú svo sem hregðar leikur að klóra úr honum glyrnurnar! Eða finst þér það nú ekki, kisi minn?

*Kötturinn:*

Mja-á.

*Ungfrú Graman* (*reiðulega við Maríu*):

Hver, annars, eiginlega, ert þú?

*María* (*kastar tímaritinu yfir á legubekkinn.*):

Svo þú lest þá ekki helztu tímarit landsins. (*Setur sig í stellingar eins og á myndinni á kápunni.*)

*Ungfrú Graman* (*rís upp við olnboga, og skoðar kápuna á tímaritinu. Hreyfingar hennar eru allar hægar, mjúkar og fagrar. Lítur til Maríu*):

O, eg bið afsökunar, ungfrú —

*María:*

Eg heiti Mary Merry.

*Ungfrú Graman:*

Mér er sönn ánægja að kynnast þér, ungfrú María, og kettinum þínum. Jú, eg hefi víða séð myndir af ykkur. Þetta er hann Fídó minn. Hann hefir nú þegar hlotið tuttugu og sjö sinnum verðlaun á sýningum víðsvegar um Bandaríkin.

*María:*

Og þú ert ungfrú Graman. Dæmalaust er gaman að fá að sjá þig. Eg hefi séð mynd af ykkur Fídó, og lesið um öll afrek hans og ættbálk.

*Kötturinn:*

Mja-á.

(*Fídó urrar.*)

*Ungfrú Graman:*

Hafðu hægt um þig, hjartað mitt. Þetta er persneskur köttur af háum ættum.

(*Frú Morgefell kemur inn um dyrnar til vinstri. Svolítill api hvílir á handlegg hennar. Hún er búin á líkan hátt og ungfrú Graman. Fríð og vel vaxin. Lítur þóttalega í kringum sig. Tekur sæti innarlega til vinstri. — Hundurinn urrar, kötturinn mjálmar og apinn nöldrar.*)

*María* (*hlær hátt*):

Þegi þú nú, kisi minn. Þú ert aðalborinn og átt að haga þér skikkanlega.

*Frú Morgefell* (*við apann*):

Kötturinn stendur þér þó líklega ekki framar, Markús minn, í framvindu sköpunarinnar.

*Ungfrú Graman* (*rís upp við olnboga*):

Ert þú ekki hin nafnkunna ríkis- og mannkærleikskona, frú Morgefell?

*Frú Morgefell* (*blíðkast*):

Jú, og þú —?

*Ungfrú Graman:*

Ungfrú Graman. Þú hefir máske séð mín getið og —

*Frú Morgefell:*

Já, eg hefi margoft lesið um hundinn þinn. Eða er ekki þetta hinn frægi Fídó?

*Ungfrú Graman:*

Þú getur rétt til. (*Stendur upp og réttir frúnni tímaritið. Bendir á Maríu.*) Og þetta er litla stúlkan með persneska köttinn.

*Kötturinn:*

Mja-á.

*Frú Morgefell:*

Nú, einmitt það (*lýtur höfði til Maríu*). Nú skil eg hvernig í þessu liggur. (*Ungfrú Graman sezt aftur*). Herra Arnold hefir boðið okkur hingað vegna Konráðs, málarans mikla. Hann kvað vera að líta sér eftir fyrirmynd, til þess að mála eftir nýtt listaverk.

*Ungfrú Graman* (*brosandi*):

Og meistarinn á sjálfsagt að gera upp á milli okkar.

*Frú Morgefell* (*þóttalega*):

Eg segi fyrir mig, að undir öðrum kringumstæðum hefði eg ekki gefið kost á mér, sem fyrirmynd. En þegar um auðugan og heimsfrægan málara er að ræða, verða þeir, sem hátt standa í mannfélaginu, að gera sitt ítrasta til þessa að bjarga listinni.

*María:*

En eg hefi heyrt því fleygt fyrir, að herra Konráð kærði sig ekki lengur um frægð og peninga; að hann sé hálfpartinn að ganga af göflunum.

*Ungfrú Graman* (*teygir sig letilega*):

Ó, það er ekkert að marka, hvað sagt er! Heimsfrægir menn verða að vera meira og minna dutlungasamir. Þeir mega ekki haga sér eins og aðrir menn. Það borgar sig ekki. Billegustu auglýsingar og ábyggilegustu eru kenjar stóra fólksins. Eg vildi bara að eg gæti látið stórblöðin flytja hrókaræður um sérvizkuna í mér. Eg tala nú ekki um, ef þeir gæfu í skyn, að eg væri í þann veginn að verða vitlaus.

*Frú Morgefell:*

En Konráð hefir æfinlega verið einkennilegur maður. Hann hafði lengi fyrirmynd, sem Móna hét. Af henni var myndin, sem hann varð frægastur fyrir. Þessi stelpa hafði heilmikil áhrif á hann. Svo hvarf hún. Hvarf hennar var á allra vitorði og ýmislegu um það hvíslað; en enginn veit, þann dag í dag, hvert hún fór, né hvar hún er niðurkomin. Alt þetta vakti eftirtekt á þessum listamanni, og varð honum stórgróði.

*Ungfrú Graman:*

Hann hefir, kanske, átt vingott við þessa Mónu.

*Frú Morgefell:*

Ef til vill. Að minsta kosti hefir frú Konráð trúað mér fyrir því, að hann kalli stundum á hana, upp úr svefninum. En svo legg eg lítið upp úr því, því sjálf er hún hálf-ærð af afbrýðissemi.

*María:*

Ósköp eiga þeir ríku gott! Þeir mega lifa og láta eins og þeir vilja, og það sem er kallað hneyksli hjá okkur, sem fátæk erum, verður ríka fólkinu til frægðar og ánægju.

*Frú Morgefell:*

Auðurinn hefur mennina upp í æðra veldi. Jafnvel list Konráðs naut sín ekki til fulls, fyr en hann eignaðist ríka konu.

*María:*

Og er hún, kanske, óttalega falleg líka?

(*Arnold og Móna koma inn um dyrnar til hægri. Arnold ber barnið. Bendir Mónu að setjast í svarta stólinn. Leggur barnið í kjöltu hennar og kemur fram fyrir standtjaldið. Móna er klædd tötrum, með rifinn sjalræfil í skýlu, sem slútir fram yfir ennið. Utan um barnið er vafin gömul snjáð karlmannstreyja.*)

*Arnold* (*hneigir sig brosandi fyrir dömunum*):

Góðan daginn. Það var afleitt að láta ykkur bíða eftir mér. En nú er bezt að lofa Konráð að svala augum sínum á kvenlegri fegurð.

*Frú Morgefell:*

Er hann kominn?

*Arnold:*

Já, bíðið eitt augnablik. (*Gætir að sér.*) Nei, hann er líklega ekki kominn.

Ég ætla að sjá til. (*Fer inn í vinnustofuna.*)

*María* (*lágt*):

Ég ætla að vona að hr. Konráð hafi ekki setið inni á vinnustofunni allan þenna tíma.

*Frú Morgefell* (*kuldalega*):

Og staðið á hleri.

*Ungfrú Graman* (*brosandi*):

Og hvað svo sem ætli það gerði til? Ég held að listamennirnir þekki okkur innan eins og utan.

(*Barnið rumskast og veinar af hungri. Móna tekur utan af því treyjuna og leggur það á brjóst. — Dömurnar hrökkva við.*)

*María:*

Var þetta krakki að væla af hungri? (*Gægist inn í skýlið. Undrast, en segir ekkert. Móna gefur henni teikn um að þegja.*)

*Frú Morgefell:*

Það er líklega einhver krakkayrmlingur úti á götunni.

*María:*

Já, einhver vesalings krói að drepast úr hungri, hérna fyrir utan dyrnar.

(*Arnold og Konráð koma inn um dyrnar vinstra megin. Arnold kynnir Konráð dömunum.*)

*Arnold:*

Nú skulum við öll koma inn í vinnustofuna. Þar er alt hentugra og birtan er betri. (*Dregur tjöldin til hliðar og lætur hin fara á undan sér. María síðust. Togar í ermi Arnolds og drepur titlinga.*)

*María* (*lágt*):

Hver er konan með barnið?

*Arnold:*

Fyrirmynd, eins og þú.

*María:*

Góði, bezti herra Arnold, lofaðu mér að bíða í vinnustofunni þangað til hún fer.

*Arnold:*

Kanske, ef þú verður góð stúlka. (*Ytir henni inn, og fer á eftir. Dregur hurðina fyrir.*)

(*Barnið fer að gráta og lætur ekki huggast.*)

*Móna:*

Færðu ekkert, elsku vinur minn! (*Tekur hníf upp úr treyjuvasanum. Opnar hann og hreinsar blaðið milli varanna. Bregður honum í barm sér. Leggur barnið á brjóst sér aftur. Það þagnar.*) Svona, vinur, sefaðu nú hungrið. (*Kastar skýlunni af sér. Hún er fölleit og mögur, með mikið ljósgult hár. Það og augun, djúp og skær, er hið eina, sem eftir er af hinni upprunalegu fegurð hennar.*)

(*Stutt þögn.*)

(*Arnold og Konráð koma fram í stofuna. Arnold lokar á eftir sér og dregur tjöldin fyrir.*)

*Konráð:*

Því ertu að gabba mig?

*Arnold:*

Ég er ekki að gabba þig. Mér fanst það skylda mín að sýna þér fyrirmyndirnar mínar, og vinnustofuna, þar sem eg vinn mér til auðs og frama — lofa þér að átta þig áður en eg sýni þér fyrirmyndina þína.

*Konráð:*

Þetta er alt svo ólíkt þér, Haraldur, og sé það aðeins spaug, skal eg strax fara. (*Býr sig til að fara út um dyrnar til vinstri.*)

....

*Arnold:*

Aðeins eitt augnablik, Konráð. (*Dregur stand-tjaldið inn að bakveggnum. — Barnið lítur upp. Niðurandit þess er*

*blóðugt. Konráð starir hreyfingarlaus á konuna og barnið. Andlitsdrættirnir verða harðir og augu hans brenna. Arnold verður hverft við að sjá blóðið. Gengur að stólnum.)* Því er barnið blóðugt?

*Móna (brosandi):*

Það er ekkert. Eg geri þetta stundum, þegar hann er svangur. En núna hefir það kanske, orðið heldur mikið.

*Arnold:*

Guð hjálpi þér, kona.

*Konráð:*

Haraldur, þarna er hún. Sæktu mér áhöld — dúk og liti — dráttblý — krít — kol eitthvað til þess að festa þessa mynd!

*Arnold:*

Við skulum fara inn í vinnustofuna, þar eru öll tæki og betri birta.

*Konráð:*

Nei, hreyfðu hana ekki. Myndin getur breyzt. *(Eitthvað er það í rödd Konráðs, sem heimtar hlýðni.)*

*Arnold:*

En barnið þarf næringu.

*Konráð:*

Nei, ekki fyr en búið er. Náðu fljótt í tækin. Heyrðu það, maður! Fljótt! *(Stendur alt af í sömu sporum og starir á Mónu.)*

*Móna:*

Farðu að óskum hans í öllu, við getum beðið.

*(Arnold fer inn í vinnustofuna og kemur að vörmu spori með málaratrönur, með dúk á, og önnur tæki. Þessu hagræðir hann fyrir framan Konráð, sem stendur við vinstri vegginn mitt á milli dyra og bakveggs. — Arnold hefir gleymt að loka dyrunum á eftir sér.)*

*Konráð:*

Talaðu við hana, Haraldur, á meðan eg næ myndinni. Láttu hana segja þér æfisögu sína — eitthvað. — Kveldu hana alt sem þú getur *(málar)*.

*Arnold (gengur að svarta stólnum):*

Þetta er þrælslegt, eins og það er heimskulegt.

*Móna (brosandi):*

Nei, nei. Svona er listin. Hann verður að ná mynd af mér, og þó málar hann eitthvað, sem er miklu stærra og meira en við öll.

*Arnold:*

Þetta er hreint og beint óþarfi, og þú og barnið svona á ykkur komin.

*Móna:*

Og þú, sem þykist vera listamaður, kallar það óþarfa, að draga sorg og gleði mannshjartans, ást þess og hatur, eymd þess og kjark, von þess og örvænting — draga alt þetta saman í einn brennipúnkt, sem kveikt getur hugsun, og vakið óteljandi sofandi sálir langt fram eftir komandi öldum.

*Arnold:*

Nei, mér finst annað eins tilræði og þetta ekki vera tilvinnandi.

*Móna:*

Það er alt tilvinnandi fyrir listina og —kærleikann.

*Arnold:*

Fyrirgefðu mér, en mér finst þú hafa svo lítið af kærleik að segja — kærleik annara til þín.

*Móna:*

Og list. Datt þér ekki í hug að bæta því við?

*Arnold:*

Jú, eg skal játa það.

*Móna:*

Eg varð þó frumkvöðull og fyrirmynd að því mesta listaverki, sem málað hefir verið á seinni árum. Og heldurðu ekki að blessuðu barninu mínu þyki vænt um mig?

*Arnold:*

Jú, jú. Þú hefir rétt fyrir þér. Þú átt ítök í báðum.

(*Stutt þögn.*)

*Konráð* (*málar af kappi*):

Geturðu ekki látið hana tala? Sérðu ekki að svipurinn dofnar, þegar hún þegir?

*Móna:*

Þetta er alveg satt. Eg er eitthvað svo þreytt. En ef þú talar við mig, get eg svarað þér. — Hann vill að eg tali um sjálfa mig, þó hann heyri ekki eitt einasta orð af því, sem eg segi.

*Arnold:*

En hann hlýtur að hafa heyrt hvert orð.

*Móna:*

Nei, nú heyrir hann aðeins með augunum.

*Arnold:*

Hvernig veiztu það?

*Móna:*

Eg var einu sinni fyrirmynd málara, sem stundum komst í líkt skap eins og vinur þinn er nú í. Þá fanst mér eg sjá myndina hans áður en hún var komin á dúkinn. Svo var eins og eg gæti látið sál mína streyma til hans í myndina.

(*María gægist fram milli hengitjaldanna, en enginn veitir henni eftirtekt.*)

*Arnold:*

Þú hefir þekt hann vel.

*Móna:*

Já. Stundum fanst mér við vera eitt. Þá þurfti engra orða við. Þá runnu djúp sálna okkar saman í eitt, og mér fanst eins og öll tilveran standa í ljósum loga. Þá langaði mig til að brenna upp til kaldra kola, eða leysast upp til agna, í ljóshafinu.

(*Stutt þögn.*)

*Arnold:*

Og svo?

*Móna* (*andvarpar*):

Og svo skildum við.

*Arnold:*

Því skilduð þið?

*Móna:*

Hann misti sjónar á listinni.

*Arnold:*

Hvernig þá?

*Móna:*

Hann seldi himnaríki sálar sinnar fyrir peninga.

*Arnold:*

Og rak þig frá sér?

(*María hefir dregið hengitjöldin lítið eitt til hliðar og stendur í dyrunum með ungfrú Graman á aðra hönd, en frú Morgefell á hina. Þær horfa agndofa á það, sem fram fer.*)

*Móna* (*á orðið bágt með að kæfa niður geispann*):

Nei. Hann rak mig ekki í burtu. Eg flúði frá honum.

*Arnold:*

Og gerði hann enga tilraun til að finna þig?

*Móna* (*geispar og andvarpar milli orðanna*):

Nei, hann varð víst feginn að losast við mig.

*Arnold:*

Þér er að verða ilt. Má eg ekki sækja þér vatn?

*Móna:*

Nei. Það líður frá aftur.

(*Stutt þögn. Frú Konráð opnar dyrnar til vinstri, og staðnæmist þar. Enginn tekur eftir henni. Hún er búin til bifreiðar-keyrslu, með blæju fyrir andlitinu.*)

*Arnold:*

Og langaði þig ekkert til að snúa til hans aftur?

*Móna* (*með hvíldum*):

Nei. — Eg var búin að sækja barnið mitt. — Eg náði því úr ljóshafinu.

*Arnold:*

Hvað heitir þú?

*Móna (lágt):*

Móna. (*Hún þagnar og höfuðið hnígur niður á bringuna.*)

*Konráð:*

Hvað gengur að henni? Því talar hún ekki?

*Arnold:*

Það er liðið yfir hana.

*Konráð:*

Það gerir ekkert til. Eg er búinn í bráðina.

*Arnold (Kemur auga á Maríu):*

María, taktu barnið.

*María (hleypur til, kastar kettinum frá sér og tekur barnið úr kjöltu Mónu.)*

Blessaður litli auminginn! Eg skal passa þig fyrir mömmu.

*Arnold:*

Komdu, Konráð, og hjálpaðu mér til að koma henni yfir á legubekkinn. (*Þeir bera Mónu yfir leiksviðið og leggja hana á legubekkinn.*) Þekkir þú hana ekki enn, Konráð?

*Konráð (rankar við sér, krýpur niður og faðmar hana):*

Móna! Móna! Eina ástin mín! (*Skelfur af gráti.*) ....

(*Frú Konráð stígur hægt inn á leiksviðið. Tekur snögglega til skammbyssu úr barmi sér og skýtur Konráð. Hann fellur á gólfið. Frú Morgefell og ungfrú Graman, sem alt af hafa staðið í dyrunum, æpa upp og falla í ómegin.*)

*Arnold (grípur byssuna af frú Konráð sem stendur í sömu sporum eins og í leiðslu.):*

Guð fyrirgefi þér kona! Þú hefir drepið manninn þinn! (*Við Maríu*): Bíddu hérna augnablik, María mín. Eg ætla að síma eftir lækni og lögreglunni.

*María (gengur að legubekknum, með barnið á öðrum handleggnum. Með hinni hendinni losar hún um fötin á Mónu. Stendur upp og vefur barnið að sér):*

Pabbi og mamma bæði dáin.

(Tjaldið.)



# Um orðakver Finns Jónssonar.

Eftir **Pál Bjarnarson.**

---

Þá er Norðmenn tóku til að leggja stund á norræn fræði, þá ömuðust þeir þegar við því, að forntunga Norðurlanda væri nefnd Íslenzka, þótt fræði sé eftir íslenzka menn og ritin á þeirra tungu. Þeir tóku upp nafnið Fornnorræna (Oldnordisk), og síðar færðu þeir sig upp á skaftið og kölluðu hana Fornnorsku. Af nafngift þeirra er aftur runnin kenslugrein sú, sem nú er alment viðtekin erlendis, að forntungan hafi um Siðabótina verið útdauð alstaðar á Norðurlöndum og eins á Íslandi, og frá þeim tíma sé að telja hinar nýju tungur, Ný-Dönsku, Ný-Íslenzku o. s. frv., svo að Íslendingar hafa ekki geymt eða varðveitt forntunguna lengur en hinar þjóðirnar, þegar öllu er á botninn hvolft, eftir þessari kenslugrein. Norðmenn hafa og með blygðunarlausri óskammfeilni — Munck, Bugge o. fl. — reynt og reyna að eigna sér íslenzk fornrit, og til marks um, hversu hart er róið að því, af málfylgjumönnum hinnar norsku stefnu, að villa heimildir á íslenzkum uppruna norrænna fornrita, má geta þess, að á landabréfum, sem löggild eru til skólakenslu hér í Canada, eru á að gizka þrír fjórðungar Íslands sýndir samlitir Grænlandsströndum og norðurhluta Canada, eins og þeir væru bygðir eða hefðu verið bygðir af Skrælingjum. Sunnlendingafjórðungur einn er látinn vera samlitur Norðurlöndum. Þeir, sem hér þekkja, hvernig vísindin eru höfð til skoðana-undirróðurs, geta farið nærri um, hvaðan skeyti það sé komið. Innrætist æskulýðnum það, að Ísland sé Skrælingjaland, þá rennur honum ljúfar niður kreddurnar um fornnorræna bókagerð í Noregi og landafundi þaðan.*)

---

*) Þessi tilgáta höf. virðist ærið hæpin, að minsta kosti liggur beinast við að skýra þessa vitleysu landabréfanna á annan hátt. Það er ekki sennilegt að áhrifa frá Norðurlöndum gæti að mun við samningu skólabóka hér í álfu eða landalýsingar. Mun ærinn til að þeir "vísindamenn", sem við það eru að fást, seu læsir á danska tungu. En þótt svo væri, myndu þeir fátt finna í ritum fræðimanna á Norðurlöndum, er gæfi þeim efni til að álíta að Ísland væri bygt Eskimóum, öllu heldur hið gagnstæða, því um það mun deilan snúast, milli Íslendinga og Norrænufræðinga, að hinir síðartöldu gera of litla grein þjóðernanna, en telja bæði íslenzka menn, svo sem Leif Eiríksson, og íslenzk fornrit undir Noreg. Þetta mun því miklu fremur eiga rætur að rekja í aðra átt — til stórveldishrokans, er hvorki fer hljótt eða skríður í felur um þessar mundir, og eigi virðist annað æðra boðorð hafa en að verjast þekkingu á þjóðum og löndum, er standa utan við ríkisheildina. Það varðar svo litlu, hvort satt er sagt eða logið er til um þær þjóðir. Dæmi viljum vér nefna, er þetta sýnir svo áþreifanlega, af einni skólabókinni, er lögboðin er hér í Vestur-Canada. Bókin heitir "Dominion School Geography", og er lögskipuð af mentamálaráðgjöfunum í fylkjunum Alberta og British Columbia sem kenslubók í landafræði við alþýðuskólana. Bókin er gefin út með styrk af opinberu fé af W. J. Gage & Co., Toronto, árið 1910. Löngu máli er eigi farið um Ísland í bók þessari — 14 línum — en frá því er skýrt sem

Það hefir ekki mikið upp á sig, þó íslenzkir unglingar spretti stöku sinnum upp af bekkjum sínum, eins og vor annálaði forvígismaður Jón Sigurðsson, til þess að andmæla falskenningu landabréfanna. Undirróður þeirra kemur að tilætluðum notum eins fyrir það.

Að því er snertir kenslugreinina um skiftingu tungunnar í forna og nýja, þá er hún sjálfsagt rétt um löndin þrjú, nema fyr megi verið hafa, en um Ísland er ekki hægt að skoða hana nema tómt gerræði eða hégóma. Það er háttur málfræðinga, að skifta tungu í forna og nýja, þegar telja megi, að þjóðin hafi gleymt fyrri hlutanum fyrir hinum síðari, en fyr ekki; t. d. getur brezk alþýða hvorki lesið né skilið forn-Ensku, dönsk alþýða ekki forn-Dönsku, norsk alþýða ekki Norrænu, né þýzk forn-Þýzku; en íslenzk alþýða les og skilur Norrænu enn þann dag í dag, jafn-reiprennandi og með samri greind og alþýða manna í öðrum löndum les og skilur dagblöð sín, nema betur sé. Meðan svo er, er engin ástæða til að skilja á milli forntungunnar og Íslenzku. Bókmál Íslendinga hefir frá öndverðu verið og er enn norrænt mál, og Norrænan er því réttnefnd Íslenzka, eins og hún var og nefnd af norrænufræðingum þeim, sem mestir hafa uppi verið, Rask, Sveinbirni, Konráði. Forn-Norræna (Oldnordisk) er rangnefni, norskt vísindaagnyrði freklega ágengt við sannleikann, því það lýsir gleymt, fornt, dautt það, sem lifir fullu fjöri, þó með fámennri þjóð sé. Væri önnur eins ósvinna boðin stórþjóð, svo sem Bretum eða Frökkum, að prédika að tunga þeirra væri dauð, þá myndi þeim vísindamönnum vera viðbrugðið, en sama er innrætið og sannleiksástin, hvort við marga eða fáa er um að eiga. Íslendingar hafa aldrei verið spurðir um þessa skiftingu. Halldór Kr. Friðriksson og Jón Þorkelsson höfðu hana að engu og kendu tunguna óskifta. Enginn dylur þess, að Íslenzka sé frábrugðin forntungunni í sumum greinum. Tungan lifandi hefir, vitaskuld, tekið breytingum, eins og hvað eina, sem lifir, en ekki kveður svo mikið að frábirgðum þeim, að rétt sé að skilja á milli fyrir það. Ljósastur vottur um það er einmitt, að íslenzk alþýða skilur jafnt "fornt mál" og nýtt, eins og áður er á vikið. Norðmenn láta svo sem Íslendingar hafi ekki geymt forntungunnar, fyrst munur sé á henni og máli þeirra nú, en vitanlega gat tungan ekki verið hvorttveggja í senn, bæði lifandi og dauð. Íslendingar gerðu forntunguna bókmál einir allra Norð-

---

fróðlegt er að vita, um landið og íbúana. Sagt er að naumast spretti þar jörð sökum kulda, fólk lifi mest á selum og sjófangi, búi í moldarkofum er þaktir séu með torfi. Hita leggur upp í þekjuna af fólkinu, svo þekjan helzt þýð nokkurn hluta sumars og sprettur þá vel! Er hún þá slegin og heyinu safnað til vetrarins til fóðurbætis fáeinum sauðum, er almenningur heldur lífi í með fiskileifum og öðru rusli er felst til! Svo er sú saga ekki lengri. Ekki finst mér það vera hugsanlegt, að Norrænumönnum sé um að kenna þvætting þenna, þótt hins vegar megi segja, að Íslendingar sjálfir eigi sök á því, þegar þeir ekki reka þetta slúður til baka aftur og afsegja þvílíkar skólabækur sem þessa lögskipuðu landafræði. — Athugasemd þessi er ekki gerð til þess að deila á greinarhöf., heldur til þess að benda honum á, að skýra má litinn á landabréfunum með öðrum hætti en hann gerir. Ritstj.

urlandaþjóða og hafa haldið því bókmáli síðan.

Norðmönnum tókst það aldrei. Það sést bezt á því, að þeir eru eina þjóðin á Norður löndum, sem ekki eignuðust bókmál á forntungunni, því þeir gleymdu henni fyrir ný-Dönsku, og ný-Norska er ekki nema ný-dönsk mállýzka. Samt er norska fornfræðistefnan sú, að setja upp forn-bókagerð í Noregi og kenna óspart, að forn-tungan sé dauð á Íslandi sem annarsstaðar. Stefna þessi átti ekki upp á pallborðið hjá Íslendingum, meðan þeirra Jóns og Halldórs naut við. En síðan leið þá,, hefir kenningum hennar verið otað að Íslendingum af kennurunum íslenzku, sem eru í þjónustu Kaupmannahafnar-háskóla.

Kverið, sem getið er um í fyrirsögninni, fer dult með þessa kenningu. Það á að vera til leiðbeiningar um réttritan og uppruna orða, en erindi þess er að mala undir hina norsku kenningu. Það er hægt að merkja þa ðundireins á fyrstu línum formálans: Þetta litla kver er ætlað til þess að leiðbeina um rétta stöfun orða, og um leið skýra, hvers vegna þau skuli stafa svo og svo. Er þá einkum vísað í norsk og dönsk orð, , því að þau eru óbrigðulasti votturinn um langflest orðin," þótt ummæli þessi séu tekin aftur jafnhraðan, vitanlega af því að þau misbjóða sannleikanum: 'Vitaskuld hefði sem oftast mátt vísa til ritháttar "að fornu", eða í "fornu máli", og til þess er tekið, þegar alt annað þraut". — Samkvæmt hinum fyrri ummælum er því kverið krökt af norskum orðum, sem sett eru aftan við íslenzku orðin, þar sem sýna ætti uppruna, þótt þau séu vitanlega ekkert að marka um réttan íslenzkan ritháttt né uppruna, eins og líka liggur í hinni seinni tilvitnan. Íslenzka er stafsett eftir uppruna að mestu, og til þess að vita, hvernig rétt skal stafsetja, er að leita til tungunnar sjálfrar að upphaflegum stofnum eða rótum orðanna; verði það ekki fundið, sem kann að koma fyrir, þá er að leita í germönsk mál hliðstæð Íslenzku, eða þá enn fjær í önnur arisk mál, sjaldnast í Norsku, því orðstofninn er þá oftast finnanlegur í Íslenzku, og norskan rithátt er lítið að marka. Þessi aðferð er ekki nema það, sem jáð er í hinni síðari tilvitnan, og því á það hvergi við að vera með þessi norsku orðstrýpi aftan við íslenzk orð, fyrst þau eru ófrumlegri en íslenzk orð og allsendis marklaus fyrir þau. Það er sýnilega gert til þess að halda með norsku kreddunum og telja Íslenzku á bekk með Ný-Norsku. Kverið fer að þessu leyti í nokkuð svipaða átt og landabréfalitanin, sem getið var að framan. Auk þess fer kverið víða skakkt með uppruna eða eiginlega þýðingu orða.

Það er tilgangur þessara lína að vekja athygli á þessu, því rangar orðauppruna-skýringar eru meinlegar alþýðu. Það er fátt, sem fippar jafnmikið skynbragði hennar á tungunni, sem þær einkanlega, er þær eru gefnar af þeim manni, sem er hinn ríkasti heimildarmaður um tunguna af þeim, sem nú eru uppi, og allur þorri manna telur óyggjandi um skýringar á fyrirbrigðum

hennar. Í dæmunum hér á eftir er það gæsarlappað, sem tekið er úr kverinu.

"Ábristir, ábreistur (ábristur B.H.) uppruni óviss; en r sýnist vera innskot, því egs. og pþý. finst býsting og biost; hefir verið sett í samband við brjóst og ætti því að rita með y (ý sem hefir styzt) og það er eflaust hið eiginlega rétta". Þá er nú flest óvíst í getgátnasúg málfræðinganna þeim, er þeir kalla etymologiu, ef uppruni þessa orðs er óviss. Ábristir, ábreistur, ábristur og ábrestur, alt saman kvk. flt.-orð, er nafn á rétti, sem búinn er til úr þyntri broddmjólk með því að elda hana. Hún hleypur þá og hlaupið stendur í ílátinu með samheldum, sléttum yfirfleti; en bráðum koma á brestir, sprungur, er osturinn skilzt frá mysunni, og þar af þiggur rétturinn nafn sitt. Nafnið er fors. á skeytt á nafnhátt sagnarinnar bresta, er hafður er kvk. nafnorð, samkv. vanalegri orðmyndun innan sagnaflokksins; i er eldra í stofni en e, og i og ei skiftist oft á; það skýrir orðmyndirnar: ábristur, ábreistur. Innan sagnflokks þessa er og nafnháttarstofn hafður að kvk. nafnorði; það skýrir myndina: ábristir, sbr. hjálp, hjálpir; orðin eiga alls ekki að stafast með y í stofni því þau eru runnin af brest-álmu hljóðskiftisins, og eiga ekkert við mjólkur kirtla, brjóst, saman að sælda, nema það orð mun af sama hljóðskifti. Því brjóst heitir svo, af því það breztur upp fyrir öndinni. Þó hefir merkur íslenzkufræðingur talið það samstofna gríska orðinu prosþerios (fremri) og er eg ekki að andæfa því, þó eg segi, hvað eg haldi. Ef til vill veldur ókunnugleiki kverhöf. á ísl. réttum eða matarhæfi óvissu hans um uppruna meira en óvissa um orðmyndan. Björn M. Olsen gat þess í viðskiftum þeirra út af uppruna Eddukvæða, að það væri mikið mein, hve ókunnur hann væri íslenzkum högum og hugsunarhætti.

"**áfangi**, það sem farið er yfir milli hvílda, dagleið; hvíldarstaður (áfangastaður); orðið er afbakað úr eldra aiváangi (-r), vangr (engi, grasflötur) til að æja; en afbökunin er mjög gömul". Hvaðan veit kverhöf. þetta? Umsögn hans fer í bág við orðmyndunarreglu málsins. Það, sem hann kallar afbakað, eru keiprétttar orðmyndir; en áivángi er ambaga. Heldur ekki merkir orðið grasflötur til að æja. Orðið er myndað af **á** kvk.=hirða og fangi (af að fá), og merkir þá hirðufangi, þ. e. a. s. það að fá e-u hirðu. **Á** er samandreginn nafnháttur sagnarinnar aga, hafður að kvk. nafnorði. Sögnin á merkir: 1. að bera hyggju um e-ð, hirða; 2. vanda um, siða; í síðari merkingunni ósamdregin og veik beyging, en samdregin er hún sterk; um það vitna hljóðskiftisorðin runnin af beygingunni: agi, á (í samskeytingum á-fangi, á-fóðr), kvk., hirða; Ánn (mannsheiti) = hirðir, önnungur; átt (ætt) eig. lið, sem e-r á hirðu um, þar af kyn, knérunnur, kynbálkur, ógr (í samskeytingi umb-ogr = áhyggja, umhyggja).

Orðið á, og eins eignarf. þess ár, er rétt í forskeytum áfangi, árfangi, sbr. ljá = slægja, ljáhorn, ljárhorn og ljáarhorn. Áivángi, æ-

vang (norskt staðarheiti) áifóðr, eru að skoða afbögur, runnar af orðmyndunarlosi fyrir röskun r-ins. Á öðrum stað blandar kverhöf. saman sögnunum á og æja; telur nafnh. báða sömu sagnar, æja eldri mynd. Það eru aftur hausavíxl hjá honum, á er eldri myndin, þegar af því að æja er afleiðslusögn sagnarinnar á, mynduð af þátíðarstofni hljóðverptum. Annað mál er það, að æja hefir útrýmt sögninni á svo, að hún er aldrei höfð nema í nafnhætti: á, en sterka beygingin er rétt mál hverjum, sem vill nýta sér það.

"**afbaka**, afbökun .. baka er rétta myndin (ekki baga); merkir eig. að taka (saga, hefla), "bakið" af trjám svo flatt verði (sbr. B. H.) og fái aðra lögun". Báðar myndirnar afbaka og afbaga eru réttar, en ósamstofna eru þær. Ókunnleiki kverh. á íslenzkum högum kennir á því að einskorða eig. merkingu við afbökun trjáa. Refar og selir eru ekki síður afbakaðir.

"**afstirmi**, e. afstyrmi gæti verið af stormur, og merkt vindslot, réttað-segja-logn, gola, þróttlaus vindur, og þar af þróttlaus vera; stirmi er óskýrandi." Samkv. Frumpörtum íslenzkrar tungu skiftast **f** og **m** á, og á það sér stað í þessu orði; stirmi er fyrir stirfi; stirfr er stinnur, sem ekki lætur beygjast; afstirmi er þá það, sem stinnleikur er ekki í, lint, duglaust. **Y** á ekki að rita í stofni.

**álappalegur**, eig. sá, sem stígur þunglamalega og klunnalega á lappirnar." Orðskýringin vísar frá upprunanum í staðinn fyrir að honum; þesslegur að vera af löppunum; aflappalegur er líka sagt, eins og sagt er af stað og á stað.

"**altjend**, svo er þetta nú frb. og er það komið svo langt frá frummyndinni **alt jafnt**, að engin ástæða er til að rita öðruvísi (t. d. milliliðsmyndir sem altjamt — altjemt — altjent)." Kverhöf. á upptökin að því að ráða uppruna í íslenzku af ímynduðu framburðartauti eða latmælaþaulum; t. d. getur honum komið til hugar að Grindli geti orð-Grilli, skotnir geti orðið skoddnir, — skornir, þótt engar álíkur séu til þess í málinu. Eftir höfðinu dansa limirnir. Alþýða manna getur ekki, sem vonlegt er, áttað sig á því að aðrar eins afleiðslur séu rakalaust bull, fyrst annar eins hágildingur fer með þær. Þannig hefir borið fyrir mig skýring á bæjarheitinu Ípishóll, að það væri íbeitishóll; milliliðirnir: Íbeitshóll — Íbeisshóll — Íbisshóll — Ípisshóll, alt saman rakið með tilvísan til Finns Jónssonar, líkast því að gert væri sér upp til að gera gys að orðafleiðslum hans, þó svo væri nú ekki í rauninni. Milliliðsmyndirnar alt jafnt — altjend, eru einar af latmæla-afleiðslum hans. Altént er kvk. af fortíðar-lýsingarorðinu **alténn**, altéðr = altjáður, og á að rita **t** að niðurlagi, enda er svo frb. ekki síður en hitt.

"**ambátt**, komið úr Keltnesku upphaflega inn í germönsk mál (ambact, þræll); þar af embætti." Órýnið haft eftir öðrum, en engin ástæða er íslenzkum manni að gana út í Keltnesku um þetta orð. Það er há-íslenzkt, komið af sögninni baga, er merkir eiginlega gera óbeint, leggja í brot, og svo þar af gera óbeint við e-n, skaða. Af-

runaorð sagnarinnar votta sterka beygingu, sem sé: bagr (bágr). bjórr, brot (sbr. hrygglengjubjórr = brotið til að rista hrygglengjuna úr skinni, þar af og hið úrrista skinn, bjórþil, þ. e. þil með röndum, er fara í bág hver við aðra); bógr. heitir svo, því þar verður böggull eða felling á skrokknum; bótt eða bátt kemur fyrir í samskeytingi, en bag eða bán, sem við mætti búast eftir vanalegri orðmyndun, er þekkjanleg í bann, brot, misfelli (sbr. fallinn í bann, í kirkjunnar bann), annaðhvort bán með viðbótar hljóðgrenning fyrir viðaukið n, eða þá bag, svo að nn hafi skipzt á við g. Þeir stafir sýnast skiftast á á stundum, t. d. aga, anna; hagur, hannr; baga, banna, o. s. frv. Sá hængur er þó á, að Frumpartar íslenzkrar tungu geta ekki slíkrar áskiftingar.

Sögnin kemur fyrir í samskeytingum, af-baga, eiginlega brjóta saman um of, skekkja; "ambaga líklega f. andbaga," er illa til getið: **f** og **m** skiftist á; afbaga verður ambaga (skekkja), og hið sama ambátt eig. sú, sem er ofbögluð, um of gert óbeint við, ánauðug kona, þý. "Beygla af baugur", er vitlaust skrifað og rangt rakið. Það er komið af hljóðskiftaálmunni bag, sbr. baga, bagall (óbeinn stafur), baggi (innskots **g**), böggull, begla (di) eða begla (að) á að skrifa. Býsn er og komið af þessari sögn, myndað af þátíðarstofni hljóðverptum og viðskeyti **-sn** eftir vanalegri orðmyndun í þessum sagnflokki, og merkir hið mesta bann eða brot, eða stórmisfelli, sbr. býsna skal til batnaðar; "býsn ritað svo að fornu, í Norsku þó bisn, ef til vill af st. boð í að boða", sýnir norskan rithátt marklausan að vanda; en gaman hefði verið að fá að sjá, eftir hvaða orðmyndunarreglum eða álíkum innan tungunnar rekja mætti býsn "af st. boð", alveg að því sleptu, að merkingar koma ekki saman.

"**andrá** líklega f. **-rjá** (í fornmáli) = uppþot, hríð; **j** er þá felt úr vegna samhljóðafjöldans (og áherzlurýrnunar)". Kverhöf. kannast hér ekki frekar en áður við samdrátt sterkra sagna þeirra, sem enda aga með hljóðskiftinu a-ó-a (-e). Drá er nafnháttur samdreginn sagnarinnar draga; andrá er sama og andardráttur.

"**aukvisi** .. uppruni óviss"; er vafalaust af sögninni ökkva, eins og rök eru færð til áður í Tímariti þessu.

Undir orðinu bifur er drepið á "fornnorræna (og ísl.) bjór (bjórr)". Slíkt verður þeim, sem sölin éta útlendu; en ofætlun er það kverhöf. jafnt sem öllum öðrum að draga norræn orð og íslenzk í dilka sér.

'**bilt** (sbr. bil), aðeins í að verða bilt, verða svo hræddur að maður þori ekki að halda áfram (til að ná því, sem maður vill ná).". Orðskýringin er álíka innsæ og orðhönnur. Bilt er sagnbót sagnarinnar bella (billa), hún sýnir veika beygingu sagnarinnar, billa, bildi. bilt; tíðast er þó sögnin sterk: bella, ball, bollið. Sögnin er mynduð—eins og fjöldi sagna í þessum flokki, af lýsingarorðum með hljóðvarpi, — af bölr, illr, og merkir að verða ilt við, meint við, framlagslaus.

"**bíti,** í bítið er lánsorð, sbr.

sænska orðið bitida (bitti) = í tæka tíð, sem komið er úr Þýzku, bitiden (beizeiten)." Þetta er lært, en ekkert hald í því. Hljóðskiftissagnirnar **í-ei-i** mynda með nútíðar-nafnháttarstofni og viðskeytinu **i** hvorugkynleg nafnorð, t. a. m. skíði, smíði, einstígi o.fl. Svo er bíti myndað og merkir það mund, er fé rís úr bælum til að bíta, þar af leiðandi snemma dags.

'**breiskja** .. uppruni óviss, og eins rétt að rita með **ei** (sem **ey**)"; brim no. brim, bris no. bris.." Öðrum eins skýringum og þessum á maður að venjast í kverinu. Allir vita, nema þá kverhöf, að breiskja er af brís (eldr), baka við eld, þurka t. d. dún, öll orðin finnanleg eftir vanalegri orðmyndun af rót sagnarinnar brenna (brinna), og allir eru jafn nær um ritháttinn af hinum no. Breiskja er ekki eins rétt ritað með ey; það á alls ekki að skrifa það svo.

"**breyskur,** no. bröysk, "skör, svag, let at brække", skylt st. í brjóta braut. Ekki **z**." Þetta sýnir, hve kverhöf. hættir við að hlaupa með það, sem hann sér eftir aðra, hugsunarlaust. Breyskur á ekkert skylt við st. að brjóta, braut, og merkir heldur ekki "let at brække". Orðið er komið af brjósk og merkir eiginlega undanlátssamur, gjarn til að láta undan en brotna ekki, þar af ístöðulítill. beygjanlegur, sveigjanlegur. Brjóskið væri gagnslaust í líkamanum, væri það brothætt, og ætti breyskur skylt við st. brjóta, þá ætti einmitt að rita **z**.

"**draumur,** af draums var haft í talshætti að vera draums = sem í draumi; þetta varð í frb. drums (sem og hefir sést ritað drumbs!)" Kannast ekki við hljóðskiftið dramb —drumb. Dramb er það, sem er mikið og veglegt; dramba er að vera það, eða þykjast vera, berast mikið á; drambur er hátt og tignarlegt bjarg eða hamar; drumbur er 1. mikið tré og gilt eða trébútur, 2. maður fullur fáleika eða þurradrambs . Í þeirri merkingu er það í máltækinu að vera drumbs, þ. e. láta sér fátt um finnast, taka e-u fálega, þurlega, með tregðu. Máltækið merkir ekki að vera "sem í draumi". Sé máltækið að vera draums til, og engin ástæða er til að bera brigður á það, fyrst kverhöf. segir það, þá er það víst, að hann misskilur það, því það merkir alveg sama og hitt; og hið dáraða b á að rita í draums á undan s-inu, því það er þriðja álma hljóðskiftisins,

Það stendur heima, að drýli á að rita, ekki dríli. Af sterkbeygum sögnum með hljóðskiftinu a-ó-a (e), eru nafnorð mynduð af hljóðverptum þátíðarstofni með og án viðskeyta, t. d. bý-sn; slý, hlutir þar sem grasi slær í legur fyrir vatnsaga; brý, flt. brýr, sem ranglega er sagt flt. af brún í nýrri málfræðisbókum. Drý-la er sögn af að draga, og merkir, að draga saman eða hroka upp heyi til þurks í smáhrúgur; hrúgan heitir drýla og drýli. "Drýldinn, uppruni óviss". er ítrekunar-lýsingarorð af sögninni að drýla.

Kverhöf. er upphafsmaður að "troð"-kenningunni, þ. e. að stafur "troði sér inn" í fallending, t. d. í sólna fyrir sóla, vallna fyrir valla o. s. frv. Hæpin í meira lagi er sú kenning. Málfræði fyrirbrigði

þau stafa af því, að tungan á sama orðið innan allra kynja, t. d. skriðr, skriða, skrið, eða innan tveggja, guss, gusa, slagr, slag, eið, eiði. eða þá að hið sama orð er hneigt eftir tveimur hneigingum, t. d. sál, sála. Það væri hægt að fylla heilar síður af dæmum til þessa og er ekki nema eðlilegt, því fyrirbrigðunum veldur hinn langi lífsferill tungunnar. Ekki er hægt að standa í stað og lifa. Stafir troða sér ekki inn í föllin, heldur er orðið haft í öðru kyni eða hinni hneigingu þess, t. d. sáluhjálp, sálarháski, landsfjórðungur, landareign o. s. frv. Því er það rangt hjá kverhöf. að "dul, drága dulur á e-ð er rangt f. dul, en nú skilið sem flt. af dula eða ruglað saman við það)". Orðið kemur fyrir í öllum kynjum, dul og dula, kvk., dulur, kk.,, og margan hefir dulið drepið. Eftirtektarvert er það, að fallmyndir þessar fjölmynda-orða eru ekki jafngengar hver fyrir aðra í orðatiltækin, t. d. er sagt sáluhjálp, síður eða alls ekki sálarhjálp; ætla sér dul, en ganga upp í þeirri dulunni, og að draga dulur á e-ð, er tíðara en draga dul á, í samskeytingum, hið sama dularklæði, dulsmál, en dulu eða dulna eru ekki ígeng.

**fífill**, no. fivel (= fífa og fífill) er eiginlega dregið af fífa (rýrnunarorð)", og nú stendur heima; safnorð þó öllu heldur, sbr. ferill, jökull, en lengra má elta það. **F** skiftist á við ð samkvæmt Frumpörtunum, svo að fífa er þá fyrir fiða, kvk., eiginlega s. s. fiðr, hvk., kk. er fiðr = Finnr, eiginlega sá, sem skrýðist fjöðrum eða fjaðurham, sbr. Bjálfi, Úlfheðinn. Í ritgerð "Um íslenzk mannanöfn", í 3. bd. Safns til sögu Íslands, er nafnið talið skylt þjóðarheitinu Finnar; það er ekki eins líklegt.

"**gíll**, no. gil," er rangt ritað og mót venju fyrir gýll; hrasað á norska rithættinum, sem sjaldnast er að marka. Orðið er runnið af að gjósa, eftir vanalegri orðmyndan. Glæjalogn heldur kverhöf. líklega afbagað úr blæjalogn. Báðar myndirnar eru réttar. Blær( af blár) er blámi vatna. Þegar vötn halda blæ sínum, þá er blæjalogn. Hlálegt er að sjá "grind, no. grind", "grís, d. grís", "grisjulegur, sbr. no. grisen, utæt, hullet". Af sama stofni er Tanngrisnir (með grisnum tönnum." Það er ótrúlegt, að kverhöf. viti ekki, að orðin séu runnin af að grína = gapa sundur, svo að sjái í e-ð annað, og þó virðist svo vera. Því Tanngrisnir merkir ekki sá, sem hefir gisnar tennur, heldur sá, sem grín svo að sér í tennurnar.

"**hannyrðir**, líklegt er að hann sé stofn orðsins hannarr um menn, er voru listamenn (-konur) til vinnu; -yrð er erfiðara, en er ritað svo í fornu máli (hannerð er ekki að marka, þar er **e** til orðið úr ø), ef til vill af orð í verða". Svo mörg eru þessi orð. Hannarr er lýsingarorð. Viðskeyti þess, arr, umskiftilegt við urr, eins og -all er umskiftilegt við -ull, -ann o. s. frv. Nafnorð myndast af lýsingarorðum oft með viðskeyti, ð sem hljóðvarp fylgir ;svo er hér myndað hannerð af hannarr, hannurð af hannurr. Í útg. Jóns Þorkelssonar af Hauksbók, Rvík 1865, er hannerð, og sýnir það, að hann hefir litið eins á orðið og hér er gert. Að orðið sé

skeytt saman af hann og sögninni að verða, nær ekki neinni átt.

"hjegeitill (kvarts, steintegund) í fornbókum ritað svo (hegeit-) sbr. no. heggeitel, "hjertel i sten; hvað hje- merkir, eróvíst; síðari liður er víst geitill sbr. o. harðgeitill." Viðskeytisorðið er áreiðanlega eitill, en ekki geitill. Íslenzku er trúandi til þess, því orðið eitill er algengt. Harðgeitill er ekki að marka; það virðist vera getgátuorð eftir Fritzner fyrir harðkætill, og geitill er líklega ekki til nema í draumórum norskra málfræðinga, því í Geitlaberg í jarðatali Eysteins biskups, er geitla líklega af flt. kvk.-orðsins geitla = hvönn, eða heitið má vel vera misskrifað fyrir Seitlaberg, sem gefur líka góða meiningu. Fyrri hluta orðsins hjeg- er vafalaust samstofna enska lýsingarorðinu huge, mikill, þýzka orðinu hehr, veglegur, hátignarlegur, heilagur, danska stofninum her-lig, dýrðlegur, og komið af íslenzka orðinu hákr, er geymst hefir í viðurnefni Þorkels háks og í hökunótt (höggunótt), og merkir mjög hið sama og hið þýzka orð: sem drambar með ofboðstign og mikilleik. Hégeitill merkir þá mikill eitill, ofboðseitill, og hin orðin, sem óviss uppruni er talinn, eru alveg eins samsett. Hégómi og hégilja merkja eiginlega dýrðlegur, hátignarlegur ómur, helgur söngur, galdur, heilagt gal, nú markleysa; kemur það vel heim, að kirkjan hafi svo umsnúið hinum háku orðum heiðninnar.

Það sýnist alstaðar vera regla kverhöf. að hafa af tveimur orðmyndum hina lakari, amböguna heldur en hina réttu mynd, t. d. kónguló heldur en könguló, og heiðló vill hann fá breytt í heiló. Það er ekki ólíklegt að takast mætti með slíkum aðferðum að gera íslenzk orð að samskonar strýplingum og norsk orð eru, svo að íslenzkt bókmál yrði innan skamms áþekt norsku bygðamáli. Það mundi vinsælt af norrænufræðingunum, sem sjálfsagt er þó heldur þraut að gjánni milli kenningar þeirra um íslenzku og veruleikans. Fleygarnir í Wimmers málfræði, sköruðu ótal ambögum inn í bókmál vort, og fyltu gjána að góðum mun, ásamt fylgifiski hennar, blaðamannastafsetningunni, er virðist bygð á þeirri meginreglu að stafsetja svo, að mann sízt megi gruna, hvenær hið sama orð er skrifað, og kverhöf. ber og í gjána og þvær hendur sínar með að það sé ekki nema eftir öðru eða þessu líku. Aftur eru Íslendingar, eins og Eggert Ólafsson, sem halda vilja bókmáli sínu órugluðu, stílaðir "púristar" erlendis, og þeim enginn sómi sýndur. Vonandi er að háskóli landsins slái á þessa málspellsöldu og snúi á þá stefnu, sem haldið var, meðan þeirra Halld. Friðrikssonar og Jóns Þorkelssonar naut við. Háskólinn mun sanna það, að vinsældir hans og orðstír með Íslendingum fer eftir því, hversu sköruglega honum tekst að vinna verk þessarar köllunar sinnar. Að því er snertir hin áminstu gullfögru orð, þá væri skömm að halda þeim ekki óböguðum. Það styður að viðhaldi þeirra að skýra uppruna þeirra, og vil eg gera það, fyrst kverhöf. hefir ekki þótt þau "þess verð að slíkt væri sýnt um". Heiðló, flt. heiðlær, er

skeytt saman af heið, bjart veður og ló af sögninni að lá = slá, og merkir sú sem slær í heiði, kvakar í bjartviðrum. Könguló, flt. köngulær, er myndað af kanga, sem merkir bragð; sú sem slær brögð, og köngurváfa = sú, sem svífur á brögðum eða svífur og bregður um leið. Kanga og köngur eru komin af sögninni að kyngja, samstofna líklega latneska orðinu vincire, binda, og merkir eiginlega bregða að, hafa um kokvöðvana. Kyngja er veikbeyg en má líka vera sterk, eins og syngja. Hljóðskiftisorðin sýna það: kanga, köngr (kk. og hvk.), kengur, kinga (sylgja), einnig kökkur og kok, er sýna tillíking **ng** í **kk** og beygingu, líka ökkva eða sökkva.

"**hlessa,** ef til vill f. hlersa (að verða h. = að standa — hugfanginn — og hlusta?); sbr. hler." Ofókunnugur til að koma fyrir sig "hlassi", sem þarf ekki svo mikið sem að verða hugfangið til þess að komast ekki úr sporunum.

"**hryssingur,** illhryssingslegur; í Sturlungu er orðið ritað illhreysingr, og mun það rétta myndin; hreysingr hefir merkt illan mann (útlægan), sem hafðist við eins og dýr í hreysum; vel skiljanlegt að hreys- varð hrys(s) í samsetta orðinu og hefir það komist inn í ósamsetta orðið (B. H. hefir illhreisingur og illhryssungr)." Útlendingsleg er þessi glósa svo bragð er að. Orðið er komið af hrjósa, myndað eins og lög gera ráð fyrir af þátíðar stofni viðtengingarháttar og merkir sá, sem manni hrýs illa við, sem býður illan þokka, hranalegur maður, annað s-ið er innskot. Orðið hefir aldrei merkt útlægan mann né annað en það, sem í því liggur.

"**humátt** (fara í humáttina) eða humótt (B. H.), í fornu máli kemur fyrir hámót (hvk.), en ekki er ljóst, hvernig það gat afbakast í humótt; sjálfsagt að rita orðið eins og nú er að því kveðið." Orðið merkir eiginlega hamar átt; höm er bakhluti grips, hljóðvarpið orsakast líklega af ó-hljóðinu í ótt, hamótt — humótt. Orðið er tíðara haft greinislaust, enda er það fallegra. "Heimótt, uppruni óviss". er myndað eins og humótt, eiginlega sá, sem fer í heimáttina, sækir heim, eins og hundar gera, er þeir eru sneyptir; þar af skaplágur maður, meinlaus, meinhægðarmaður.

Það má ekki heita, að kverið sýni nokkursstaðar uppruna. Það er ekki að sýna uppruna annað eins og þetta: "hýr, hýrast (= verða kátari), no. hyr (nafns.) d. uhyre, s.s. geheuer á Þýzku f. e. gehiure, sbr. ungeheur". Fyrir utan það að d. uhyre mun fremur runnið af úhægr (nafnorð), það, sem ekki verður í hag komið, heldur en lýsingarorðinu óhýrr, þá eru aðrar eins orðupprunaslettur ósamboðnar Íslendingum, sem skilja málið, þó þær séu tíðkaðar og fullgóðar í útlendinga, sem skilja lítið og geta ekki fylgzt með. Uppruni orðsins hýr er ljósast sýndur með því að setja hljóðskiftið ha(g) — hó(g), he(g) aftan við það. Sögnin er haga, samdregin há, "og er orðið réttmæt og rithæf mynd", segir kverhöf., rétt eins og samdráttur sagna þessara hefði orðið til litlu fyrir hans minni. Sögnin merkir að koma skipan á, koma

e-u fyrir sig. Hljóðskiftisorðin eru: 1. hagr (nafnorð og lýsingarorð); 2. há, kvk., eiginlega það, sem komið er í hag; slegin spilda; húðin tekin af grip; þinghá; 3. hár, hvk., eiginlega tilhögun, karlmanna lagið að bera hár sitt, sbr. Snorra Eddu: hár heitir lá (þ. e. lag); 4. haddr, þat er konur hafa; 5. hadda (ketil-); 6. hög-ld, kvk.; 7. háttr; 8. hógr, hægr (nafnorð og lýsingarorð); 9. hór (tilhögun til að hengja pott yfir hlóðir); 10. hjú og hý (menn ráðnir í hag), hýbýli gagnstætt eyðibýli; 11. hýrr, eiginlega sem er í hag, glaður; þar af hý, hvk., gleði; sbr. hýnótt og hlý hvk. af hlýrr; 12. heðinn, loðskinn; 13. heyja, háði, háði; 14. hannr, hannarr, o. fl. Uppruna þessara orða er beinast að sýna með því að setja hljóðskiftið aftan við þau, og svo er um öll hljóðskiftisorð. Kverhöf. verður það hvergi nokkursstaðar að vegi í kverinu.

"**hyskinn**, no. hyskjen og hyskjelig .. sbr. húski?" "Óbrigðulasti votturinn" bregzt hér kverhöf. að vanda sínum og getgátan með, sem tylt er á hann. Orðið er sjálfsagt komið af his = fis, hismi, ögn; sögnin er hisja, gera lítið að, framlagslaus, sbr. nú hisjar ekki úr heyi, þ. e. gerir lítið að, þornar ekki vitund. Hiskinn er sá, sem gerir lítið, finnur sér ýmislegt til að stanza í vinnu sinni, hálfsvikull.

**innyfli** af inn og yfli, svo ritað í fornum bókum; uppruni þess óviss." Ekki svo mjög. Samkvæmt Frumpörtunum er **y** = **vi** og **f** og **ð** skiftast á; verður þá innyfli = innviðli, myndað af viður og viðskeyti -li og merkir innviðir, sem innyflin og stundum eru nefnd í daglegu tali.

"**jarteikn** .. fyrri liður óskýr að uppruna, ef til vill s.s. þý. war (warteken); e-i mynd var líka jartegn og jartein". Rétta myndin er jartegn. Fyrri hlutinn er já = jar (viðbótar hljóðgrenning), fyrsta álma hljóðskiftisins jaur, jor, seinni hlutinn nafnorð af sögninni tjá sterkbeygri, og merkir þá játjáningur, hlutur, er játar sögu e-s, þar af sönnunargagn.

"**kinoka** (sér við e-ð), svo er ætíð sagt hver sem uppruni orðsins er." Flest verður nú til gátu. Sögnin er hin ósamdregna mynd sagnarinnar kveinka og á að skrifa kynoka, því **y** er fyrir **vi** og **i** og **ei** skiftist á, kynoka = kvinoka = kveinoka = kveinka. "B. H. hefir kveinoka".

"**ómótt,** eiginlega hvk. af ómór af móa, melta." Er ómór til? Trauðlega, vanaleg orðmyndun heimilar það ekki að minsta kosti. Í orðatiltækinu: mér er ómótt, er ómótt kvk. nafnorð runnið af sögninni má (mega) er merkir eiginlega orka e-u, skeðja e-ð til sjálfsviðhalds, metla. Hin sterka beyging hefir skilið af sér, eins og við er að búast, hljóðskiftisorðum, samkvæmum orðmyndan sagnflokksins, t. d. magi, má; mán (í samskeytingu), mór, mýrr, mý (eiginl. það, sem er til meins, mýfluga); meyrr — mærr (les mærr) eiginl. sem er máðir, skaddaður; mein, eiginlega hið máða ástand, meinn; afleiddar sagnir móa = melta; mýgja (mýja), skadda, gera til meins og líklega fl. Í samskeytingum afmán, eiginl. vöntun mánar eða más, lífsþróttar, óeiginl.

þróttlaus, ósjálfbjarga maður, haft jafnt um gjöranda og verk hans; ómagi eiginl. sá er hefir ekki sjálfs viðhalds þrótt, mátt; ómótt, vanmætti, afmán, ómegin, sem og er af má; ámátlegur, ámótlegur, líklegur til að má, til meins.

"**óþerri,** líka óþveri, eiginl. eitthvað vont, sem aldrei tekur enda (þverrar)?" Mætti nú taka fyrir meinloku, ef þyrill væri rakinn til þvá (þvaga), en það er það ekki heldur, sbr. no. tverel", svo að manni er til gátu, hvort kverhöf. viti í rauninni, að bæði orðin séu af hljóðskifti sagnarinnar þvá.

"**Seginsaga**", svo ritað og rakið: segjands = saga = segjandi manns (gömul ef-s mynd)." Þótt nú segjand-saga væri til í einu orði eða með bandi, þá er rangt að skrifa seginsaga í einu orði, því það er fram borið í tveimur orðum eins og hver önnur sjálfstæð orð og engar álíkur til, er heimili, að halda því fram að segjands verði segin. Aftur á móti er það algild regla að mynda lýsingarorð ítrekunar merkingar af sögnum, með því að skeyta -inn við nafnháttarstofn, t. a. m. dettinn, sem oft dettur, söngvinn, hygginn, seginn; segin saga merkir því sama sem tíðsögð saga, mál manna = það, sem satt er, því sjaldan lýgur almanna rómur. Beysinn, sem kverhöf. grautar um á Norsku og skilur ekki, er ítrekunar-lýsingarorð af áhrifssögninni beysa (komið af bysja eins og þeysa af þysja) og merkir atorksamur, tíðast haft neikvætt ekki beysinn, óbeysinn.

"**skreið,** skreiðfiski, sbr. skríða; eiginl. þorskgengdin í sjónum." Ekki mundu nú bændur, er sendu eftir skreið ofan í fjörðu, vilja kannast við, að þeir sendu eftir þorskgengdinni í sjónum, heldur eftir því sem skráfar í. **Ð** er hér komið í stað **f** (af skráf), eins og í skeið, skíð, skíði, öll af sögninni að skífa, þó kverið sinni ekki öðru en raða Norskunni á bak þeim; svo og hið sama í "svið (á landi eða sjó), uppruni óviss (ef ekki merkir sama sem sviðið land, land rutt með eldi)" — (sviðið land og sviðinn sjór!).

Lengi væri hægt að halda áfram á þá leið, sem gert hefir verið hér að framan, við "þetta litla kver", en nóg sýnist komið. Það, sem komið er, býður mönnum varnað á því að taka mark á kverinu, nema sjálfir viti að rétt sé. Íslendingum er brýnni þörf á orðupprunabók eftir þetta kver en áður, þó ekki væri nema til að sýna, hve fjarri lagi það sé, að það liggi næst hendi að þukla og þreifa norsk orð til þess að rekja sig til rétts íslenzks ritháttar, eins og kverið kennir og er að myndast við að hafa frammi í verki. Kverið heyrir til þeirri stefnu, er leidd var til vegs, er þeim Jóni og Halldóri var þröngvað til embættisafsagnar, og í því er fólgin, að víkja íslenzku bókmáli frá viðteknum og tíðkanlegum orðmyndum með því að gefa upp upprunarithátt og skara inn í það jafnóðum ambögum, er verða af kviki mælts máls. Það er háskóla Íslands að halda oss við óspilt mál, hann er vörður tungunnar. Alþýðan hefir lengi og vel geymt hennar. Það hefir henni tekist fyrir einangranina; en nú er sá forgarður fallinn, og henni er það ofætlun. Tungan þarf vísinda-

lega umsjá og hirðu. Með samgöngunum skapast ótal nýjar þarfir, sem tungan á að gegna, og útlend tungutök og útlendir hugsunarhættir belja yfir land og lýð. Tungan getur ekki haldið sínu í þeirri bandóðu hringiðu augnabliks þarfa og útlendra áhrifna nema með vísindalegri tilhjálp. Engri hjálp er, vitaskuld, hægt að koma við mælt mál, því það gegnir augnabliks þörf, en bókmálinu má hjálpa og hjálpin er íheldin stafsetning. Með öllum mentaþjóðum er stafsetningin höfð til þessa, að geyma tungunnar og tryggja alþýðu aðgang að bókmentum hennar í lengstu lög. Íslendingar eiga líka að hafa stafsetninguna til þessa. Flestir hinir ágætustu málfræðingar hafa og gefið það ráð, svo sem Rask, Sveinbjörn Egilsson, Guðbrandur Vigfússon, Halldór Kr. Friðriksson og Jón Þorkelsson. Íheldin stafsetning og treg viðtaka á ambögum inn í bókmálið geta geymt tungunnar og leyft alþýðu lestur fornrita enn um langt skeið. Annar vegur er ekki til þess.



# "Þriggja sýna austr".

(Athugasemd)

Eftir **Pál Bjarnarson.**

Í útgáfu þeirra V. Dahlerups og Finns Jónssonar af 1. og 2. málfræðisritgerð Snorra Eddu eru orð þessi lögð út í dönsku útleggingunni: "pumpe Vandet fra tre Plankelag". Í athugasemdum útgáfunnar má sjá, að útgefendurnir hafi lagt orðin þannig út upp á spýtur próf. Bugges; hann hafi skýrt sýna eignarf. af kvk. orðinu sýja og orðin merki þá þriggja súðfjala austr. Einnig er Ad. Noreens viðgetið þar og þess, að próf. Wimmer hafi fyrir mörgum árum lagt orðin eins út í fyrirlestrum sínum um "Sögu norrænnar tungu". Þótt útlegging orðanna sé samkv. þessu borin uppi af fimm íslenzkufræðingum að útgeföndunum meðtöldum, þá er þó meira en hæpið, að hún sé rétt. Skýring Bugges er ekki nema getgáta, og það sem lakara er, á ekki við neinar álíkur að styðjast innan tungunnar.

Málfræði Wimmers kennir um veikhneig kvk. orð á þessa leið: í þeim "fellr j niðr í ef. flt. eptir g og k (kirkja, ef. flt. kirkna), annars er j haldið og fellur þá n niðr (gyðja, ef. flt. gyðja) og útilykur þar með öll undantök; má af því sjá, að hann hafi ekki verið trúaður á að sýna væri ef. flt. af sýja. Málfræði hans gjalda og aðrar málfræðibækur samkvæði um

þetta. Öll veikhneig kvk. orð, er lúkast á löngum sérhljóð fyrir brottfall nefnifallsendingar, eða á a eða ja eftir löngu hljóði, hafa ef. flt. eins og nf. eint., ef ef. flt. er haft á annað borð, t. d. fría, kría spýja, ekki frína, krína, spýna. Í slíkum orðum getur engum hugkvæmzt -na fyrir ef. flt., nema mönnum af útlendri tungu. Sýna fyrir sýja hneykslar íslenzkt eyra, og gegnir furðu að Finnur Jónsson skuli hafa getað samsinzt annari eins mynd, því fremur sem sýja er algengt í tungunni í öllum föllum. Skýring Bugges getur því ekki borið sig. Ofan á það bætist, að þriggja verður allmerkingarlaust, því ekkert staklega merkilegt er við þriggja súðfjala austur; fjögra, fimm eða hver önnur tala mætti vera þar eins vel og þriggja. Það er hægt að fá vit úr orðunum klandurlaust við málfræði tungunnar, og sú leið ein er farandi.

Sýna getur ekki verið nema ef. flt. af sýn, kvk., eða sýni, kvk. Sýn er í einni merkingu sinni s.s. sýni ,bjartleikur, birta, sbr. fjallasýn, sálarsýn. Austr merkir ekki Pumpevand, því það er ekki hér af sögninni að ausa, heldur er það af að auða. Sögnin auða (eyð, auðum, jóð, jóðum, auðinn) merkir að vera tómur af einhverju, helzt afspreng eða ávexti. Hljóðskiftisorð hennar eru mörg og segja til merkingar hennar: auðr, eig. það, sem e-ð gefur af sér, þar af þarflegir munir, fjármunir, auðæfi; Auða, Auðr, Edda (líkl. gælunafn af kvenheitunum) merkir móðir, (annars öðru vísi (af auðlegð) skýrð í ritgerð um íslenzk mannanöfn í 3. bd. Safn til sögu Íslands); óss, heitir svo, því áin eyður eða tæmist þar; óstr, kk., líka óst, kvk., heitir á skepnum þar, sem háls og brjóst mætast að framan. Því lungun anda eða tæmast þar öndinni; austr; kk. nú hvk., heitir verknaður sagnar, tæming, burður; þar af upphaf, uppkoma og nafn á átt þeirri, er sólar verður auðið (Oriens), og í þeirri merkingu er það haft í dæminu. Þriggja sýna austr man ek þér sýna, þ. e. eg man sýna þér austrið þriggja sýna, sem sé þar sem þrjár sýnir koma upp, eða blátt áfram uppkoma þriggja sýna, þ. e. þrennrar birtu, og er þá ekki um að villast, að þrjár sýnir merkja ljósaskiftin þrjú, afturelding, annar litur og dagur. Sléttara er að segja, eg man sýna þér þrjár sýnir, heldur en þriggja sýna austr, en vel má gera sér grein fyrir, hví höfundurinn hagi orðum sem hann gerir. Hann hefir austr til að ná í ef. sýna, til þess að hljóðmuninn greini sem glöggvast þann, sem hann er að láta heyrast í dæminu. Vera má að ljósaskiftin eða litarbrigðin hafi fyrrum kallast sýnir; hitt er þó líklegra, að orðið sé valið í dæmið í bjartleiksmerkingu sinni einvörðungu og þrjár sýnir þótt vísa nægilega til þess, enda eru orðin fullljós þeim, sem bornir eru tungunni, jafn þráfaldlega og lit og dag ber þeim á góma.

# Sitt af hverju frá landnámsárunum.

Á síðastliðnu sumri voru 50 ár liðin frá því að Íslendingar festu sér bygðir hér í álfu. Fram að þeim tíma, eða sem næst um fimm ára bil, voru þeir á reiki fram og aftur, óráðnir í því hvar þeir ættu helzt að nema staðar. Fjögur bygðarlög hófust svo að segja samtímis sumarið 1875, — Marklandsnýlendan í Nýja Skotlandi, Minnesota-nýlendan, Winnipeg og Nýja Ísland. Þessa 50 ára afmælis var minst með samkomuhöldum að Gimli 22. ágúst, í Minnesotabygðinni degi síðar, eða sunnudaginn 23. ágúst.

Fyrir samkomunni á Gimli stóð nefnd, er skipuð var mönnum frá Winnipeg og úr Nýja Íslandi, og ræðumenn fengnir af báðum stöðum. Að öðru leyti mintust Winnipeg-Íslendingar ekki þessa afmælis síns. Rifjaðar voru upp minningar um upphöf þessara þriggja bygðarlaga. En um fjórðu og elztu nýlenduna var hljótt og hennar að engu getið. En það bar aðallega til þess, að þar er nú orðið fátt íslenzkra minja, að undanteknum örfáum vallgrónum leiðum, og bæjarrústum, grænum hvömmum og grasi vöxnum rjóðrum, er landnemarnir hjuggu áður fyrri í mörkina. En þótt bygðarlag þetta sé nú þannig undir lok liðið, er saga þess einhver hin hugstæðasta allra sagna, hinna fyrri ára vorra hér í þessu landi. Ber margt til þess; í fyrsta lagi að þangað fluttist sumt þeirra manna, er verða mun getið svo lengi sem Íslendinga verður getið hér í álfu; og í öðru lagi, að öllum ber saman um það, að hvergi hafi samhendni verið meiri og bróðurhugurinn einlægari en einmitt þar. Nokkuð hefir verið ritað um bygðarlag þetta, og má helzt nefna: "Þáttur Ísl. í Nýja Skotlandi", eftir Sigurð J. Jóhannesson, í Alm. Ó. S. Thorgeirssonar, Wpg. 1900, bls. 48, og "Markland", eftir Guðbrand Erlendsson, Wpg. 1916, og er einkum hið síðartalda góð og greinileg lýsing á nýlendunni og lifnaðarháttum manna þar á þessum fyrstu árum. Þá hefir og skáldið J. Magnús Bjarnason minst nýlendunnar vel með skáldsögunni "Eiríkur Hansson" og smásögunum "Vornætur á Elgsheiðum".

Það var upphaf þessa bygðarlags, að haustið 1874 kemur ungur maður Jóhannes að nafni, sonur Arngríms prests Halldórssonar á Bægisá á Þelamörk (frá 1843—63) vestur til bæjarins Kinmount í Ontario, þar sem hópur Íslendinga hafði sezt að, er að heiman kom þá um sumarið, og hvetur til að flytja austur til Nýja Skotlands og stofna þar nýlendu. Hann var þá vestur fluttur fyrir tveimur árum og kominn í þjónustu fylkisstjórnarinnar þar eystra. Bauð hann hina beztu kosti, og þar á meðal, að Íslendingum skyldi fengið ákveðið hérað og hverjum búanda 100 ekrur af landi til eignar, með íbúðarhúsi á, er stjórnin léti reisa á kostnað þess opinbera. Var erindi hans vel tek-

ið og skrifuðu sig nokkrir hjá honum til austurferðar með næstkomandi vori, en allmargir ungir menn og lausir fóru með honum austur þá um haustið, til Halifax og annara staða þar á ströndinni. Strax á næsta vori fluttu nokkrir austur, en fleiri um sumarið og haustið eftir. Nýlendusvæðið var á hálendi skógi vöxnu er Mooseland ("Elgsheiði") nefndist, suður af dalverpi, er heitir Musquodoboit, um 80 mílur norðaustur af Halifax, upp með Tangierfljótinu, — um 30 mílur norður frá árósunum. Litlir voru þar landkostir, jörð grýtt og vaxin skógi. Stjórnin lét úthluta nýlendumönnum því af landi, er heitið hafði verið, ryðja á hverju þeirra blett, er svaraði einni ekru og reisa þar hús. Alls voru það 19 býli er hún lét reisa. Í miðri nýlendunni setti hún skóla, lét þar reisa skólahús og fékk til kennara, er Alexander Wilson hét. Hann var enskur að kyni, skylduræikinn en strangur og siðavandur, og þó af öllum álitinn hinn bezti drengur. Um kennara þenna farast skáldinu J. Magnúsi Bjarnasyni svo orð; gekk hann í þenna skóla til hans og þekti hann vel:

"Það er einkennilegt, að þeir, er ritað hafa um Marklands-nýlenduna, hafa mjög lítið minst á kennarann, Alexander Wilson. Hús hans stóð skamt frá skólahúsinu, sem var hér um bil í miðri nýlendunni. Börn Wilsons voru mörg — níu, ef eg man rétt. Hann var lærður maður og hafði kent um langt skeið við æðri skóla á Englandi. Hann átti ágætt bókasafn og var aldrei tregur að ljá bækur. Hann var kennari með afbrigðum, þó hann væri undarlegur nokkuð og refsingasamur. En á þeim dögum fylgdu kennarar alment þeirri aðferð, sem Salómó konungur áleit happasælasta: "að spara ekki vöndinn". — Alexander Wilson var ósérhlífinn, hreinhjartaður og vildi Íslendingum alt hið bezta. Og þegar ritað er um Marklands-nýlenduna, á vel við að minnast Wilsons kennara og prestanna lútersku í Lunenburg, sem reyndust Íslendingum svo vel á allan hátt."

Þá lét og stjórnin ryðja veg til nýlendunnar frá hafnarbænum Tangier. Í septemberlok var vegagerðinni lokið og flestir fluttir á ábýlisjarðir sínar, er þeim höfðu verið úthlutaðar. Gáfu þeir þeim nöfn, sem siður var til á Íslandi. Skömmu þar á eftir efndu menn til fundar í skólahúsi nýlendunnar. Efni fundarins var að ræða um sameiginleg velferðarmál bygðarinnar og hvað nýlendan skyldi heita. Kom mönnum saman um að nefna hana "Markland" og þóttu þessi orð úr "Grænlendingaþætti" lýsa nýlendunni með fullum sannindum. "Þat land var slétt ok skógi vaxit ok sandar hvítir víða ok ósæbratt. Þá mælti Leifr: af kostum skal þessu landi nafn gefa ok kalla Markland". Ekki vita menn nú með vissu, hver réði nafni, en nafngjöfin sjálf bendir til þess, að ekki hafi menn fundið til þess að þar ætti fremur aðrir rétt til en þeir sjálfir, er fornir feður þeirra höfðu fundið landið og því nafn gefið.

Innflutningur var nokkur til nýlendunnar ofan að árinu 1880, að mestu leyti beina leið frá Íslandi — en enginn eftir það. Þótti þá

komin full reynd á að svæði þetta væri lítt byggilegt og framtíðarlaust. Kom mönnum því saman um að flytja þaðan og leita fyrir sér vestar þar sem bygðir höfðu tekist, í Minnesota, Dakota og Manitoba. Árið 1881—2 eru allir á brott þaðan, og hverfur svo þetta síðara Markland úr sögu sem hið fyrra.

Til er skrá yfir alla þá, er fluttu til nýlendunnar og bæjanna þar á ströndinni. Er hún með þeim virktum gerð, að til er færður aldur, fæðingarstaður og síðastur bústaður þeirra á Íslandi. Gaman hefði verið að eiga samskonar skrá yfir allar hinar bygðirnar, en ærinn mun skortur á að svo sé og seint á að minnast úr þessu. Til minningar um fimtugsafmæli þessa litla bygðarlags, er svo snemma hvarf úr sögu, er skrá þessi birt í Tímaritinu og er sennilegt, að margur hafi ánægju af að yfirfara hana og kunni að kannast við þá suma, sem þar eru nefndir.

"Skýrslu" þessa eða skrá samdi Jón bóndi Rögnvaldsson frá Hóli á Skaga í Skagafjarðarsýslu. Var hann meðal þeirra manna, er fyrstir fluttu til nýlendunnar. Handritið var í eigu sonar hans, Jóns bónda Hillmans við Mountain í Norður Dakota. Er handritið kom í vorar hendur, vantaði í það eitt blað, — hafði týnst í láni. En svo heppilega vildi til að skáldið J. Magnús Bjarnason átti afrit af "skýrslunni", er hann gerði fyrir 35 árum síðan, og eftir því afriti var auðvelt að fylla í eyðuna.

Jón Rögnvaldsson (f. 7. des. 1807) hreppstjóri á Hóli á Skaga, var sonur Rögnvaldar bónda á Kleif á Skaga, Jónssonar, og Margrétar Pétursdóttur frá Ketu, Gíslasonar. Var Rögnvaldur talinn skáld gott og fræðimaður á sinni tíð. Er hans getið í sögu Jóns sýslumanns Espólíns, er fundvís var á fróðleiksmenn og sagnaþuli þar í sýslunni. Voru þeir mjög til vina, og gisti Rögnvaldur tíðum hjá sýslumanni er hann var á ferðum um fjörðinn. Í síðasta skifti, er fundum þeirra ber saman, flytur Rögnvaldur honum kvæði, að fornum sið, og er það vel kveðið. Hjá föður sínum mun Jón hafa alist upp þar til hann sjálfur fór að búa. Varð hann brátt héraðskunnur og þótti stakur fróðleiks- og gáfumaður. Hann gegndi ýmsum opinberum störfum í sveitinni áður en hann flutti vestur (1874). Hreppstjóri var hann um tíma í Skefilsstaðahreppi og sáttamaður skipaður í Skaga Sáttaumdæmi 26. okt. 1866 af Eggerti sýslumanni Briem, þegar séra Páll Jónsson prestur í Hvammi í Laxárdal (frá 1852—1866), er var fyrstur sáttamaður á Skaga, flutti þaðan og vestur í Höskuldsstaði á Skagaströnd.

Skýrsla Jóns er í tvennu lagi; fyrri hlutinn er yfir eldri bæina (stjórnarbæina 19), en síðari hlutinn yfir þá, sem fluttust til nýlendunnar eftir 1877, og námu lönd í bygðinni. Reistu þeir hús sín sálfir og gáfu flestir bæjum sínum heiti að dæmum þeirra er fyrir voru. Í nýlendunni hafa verið 30 bæir, er Jón lauk skýrslu sinni 1. febrúar 1879.

Við þessa skýrslu Jóns hefir svo skáldið J. Magnús Barnason bætt nöfnum manna þeirra, er seinna komu, alt fram að þeim tíma að flutt var burtu úr bygðinni. Þar eru taldir ekki eingöngu búendur, heldur og lausafólk, er kom til nýlendunnar, eða stundaði vinnu í sjóþorpunum, aðallega Lockeport, sunnan og austan á Skaganum. Upplýsingar um aldur þessa fólks og fæðingarstað var erfitt að fá í flýti og vantar því á stöku stöðum.

## I. SKÝRSLA JÓNS

### Yfir Bæja- og Fólkstal í Marklandi

| Nr. | Bæjaheiti | Mannanöfn | aldur |
|---|---|---|---|
| 1. | Sólheimar .... .... .... .... .... .... .... .... | Sigurjón Svanlaugsson | 34 |
| | | Elízabet Guðmundsdóttir | 28 |
| | | Elízabet Sigurjónsdóttir | 4 |
| | | Þorbjörg Sigurjónsdóttir | 1 |
| 2. | Grænavatn .... .... .... .... .... .... .... .... | Guðbrandur Erlendsson | 33 |
| | | Sigríður Ingibjörg Hávarðsdóttir | 26 |
| | | Anna Guðbrandsdóttir | 6 |
| | | Guðný Guðbrandsdóttir | 5 |
| | | Hallfríður Guðbrandsdóttir | 4 |
| | | Hávarður Guðbrandsson | 1 |
| | | Helga Erlendsdóttir | 28 |
| | | Jónína Jónsdóttir | 3 |
| 3. | Staðartunga .... .... .... .... .... .... .... | Sigurður Jónsson | 33 |
| | | Sigríður Dýrleif Brynjólfsdóttir | 28 |
| | | Brynjólfur Sigurðsson | 3 |
| 4. | Staður .... .... .... .... .... .... .... .... .... | Stefán Brynjólfsson | 39 |
| | | Valgerður Kristjánsdóttir | 20 |
| 5. | Hléskógar .... .... .... .... .... .... .... .... | Sigurður J. Jóhannesson | 37 |
| | | Guðrún Guðmundsdóttir | 39 |
| | | Ingibjörg Sigurðardóttir | 16 |
| | | Gróa Sigurðardóttir | 14 |
| | | Elízabet Sigurðardóttir .... .... .... .... .... | 4 |
| 6. | Bólstaðarhlíð .... .... .... .... .... .... .... | Magnús Brynjólfsson | 50 |
| | | Elízabet Sigríður Klemensdóttir | 40 |
| | | Sigríður Magnúsdóttir | 12 |
| | | Ingibjörg Klementína Magnúsdóttir | 14 |
| | | Klemens Brynjólfur Magnússon | 4 |
| | | Jósías Magnússon | 24 |
| | | Ingibjörg Guðrún Klemensdóttir | 44 |
| | | Kristjana Margrét Guðmundsdóttir | 15 |
| | | Jónas Steinn Guðmundsson | 13 |
| 7. | Vatnsdalur .... .... .... .... .... .... ........ | Brynjólfur Brynjólfsson | 49 |
| | | Þórunn Ólafsdóttir | 49 |

RÖGNVALDSSONAR

í Halifax County í Febrúar 1878.

| Hvar og hvenær fæddir | Hvaðan og hvenær hingað komnir |
|---|---|
| Kolgerði í Höfðahverfi, Þingeyjars. 1844 | Arnórsstöðum, Jökuld. N.-M., í nóv.1875 |
| Vaðbrekku, Hrafnkelsdal, N.-M.s., 1850 | Sama bæ í sama sinn |
| Arnórsstöðum, Jökuldal, N.-M.s. 1874 | Sama bæ í sama sinn |
| Hér í Nýlendunni 1877 | |
| | |
| Kirkjubólsseli, Stöðvarfirði, 28. jún.1845 | Gauksstöðum, Jökuld., N.-M., í okt. 1875 |
| Gauksstöðum, Jökuldal, N.-Múlas. 1852 | Sama bæ í sama sinn. |
| Sama bæ, 13. júní 1872. | Sama bæ í sama sinn. |
| Sama bæ, 13. des. 1873 | Sama bæ í sama sinn. |
| Sama bæ, 17. marz 1874. | Sama bæ í sama sinn. |
| Hér í nýlendunni 20. okt. 1877. | |
| Bakkagerði, Stöðvarfirði S.-M.s., 1850. | Hnefilsdal, Jökuld., N.-M.s., í okt. 1875 |
| Hér í nýlendu, 1875. | |
| | |
| Mélgerði í Eyjafjarðarsýslu, 1. apr. 1845 | Barkarst., Svartárd., Húnav.s. í ág. 1875 |
| Tyrfingsstöðum, Skagafjarðars., 1850. | Skeggstöðum í Svartárdal, í ág. 1875 |
| Hér í nýlendu, í sept. 1875. | |
| | |
| Gilsbakka, Skagafj.s., 20. apríl 1839. | Botnastöðum, Svartárdal, í okt. 1875 |
| Ábæ í Skagafjarðarsýslu, 20. júní 1858 | Sama bæ í sama s. |
| | |
| Marbæli, Óslandshlíð, Sk.fj. 25. nóv.1841 | Gautsdal, Húnavatnss., nóv. 1875 |
| Manaskál, Húnavatnss., 20. júní 1839. | Sama bæ í sama sinn. |
| Manaskál í Húnavatnss., 10. maí 1862. | Sama bæ í sama sinn. |
| Sama bæ, 12. apríl 1864. | Sama bæ í sama sinn. |
| Wasago, Ontario, 5. júlí 1874. | |
| | |
| Gilsbakka í Skagafj.s., 14. maí 1828. | Bólstaðarhlíð, Húnav.s., okt. 1875 |
| Bólstaðarhlíð í Húnav.s., 4. febr. 1838. | Sama bæ í sama s. |
| Sama bæ, 21. okt. 1866 | Sama bæ í sama s. |
| Sama bæ, 13 marz 1864. | Sama bæ í sama s. |
| Sama bæ, 23. ágúst 1874. | Sama bæ í sama s. |
| Álfgeirsvöllum, Skagafj.s., 29. ág. 1854. | Sama bæ í sama s. |
| Bólstaðarhlíð, Húnav.s., 23. sept. 1834. | Sama bæ í sama s. |
| Botnastöðum, Húnav.s., 29. okt. 1863. | Sama bæ í sama s. |
| Reykjavík, Gullbr.s., 28. des. 1865. | Sama bæ í sama s. |
| | |
| Gilsbakka, Skagafj.s., 14. ágúst 1829 | Skeggstöðum í Svartárdal, 4. ág. 1875 |
| Sellandi, Blöndudal, Húnav.s., 1829 | Sama bæ í sama s. |

| Nr. | Bæjaheiti | Mannanöfn | aldur |
|---|---|---|---|
| | | Olafur Björn Brynjólfsson | 23 |
| | | Jónas Benedikt Brynjólfsson | 20 |
| | | Skapti Brynjólfur Brynjólfsson | 18 |
| | | Björn Stefán Brynjólfsson | 14 |
| | | Magnús Brynjólfsson | 12 |
| | | Sigríður Brynjólfsdóttir | 7 |
| | | Sigríður Hinriksdóttir | 78 |
| 8. | Vindhæli .... .... .... .... .... .... .... .... .... | Guðmundur Guðmundsson (Laxdal) | 34 |
| | | Sigríður Guðmundsdóttir | 37 |
| | | Margrét Guðrún Guðmundsdóttir | 13 |
| | | Jónas Sigurður Guðmundsson | 11 |
| | | Guðmundur Halldór Guðmundsson | 8 |
| | | Róbert Klemens Guðmundsson | 3 |
| 9. | Vatnshlíð .... .... .... .... .... .... .... .... | Bjarni Sölvason | 40 |
| | | Kristín Jóhannsdóttir | 41 |
| | | María Bjarnadóttir | 15 |
| | | Guðrún Bjarnadóttir | 9 |
| | | Ingibjörg Margrét Bjarnadóttir | 1 |
| 10. | Hvammur .... .... .... .... .... .... .... .... | Jóhann Bjarnason | 45 |
| | | Herdís Höskuldsdóttir | 46 |
| | | Guðvarður Jóhannsson | 16 |
| 11. | Laufás .... .... .... .... .... .... .... | Hannes Jónsson | 44 |
| | | Sigríður Hannesdóttir | 44 |
| | | Ingibjörg M. Sigurðardóttir | 17 |
| | | Björg Hannesdóttir | 10 |
| | | Hannes Hannesson | 3 |
| 12. | Laufskógar .... .... .... .... .... .... .... .... | Pétur Jónsson Hillman | 26 |
| | | Olöf Kjartansdóttir | 35 |
| | | Rögnvaldur Pétursson | 5 |
| | | Una Pétursdóttir | 2 |
| | | Jón Pétursson | 1 |
| | | María Rögnvaldsdóttir | 8 |
| | | María Rögnvaldsdóttir | 63 |
| 13. | Engihlíð .... .... .... .... .... .... .... .... | Jón Jónsson Hillman | 30 |
| | | Jón Rögnvaldsson (Hillman) | 71 |
| 14. | Fljótshlíð .... .... .... .... .... .... .... .... | Hafsteinn Skúlason | 50 |
| | | Sigríður Þorkelsdóttir | 56 |
| | | Jóhanna Hafsteinsdóttir | 23 |

| Hvar og hvenær fæddir | Hvaðan og hvenær hingað komnir |
|---|---|
| Álfgeirsvöllum, Skagafj.s., 25. ágúst 1855 | Sama bæ í sama s. |
| Forsæludal, Húnavatnss., 17. maí 1858 | Sama bæ í sama s. |
| Sama bæ, 29. okt. 1860 | Sama bæ í sama s. |
| Sama bæ, 3. nóv. 1864 | Sama bæ í sama s. |
| Skeggstöðum, Húnav.s., 28. maí 1866. | Sama bæ í sama s. |
| Sama bæ, 16. jan. 1871 | Sama bæ í sama s. |
| Fremri-Svartárdal, Skagafj.s., í júní 1800 | Sama bæ í sama s. |
| | |
| Manaskál, Húnavatnss., í júlí 1844 | Tungukoti, Blöndud., Húnav.s., ág. 1875 |
| Holti í Svínadal, Húnav.s., í apríl 1841 | Sama bæ í sama s. |
| Kirkjubæ, Norðurárd. Húnav. 30.okt.1865 | Sama bæ í sama s. |
| Tungukoti, Blöndud., Húnav. 24.okt.1867 | Sama bæ í sama s. |
| Sama bæ, 13. okt. 1870 | Sama bæ í sama s. |
| Hér í nýlendu, 10. febr. 1875 | |
| | |
| Skarði, Skagafjarðars., 20. apríl 1838 | Miklagarði, Skagafj.s., okt. 1875 |
| Kjartansstöðum, Skagafj.s., 24. sept. 1837 | Sama bæ í sama s. |
| Sama bæ, 21. marz 1863 | Sama bæ í sama s. |
| Miklagarði, Skagafj.s., 6. sept. 1869 | Sama bæ í sama s. |
| Hér í nýlendu, 16. jan. 1878 | |
| | |
| Höfn, Siglufirði, Eyjafj.s., í ágúst 1833 | Tumabrekku á Skaga, 17. okt. 1877 |
| Ráeyrarkoti, Sigluf., Eyjafj.s. 6.jan.1832 | Sama stað í sömu s. |
| Steinholti í Flókadal, Sk.fj. 23.des.1862 | Sama stað í sömu s. |
| | |
| Hofsstöðum, Húnavatnss., 14. okt. 1832 | Þernumýri, Húnavatnss. okt. 1875 |
| Marbæli, Skagafjarðars., í febrúar 1834 | Sama bæ í sömu s. |
| Víðidal, Húnavatnssýslu, 3. júlí 1861 | Sama bæ í sömu s. |
| Sama bæ, sömu sýslu, 1868 | Sama bæ í sömu s. |
| Þernumýri, Húnavatnss., 2. febr. 1870 | Sama bæ í sömu s. |
| | |
| Hóli á Skaga, 10. apríl 1852 | Hóli á Skaga, nóv. 1875 |
| Ási í Hegranesi, 11. ágúst 1843 | Sama bæ í sömu s. |
| Hóli á Skaga, 19. okt. 1873 | Sama bæ í sömu s. |
| Lockeport, Nova Scotia, 22. febr. 1876 | |
| Marklandi, Nova Scotia, 23. jan 1878 | |
| Hóli á Skaga, 28. maí 1870 | Hóli á Skaga, nóv. 1875 |
| Kleif á Skaga, 10. sept. 1815 | Garðakoti í Hjaltadal, Sk.fj., nóv. 1877 |
| | |
| Hóli á Skaga, 10. apríl 1848 | Hóli á Skaga, okt. 1875 |
| Kleif á Skaga, Skagafj.s., 4. des. 1807 | Sama bæ í sömu s. |
| | |
| Efri-Mýrum, Húnav.s, í marz 1828 | Hrauni á Skaga, okt. 1875 |
| Vakursstöðum, Húnav.s., 17. ágúst 1822 | Sama bæ í sömu s. |
| Sæunnarstöðum, Húnav.s., 6. ágúst 1855 | Sama bæ í sömu s. |

| Nr. | Bæjaheiti | Mannanöfn | aldur |
|---|---|---|---|
| | | Hallfríður Magnúsdóttir | 12 |
| 15. | Hlíðarhús .... .... .... .... .... .... .... .... | Bjarni Andrésson | 46 |
| | | Kristbjörg Magnúsdóttir | 46 |
| | | Jóhann Magnús Bjarnason | 12 |
| | | Anna Málfríður Bjarnadóttir | 4 |
| 16. | Fagrahlíð .... .... .... .... .... .... .... .... | Björn Sigvaldason | 26 |
| | | Kristín Hansdóttir | 32 |
| | | Hannes Björnsson | 1 |
| 17. | Brautarholt .... .... .... .... .... .... .... .... | Jóhannes Guðmundsson | 41 |
| | | Sólveig Jónsdóttir | 41 |
| | | Sigríður Jóhannesdóttir | 13 |
| | | Jóveig Jóhannesdóttir | 12 |
| | | Oddný Jóhannesdóttir | 9 |
| | | Jónína Jóhannesdóttir | 6 |
| | | Engmey Jóhannesdóttir | 2 |
| 18. | Brúarland .... .... .... .... .... .... .... .... | Jón Sæmundsson | 48 |
| | | Vigdís E. Þorkelsdóttir | 36 |
| | | Þuríður H. Jónsdóttir | 7 |
| | | Sigurlög Jónsdóttir | 1 |
| 19. | Fljótsbrekka .... .... .... .... .... .... .... | Einar Jónsson Hnappdal | 49 |
| | | Halla Jónsdóttir | 62 |
| | | Sigurður B. Einarsson | 21 |
| | | Jón Einarsson | 20 |
| | | Guðjónía Einarsdóttir | 19 |

## SKÝRSLA JÓNS

### Yfir það sem bæzt hefir við af Bæjum

| | | | |
|---|---|---|---|
| 20. | Robbshús .... .... .... .... .... .... .... .... | Hans C. Robb, kaupmaður | 47 |
| | | Rósa Elíasdóttir Robb | 46 |
| | | James Elías Robb | 18 |
| | | Anna Margrét Jarðþrúður Robb | 13 |
| | | Carl Ole Robb | 10 |
| | | Margrét Árnadóttir | 22 |
| 21. | Lundur .... .... .... .... .... .... .... .... .... | Jón Gíslason Borgfjörð | 39 |
| | | Oddrún Samúelsdóttir | 38 |
| | | Árni Einar Jónsson | 12 |
| 22. | Hlíð .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | Brynjólfur Gunnlögsson | 32 |
| | | Halldóra Sigvaldadóttir | 23 |
| | | Sigvaldi Brynjólfsson | 3 |

| Hvar og hvenær fæddir | Hvaðan og hvenær hingað komnir |
|---|---|
| Sævarlandi, Skagafj.s., 3. jan. 1866 | Sama bæ í sömu s |
| Hnefilsdal á Jökuldal, N.-M.s., 9. júlí 1832 | Fljótsbakka, Eiðaþinghá, S.-M.s. des.1875 |
| Birnufelli í Fellum, N.-M.s., 12. ág. 1832 | Sama bæ í sömu s. |
| Meðalnesi í Fellum, N.-M.s., 24. maí 1866 | Sama bæ í sömu s. |
| Fljótsbakka, Eiðaþinghá, 22. maí 1874 | Sama bæ í sömu s. |
| Kelduhverfi, Þingeyjars., 9. sept. 1852 | Axarfirði, Þingeyjarsýslu, okt. 1875 |
| Fjöllum, N.-Þingeyjars., 20. marz 1846 | Sama bæ í sömu s. |
| Í Marklandi, N. S., 14. marz 1877 | |
| Hlöðunesi, Gullbringusýslu, 1. ág. 1837 | Stapabúð, Gullbringusýslu, okt. 1875 |
| Stóru-Vatnsleysu, Gullbr.s., í sept. 1837 | Sama bæ í sömu s. |
| Lónskoti, Gullbringusýslu, í sept. 1865 | Sama bæ í sömu s |
| Sama bæ, 30. des. 1866 | Sama bæ í sömu s. |
| Sama bæ, í júní 1869 | Sama bæ í sömu s. |
| Stapabúð, Gullbringusýslu, í ágúst 1872 | Sama bæ í sömu s. |
| Marklandi, í sept. 1876 | |
| Bárðardal, S.-Þingeyjars., 20. júní 1830 | Hraunkoti, A.-Skaftaf.s., okt. 1875 |
| Bárðardal, S.-Þingeyjars., 23. des. 1842 | Höfðahverfi, Þingeyjarsýslu, okt. 1875 |
| Bárðardal, S.-Þingeyjarsýslu, 1871 | Sama bæ í sömu s. |
| Í Marklandi, N. S., 26. maí 1877 | |
| Svarfhóli, Mýrasýslu, 18. júlí 1829 | Svarfhóli, Mýrasýslu, okt. 1875 |
| Háhóli, Mýrasýslu, 5. apríl 1816 | Sama bæ í sömu s. |
| Syðra-Hraundal, Mýrasýslu, 12. febr.1857 | Sama bæ í sömu s. |
| Sama bæ, 1858 | Sama bæ í sömu s. |
| Sama bæ, 1859 | Sama bæ í sömu s. |

## RÖGNVALDSSONAR

### og Fólki í Marklandi til þess í Febr 1879.

| | |
|---|---|
| Reykjavík, 4.-6. 1832 | Reykjavík í sept. 1878 |
| Akureyri, 18.-10. 1833 | Reykjavík á sama tíma. |
| Reykjavík, 16.-5. 1861 | Reykjavík á sama tíma. |
| Reykjavík, 11.-10. 1866 | Reykjavík á sama tíma. |
| Reykjavík, 5.-1. 1870 | Reykjavík á sama tíma. |
| Dagverðarnesi í Rangárvallasýslu. | Reykjavík á sama tíma. |
| Högnastöðum, Mýrasýslu, 27. sept. 1840 | Reykjavík 1878 |
| Hliði, Álftanesi, Gullbr.s., 29. jan. 1841 | Sama stað |
| Reykjavík, 27. júní 1867 | Sama stað |
| Flögu í Breiðdal, S.-M.s., í sept. 1847 | Höskuldsstaðaseli í sama þ.lægi, ág. 1878 |
| Prestshvammi, Reykjad., S.Þ., 23.okt.1856 | Eins. |
| Höskuldsstöðum, S.-Múlas., 21. ág. 1876 | Sama bæ, sömu s. |

| Nr. | Bæjaheiti | Mannanöfn | aldur |
|---|---|---|---|
| | | Brynjólfur Brynjólfsson | 1 |
| | | Vilborg Gunnlögsdóttir | ? |
| 23. | Árnes .... .... .... .... .... .... .... .... .... | Olafur Þorsteinsson | 45 |
| | | Elín Stefánsdóttir | 42 |
| | | Guðrún Ólafsdóttir | 10 |
| | | Stefanía Kristín Ólafsdóttir | 2 |
| | | Þorsteinn Ólafsson | 20 |
| | | Eyjólfur Ólafsson | 20 |
| | | Jórunn Ólafsdóttir | 10 |
| | | Sigríður Þorsteinsdóttir | 17 |
| | | Þorgils Þorsteinsson | 7 |
| | | Snjófríður Þorsteinsdóttir | 41 |
| 24. | Austurhlíð .... .... .... .... .... .... .... .... | Halldór Halldórsson (Ármann) | 30 |
| | | Margrét Eyjólfsdóttir | 26 |
| | | Sezelja Grímsdóttir | 35 |
| | | Einar Einarsson | 27 |
| 25. | Ljósavatn .... .... .... .... .... .... .... .... | Ólafur Ólafsson Fellsted | 32 |
| | | Helga Guðmundsdóttir | 27 |
| | | Ólafur Ólafsson Fellsted | 2 |
| 26. | .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | Björn Ólafsson Fellsted | 29 |
| | | Guðrún Jónsdóttir | 29 |
| | | Guðný Björnsdóttir | 4 |
| | | Þorsteinn Björnsson | 1 |
| 27. | .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | Jóhann Jóhannsson | 26 |
| | | Valgerður Friðriksdóttir | 28 |
| | | Jón Gunnarsson | 28 |
| | | Pálína Jónsdóttir | 24 |
| 28. | Baldurshagi .... .... .... .... .... .... .... | Guðmundur Kjartansson | 29 |
| | | Valgerður Jónsdóttir | 25 |
| 29. | Hjarðarholt .... .... .... .... .... .... .... .... | Pétur Hanssen | 30 |
| | | Guðlög Jónsdóttir | 26 |
| 30. | Árbakki .... .... .... .... .... .... .... .... .... | Jón Ívarsson | 50 |
| | | Helga Magnúsdóttir | 49 |
| | | Jón Einarsson (Dalsted) | 28 |
| | | Lárus Frímann Þórðarson | 36 |
| | | Rafn Guðmundsson | 29 |
| | | Jósef Sigvaldason | 21 |

| Hvar og hvenær fæddir | Hvaðan og hvenær hingað komnir |
|---|---|
| Hér í nýlendu 21. ág. 1878 | |
| | Höskuldsstaðaseli, í ágúst 1878 |
| Tungu í Grafningi, Árness., í júní 1834 | Tungu í Grafningi 1876, Lockeport 1877 |
| Heiði í Mýrdal, V.-Skaftaf.s., júní 1836 | Tungu í Grafningi, Árness., í ág. 1878 |
| Tungu, Grafningi, Árness., í okt. 1869 | Sama bæ í sama s. |
| Tungu í Grafningi, Árness., í febr. 1877 | Sama bæ í sama s. |
| Þorlákshöfn, Árness., 17. sept. 1859 | Sama bæ í sama s. |
| Á sama stað og tíma. | Sama bæ í sama s. |
| Tungu í Grafningi, Árness., í okt. 1869 | Sama bæ í sama s. |
| Stóruborg í Árnessýslu, í ágúst 1862 | Sama bæ í sama s. |
| Eyrarbakka, Árnessýslu, í júní 1872 | Sama bæ í sama s. |
| Tungu í Grafningi, Árness., í júní 1838 | Sama bæ í sama s. |
| Miðdalskoti, Árnessýslu, marz 1849 | Stórhálsi, Árnessýslu, í ágúst 1878 |
| Apavatni efra, Árness., 22. júlí 1853 | Stórhálsi, Árnessýslu, í ágúst 1878 |
| Nesjavöllum, Grímsnesi, Árn.s. 2.júu.1844 | Sama bæ í sama s. |
| Fljótarkoti, V.-Skaftaf.s., í júlí 1852 | Hvoli í Skaftafellssýslu, í ágúst 1878 |
| Saurbæ, Borgarfjarðars. 17. júlí 1847 | Borgarfirði til Lockep. 1876, hingað 1878 |
| Höfn, Borgarfjarðars., 10. des. 1852 | Hvítárvöllum, Borgarfj.s., í ágúst 1878 |
| Hvítárvöllum, Borgarfj.s., 15. febr. 1877 | Sama bæ í sama s. |
| Súlunesi, Borgarfjarðars., 16. okt. 1850 | Af Akranesi, Borgarfj.s., ágúst 1878. |
| Heimaskaga á Akranesi, 21. ágúst 1850 | Sama bæ í sama s. |
| Gandi á Akranesi, 9. júlí 1875 | Sama bæ í sama s. |
| Nýjabæ á Akranesi, 26. apr. 1878 | Sama bæ í sama s. |
| Staðarhóli, Sigluf., Eyjafj.s., 7.marz 1853 | Af Oddeyri, Eyjafjarðars., í ág. 1878 |
| Lundi í Stíflu, Skagafj.s., 1. jan. 1851 | Sama bæ í sömu s. |
| Merkigili, Eyjafjarðars., í júní 1851 | Af Akureyri, í ágúst 1878 |
| Miðhúsum, Eiðaþinghá, í okt. 1855 | Af sama stað |
| Hofdölum, Skagafjarðars., 13. júlí 1850 | Frá Ont. til N. S. 1876, hingað 1878 |
| Sólheimum, Sæm.hl., Sk.fj., 25.des.1854 | Eins. |
| Saurum, Vindhælishr., Húnav. 23.júl.1849 | Þverá, Hallárd. Lockep.1876,hingað 1878 |
| Holtakoti, Árnessýslu, 23. okt. 1853 | Hingað 23. des. 1878 |
| Á Seltjarnarnesi, Gullbr.s.,, í apríl 1829 | Frá Lockeport í des. 1878 |
| Birnufelli í Fellum, N.-Múlasýslu,, 1830 | Fellum, N.-Múlasýslu, 1879 |
| Mófellsst., Skorrad., Borg.fj., 10.sept.1857 | Þingnesi, Bæjarhr. Borg.fj., í ág. 1878 |
| Sigríðarstöðum, Vesturh., 2. febr. 1843 | Frá Reykjavík, í ágúst 1878 |
| Á Akranesi, Borgarfj.s., okt. 1850 | Af Akranesi, Borgarfj.s., í ágúst 1878 |
| Prestshvammi, S.-Þingeyjars., 13.ap.1858 | Jórvík í Breiðdal, 1878. |

| Mannanöfn | aldur | Hvar og hvenær fæddir |
|---|---|---|
| Jón Eiríksson*) | 39 | Víðinesi, Berufj.strönd, 24. ág. 1841 |
| Guðný Magnúsdóttir | 39 | Birnufelli í Fellum, 20. jan. 1841 |
| Magnús Jónsson | 15 | Birnufelli í Fellum, 27. jan. 1865 |
| Snjólaug Jónsdóttir | 13 | Birnufelli í Fellum, 7. maí 1867 |
| Guðný Jónsdóttir | 4 | Víðinesi, Berufjarðarstr. 12. jan. 1876 |
| Sveinbjörn Jónsson | 2 | Víðinesi í Fossárdal, 27. febr. 1878 |
| Elínborg Erlendsdóttir | 26 | Streitu á Berufjarðarströnd, 1854 |
| | | |
| Sigfús Bjarnason | 45 | Staffelli í Fellum, N.-M.s., 7. nóv. 1835 |
| Helga Gunnlögsdóttir | 36 | Víðinesi, Berufjarðarstr., 19. sept. 1844 |
| Ólöf Bjarnadóttir | 55 | Staffelli í Fellum, N.-M.s., 1825 |
| Bjarni Sigfússon | 14 | Staffelli í Fellum, N.-M.s., 16. febr. 1866 |
| Bjarni Þórarinn Sigfússon | 11 | Staffelli í Fellum, N.-M.s., 22. jan. 1869 |
| Snjólaug Sigfúsdóttir | 9 | Staffelli í Fellum, N.-M.s., 13. júlí 1871 |
| Björg Sigfúsdóttir | 7 | Staffelli í Fellum, N.-M.s., 26. maí 1873 |
| Ingibjörg Sigfúsdóttir | 4 | Staffelli í Fellum, 26. maí 1876 |
| Guðlaug Sigfúsdóttir | 2 | Staffelli í Fellum, 7. júní 1878 |
| Sigurður Sigfússon | 1 | Marklandsnýlendu, 9. des. 1880 |
| | | |
| Erlendur Höskuldsson* | | Á Siglufirði í Eyjafjarðarsýslu |
| Guðbjörg Stefánsdóttir | | Í Suður-Múlasýslu |
| Þórunn Erlendsdóttir | | Þverhamri í Suður-Múlasýslu. |
| Sigríður Erlendsdóttir | | Þverhamri í Suður-Múlasýslu. |
| | | |
| Sigurður Guðmundsson Nordal | 36 | Hvammi í Laxárdal, Húnav.s., 1844 |
| Valgerður Jónsdóttir | 38 | Vatnsdal í Húnavatnssýslu, 1842 |
| Guðm. Sigurðsson Nordal | | |
| Björg Sigurðardóttir Nordal | | |
| Jón Sigurðsson Nordal | | |
| Margrét Sigurðardóttir Nordal | | |
| Sigurður Sigurðsson Nordal | | |
| Jane L. Sigurðardóttir Nordal | | |
| | | |
| Sveinn Árnason | | Úr Suður-Múlasýslu |
| Ingibjörg kona hans | | Sömuleiðis. |
| Svanlaug Sveinsdóttir | | Tungu í Fáskrúðsfirði, |
| Guðfinna Sveinsdóttir | | Sömuleiðis. |
| Sigurbjörn Sveinsson | | Sömuleiðis. |
| Kjartan Sveinsson | | Sömuleiðis. |
| Anna Sveinsdóttir | | Sömuleiðis. |
| | | |
| Magnús Jóhannesson | | Úr Eyjafirði. |
| Málfríður Baldvinsdóttir | | |
| | | |
| Jóhann Elíasson Straumfjörð | | Ámýrum á Snæfellsnesi, 21. jan. 1840 |
| Magnús Einarsson | | Af Suðurnesjum |

Hvaðan og hvenær hingað komnir

Frá Víðinesi í Fossárdal, Berufj.st. 1879
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Frá Streitu á Berufjarðarströnd, 1879

Frá Staffelli í Fellum, 1879
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Fæddur í nýlendunni.

Þverhamri í Breiðdal, S.-M.s., 1879
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.
Sama bæ í sömu s.

Tungu í Fáskrúðsfirði, 1878
Sama bæ í sama s.
Sama bæ í sama s.
Sama bæ í sama s.
Sama bæ í sama s.
Sama bæ í sama s.
Sama bæ í sama s.

Frá Akureyri
Frá Akureyri

Hrísdal, Miklaholtshr., Hnappad., 1874
Af Suðurnesjum.

Þetta fólk átti heima á ýmsum stöðum í fylkinu, en staðnæmdist ekki í nýlendunni:—

Jóhannes Arngrímsson, prests, frá Bægisá á Þelamörk. Fór til Ameríku 1872 frá Nesi í Höfðahverfi. Kvæntist enskri konu. Bjó í Halifax.

Hannes, (aldraður maður). Dvaldi í Musquodoboit veturinn 1875—6, hvarf heim til Íslands aftur.

Sigurpáll Guðlaugsson, af Tjörnesi í S.-Þingeyjarsýslu. Vann í Moose River námunum um tíma.

Þorvaldur Jóhannsson Björnssonar frá Tumabrekku. Skósmiður í Lockeport.

Björn Guðmundsson Byron. Býr nú í Winnipeg. Var í Lockeport.

Jón Jóelsson, frá Mývatni í S.-Þingeyjarsýslu. Var í Lockeport.

Júlíus Pálsson prests á Kjarna í Eyjafjarðarsýslu. Var í Lockeport, flutti vestur 1873.

Hjálmar Jónsson Bergmann, frá Þverárdal í Húnavatnssýslu. Nú í Chicago. Var í Lockeport; flutti vestur 1876.

Friðrik Jóhannesson, úr Þingeyjarsýslu. Var í Lockeport.

Baldvin Gunnarsson, úr Eyjafjarðarsýslu. Var í Lockeport.

Jón Sveinsson, úr Skagafjarðarsýslu. Var í Lockeport. Fluttist þaðan til Ástralíu.

Jón Sigurðsson, úr Skagafjarðarsýslu. Var í Lockeport um tíma. Hvarf þaðan heim til Íslands.

Björn Guðnason, úr Húnavatnssýslu. Var í Lockeport.

Þorsteinn Benediktsson, úr Húnavatnssýslu. Var í Lockeport.

Sigurður Sigurðsson, úr Húnavatnssýslu. Var í Lockeport.

Kristján Jónsson. Var í Lockeport.

| Mannanöfn | aldur | Hvar og hvenær fæddir |
|---|---|---|
| Konráð Egilsson | | Laxamýri, Suður-Þingeyjarsýslu |
| Olafur Björnsson | | |
| Oddur Jónsson | | |
| Guðrún Arens | | Í Reykjavík |
| Jósephína Arens | | Sömuleiðis |
| Asgr. Guðmundsson | | Af Austfjörðum. |
| Guðm. Guðmundsson Norðmann | | Sigríðarst., Melrakkasléttu, 1. okt. 1847 |
| Magnús Jónsson skipstjóri | | |
| Einar Einarsson Mýrdal | | |
| Guðjón Jónsson | | Af Austfj., kom með Guðbr. Erlendssyni 1875 |

## II.
### Barnaskírnir, útfarir og hjónavígslur í Marklandi á árunum 1879—1881.

Segurjon Grodmonder Johiannson: born Aug. 24th, 1878, bap. Sept. 29, 1878; son of Johannes & Solveag Godmondordotter Johiannson.

Jon Hillman: born Jan 23, 1878. Bap. Sept. 29, 1878; son of Pistur & Kjartansdotter Hillman.

Ingbjorg Margaret Solvason:born Jan. 16, 1878. Bap. Sept. 29; daughter of Biarni & Khristin Johannsdotter Solvason.

Brinjolvor Gounlangson: born Aug. 27th, 1878. Bap. Sept. 29, 1878; son of Brinjolvor & Haldora Sigvaldadotter Brinjolvor.

Stephen Jonas Victor Brynjolfson: born Aug. 27, 1878, Bap. Sept. 29, 1878; son of Magnus & Elizabeth Klemensdotter Brynjolfson.

Thorarin William Johnson: born Sept. 18th, 1878. Bap. Sept. 29, 1878; son of Sigurdur & Sigridor Brynjolfsdotter Johnson.

Jonina Johnson: born Oct. 29 1875. Bapt. Sept. 29th, 1878; son of Jon Johnson in Iceland & Helga Erlendsdotter Erlendson.

Hraldun (Hávarður) Erlendson: born Nov. 20th, 1877. Bap. 29th Sept.; son of Godbrador & Sigridor Hvardorsdotter Erlendson.

Friman Johann Gudmundsson: born April 7th, 1879. Bap. June 1st, 1879; son of Gudmondor & Sigridor Gudmondsdotter Gudmondson.

Harold Johannson: born May 26, 1879. Bap. June 1st, 1879; son of Segordor & Gudrun Godmondsdotter Johannson.

Burris Evans Prest*: born July 6, 1878. Bap. June 1st, 1879; son of Gasper & Margaret Jackson Prest.

Loretta Jackson*: Dec. 24th 1878. Bap. June 1st, 1879; daughter of Thomas & Martha Pace Jackson.

Edith Victoria*: born Nov. 27, 1877. Bap. June 1st, 1879; daughter of James & Elizabeth Lewlar Hilchey.

Morris Archibald Hilchey*: born Dec. 20th, 1877. Bap. June 1st, 1879; son of Thomas & Mary Ellen Prest, Hilchey.

lagið borið part af kostnaðinum við umferðakensluna, móti deildinni "Frón", í sömu hlutföllum og undanfarandi ár. Árangurinn af þessari kenslu hefir orðið góður, þótt nemendur hafi verið eitthvað færri en síðastliðið ár. Verður væntanlega lögð fyrir yður greinileg skýrsla í því máli síðar á þinginu.

Eitt allra stærsta málið, sem Þjóðræknisfélagið hefir hreyft, er málið um það, að fá Íslenzkuna viðurkenda sem námsgrein við miðskóla og háskóla fylkisins. Hefir málið verið rætt á hverju ársþingi, en engar framkvæmdir orðið fyr en þetta ár. Ef gamla máltækið: "Hálfnað er verk þá hafið er", er rétt, þá er nú þetta verk hálfnað. Snemma á þessu ári tók nefndin að íhuga málið, og komst að þeirri niðurstöðu, að fela forseta tilraunir til framkvæmda í því. Sökum anna og erfiðrar aðstöðu, gat eg ekki snúist við því fyr en komið var fram á haust. En síðan hefi eg eytt í það töluverðum tíma, bæði með bréfaviðskiftum og persónulegu viðtali við mentamálaráðherrann og nokkra af meðl. mentamálaráðsins (Advisory Board). Helztir þeirra er eg talaði við, eru aðstoðarmentamálaráðherrann og forseti háskólans. Hefi eg lagt málið fyrir mentamálaráðið bréflega, og hafa þeir haft það til meðferðar á tveim fundum, en ekkert ákvæði tekið í því. Hefi eg nú samið um að fá að koma með sendinefnd á fund ráðsins, þann 27. þ. m., til að flytja þetta mál. Hefi eg valið til þessarar farar hæfustu mennina, sem eg þekti og vona fastlega, að þetta mál nái fram að ganga. Engin ákveðin andúð gegu málinu í sjálfu sér er í ráðinu, og er því ástæða til að ætla, að manni takist með tímanum að laga þá smá agnúa, sem þeim kann að virðast á því vera. En því megum vér aldrei gleyma, í sambandi við þetta mál, að engu verulegu takmarki er náð, fyr en vér höfum fengið fullkominn kennara við háskólann og framtíð þess embættis trygða. Það krefur máske erfiðis og tíma, og ef til vill fjárframlaga; en þetta er það mál, sem öll vor þjóðræknisviðleitni í þessu landi hvílir á, þegar fram líða stundir. Vér megum því ekki láta það falla niður. Vér höfum þegar hafið gönguna að settu marki og megum aldrei líta um öxl, fyr en takmarkinu er náð. Eg geri ráð fyrir, að málið komi til umræðu síðar, og get eg þá gefið nákvæmari upplýsingar í því, ef æskt er.

Í útbreiðslumálunum áleit nefndin að ekki væri hyggilegt að verja neinu fé í ferðalög þetta ár, enda ekki úr miklu að dreifa.

Þá er eftir að geta þess máls, er nefndin hefir haft einna mestar áhyggjur af, en það er mál Ingólfs Ingólfssonar. Áhyggjurnar stöfuðu af því, hve málið var hryggilegt í eðli sínu; (að það skyldi vera til Íslendingur, sem hægt væri að saka um þenna höfuð-glæp — morð), óefni það, sem málið var komið í, þegar það kom til nefndarinnar, og í þriðja lagi var nefndinni það ljóst frá byrjun, að félaginu gat stafað hætta af þessu máli, ef ógiftusamlega tækist til um meðferð þess á einhvern hátt. En gifta íslenzks þjóðernis hefir nú reynst drýgri en lánleysi þessa einstaklings, og þau málalok hafa fengist, sem beztra mátti vænta úr því sem komið var. Sökum íslenzku blaðanna var hægt að ná sambandi við alla Íslendinga vestan hafs. Lögmaðurinn sem ráðinn var í málið, hr. Hjálmar A. Bergmann, hefir sýnt frábærann dugnað og skarpskygni í allri meðferð málsins, og á hann heiður skilið fyrir starf sitt í því sambandi. En það sem mest heillar huga minn og hlýjar mér um hjartaræturnar, er hin *almenna* þátttaka Íslendinga í málinu. Sú drenglund, ræktarsemi,

góðvild og sannur þjóðarmetnaður, sem þar sýnir sig, verður mér skjöldur og brynja gegn árásum frá ótrú og volæði því, sem ekki þorir að kannast við það bezta í sjálfum sér og ætterni sínu. — Hafið þökk, Íslendingar! Meðan þessi andi lifir, verða þjóðrækninni flestir vegir fyrir. Þriðja atriðið í sambandi við þetta mál, sem vert er að hugfesta, er það, að án Þjóðræknisfélagsins hefði hjálpfýsi almennings og hæfileikar lögmannsins aldrei náð saman til að orka þeim úrslitum, sem fengist hafa. Harmleikur Ingólfs Ingólfssonar hefði þá verið leikinn til enda, og fyrsti Íslendingurinn vestan hafs þolað dauðahegninguna. Eg bendi á þessa hlið málsins aðeins í því skyni, að það kynni að opna augu einhverra þeirra, sem efast um nytsemi og nauðsyn Þjóðræknisfélagsins, og íslenzku blaðanna hér vestan hafs.

Þegar litið er yfir árið, verður ekki annað sagt, en að það hafi verið að ýmsu leyti merkisár í sögu félags vors.

Fjárhagur félagsins hygg eg muni vera í eins góðu lagi og mögulegt er að búast við; en um það getið þér betur dæmt, er féhirðir, fjármálaritari og skjalavörður hafa lesið yður skýrslur sínar.

Þá langar mig til að beina athygli yðar að nokkrum málum sérstaklega, af því eg hygg það miklu máli skifta, að framkvæmdir — réttar framkvæmdir — verði í þeim hafðar. Það er þá fyrst bókasafnsmálið. Það mál var tekið upp seint á þinginu í fyrra og sætti það þess vegna nokkuð flausturslegri meðferð. Það mál á virkilega betri meðferð skilið.

Þá er málið um Íslenzkuna sem námsgrein í æðri skólum fylkisins. Að því máli þarf að vinna með alúð og beita á það viti voru og fé, ef þarf. Þar til vér höfum trygt Íslenzkunni þann sess, sem henni ber, við þessar stofnanir.

Þá er varnarsjóður Ingólfs Ingólfssonar. Félaginu ríður það á miklu, að við það mál verði skilist með eins mikilli vinsemd og eins góðri samvinnu eins og það var hafið og haldist hefir til þessa.

Þá er að síðustu eitt nýtt mál, sem fyrir þingið kemur. Akveðin tillaga í því máli hefir verið send til mín, til flutnings á þinginu. Hún kemur frá þeim manni, sem aukið hefir stórum á frægð Íslendinga víðsvegar um heim, á íþróttasviðinu — Jóhannesi Jósefssyni. og þá vitið þér líka, um hvað tillagan er — um íslenzku glímuna. Eg veit að þér athugið það mál rækilega og í fullri alvöru.

Eg hefi bent á þessi sérstöku mál í því skyni, að þau yrðu meira hugsuð en ella, áður en þau verða tekin upp í þinginu, og af því að mér finst þau sérstaklega þurfa íhugunar yðar og undirbúnings.

Þá á eg aðeins eftir að benda með fáum orðum á framtíðarhorfurnar, eins og mér virðast þær vera. Félagið er nú sex ára gamalt. Það er að vísu ekki hár aldur, en þó finst mér hann muni vera nógu hár til þess, að það sé ekki lengur í hættu fyrir algengustu barnasjúkdómum. Það hefir ekki vaxið hröðum skrefum að höfðatölu, en það hefir reynt á það á ýmsan hátt, og lífsþróttur þess hefir aukist út í hverja taug. Félagið hefir stöðugt verið að skapa sér fastari sess í hugum manna — og það eins þeirra, sem fyrir utan það eru, þar til nú er svo komið, að það er skoðað sem sjálfsögð stofnun af meirihluta Íslendinga. Spursmálið er ekki lengur, hvort það muni vera hægt að láta það lifa, því það lifir nú með svo styrku lífi, að það myndi taka okkur töluverðan tíma að drepa það, þótt við legðumst allir á eitt. Eg er fyllilega þeirrar trúar, að næstu árin verði blómaár fyrir félag vort. Eitt

af því sem skapar mér góðar vonir um það, að saman er að draga með oss Vestur-Íslendingum, einmitt á þeim svæðum sem reipdrátturinn hefir verið harðastur. Ef einhverjum finst að eg hljóti hér að byggja á rangri eftirtekt, þá svara eg honum því, að eg byggi á athugun þeirra afla, sem sveigja hugi fjöldans, og sem skapa hreyfingar og stefnur.

Sex ára sagan hefir sannað oss tilverurétt Þjóðræknisfélagsins; hún hefir reynt lífsmagn þess; hún hefir kent oss margt, sem vér þurftum að læra; hún hefir gert félagið að nauðsynlegri stofnun í augum alls þorra fólks vors. Spursmálið er ekki um líf eða dauða — en spursmálið er um sem fegurst, fylst, auðugast, nytsamast og farsælast líf."

Var forseta þökkuð ræðan með miklu lófaklappi.

Næst skýrslu sinni las forseti upp dagskrá þingsins, og lágu þá, samkvæmt henni, þessi mál fyrir þinginu til afgreiðslu:

Skýrslur embættismanna — Lesbókarmálið — Stúdentagarðurinn og samvinnumálið — verðlaunapeningar fyrir Íslenzku kunnáttu — Bókasafnsmálið — Útgáfa Tímaritsins — Íslenzkukensla — Útbreiðslumál — Varnarsjóður Ingólfs Ingólfssonar — Ný mál — Kosningar embættismanna.

Var kosin þriggja manna nefnd, þeir Thorst. Gíslason, Guðmundur Fjeldsted og Björn Pétursson til þess að athuga dagskrána.

Sú nefnd gerði breytingartillögu um, að á eftir: Útbreiðslumál, kæmi: Þátttaka deilda og kosning erindreka til þings. Ennfremur að kosning embættismanna skyldi fram fara á föstudag kl. 1.30 e. h., svo að nefndin, er fara skyldi á fund fræðslumálanefndar kl. 4.30 e. h. þann dag, skyldi ekki verða síðbúin.

Dagskráin var síðan lesin og samþykt. Samþykt að setja þriggja manna nefnd til þess að athuga skýrslu forseta. Voru kosnir í hana Sigfús Halldórs frá Höfnum, séra Rögnv. Pétursson og J. Gillies.

Lagði nefndin það til, að skýrsla forseta skyldi samþykt með lítilfjörlegum orðabreytingum, og birt í sjöunda árgangi Tímaritsins.

Var tillaga þessi samþykt og þar með tekið við skýrslu forseta. —

Þá las ritari stutta skýrslu. Hefði stjórnarnefndin haldið með sér 14 fundi á árinu, alla, að þrem undanteknum, að heimili vara-forseta, Gísla Jónssonar. — Hefðu þau hjónin af gestrisini sinni, boðið nefndinni heimili sitt til fundarhalda, í eitt skifti fyrir öll.

Var þvínæst gengið til atkvæða um skýrslu ritara, samkvæmt samþykt, er gerð var að samþykkja skýrslu hvers embættismanns fyrir sig. Var skýrslan samþykt með öllum greiddum atkvæðum.

Þá las féhirðir, Hjálmar Gíslason, upp skýrslu sína, er var útbýtt, prentaðri, meðal fundarmanna.

Gat féhirðir þess, að þrátt fyrir hinn mikla kostnað, er fallið hefði á Þjóðræknisfélagið, við útgáfu bókarinnar: "History of Iceland", eftir Knut prófessor Gjerset, þá væri félagið svo furðulega vel stætt, að nú við árslok væru $1100.00 í sjóði. — Var þeirri fregn fagnað með dynjandi lófataki.

Að því búnu var skýrsla féhirðis samþykt með öllum greiddum atkvæðum.

Þá bar skjalavörður, Arnljótur Björnsson Olson, fram skýrslu sína.

Gat þess, að hún væri í algerðu samræmi við skýrslu féhirðis. Aleit hann, að segja mætti um sölu þeirra bóka, er félagið hefði haft með höndum, sérstaklega Tímaritsins, að hún hefði engu miður gengið en á undanfarandi árum, þó

vitanlega hefði ekki árað vel hér í landi, og víða væri þröngt í búi.

Var skýrsla skjalavarðar síðan samþykt með öllum greiddum atkvæðum.

Vara-fjármálaritari, Klemens Jónasson, sem annast hafði störf fjármálaritara, var ekki viðstaddur. En með því að skýrsla hans var óbeinlínis innfalin í skýrslu féhirðis, var samþykt að fást ekki frekar um það, ef vara-fjármálaritari ekki gæti mætt á þinginu.

Þá las Björn Pétursson upp athugasemdir endurskoðunarmanna, og fundu þeir, eins og í fyrra, að hinu óheppilega fyrirkomulagi á bókfærslu embættismanna félagsins, sérstaklega fjármálaritara, og töldu nauðsynlegt að breyta bókfærsluaðferðinni.

J. J. Bíldfell gerði og nokkrar athugasemdir um reikningsfærslu og bankaviðskifti félagsins, og gaf ýmsar bendingar um það. Var samþykt að kjósa þriggja manna nefnd til þess að athuga bendingar yfirskoðunarmannanna og J. J. Bíldfells. Í þá nefnd voru kosnir Þorsteinn Gíslason, Björn Pétursson og Árni lögmaður Eggertsson.

Þá las Páll Bjarnarson frá Winnipeg skýrslu um Íslenzkukensluna í þeim bæ á yfirstandandi vetri:

Hefðu 98 börn og unglingar orðið kenslunnar aðnjótandi, á því tímabili, er af væri. Hefðu aðeins 3 hætt. 15 væru fluglæs, 43 væru lesandi, eða stautandi, og 40 væru að læra að stafa.

Kvað hann góðan árangur sjáanlegan af starfinu, en þó gengi erfiðlega með laugardagsskólann. Myndi sú kensla, er þar færi fram, ekki koma að tilætluðum notum. Væri tíminn ónógur til þess að koma fyllilega að notum.

Þá er skýrslur þessar höfðu verið afgreiddar af þinginu, bað vara-forseti Gísli Jónsson, sér hljóðs. Skýrði hann frá því, að í þingsalnum væri staddur skáldið og rithöfundurinn Einar H. Kvaran, fyrir tveim mánuðum kominn vestur um haf. Vildi hann skora á þingheim að veita honum full þingréttindi. Var það samþykt með dynjandi lófaklappi.

Þá skýrði formaður þjóðræknisdeildarinnar "Fjallkonan", í Wynyard, Árni Sigurðsson, frá starfi deildarinnar s.l. ár. Kvað hann deildina hafa haft umsjón með Íslendingadagshaldi í Wynyard, á síðastliðnu sumri. Hefðu um 1000 manns verið þar samankomnir, og væri líkur mannsöfnuður við þá hátíð staddur árlega. Þá hefði deildin með höndum bókasafn, 400 bindi, mest góð skáldrit. Gengi mest fé deildarinnar til þess safns. Félagsmenn væru um 80. Þá hefði og sú deild hlutast til um það fyrst, að Þjóðræknisfélagið beitti sér fyrir Ingólfsmálið.

J. Gillies og G. Húnfjörð frá Brown, skýrðu og nokkuð frá starfi þjóðræknisdeildarinnar þar. Væri þar mikill áhugi á því, að kenna börnum Íslenzku, enda væri það ekki eins vandasamt og margir teldu. Deildin hefði og gengist fyrir samskotum í Ingólfssjóðinn. Ennfremur hefði hún og tekið að sér, að halda hátíðlegt 25 ára afmæli hins unga bygðarlags, og hefði það farið ágætlega úr hendi. —

Þá var tekið fyrir *Lesbókarmálið.*

Gerði Bjarni Magnússon tillögu um að framkvæmdarnefndinni skyldi falið að semja um það mál við dr. Sig. Júl. Jóhannesson, að svo miklu leyti sem hún sæi sér fært, því að Jóhann Magnús Bjarnason skáld hefði ekki séð sér fært að verða við tilmælum stjórnarnefndarinnar, um að safna til lesbókar, að því er forseti hefði skýrt frá, og heldur ekki séra Eyjólfur Melan, er nefndin um tíma hafði vonað að gefa myndi kost á sér.

Þessi tillaga var samþykt í einu hljóði.

Næst var á dagskrá *Stúdentagarðurinn og samvinnumálið.*

Var ákveðið að setja þriggja manna nefnd til að athuga það mál og hlutu kosningu séra Rögnv. Pétursson, Hjálmar Gíslason og Árni Sigurðsson.

Þá lá fyrir að ræða um *verðalaunapeningа fyrir Íslenzku-kunnáttu.*

Sigfús Halldórs frá Höfnum gerði tillögu um að væntanlegri framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins skyldi falið að fjalla um það mál óbundnum höndum, þar eð nefndartillögur þær, er samþyktar hefðu verið í fyrra, hefðu, að áliti framkvæmdarnefndarinnar, stofnað félaginu í mjög þungbæran kostnað. — Var þessi tillaga samþykt með öllum greiddum atkvæðum.

Til þess að athuga *bókasafnsmálið,* skipaði forseti þriggja manna nefnd, með samþykki þingheims, voru það þeir Páll Bjarnarson, Jakob Kristjánsson og Jón Húnfjörð.

Þá var tekið fyrir málið um *útgáfu Tímaritsins.* Kom fram tillaga um að henni skyldi haldið áfram, og var hún samþykt. — Var kosin þriggja manna nefnd til þess að gera tillögur um útgáfu ritsins, og voru það þeir séra Ragnar E. Kvaran, Einar P. Jónsson og Árni Sigurðsson.

Þá var *Íslenzkukenslumálið* tekið fyrir og var samþykt að setja í það þriggja manna nefnd. Voru í þá nefnd kosnir Páll Bjarnarson, Ragnar A. Stefánsson og B. B. Olson.

Þá var næst á dagskrá *útbreiðslumál.* Taldi forseti nauðsynlegt að leggja meiri áherzlu á að stofna nýjar deildir. Tillaga var samþykt um að leggja útbreiðslumálin algerlega í hendur stjórnarinnar til næsta þings.

Þá var tekið fyrir málið um hluttöku deilda og kosningu erindreka til þings. Var samþykt að setja það mál í þriggja manna nefnd, og hlutu kosningu Árni Sigurðsson, Thorst. Gíslason og J. J. Bíldfell.

Varnarsjóðsmál Ingólfs Ingólfssonar var því næst tekið fyrir. Var sett í það þriggja manna nefnd, og voru í henni Árni Eggertsson, Ívar Hjartarson og Guðmundur Fjeldsted.

Þá er hér var komið, var degi mjög hallað, og var því samþykt að fresta fundi til næsta dags, kl. 10 f. h.

— — — — — — —

Fundur var settur að nýju fimtudaginn 26. febrúar, kl. 11.30 f. h.

Vararitari las upp fundargerð síðasta fundar og var hún samþykt.

Þá las Mr. Björn Pétursson upp álit nefndar þeirrar, er sett var til þess að gera tillögur um reikningsfærslu og viðskifti félagsins, samkvæmt bendingum yfirskoðunarmanna, og ýmsra þingmanna, og svo um löggildingu þess. Lagði nefndin fram álit sitt í 3 liðum:

Í fyrsta lagi: a) að löggilda félagið við fyrstu hentugleika, b) að haga öllum bankaviðskiftum samkvæmt bendingum yfirskoðunarmanna, og c) að féhirðir setji veð, er framkvæmdarnefnd félagsins ákveði sanngjarnt.

Í öðru lagi: a) að fjármálaritari taki upp bókfærslu, er sýni nákvæmlega aðstöðu hvers einstaklings og deildar við áramót, enda sé skýrsla hans yfirskoðuð, b) að fjármálaritari skrifi öllum meðlimum, er skuldað hafa sig úr félaginu á þessu ári aðeins, og bjóði þeim að borga $1.00 og séu þeir þá nýir meðlimir.

Í þriðja lagi: a) að skjalavörður ábyrgist félaginu öll skjöl, bækur og aðrar félagseignir, sem hjá honum séu varðveittar, og af honum meðteknar og setji hann veð fyrir hvert ár alt að $2000, — en félagið greiði þann kostnað, er af því leiðir, b) að allar félagseignir hjá skjalaverði séu vátrygðar sanngjarnlega á hverju ári. Ákveður félagsstjórnin

upphæðina og borgi kostnaðinn, og c) að allar bækur sendar til Islands séu undanþegnar þessum skilyrðum.

Tillaga kom frá B. B. Olson, studd af H. Bardal, að samþykkja 1. lið a. — Samþykt. — Kom þá tillaga frá Bj. Magnússyni um að fela stjórn félagsins að löggilda það á þessu ári, en samþykt var að vísa því atriði undir ný mál. — Kom tillaga um það síðasta fundardag, frá séra Rögnv. Péturssyni, að fela framkv.nefnd félagsins að löggilda það á þessu ári. Var hún studd og samþykt með öllum greiddum atkvæðum.

Fyrsti liður b) var samþyktur með öllum greiddum atkvæðum og sömuleiðis fyrsti liður c).

Þá var samþyktur með öllum greiddum atkvæðum annar liður a), um bókfærslu fármálaritara.

Við annan lið b) kom breytingartillaga frá séra Rögnv. Péturssyni, þess efnis, að vísa honum aftur til nefndarinnar, að hún orðaði hann öðruvísi. Var hún samþ. með miklum meirihluta atkvæða. Lagði nefndin liðinn aftur óbreyttan fyrir þingið seinni part dagsins. Kom þá tillaga frá J. Húnfjörð, studd af Jóni Jónatanssyni, að samþykkja hann óbreyttan. Gerði J. J. Bildfell þá brt.tillögu við, studda af H. Bardal, að framkv.nefnd félagsins sé falið málið til meðferðar. Urðu töluverðar umræður um það, en brt.tillagan loks samþykt með 23 atkv. gegn 6.

Þriðji liður a) var samþ. með öllum greiddum atkv., sömuleiðis þriðji liður b) og þriðji liður c).

Seinni part dagsins, er brtt. við annan lið b) hafði verið samþykt, kom tillaga frá J. Gillies, studd af B. B. Olson, að samþ. nefndarálitið með áorðnum breytingum. Var hún samþykt með öllum greiddum atkvæðum, og málið þar með afgreitt af þinginu.

Þá er þriðji liður c) hafði verið samþyktur, var ákveðið að fresta fundi til kl. 2 e. h.

— — — — — — — —

Klukkan 2.15 e. h. sama dag var fundur aftur settur og fundargerðin frá síðasta fundi lesin upp og samþykt breytingalaust í einu hljóði.

Þá las Mr. Páll Bjarnarson frá Winnipeg upp álit nefndar þeirrar, er sett hafði verið til þess að gera tillögur um tilhögun Islenzku-kenslu á íslenzkum heimilum í Winnipeg. Var álitið í þrem liðum. — Tillaga kom frá Bj. Magnússyni, og var samþykt í einu hljóði, þess efnis, að skifta fyrsta lið í þrent. Samkvæmt því lagði þá nefndin það til:

I fyrsta lagi: a) að halda áfram íslenzku-kenslunni í heimahúsum undir umsjón félagsnefndar og "Fróns"; b) að flytja laugardagsskólann á vetrum, til þeirra tveggja mánaða á sumrin, er alþýðuskólum er lokað, c) að veita $20 til $30 verðlaun á prófum, þeim er fram úr sköruðu um Islenzku-kunnáttu.

Í öðru lagi: að þar sem nauðsynlegt sé að fá Islenzku viðurkenda námsgrein í æðri skólum (High Schools) fylkisins, þá sé vinnu haldið áfram í þá átt, unz því takmarki er náð.

Í þriðja lagi: að þar sem komið sé á góðan rekspöl, fyrir aðgerðir forseta og stjórnarnefndar félagsins með að fá Islenzku viðtekna við háskólann (University) þá skuli því máli fylgt kostgæfilega til fullnaðarúrslita.

Fyrsti liður a) var samþyktur í einu hljóði. Við fyrsta lið b) kom brtt. frá séra Rögnv. Péturssyni, studd af séra J. A. Sigurðssyni, þess efnis að halda skyldi áfram laugardagskenslu á vetrum, en þar að auki skyldi henni haldið áfram á sumrum. Urðu töluverðar umræður með og móti, en að lokum var brtt. samþykt með öllum þorra atkvæða.

Séra Jónas A. Sigurðsson gerði tillögu

studda af Birni Péturssyni, að samþykkja fyrsta lið c) óbreyttan. Sigfús Halldórs frá Höfnum gerði þá brtt., að leyfa að veita alt að $50 verðlaunum, þar eð miklu meiri nauðsyn bæri til þess að hlynna að Íslenzku-kenslunni hér í Winnipeg en annarsstaðar. Brtt. var feld með miklum meirihluta atkv. og tillaga séra Jónasar samþ. með öllum greiddum atkvæðum.

Annar liður nefndarálitsins var samþ. með öllum greiddum atkvæðum.

Þriðji liður var samþ. með öllum greiddum atkvæðum.

Gerði séra Jónas A. Sigurðsson þá tillögu, en Sigfús Halldórs frá Höfnum studdi, að samþykkja skyldi nefndarálitið með áorðnum breytingum. Var það samþ. með öllum greiddum atkvæðum.

Þá las hr. Jakob F. Kristjánsson upp álit nefndarinnar um bókasafnsmálið:

Í fyrsta lagi: að þar eð ótiltækilegt sé, að stofna bókasafn án þess að trygt sé húsrúm, en erfitt að fá það nú, þá mætti reyna að leita til Carnegie bókasafnsins hér, að það varðveiti bækur félagsins og ábyrgist þær, enda taki það íslenzkan starfsmann að safninu, og heimili honum nægan tíma frá öðrum störfum, til þess að halda góðu lagi á íslenzku bókunum.

Í öðru lagi: Komist félagið að þessum samningum, heimili þingið væntanlegri nefnd að leita til útgefenda og rithöfunda um bókagjafir og ennfremur að nota alt að $200 á næsta ári til bókakaupa.

Í þriðja lagi: takist nefndinni ekki þetta, skuli hún íhuga aðra möguleika og leggja álit sitt um þá fyrir næsta þing.

Samþykt var að ræða hvern lið fyrir sig.

Sigfús Halldórs frá Höfnum benti á það dæmalausa hirðuleysi um bækur, jafnvel enskar, er ætti sér stað á Carnegie safninu. Klemens Jónasson vildi að sem mestu af gömlum, sjaldgæfum íslenzkum bókum, er nú væru að farast hér vestra, yrði bjargað á þetta fyrirhugaða safn.

Við fyrsta lið kom brtt. frá séra Jónasi A. Sigurðssyni, þess efnis, að hann skyldi hljóða svo:

"Með því að nefndin álítur ótiltækilegt að stofna bókasafn, án þess að því sé trygt húsnæði, leggur hún til að kosin sé þriggja manna milliþinganefnd til þess að athuga málið".

Þessi brtt. var studd og samþykt með öllum greiddum atkvæðum gegn 2.

Við annan lið gerði Sigfús Halldórs frá Höfnum þá brtt., að hann skyldi falla í burtu. Var hún studd af séra Jónasi A. Sigurðssyni. Brtt. við brtt. kom frá séra Rögnv. Péturssyni, studd af Birni Péturssyni, að í stað liðsins komi nýr annar liður, er hljóði svo: 'Nefndin leggur til að væntanlegri 3 manna milliþinganefnd sé falin varðveizla þeirra bóka, er bókasafninu kann að áskotnast. Var þessi brtt. við brtt. samþ. með öllum þorra atkvæða.

Við þriðja lið nefndarálitsins kom sú brtt. frá séra Rögnv. Péturssyni, studd af séra Jónasi A. Sigurðssyni, að liðurinn falli í burtu, en í stað hans komi hinn upprunalegi annar liður nefndarálitsins, með litlum breytingum, er hljóði svo: "Takist milliþinganefndinni að komast að samningum á húsrúmi fyrir bókasafnið, felur þingið nefndinni, að fara þess á leit við útgefendur og rithöfunda, í nafni félagsins, að gefa því bækur, og að sjá um það eftir megni, að forða dýrmætum bókum hér vestra frá glötun. Ennfremur heimilar þingið nefndinni, að nota alt að $200 á næsta ári til þess að kaupa þær bækur, sem ekki fást gefnar og hún álítur nauðsynlegar." Þessi brtt. var samþykt.

Því næst var nefndarálitið samþ. með áorðnum breytingum og milliþinganefndin kosin. Var hún skipuð þeim Páli

Bjarnarsyni, Arnljóti B. Olson og séra Rúnólfi Marteinssyni.

Þá lá næst fyrir málið um varnarsjóð Ingólfs Ingólfssonar.

Lýsti framsögumaður nefndarinnar, Arni lögmaður Eggertsson, að álitið væri til, en nefndin kysi að bíða þar til allir nefndarmenn væru viðstaddir.

Séra Jónas A. Sigurðsson óskaði þess, að álitið kæmi samt fram, og séra Ragnar E. Kvaran óskaði þess, að stjórnarnefndin skýrði þinginu frá Ingólfsmálinu.

Ívar Hjartarson kvað nefndina hafa komið sér saman um, að leggja ekki málið fram nema allir nefndarmenn væru viðstaddir, og Árni lögm. Eggertsson kvaðst álíta það persónulega móðgun við sig, ef málið yrði skýrt eða kæmi fram á undan nefndarálitinu.

Var málinu þá skotið á frest, og samþykt tillaga frá Jakob F. Kristjánssyni að taka fyrir *ný mál.*

Las forseti þá fyrst upp ávarp Jóhannesar glímukappa Jósefssonar. Leggur hann til, að Þjóðræknisfélagið gangist fyrir stofnun glímufélaga meðal Vestur-Íslendinga, og veiti nauðsynlega liðveizlu málinu til tryggingar.

Verði tillaga þessi samþykt, lofar hann að leggja til $100 á hverju ári í 10 ár, er verja skal til verðlaunakaupa handa íslenzkum glímumönnum, því aðeins þó, að glímt verði um verðlaunin á mótum í sambandi við árlegt þing Þjóðræknisfélagsins og undir þess umsjón.

Þessu bréfi hr. Jóhannesar Jósefssonar var tekið með dynjandi lófaklappi. Var samþykt að setja þriggja manna nefnd til þess að íhuga málið, og í nefndina kosnir Jakob F. Kristjánsson, H. Bardal og Jón Húnfjörð. Kom nefndin fram með tillögur sínar daginn eftir sem hér fylgir:

Í fyrsta lagi: að þingið samþykki tillögu Jóhannesar Jósefssonar.

Í öðru lagi: að fela 3 manna milliþinganefnd stofnun glímufélags í Winnipeg og víðar.

I þriðja lagi: að þingið skori á deildir að fylgja þeirri nefnd af alefli.

Í fjórða lagi: að framkv.nefnd félagsins sé falið að veita forstöðu glímumóti í sambandi við þingið ár hvert.

I fimta lagi: að þingið veiti milliþinganefndinni alt að $100 í þarfir þessa máls.

Í sjötta lagi: að fela forseta að þakka Jóhannesi í nafni félagsins hið höfðinglegða boð, og tilkynna honum að því sé tekið.

Var samþykt að ræða nefndarálitið lið fyrir lið.

Töluverðar umræður urðu um fyrsta lið, en að lokum var hann samþyktur með tillögu frá séra Jónasi A. Sigurðssyni, studdri af Birni Péturssyni.

Við annan lið kom fram brtt. frá Birni Péturssyni um að kjósa 5 menn í milliþinganefnd, en ekki 3. Var sú brtt. feld með 20 atkv. gegn 15, og liðurinn síðan borinn upp og samþyktur.

Þriðji liður var samþ. samkv. till. frá B. B. Olson, studdri af G. Húnfjörð.

Fjórði liður samþ. í einu hljóði.

Um fimta lið urðu langar umræður, unz Björn Pétursson gerði tillögu um að slíta þeim, studdri af dr. Sig. Júl. Jóhannessyni. Var hún samþ. og liðurinn síðan borinn upp og samþ. í einu hljóði.

Sjötti liður samþ. í einu hljóði.

Þá var nefndarálitið alt borið undir atkv. og samþ. með öllum greiddum atkv.

Þá var samþ. tillaga frá Árna lögm. Eggertssyni, studd af J. Gillies, að fresta kosningu milliþinganefndar til síðari hluta dags, þar eð eigi fengust nægilega margir útnefndir. Var það gert og gengið til kosninga um þá 4: Jakob Kristjánsson, Sigfús Halldórs frá Höfnum, Jón Tómasson og Eirík Ísfeld. Voru hinir þrír

fyrstnefndu kosnir í milliþinganefndina.

Þá kom fram tillaga frá Sigfúsi Halldórs frá Höfnum þess efnis, að tekin skyldi á dagskrá bending G. Húnfjörðs, um að íslenzkum Winnipeg-börnum sé komið fyrir á íslenzkum sveitabæjum í sumarfríinu. Var það samþ. með öllum greiddum atkvæðum.

G. Húnfjörð gerði till. um að kjósa í þetta mál 5 manna milliþinganefnd, skipaða 3 konum og 2 körlum. Var hún studd og samþ. Samþ. var að fresta kosningu í nefndina til næsta dags, þar eð svo fáir voru eftir á fundi. Var svo gert og hlutu þá kosningu: Mrs. P. S. Pálsson, Mrs. H. Davíðsson, Miss I. Björnsson, Sig. Oddleifsson og J. Jóhannesson.

Þá var samþykt að fresta þingfundi til kl. 9.30 f. h. næsta dag.

— — — — — — — —

Næsta dag, föstudag 27. febr., var fundur settur á sama stað, kl. 10.05 f. h.

Ritari las upp fundargerð síðasta fundar og var hún samþ. í einu hljóði.

Ingólfsmálið var þá næst á dagskrá. Las framsögum. nefndarinnar, Árni lögm. Eggertsson upp nefndarálitið, og gerði því næst grein fyrir því í all-langri og ítarlegri ræðu. Spunnust töluverðar umræður út úr því og ekki allar hitalausar. Var skotið á frest að ræða álitið unz emembættismannakosningunni væri lokið. Var það í 4 liðum:

1) Nefndin leggur til að nefndin, er kosin var 19. des. á almennum borgarafundi í Winnipeg, haldi áfram að starfa unz hún sé leyst frá starfi sínu á alm. fundi í Wpg., þar sem þeir einir hafi atkv.rétt, er gefið hafi í varnarsjóðinn.

2) Ennfremur að frekar sé reynt að fá Ingólf Ingólfsson fluttan til Stony Mountain, svo hentugra yrði að halda samb. við hann, og gera fyrir hann það, sem nauðsynlegt væri í framtíðinni og kringumstæður leyfðu.

3) Að þar sem gögn þau, er nefndin hefir, benda á það, að maðurinn sé ekki með fullri rænu, þá leggur nefndin það til, að gengið verði úr skugga um það eftir að hann hefir verið fluttur til Stony Mountain.

4) Ennfremur að afgangur varnarsjóðsins sé geymdur í Provincial Savings Bank, í sérstökum "trust account".

Að loknum kosningum var Ingólfsmálið tekið fyrir á ný. Kvað forseti stjórnarnefndina vilja gera þinginu reikningsskil fyrir samskotafénu, en til þess þyrfti hún að ganga af þingfundi fáeinar mínútur. Var samþ. að málið skyldi ekki frekar rætt unz stjórnarnefdin hefði skilað af sér. Tók séra Jónas A. Sigurðsson forsetastólinn, meðan fráfarandi stjórnarnefnd gekk af fundi.

Að því loknu las forseti, séra A. E. Kristjánsson upp skýrslu um samskotin, en gjaldkeri H. Gíslason lagði fram sundurliðaðan reikning. Safnast hafði $4111.50 — útgjöld alls orðið $3228.83 og því skilað í félagssjóð afganginum $882.67. Voru þessar skýrslur forseta og gjaldkera samþ. sem lesnar, með öllum greiddum atkv.

Því næst var nefndarál. rætt lið fyrir lið.

Um fyrsta lið urðu nokkrar umr., unz till. kom frá séra Rögnv. Péturssyni, studd af dr. Sig. Júl. Jóhannessyni, þess efnis að fella liðinn burtu. Var tillagan samþykt með öllum þorra atkvæða.

Um 2) lið urðu töluverðar umr. Fanst fljótt að mörgum þótti ærið varhugavert að binda hendur stjórnarnefndarinnar, að nokkru sérstöku leyti í þessu máli. Eftir nokkra stund bar séra R. E. Kvaran fram rökstudda dagskrá, með aðstoð dr. Sig. Júl. Jóhannessonar, svohljóðandi:

"Í því trausti, að stjórnarnefnd félagsins reyni að afla sér upplýsinga um, hvort ekki megi frekar létta raunir Ingólfs Ingólfssonar, og í því trausti að hún verji ekki fé úr sjóði þeim, er við nafn

hans er tengdur, í öðru skyni, til næsta þings, tekur þingið fyrir næsta mál á dagskrá".

Þessi dagskrá var samþ. með öllum þorra atkv. og málið þannig afgr. af þinginu.

Kl. 1.30 sama dag var fundur settur aftur. Fundargerð síðasta fundar lesin upp og samþykt og síðan gengið til embættismannakosninga.

Árni lögm. Eggertsson stakk upp á sr. J. A. Sigurðssyni sem forseta. Einnig var tilnefndur J. J. Bíldfell, en hann dró sig úr kjöri. Þá var og tilnefndur fráfarandi forseti, séra A. E. Kristjánsson, og útnefningum því næst lokið.

Forseti var kosinn séra J. A. Sigurðsson; varaforseti séra Ragnar E. Kvaran gagnsóknarlaust; ritari Sigfús Halldórs frá Höfnum, gagnsóknarlaust; vararitari Arni Sigurðsson frá Wynyard, í einu hljóði; féhirðir í einu hljóði H. Gíslason; varaféhirðir Páll Bjarnarson frá Winnipeg, í einu hljóði; fjármálaritari í einu hljóði Klemens Jónasson frá Selkirk; varafjármálaritari P. S. Pálsson, í einu hljóði; skjalavörður A. B. Olson, í einu hljóði; yfirskoðunarmenn Björn Pétursson og Halldór S. Bárdal.

Meðan fráfarandi stjórnarnefnd gekk af fundi var Tímaritsmálið tekið fyrir. Las framsögumaður Tímaritsnefndarinnar séra R. E. Kvaran, upp álitið, og var það í fjórum liðum. Lagði nefndin til:

1) að frkv.n. fél. sé falið að gefa út ritið á næsta ári, með sama sniði og áður.

2) ennfr. að sömu nefnd sé falið að ráða ritstjóra með sömu kjörum og áður.

3) vill nefndin benda á að till. endurskoðenda síðasta árs um meðferð á eldri árg. Tímaritsins hafa ekki verið teknar til greina, nfl. að heimta inn öll óseld eint. þeirra. Sé þetta því nauðsynlegra, sem erfitt sé í fljótu bragði að átta sig á því, hve mikið sé útist. óselt af ritinu.

4) virðist nefndinni óheppilegt að dreift sé ábyrgð á ýmsa útsölumenn, en fél. eigi ekki aðgang að neinum sérstökum. Vill nefndin leggja til, sé það lögum samkvæmt, að valinn sé aðalútsölumaður, er trygður sé með hæfilegu veði. Annist hann útsölu og ábyrgist, enda hljóti hann sanngjarna þóknun fyrir.

Álitið var rætt lið fyrir lið.

1), 2) og 3) liður samþ. í einu hljóði.

4) lið dró nefndin til baka, þar eð hann kom í bága við stjórnarskrá félagsins.

Var nefndarálitið síðan samþykt með þeirri breytingu, að 4) liður félli burtu, og málið þannig afgreitt.

Þá lagði fram álit sitt nefnd sú, er kosin hafði verið til að gera tillögur um þátttöku deilda í fundarhöldum og um fulltrúakosningar. Lagði nefndin til:

Að fulltrúar heimadeilda utan Wpg. hafi hlutfalls atkvæðamagn við Winnipeg deildina, sem lögð sé til grundvallar, t. d.:

a) að ef einn þriðji löglegra fél. þeirra deilda sé mættur í þingbyrjun, skal erindreki hverrar utanbæjardeildar geta greitt einn þriðja atkv. löglegra fél. úr sömu deild.

b) Söm skulu hlutföll, hve margir sem mæta úr Winnipegdeild.

c) Tala löglegra félaga skal ákveðin með nafnakalli í byrjun hvers þingfundar.

d) Fjölgi eða fækki fél. á fundi skulu atkv. þeirra bætast við eða dragast frá, og eykst þá eða minkar atkvæðamagn utanbæjarfulltrúa að sama skapi.

Sitji einstakl. úr utanbæjardeild þingfund, dragist atkvæðamagn þeirra frá atkvæðamagni fulltrúans úr sömu deild.

Þar sem till. nefndarinnar fóru fram á lagabr. var samþykt að láta málið bíða til næsta þings, en að senda öllum deildum afrit af nefndarál. fyrir næsta þing, svo að þær gætu tekið afstöðu til þess. —

Þá hóf. dr. Sig. Júl. Jóhannesson máls á því, að æskilegt væri að fá frekari vit-

neskju um bók ungfrú M. Ostenso, sem sagt væri að snerti óþægilega Íslendinga hér í Manitoba.

J. J. Bíldfell gat þess að ungfrú Ostenso hefði fengið blað það, er ummælin fluttu í garð Íslendinga, til þess að leiðrétta þau. Eftir nokkrar umr. var samþykt till. frá dr. Sig. Júl. Jóhannessyni, studd af A. B. Olson, um það að Þjóðræknisfélagið fari þess á leit við félag það, sem væntanlega gefur út bók ungfr. Ostenso, að fá að lesa handritið. Kosin var nefnd til þess, dr. Sig. Júl. Jóhannesson, sr. J. A. Sigurðsson og Páll Bjarnarson.

Þessu næst bar Árni Sigurðsson frá Wynyard fram þá tillögu, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins skyldi senda áskorun til stærsta menningarfélagsins í þessu landi, United Church of Canada,, er það héldi ársþing sitt í sumar, þess efnis, að það kirkjufélag beitist fyrir því, að líflátsdómar hér í Canada verði úr lögum numdir. Var gerður ákafur rómur að þessari tillögu, og samþykti hana allur þingheimur með því að standa á fætur.

Var þá fundi frestað þar til síðar um kvöldið.

Þá er fundur var settur um kvöldið, var fundargerð síðasta fundar lesin og samþykt í einu hljóði.

Þá lagði sr. Rögnv. Pqtursson fram álit nefndarinnar, er sett var til þess að athuga Stúdentagarðinn og samvinnumálið. Var það í tveim liðum:

I. Nefndin leggur til að endurnýjað sé ákvæði þingsins frá því í fyrra, um að leitast verði við að vekja almennan áhuga fyrir Stúdentagarðsmálinu, framkvæmdarnefndin gengist fyrir samskotum og komi fénu til hlutaðeigenda um eða fyrir áramót.

II. Nefndin treystir sér ekki til að gera ákveðnar tillögur í samvinnumálinu — sem í raun réttri er mörg mál — því henni virðist svo sem þingið sé búið að binda sig svo með fjárveitingum, að ekki muni mikið afgangs. Eitt mál vill nefndin þó biðja þingið að athuga og gera tillögur um, er verða mætti til nytsemdar í framtíðinni, en þetta mál er íslenzka bókaverzlunin hér vestra. Eftir verzlunarskýrslum Íslands að dæma frá 1921, er þetta aðal viðskiftagrein Íslands og Canada. Það ár eru fluttar út bækur hingað fyrir 13,200 kr., en allur annar útflutningur nemur aðeins 500 kr.. Þjóðræknismálum vorum er hin stærsta nauðsyn á, að hingað flytjist sem mest af nýtum og góðum íslenzkum bókum, og á því verði, sem almenningi er kleift að kaupa. Góð samvinna er nauðsynleg í þessu efni.

Skýringar komu frá framsögum., að fjarri væri, að þessu viðskiftamáli væri svo komið sem skyldi, og var niðurstaða nefndarál. sú, að ef ekki fengist lögun á því, væri þýðingarlaust að leitast fyrir um samvinnu í öðrum efnum.

Álitið var rætt lið fyrir lið og I. liður samþyktur í einu hljóði.

Um II. lið urðu nokkrar umræður. — Gerði séra R. E. Kvaran þá brtt. að nefndin leggi til að málinu sé vísað til stjórnarnefndarinnar, að hún hafi allar þær framkvæmdir, sem hugsanlegar séu á næsta ári. Var brtt. sr. Ragnars samþykt í einu hljóði. Var nefndarálitið því næst samþ. alt, með þeirri brtt. í einu hljóði.

Þá stóð upp fráfarandi varaforseti, Gísli Jónsson, og gat þess að stjórnarnefndin hefði komið sér saman um að leggja það til við þingið, að gerður yrði heiðursfélagi Þjóðræknisfélagsins skáldið og rithöfundurinn Einar Hjörleifsson Kvaran, sem mestum ljóma hefði varpað á íslenzkar bókmentir út um heiminn, nú-

lifandi íslenzkra manna, og væri mæringur íslenzkra bókmenta.

Var þessi tillaga samþykt með miklum fögnuði, og stóð allur þingheimur á fætur.

Þakkaði Einar Kvaran þann sóma, er félagið hefði sýnt honum.

Þá tók til máls fráfarandi forseti, séra A. E. Kristjánsson, og þakkaði þingheimi og meðnefndarmönnum þann heiður, velvild og ljúfu samvinnu, sem sér hefði verið sýnd í tvö ár, ávarpaði svo hinn nýkosna forseta og óskaði honum af alhug til hamingju í embættinu.

Hinn nýkosni forseti, séra Jónas A. Sigurðsson, þakkaði því næst þingheimi kosninguna og fráfarandi forseta hans mikla og góða starf og hin hlýju orð í sinn garð.

Flutti hann þvínæst snjalt kvæði og var gerður að því hinn bezti rómur.

Þá bað forseti þingheim að syngja Eldgamla Ísafold og God Save the King.

Að því búnu sagði forseti þingi slitið og óskaði öllum fararheilla.



# Félagatal 1924-1925.

**Heiðursfélagar:**

J. Magnús Bjarnason,
Elfros, Sask.
Þorbj. Bjarnarson,
Pembina, No. Dan.
Séra Kjartan Helgason
prófastur
í Hruna í Árnessýslu
Stephan G. Stephanson,
skáld.
Bóndi við Markerville,
Alberta.
Vilhj. Stefánsson,, L.L.D.
landkönnunarmaður
3755 Broadway, New York
Próf. Halld. Hermannsson
Khöfn, Danm.
Próf. Svb. Sveinbjörnsson
tónskáld
Reykjavík, Ísland.
Einar H. Kvaran rithöf.
Reykjavík.

**F É L A G A R:**

**Á Íslandi:**

Séra Kjartan Helgason,
Hruna, Árnessýslu.
Óskar Borg,
Reykjavík.
Hólmfríður Árnadóttir,
Reykjavík.
Séra Friðr. Hallgrímsson,
Reykjavík.
Guðm. Th. Gíslason,
Reykjavík

**Árborg, Man.:**

Dr. S. E. Björnsson
P K, Bjarnason
Mrs. G. Gíslason
G. O. Einarsson
Lárus Guðmundsson
Böðvar H. Jakobsson
Friðrik Níelsson
Leslie Pétursson
Sigurjón Sigurðsson

**Árnes, Man.:**

Egill Johnson
Guðrún Johnson
Björn M. Magnússon
Bjarni Pétursson

**Baldur, Man.:**

Sigurður Antoníusson
C. Benedictson

**Bifröst, Man.**

Hallur Thorvarðsson

**Blaine, Wash.:**

John Veum
Þórdís Veum
Stefán Ólafsson

**Brown, Man.**

Halldór Anderson
Mrs. S. Anderson
Sigfús Anderson
Sigurjón Bergvinsson
Thorkell Bergvinsson
Rannveig Gillis
Oddný Gíslason
Margrét Gíslason
J. S. Gillis
Sigfús V. Gillis
Olafía Gillis
Th. G. Gillis
Árni R. Gillis
Andy Gíslason
Mrs. John S. Gillis
Óskar Gillis
Lovísa Gíslasno
T J. Gíslason
Mrs. J. M Gíslason
J. M. Gíslason
Jón J. Húnfjörð
Leonard Helgason
Kristbjörg Helgason
Guðm. J. Húnfjörð
Valgerður Isaacson
Stefán Johnson
Herdís Johnson
Guðbjörg Johnson
Sigríður Johnson
Ingibjörg Kristjánsson
Júlíana M. Kristjánsson
Sæunn Kristjánsson
Árni Ólafsson
Gísli Ólafsson
Ólafur A. Ólafsson
Gunnar Th. Oddsson
Sigurður Ólafsson
Marínó Ólafsson
Sigríður Ólafsson
Ólafur V. Ólafsson
Ragnar Ólafsson
Ragnheiður Ólafsson
Dóra Oddsson
Óskar Rist
T O. Sigurðsson
Mrs. T. O. Sigurðsson
Ester Thorlaksson
Gunnar Thorlaksson
Valdem. S. Thorlaksson
Jóhann Tómasson
Jónatan Tómasson
Tómas Tómasson

**Churchbridge, Sask.:**

Gunnar Gunnarsson
Magnús Hinriksson
Pálína M. Jónsson
S. Helga J. Jónsson
Séra Jónas A. Sigurðsson
Stefanía Sigurðsson
Björn Th. Sigurðsson
Jón S. Sigurðsson
Guðr. Elín S. Sigurðsson
Eyjólfur Gunnarsson
Gísli J. Markússon
G Franklín Gíslason
Jón Gíslason
Jón Freysteinsson
Halldór B. Jónsson
Marteinn E. Jónsson
Valdimar H. Jónsson
Einar Sigurðsson
Þorst. Sveinbjörnsson
H. Sigríður Þorbergsson
Þorb. Þorbergsson
Sigurður Jónsson

**Dafoe, Sask.:**

Jón Jónsson, frá Mýri.

**Elfros, Sask.:**

Dr. Jóhannes Pálsson
J. Magnús Bjarnason
J G. Gíslason
G. Guðmundsson
J. J. Sveinbjörnsson
Helgi Sveinbjörnsson

**Foam Lake, Sask.:**

Jón Einarsson
Mrs. J. Einarsson
Sveinn Eiríksson
Mrs. Helga Eyjólfsson
Guðm. E. Guðmundsson
H J. Helgason
Björg Inge
Gróa Inge
Mrs. I. E. Inge

Málfríður Inge
Mrs. J Janusson
Jón Janusson
Rúna Johnson
Margrét Johnson
Stefán Kr. Johnson
J O. Norman
Svanhugi Norman
Ella Norman

**Framnes, Man.:**

Kristín Brynjólfsson
Elín Einarsson
Sigurður Guðmundsson
Magnús Gíslason
Mrs. M. Gíslason
Mrs. Tr. Ingjaldsson
Einar Gíslason
Gíslína Gíslason
Halli Gíslason
Stefán Gíslason
Helga Gíslason
Guðmundur Gíslason
Njáll Gíslason
Mrs. S. E. Holm
Sigurður Pálsson
Daníel Pétursson
Thora Pétursson
Guðrún Magnússon
Ingigerður Magnússon
Margrét Magnússon
Hólmfríður Níelsson
Páll Th. Stefánsson
Thorgrímur Sigurðsson
Thorvaldur Pétursson
Bergur Vigfússon
Sigurður Vopnfjörð
Jóhann Vigfússon

**Glenboro, Man.:**

R. J. Davíðsson
F Frederickson
Guðm. S. Heiðmann
Alex Eldjárn Jónsson
Theódór Jónsson
G. Lambertsen
G J. Oleson
Kristín Oleson
J. Sigtryggsson

**Geysir, Man.:**

Thordur Anderson
Björgvin Anderson
Einar Benjamínsson
Thórdís Benjamínsson
Hólmfríður Brynjólfsson
Tómas Björnsson
T Böðvarsson
Sesselja Böðvarsson
Jón Skúlason
W. Sigvaldason
Skúli Skúlason

**Gimli, Man.:**

Óli W. Ólafsson
Capt. Baldvin Anderson
Séra Jóh. P. Sólmundsson
Ásdís Hinriksson
Jón Magnússon
Elías Jóhannsson
Hannes Kristjánsson
Sveinn Björnsson
Lárus Árnason
Kristján Pétursson
Sigurbjörg Stefánsson
Anna Halldórsson
W. J. Árnason
A. D. Westmann
Þórður Þórðarson
Anna Þórðarson
Margrét Karvelsson
Leifur Heppni Karvelsson
Sigrún Anna Karvelsson
Karvel S. Karvelsson
Oddur Anderson
Guðlaug B. Anderson
Guðrún V. Anderson
Stefán S. Anderson
Árni S. Anderson
Elín María Anderson
Gísli E. Anderson
Lára S. Anderson
Jakob Briem
B. B. Olson
Mrs. C. O. L. Chiswell
G Thompson
Séra Sig. Ólafsson
Ingibjörg Ólafsson
Evangeline S. Ólafsson
Josephine S. Ólafsson
Freyja Elinore Ólafsson
Séra E. J. Melan
Ólafía Johnson
Guðmundur Fjeldsted
Guðni Thorsteinsson
Bergþór Þórðarson
Stefán Eldjárnsson
Egill Egilsson
Kristrún Gíslason
Brynjólfur Þorláksson
Finnbogi Johnson
Gísli Sveinsson
Mrs. Guðr. Stefánsson

**Grand Forks, N. D.:**

Dr. G. J. Gíslason

**Gull Lake, Sask.:**

Jóhann Stefánsson

**Hove, Man.:**

Steini S. Skagfeld
Jóhannes Sigurðsson
Björn Sigurðsson
Jóhanna Sigurðsson
Anton Sigurðsson
Halldóra Vigfússon
J K. Vigfússon
Kristján Vigfússon
Finnur Johnson

**Hnausa, Man.:**

Gunnar Helgason
S J. Vidal
Karvel J. Konráðsson
Bjarni Marteinsson
Finnbogi Finnbogason
Frímann Frímannsson
Ingibjörg Magnússon
Ingibj. M. W. Magnússon
Valg. J. O. Magnússon
B. Gröndal Magnússon
Ásta M. M. Magnússon
Einar Konráð Magnússon
Magnús Magnússon
Valgerður Sigurðsson
Helga Þ. S. Sigmundsson
Gísli Sigmundsson
Gestur Vídal
Sigurlaug Helgason

**Kandahar, Sask.:**

Carl F. Frederickson
Matthildur Frederickson

**Lancer, Sask.:**

Séra Carl J. Olson

**Leslie, Sask.:**

Bjarni Davíðsson
Kristbjörg Johnson
Rósa Johnson
Thorsteinn Guðmundsson
Páll Guðmundsson
L. B. Nordal
Rósa Nordal
Dísa Nordal
Anna K. Nordal
Herann G. Nordal
Mrs. H. G. Nordal
Jóhannes G. Nordal
Jóel Peterson
Sigurbj. Sigurðsson
Anna Sigurbjörnsson
Bjarni Thordarson

**Lundar, Man.:**

Kristján Daníelsson
Snæbjörn Einarsson
Sigurður Gíslason
Vigfús Guttormsson
M. Halldórsson
Halldóra Jóhannesson
Dr Sig. Júl. Jóhannesson
Friðrik A. Johnson

Alex A. Johnson
Sigríður Johnson
Valdemar K. Johnson
Thorsteinn Johnson
Katrín Johnson
Páll Johnson
Kjartan Johnson
Oddfríður Johnson
Hermann Johnson
Séra A. E. Kristjánsson
Anna Kristjánsson
Hjálmar Kristjánsson
Sigrún Kristjánsson
Daníel Líndal
Sigurður Magnússon
Oddur S. Magnússon
Helgi Odsson
Jóhann S. Sigurðsson
Bergþóra K. Sigurðsson
Sigurður T. Sigurðsson
Halldóra D. Sigurðsson
Sigurður J. Sigurðsson
Ragnheiður Sigurðsson
Grímúlfur J. Sigurðsson
Ingimundur Sigurðsson
Ásta Sigurðsson
Skúli Sigfússon
Jón Straumfjörð
Eiríkur Scheving
Guðjón Thorkelsson
T. O. S. Thorgrímsson

**Minnewaukan, Man.:**

Jóhann P. Pálsson

**Minneota, Minn.:**

Gunnar B. Björnsson
Séra Gutt. Guttormsson
Mrs. María G. Árnason

**Markerville, Alta.:**

Jóhann Björnsson
Sigurást Björnsson
Jónas J. Húnfjörð
Sigtr. Jóhannsson
Þory Johnson
Stephan G. Stephansson
Baldur Stephansson
Rósa Stephansson
Mrs. Jóný Sigurðsson
Helga Stephansson
Ethel Stephansson
Florence Stephansson
Lillie Stephansson
Jakobína Stephansson
Benedikt Stephansson
Jón Stephansson
Helga Stephansson
Hrefna Stephansson
Stephan Stephansson
Sigurlína Stephansson
Jakob K. Stephansson

**Red Deer, Alta.:**

Ófeigur Sigurðsson
Bjarnína Sigurðsson
Jórunn G. Sigurðsson

**Mary Hill, Man.:**

Jón Sigurðsson

**Mather, Man.:**

Joseph Thompson

**Mozart, Sask.:**

Jón Björnsson
Jón Finnsson
Friðrik Guðmundsson
Anna P. N. Johnson
Björn Hafsteinn Johnson
Th. S. Laxdal
Kristján Pétursson
Margrét Stefánsson
J. S. Sigurðsson
Mrs. J. S. Sigurðsson
Marino Sigurðsson
Magnús Sigurðsson
Magnús J. Skagfeld
Paul Tómasson

**New York:**

Jóhannes Jósefsson
Miss Thórstína S. Jackson
Dr. Vilhj. Stefánsson

**Oak Point, Man.:**

Séra Guðm. Árnason
Sigríður Árnason
Helga Árnason
Hrefna Árnason
Einar Árnason
Daníel Halldórsson
Johann Johnson
Andrés J. Skagfeld

**Otto, Man.:**

Kristján Þorvarðarson
Þorsteinn Þorsteinsson

**Pembina, N. D.:**

Thor. Bjarnarson

**Piney, Man.:**

Sigurður J. Magnússon
Jón Stephansson
Jón Jónsson

**Porter, Minn.:**

Bjarni Guðmundsson

**Poplar Park, Man.:**

Sigurður Sigurðsson

**Riverton, Man.:**

H. J. Austmann
Ólafur E. Briem
Mrs. Jóhann Briem
Valdimar Benediktsson
Skúli Hjörleifsson
Þorgrímur Jónsson
Helga Jóhannesson
Stefanía Magnússon
Friðgeir Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Skúli Skúlason
H. G. Skúlason
Th. Thorarinsson
S. Thorvaldson
Thorvaldur Thorvaldsson
Mrs. Sveinn Thorvaldson
Oddur Þorsteinsson

**Seattle, Wash.:**

Jóhann Jónsson
Séra Rún. Marteinsson
Ingunn Marteinsson

**Selkirk, Man.:**

Friðfinnur Austdal
Mrs. Elízabet Austdal
Ásgeir Bjarnason
Th. Bjarnason
Mrs. Elízabet Bjarnason
Bjarni Dalmann
G. E. Dalmann
S. E. Davidson
Guðm. Erlendsson
Jón Elíasson
Guðjón Friðriksson
Thorbergur Fjeldsted
Þorvaldur Guðmundsson
Runólfur Hinriksson
Jón Hinriksson
María Hinriksson
Runólfur Halldórsson
Sigurður Ingimundarson
Trausti Ísfeld
Björgvin Jóhannesson
Bjarni Jónasson
Hinrik Johnson
Jóna Jónasson
Klemenz Jónasson
Sigurbjörn Jónsson
Sigurður Indriðason
Mrs. Sigurbj. Jónsson
Páll Magnússon
Lovísa K. Magnússon
Kristín Ólafsson
Jón Ólafsson
Kristján Pálsson
Mrs. Kristj. Pálsson
Þorbjörg Pálsson
Jóhann Pétursson
Joseph Schram
Th. Sveinsson

Sigurður Sigurðsson
Sigurgeir Sigvaldason
Sigurgeir Stefánsson
Jón Sigurðsson
Jóhann Sigfússon
Guðrún Sigurðsson
Mrs. Th. Sveinsson
Pétur Sigurðsson
Árni Sigurðsson
Bjarni Thorsteinsson
Séra N. S. Thorláksson

**Siglunes, Man.:**

Guðmundur Jónsson

**Tacoma, Wash.:**

E. S. Guðmundsson

**Vestfold, Man.:**

Björn Byron
Auður Byron
Helga Byron
Kári Byron
Einar H. Einarsson
Guðbjörn Goodman
Rúna Mýrdal
Ina Mýrdal
Helgi Olson
Guðm. Stefánsson
Kristján Stefánsson
Ingi Stefánsson

**Vogar, Man.:**

B. Eggertsson

**Víðir, Man.:**

Gunnlaug Holm
M. Jónasson
Ingigerður Jónasson
Guðrún Magnússon
Jón Sigurðsson
Baldvin Sigurðsson
Hjörtur J. Jónasson
Magnús Jónasson

**Winnipeg Beach, Man.:**

Jón Kernested

**Winnipeg, Man.:**

Dr Kr. J. Austmann
Ólöf G. Austmann
Jón Austmann
Jón Ásgeirsson
Gunnar Árnason
Vilborg Anderson
Pétur Anderson
Guðlaug K. Anderson
Gyða Anderson
Ólína Anderson
Pétur Stefán Anderson
Egill J. O. Anderson
Stefán Abrahamsson
Thorst. Ásgeirsson
Lewis Anderson
Mrs. Carl Anderson
Skúli Benjamínsson
Sig. Björnsson
Jón J. Bíldfell
Halldór S. Bardal
Ólafur Bjarnason
Oddrún Bjarnason
Kjartan Bjarnason
Ingibjörg Björnsson
Guðrún Borgfjörð
Guðm. M. Bjarnason
Gísli Blöndal
Gróa Brynjólfsson
Guðm. Bergmann
Sigfús S. Bergmann
Richard Beck
Páll Bjarnarson
Daníel Bjarnason
A. S. Bardal
Páll S. Bardal
Andrés J. Björnsson
Jóhanne Ellice
Friðlundur Jónsson
John S. Gillies
Mrs. John S. Gillies
John Einarsson
Mrs. John Einarsson
Jóhanna Cooney
Ragnh. Davíðsson
W. A. Davíðsson
H. J. Davíðsson
Björg Carson
Guðv. Eggertsson
Árni Eggertsson
Guðm. Eyford
Stefán Eymundsson
Stefán Einarsson
Hávarður Elíasson
Bjarni Finnsson
Inga Furney
Hjálmar Gíslason
G. R. Guðmundsson
Gunnar Guðmundsson
Hallbera Gíslason
Sigurgrímur Gíslason
Sezelía Gottskálksson
Ingunn Gíslason
Sigríður Gunnlaugsson
Ragnar Gíslason
Elín Hall
Páll Hallsson
Guðjón J. Hjaltalín
Jóhanna Holm
Thorleifur Hansson
Mrs. Thorleifur Hansson
Frank Hansson
Ívar Hjartarson
Sigurður Hlíðdal
G. B. Ingimundarson
Eiríkur Ísfeld
A. P. Jóhannsson
Sigríður Jóhannsson
Jónas W. Jóhannsson
Kári W. Jóhannsson
Grettir L. Jóhannsson
Gísli Jónsson
Guðrún Jónsson
Gunnl. Jóhannsson
G. K. Jónatansson
B. K. Johnson
Thordur Johnson
Einar P. Jónsson
Arngrímur Johnson
J. Jóhannesson
Ásm. Jóhannesson
Mrs. Ásm. Jóhannesson
Halldór Jóhannsson
Stefán Jóhannsson
Jón Jónatansson
Jónas Jónasson
Sigríður Jacobson
Jónas Jónasson
Jóhanna Jónasson
Björg E. Johnson
Helgi Johnson
Valgerður Jónasson
Ingibjörg Jónasson
Hlaðgerður Kristjánsson
Friðrik Kristjánsson
Séra Ragnar E. Kvaran
Þórunn Kvaran
Lúðvík Kristjánsson
Mrs. L. Kristjánsson
Jakob Kristjánsson
Steinunn Kristjánsson
Hannes J. Líndal
Björn Líndal
Björn Líndal
Svafa Líndal
Bjarni Magnússon
Rósa Þ. Magnússon
Agnar R. Magnússon
Böðvar Magnússon
Steinunn Magnússon
Thorbjörn Magnússon
Charles A. Nielsen
Valborg Nielsen
S. F. Ólafsson
Jóhanna Ólafsson
Ben. Ólafsson
Anna Ólafsson
Sig. Oddleifsson
Mrs. Sig. Oddleifsson
Arnljótur B. Olson
Ólafur A. Olson
Margrét Pálsson
Páll S. Pálsson
Ólína Pálsson
Sigfús Pálsson
Rögnv. Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Thorvaldur Pétursson
Margrét Pétursson
Jónas Stefánsson

Ólafur Pétursson
Pétur Jónas Pétursson
Magnús Pétursson
Ólafur Pétursson
Hannes Pétursson
Björn Pétursson
H. Sigurðsson
Fred Swanson
Sigríður Swanson
Jón Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurjónsson
Hildur S. Sigurjónsson
Sigurjón Sigurðsson
J. J. Swanson
E. H. Sigurðsson
Sigurður Sigurðsson
Helgi Sigurðsson
Hreiðar Skaftfeld
Guðbjörg Sigurðsson
Bárður Sigurðsson
Kristín Sigurðsson
Guðrún Sigurðsson
Mrs. Guðrún Pálsson
Þórarinn Johnson
Þorlákur Jónasson
S Halldórs frá Höfnum
Jóhann Sigmundsson
Mrs. J. Sigmundsson
Jódís Sigurðsson
Rooney Stevens
Sigurlaug Sigurðsosn
Inga Sheffley
Kári B. Snyfeld
Ragnar Stefánsson
Guðrún Sveinsdóttir
Jón Tómasson
Soff. Thorkelsson
Jóhanna M. Thorkelsson
Þ Þ. Þorsteinsson
Goðmunda Þorsteinsson
Kolbeinn Thordarson
Eyjólfur Thorsteinsson
Sigurlaug G. Thorláksson
Mrs. Halld. Thorsteinsson
O. S. Thorgeirsson
Hannes Jakobsson
Þorst. Thomson
Ásbjörn Eggertsson
J. G. Gunnarsson
Brynjólfur Holm
Carl Thorláksson
Þorgils Thorgilsson
J W. Thorgeirsson
Jón Guðmundsson

**Winnipegosis, Man.:**

Karitas Brynjólfsson
Jónas Brynjólfsson
Brynhildur Björnsson
Ármann Björnsson
Katrín Egilsson
Guðmundur Egilsson
Guðrún Friðriksson
Gunnar Friðriksson
Óskar Friðriksson
Steini Friðriksson
Þyri Friðriksson
G. Guðbrandsson
Guðjón Guðmundsson
Guðm. Guðmundsson
Kári Goodman
Guðjón Goodman
Finnb. Hjálmarsson
Guðmundur Hannesson
Leó Hjálmarsson
Hugh Jónasson
Guðmundur F. Jónasson
Ágúst Johnson
Ólafur Jóhannesson
G. K. Jónatansson
Thorsteinn Jónsson
Vilhj. O. Jóhannesson
Friðrik H. Jónsson
Friða Jónsson
Ottó Kristjánsson
Guðrún Magnússon
Sigurður Magnússon
Friðf. Stefán Magnússon
Bergljót Magnússon
Sigurður Oliver
Thorsteinn Oliver
Kr. O. Schaldemose
Vigbaldi Stefánsson
Jón Stefánsson
Hjálmtýr Thorarinsson
Alex Thorarinsson

**Wynyard, Sask.:**

H S. Axdal
Sigríður Bardal
Thorhallur Bardal
Hannes Benediktsson
Mrs. H. Benediktsson
Aðalst. Bergmann
Mrs. S. Bergmann
Friðrik Bjarnason
Gestur Bjarnason
Sig. Björnsson
Ásgeir Blöndahl
Árni G. Eggertsson
Mrs. Á. G Eggertsson
Sr. Friðrik A. Friðriksson
Gunnl. Gíslason
Halldóra Gíslason
Valdemar Gíslason
Arnþrúður Goodman
Sigtr. Goodman
Friðrik Guðmundsson
Gunnar Guðmundsson
G. J. Guðmundsson
Emil Grímsson
Ástvaldur S. Hall
Ólafur Hall
Ó Halldórsson
Th. Halldórsson
Guðlaug Hallsson
Jón Hallsson
Ástbjörg Jóhannsson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Miss S. O. Jóhannesson
Bergvin Johnson
Dómhildur Johnson
Halldór Johnson
Kristján Johnson
Ragúel Johnson
S. B. Johnson
Mrs. S. B Johnson
Sezelía Johnson
Thorey Johnson
Valdimar Johnson
Mrs. Valdimar Johnson
Hjörtur Jónatansson
Guðný Josephson
N B. Josephson
Björg Kristjánsson
Hákon Kristjánsson
Hannes Kristjánsson
Jón G. Kristjánsson
Kristbergur Kristjánsson
Margrét Kristjánsson
Svava Kristjánsson
Valdemar Kristjánsson
Stefán Magnússon
Árni Sigurðsson
Hallfríður Sigurðsson
Bjarni Sturlaugsson
Ágúst Sædal
Guðm. Thorarinsson
St. Thorsteinsson
Tobías Tobíasson
Grímur Vestdal
Helga Vestdal
Mrs. P. Vestdal

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

**Áttundi Árgangur, 1926.**

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON




WINNIPEG, MANITOBA.
GEFIÐ ÚT AF ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGI ÍSLENDINGA
1926.

# EFNISYFIRLIT

# Haustgöngur.

Eftir Stephan G. Stephansson.

I. Alla tíð hresti mig haustveðra söngur—
Hlakkaði til þess að fara í göngur —
Brattasti vegurinn var ekki þröngur!

Þarna sem inn í brúnabaugum
Bergsins og upp úr fjallskriðu haugum
Lyngknappar störðu urðar-augum.

Enn þá virðist mér "fagurt á fjöllum"
Fannkergi nú þó að liggi yfir öllum
Kvistum í æskunnar kletta-höllum.

— — —

II. Þá var það orlofið yndis-seiðið
Upprunnið væri mér lengsta skeiðið!
Útilegan og heiða-heiðið.

Þá var það leiðin að afreks-auði,
Að eltast, á fæti, við heimska sauði—
Enn er alt sælla en andlegur dauði.

— — —

III. Fellivetur og fjallabólið
Flestu kviku er heljartólið—
Heimskurnar forðast húsa-skjólið!

En afkoma er þar fyrir ættkvísl nýja.
— Þó ætluð sé til þess að slátra og rýja—
Reynt er, að lífgjöfin hálf er hlýja.

Alt dræpi gaddurinn, guð og vetur.
Gæfan, að kotbóndi "á tugguna setur",
Þeir fyrst að kunna ei búskapinn betur.

— — —

IV. Ennþá í sveitinni sól og mjalli
Setur æsku að gömlum karli,
En man þó hví Halla fórst á fjalli!

27-11-26.

# Hjörtur C. Thordarson.

Eftir **Stephan G. Stephansson.**

*("The flare of Northern Lights started Thordarson on his Quest."—Neil M. Clark í The American Magazine.)*

---

I. Sveiflaði Surtur svigalævi
Hátt yfir hrímjöklum og höfði sveins.
Bláhimins boga bifröstuðu
Norðurljós, um nótt.

Undrandi, óttalaus ómálga hugur
Lét þá í örlög sín ofið viðkvæði Völuspár:
"Vituð ér enn eða hvat?"

Unnið hafði hann óvitandi,
helga heitstrenging: Með höndum sínum
vörðum vitsmuna Völundar-glófum
úr aflinum æ-kvika: að grípa þetta gull

— — —

II. Hefir þú, Hjörtur, úr hugar-firnum
kallað fram, búinn og boðinn
bending þinni að hlýða:
anda ins eilífa lampa.

Lagt í læðing Loka þú hefir,
voldugust vafurlog hamið.

— — —

Þú lærðir galdra hjá guði!

28-11-26.



# Um búakviðu og afnám sýslna.

Eftir **Pál Bjarnarson.**

Tugaldar afmæli Alþingis (930-1930) er í nánd. Undirbúningur afmælishaldsins er þegar í gangi. Alþingi hefir fyrir nokkrum árum lagt fram fé til að semja sögu Alþingis liðna árþúsund, ráðið til verksins sögufróðan og lögkænan mann eða menn, og kemur ritið að líkindum út sjálft afmælisárið sem minningarrit afmælisins. Stjórn Þjóðræknisfél. Íslendinga í Vesturheimi hefir þegar skipað nefnd til að komast að beztu kjörum til heimferðar til fyrirgreiðslu þeim, er vilja fara héðan heim til að taka þátt í afmælishaldinu á Íslandi, og heima er líka farið að ræða um búning þann, sem afmælishaldið þarfnast á Þingvöllum, og nauðsynina að koma honum í kring í tíma. Í þessum tilhaldsbollaleggingum hefir þó ekki, það eg veit, borið á góma minningu þá, sem mestan og vandaðastan undirbúning þarf og jafnframt er svo sjálfsögð þessum merkilegu tímamótum, að sjálft afmælishaldið má varla heita vansalaust þjóðinni, væri minning sú ógerð látin; en það er að reisa við aftur hið forna dómsmálafar í landinu í eins fornum sniðum og nútíðarkjör leyfa.

Hver maður finnur, að það er alveg sjálfsagt við þessi tímamót, að fá bændum aftur í hendur dómvaldið, sem þeir fóru með fyrrum, þegar hagur lansdins og Alþingis stóð í mestum blóma, og ekki hægt að gera Alþingi veglegri minningu á tugaldarafmæli þess, en einmitt með því. Þá er það heldur ekki óráð Íslendingum að taka upp aftur búakviðu, því sú dómsmála tilhögun er að góðu reynd víða um heim og ofan í kaupið rammíslenzk. Bretar fengu hana frá Dönum með tungunni og hafa geymt hennar síðan og fært hana lagaða eftir þörfum þeirra út um víða veröld með veldi sínu, og enn hafa mörg ríki tekið hana upp að dæmi Breta. Dælt er heima hvat, segir máltækið, og svo mundu búakviðir reynast Íslendingum. Íslendingar mundu verða fljótir að venjast þeim og búakviðir reynast þeim eins og fyr orkulir að ala upp með þeim dáð og drengskap feðra þeirra og viðbjóð á klækjum og krælni, sem þykja nú gera vart við sig innan þjóðræðisins helzt til meira, en gegnir hófi.

Hin merkilegu aldamót, sem fara í hönd, hrópa til vor hástöfum að leiða nú hið forna dómsmálafar aftur til vegs með oss, og ekkert ætti að mega verða til fyrirstöðu jafn-sjálfsögðum hlut nema þá, að vér þörfnuðumst hans ekki, að vér byggjum nú við svo gott og vel viðunandi réttarfar, að ekki svaraði kostnaði né ómaka að eiga við að breyta því. En því fer fjarri, að vér eigum því að fagna. Réttarfarið, sem nú er, eða sakmála meðferð, er ótímahæf í alla

staði og úreld fyrir löngu. Allar þjóðir, sem hafa átt við það réttarfar að búa eitt sinn eða annað viðlíkt fyrirkomulag, hafa fyrir löngu lagt það í ló. Íslendingar einir halda víst trygð við það, og er það þeim mun kynlegra, sem hið forn-íslenzka réttarfar er í mesta gengi með mentaþjóðunum stærstu. Um langt skeið hefir engin þörf verið brýnnni í landinu, en umbætur á réttarfarinu, og mestu furðu gegnir það, að sjálfstjórnar ráðaneyti vor skuli eitt á fætur öðru hafa látið jafnbrýnni þörf ósint og látið þjóðina dragast með aðra eins réttarfars-forsmán og sakmálameðferðin er, umbótalaust, nema sé fyrir þær sakir, að heim hafi sýnst að tugaldarlokin væri svo nálæg, að bezt færi á að fresta umbótunum til þeirra og færa þjóðina þá til hátíðabrigða í nýjan stakk með því að taka þá upp aftur hina sögufrægu búakviðu og þeirra dómsmálalegu skiftingu á landinu. En hvað sem því líður, þá má bezt marka hve umbótanauðsynin sé brýn á réttarfars annmörkunum, og er því næst að drepa stuttlega á þá. Um leið sést þá líka, hve illa það á saman að sópa og refla hús sitt til Alþingis tilhalds og láta samt annan eins bévaðan hégóma hanga upp um það og sakmálareksturinn allur saman er.

Eg geri ráð fyrir, að menn muni ekki vilja leggja mikið upp úr aðfinningum við réttarfarið frá ólögfróðum manni eins og eg er, og eg flýti mér því að bera fyrir mig heimild um það, sem eg vil segja, hina beztu heimild og ríkustu, sem til er meðal íslenzkra lögfræðinga. Það er Vilhjálmur Finsen, hæstaréttardómari. Það eru nú 75 ár síðan hann ráðlagði Íslendingum, að þeir skyldu taka upp kviðdóma, er þeir lagfærðu sakmálareksturinn. Ritgerð hans um kviðdóma kom út í Nýjum Félagsritum 1851 og í henni lendir hann út í gallana á réttarfarinu. Hann drepur á það, hve illa því sé fyrir komið í réttarfari voru, að hinn sami sæki, prófi sök og dæmi hana. Mannlegu geði er nú svo farið, að sá vill finna, sem leitar, svo dómarar sem aðrir menn. Fyrir þá sök er dómurum hætt við hlutdrægni af sakarleit sinni, þótt hlutlausir hafi verið fyrir. Það er augljóst, að það er lélegt réttarfar, sem svo er háttað, að það spillir líkum fyrir réttlátum dómi. Einnig drepur hann á hina hjálparlausu aðstöðu, er sakborningur á við að búa, meðan dómarinn prófar sök hans eða býr í pottinn fyrir ákærða, svo sem alþýðukímnin kemst að orði um það stundum, og enn lýsir hann meinbugunum á lagaákvæðunum um vitnagildi og sönnur. Loks fer hann út í málskot til æðri dómstóla og sýnir fram á, hve bágt yfirdómarar eiga með að komast að niðurstöðu um sannleikann af réttarprófunum. Yfirdómararnir hafa hvorki heyrt né séð sakborning né vitnin og vita að réttarprófin eru ekki nema lítilfjörlegt sýnishorn af allri viðureign prófdómarans við sakborning og vitnin. Þótt réttarprófin færi þeim játningu ákærða og öll önnur sakar-

gögn til sýndar með feldu, þá vita þeir að ekki er takandi við þeim, ekki er takandi við þeim búverkum nema með mesta ugg og andvara, og hvað þá heldur séu misferli á réttarprófunum, sem ýmislegt kann undir að búa, svo sem vankunnátta undirdómara, skeytingarleysi eða þá þaðan af lakari hvatir. Það er ærinn vandi, sem yfirdómurunum er ætlaður, að moða hina sönnu málavexti úr plöggunum til að leggja réttlátan dóm á þá, og þeir eiga sýnilega jafnhægt með það og storkurinn í sögum Esóps að gæða sér á krásum refsins, sem hann reiddi fram fyrir hann á grunnum diski. Því ekki þekkja yfirdómararnir frumgögn sakar. Þeir komast ekki að raun um þau sjálf, heldur þekkja þeir þá raun eina, sem frumgögnin gefið hafa prófdómaranum, eða öllu heldur þá, sem prófdómarinn lætur þau hafa gefið sér. En dómarinn kann að vera meingaður af hlutdrægni af sakarleit sinni eða af upphaflegri hlutdrægni, sem hann þá, vitaskuld, leitast við að leyna yfirdómarana með öllum þeim föngum, sem hann á til. Af því leiðir, að málin þurfa alls ekki að lúkast að málavöxtum, sem þó ætti að vera, heldur eftir getspeki yfirdómaranna eða hugboði um þá; og þegar málin lúkast að makleigleikum, þá er það ekki að þakka réttarfarinu, heldur hinni frábæru dómsgreind, sem Íslendingar hafa oft átt að fagna í yfirrétti sínum og einkanlega í hæstarétti Dana.

Allir vita nú, að annmarkarnir, sem nefndir eru að framan, eru enn á réttarfarinu, alveg eins og þeir voru fyrir 75 árum, er Vilhjálmur Finsen ritaði um þá. Enn þá situr saksóknari og dómari og böðull í áþreifanlegri eining í hinum þríeina sýslumanni. ''héraðsins facitotum'', svo sem sýslumanna oflátungar ekki ósjaldan nefna sig, og söm er aðstaða yfirdómaranna að komast að raun um málavexti. Ofan á það geta yfirvöldin, svo sem Vilhjálmur Finsen minnist líka á, þegar þeim býður svo við að horfa og án þess þau þurfi að kvíða fyrir að þeim verði sérlega meint af því, slegist að ósekju upp á hvern sem vill með ákæru og sakaprófum með öllum þeim skapraunum, vansa og fjártjóni, sem fylgir slíku fyrir þann, sem verður fyrir því, og spillingu á réttarvitund almennings, og þau geta haldið því gráa gamni uppi jafnvel svo árum skifti; það hefir enda komið fyrir, að ein silkihúfan af annari hefir skipað áframhald á slíkum leik. Önnur eins réttarhneyksli mega alls ekki heita ótíð með oss. Engin þörf er að vera að flíka dæmum um þau; hin helztu af þeim eru alkunn allar götur frá Kríumálum hins fyrsta amtmanns til fúaspýtnarógs hinna þriggja síðustu, er lyktaði í hæstarétti með því, að hnjóðsyrði ákærða ofan á sýknan hans voru látin sitja á háyfirvaldinu ósektuð og héraðsdómarinn í málinu beið ekki hæstaréttar dómsins, heldur batt sjálfkrafa enda á embættisferil sinn. En rétt er að taka það fram, að engin bót hefir fengist á þessum réttarhneykslum með

sjálfstjórninni, heldur hefir gerræði umboðsvaldsins miklu fremur versnað að góðum mun. Öllum má vera í fersku minni, hversu réttarvitund alþýðu var særð og sómatilfinningu misboðið af því, að verða að horfa upp á tvo hina valinkunnustu og merkustu menn landsins snögglega rekna eins og verstu römmunga úr stöðu sinni (banka), og ekki lifandi baun horft í það af umboðsvaldinu, þó bæði áliti landsins og fjárhag þess væri gerður stór-hnekkir með þessu afskaplega gerræði þess. Brýn þörf er á því að reisa skorður við jafngífurlegu misferli og eins þarf að laga sakamáls meðferðina eða réttarfarið, svo að það tryggi mönnum, að úrslit málanna verði með dómi bygðum á raun sjálfra dómaranna um málavexti. Eins og nú er, eru það engar ýkjur, að Íslendingar gangi með mannorð sitt, eigur og réttindi í lúkunum.

Bótin við meinbugum réttarfarsins er, vitaskuld, hið forna dómsmálafar, búakviðirnir, eins og Vilhjálmur Finsen sýnt hefir fram á og ráðið til. Hið forna dómsmálafar greinir sókn sakar frá dómstarfinu og gerir dómurunum kost á að komast sjálfum að raun um málavexti. Því fyrir búakviðinn kemur sakborningur og vitni og öll gögn, sem eiga að fylgja sök hans, og fyrir honum fer fram sókn og vörn sakar, svo sem alkunna er, og að prófuðum öllum gögnum og hlýddri sókn og vörn og reifingu sakar bera búar kviðinn á eða af fyrir luktum dyrum, og formaður þeirra tilkynnir hann svo dómaranum í heyranda hljóði, er svo tiltekur löglega hegningu eða lýsir sýknu sakbornings alt saman eftir hinum borna kviði. Eins er sakamálshöfðan tekin af umboðsvaldinu og látin háð kviðburði, svo að umboðsvaldið hafi engin umráð um dómsmál.

Vilhjálmur Finsen réð fyrir 75 árum til að taka upp kviðdóma eða búakviðu, eins og þegar er um getið, og flestum verður líklega að aðhyllast tillögu hans, hins ágætasta dómara, sem uppi hefir verið með Íslendingum, og þá mun þeim sýnast tími kominn til að taka hana úr salti og hafa hana til hátíðabrigða um Alþingisafmælið. Enda þarf mönnum ekki að standa neinn stuggur af því, að fá bændum dómsvaldið í hendur. Þeir fóru með það fyrrum svo að vel gegndi, og þeir eru líklegir að gefa enn hina sömu raun. Bændur eiga og sjálfir mest í húfi um réttarástandið, því þeir og þeirra eiga aðallega að búa við það, og því er ekki nema sjálfsagt að lofa þeim að hafa veginn og vandann af því. Svo er það líka, að sé þjóðinni holl sjálfstjórn, og enginn ber brigður á það, þá er henni ekkert síður holt að sjá sjálf um rekstur dómsmála sinna.

Vilhjálmur Finsen fer ekkert út í það í grein sinni, hvernig haga skuli kviðdómum á Íslandi að öðru en því að lýsa því sniði, sem Bretar hafa á eiðsvara dómum sínum, og gerir ráð fyrir að landsyfirréttardómararnir verið látnir hafa forsæti í kviðdóminum og landinu skift til þess milli þeirra til yfir-

ferðar. Hann fer ekkert út í það, hvort hafa skuli búakviðu í öðrum málum en sakamálum, svo sem ekki er von, því það liggur fyrir utan tilganginn í grein hans, né heldur hvar og hvenær búakviðu skuli halda. Hér skal heldur ekkert bollaleggja, hve víðtæka þá skuli hafa né tilhögun þeirra, heldur leyfa þá umræðu, sem eðlilegt er, blöðum og landsmálamönnum á Íslandi, og láta þá um að ráðfæra sig við hinar fornu lögbækur vorar um haganlega skipun á þeim og terminos legales. En vonandi er það, að á Alþingisafmælinu fái menn að líta endurvakinn hinn forna þjóðarbrag með árlegum vorþingum og leiðum á hinum fornu þingstöðum hinna fornu þinga. Því að líkindum reynist hinn forni þingatími hagfeldastur til að halda búakviðuna og verður þá sjálfsagt að taka upp aftur hin fornu skapþing innan fjórðunganna handa þeim, og ætti þá jafnframt að gera umboðslega skiftingu landsins hina sömu og dómsmálanna, svo að þingin mætti hafa jafnframt til fyrirtektar og framkvæmdar umboðslegum málum, og skifting landsins stæði að öllu leyti á hinum forna sögulega grunni.

Með upptöku búakviða hyrfi dómsvaldið undan sýslumönnum, aðalstarf þeirra og veglegasta, og þeir yrðu þá líklega lagðir af. Uppboðsþingum, löggæzlu og tollheimtu, sem þeir gegna að nafninu til, er innan handar að koma fyrir innan hreppa haganlegar og ódýrar en nú er. En embættislaunabyrðinni létti að góðum mun á landinu með afnámi þeirra, og það kemur sér vel. Heldur ekki þarf Íslendingum að vera nein eftirsjón að sýslumönnunum. Þótt vér, vitaskuld, eigum mörg merk nöfn meðal þeirra, og fáein ógleymanleg, þá verður þó vitnisburður þeirra yfirleitt sá, að þeir hafi heldur verið skutilsveinar útlends ánauðarvalds, heldur en að þeir hafi borið skjöld fyrir þjóð sína. Þeir hafa ekki borið uppi dæmi hinna góðu goðanna með oss eins og prestastéttin hefir gert. Það er mikill munur þeirra stétta. Prestastéttin hefir alla tíð sopið súr og seyru með þjóðinni, verið henni leiðarljós í öngum hennar með kenningu sinni, og alið upp með henni íslenzka lund og íslenzkt þrek með viðhaldi fornra fræða, og vís hefir hún einatt verið í fararbroddi beztu bænda að reyna að fá umbætur á ókjörum þjóðarinnar. Hún er svo mikil fyrir sér og stórskorin, að ekki sér yfir hana í landinu sjálfu, þótt hnakka kasti milli herða. Menn verða að komast út fyrir pollinn, suður í lönd, til að láta sér skiljast hve göfug og þjóðleg hún hafi einlægt verið. En valdsmanna stéttin vor kiknar helzt við skyldur sínar. Valdsmannanna var það, að halda oss við íslenzk lög, en þeir skeyttu því minna en skyldi, af vankunnáttu eða ræktarleysi og dæmdu svo ekki ósjaldan eftir norskum lögum eða dönskum. Vér hristum oft Danastjórn milli tannanna fyrir hve illa einokunarverzlunin hafi farið með oss, og vorkunn er oss það, því vér höfum þar um sárt að

binda; en skylt er þó að láta hana njóta sannmælis um það, að einokun í verzlun var ekki á þeim tímum skoðuð óviturleg og rangsleitin ráðstöfun, heldur miklu fremur réttmæt og þrifnaðarvænleg fyrir ríkið í heild sinni, og að hún og konungur daufheyrðust öngvan veginn æfinlega við kærum vorum, heldur sléttu oft og tíðum úr þeim í þá átt, sem um var beðið, þótt landar þeirra ættu í hlut. Svo voru landsmenn engan veginn ofurseldir kaupmönnum með húð og hári með einokunarlöggjöfinni. Kaupmenn voru með henni skyldaðir til að hafa á boðstólum nægan og góðan varning handa landsmönnum, og selja hann ekki því verði, sem þeim (kaupmönnum) líkaði, heldur eftir góðri og gamalli landsvenju, svo áttu þeir að sækja mál sín fyrir íslenzkum dómstóli og eins var þangað að stefna þeim um ágreining út af kaupum. Valdsmönnum virðast fengin töglin og hagldirnar um einokunina með öðrum eins lagaákvæðum. Hefðu sýslumenn ekki látið landsvenjur og réttindi fyrnast í höndum sér, heldur tekið landsmenn undir sinn verndarvæng gegn yfirgangi kaupmanna og neytt valdsins, sem einokunarlöggjöfin heimilaði þeim, þá hefði verið um færri sár að binda fyrir landsmenn. Ef megnið af sýslumönnum hefði haft skapið séra Orms Ófeigssonar, þá hefðu búsifjarnar af einokunarverzluninni orðið minni, en raun varð á. En sýslumenn létu sjaldnast til annara aðgerða koma gegn kaupmönnum, en kæra þá fyrir stjórninni. Það kveður svo ramt að því, að sjálf stjórn Dana varð að segja yfirvöldunum til, að þau skyldu draga yfirgangsseggina fyrir lög og dóm. Það er raun til þess að vita, að hinar þungu búsifjar, er landsmenn biðu af einokunarverzluninni, er sannast að segja meir, ef til vill, að kenna margskonar hönkum, sem kaupmenn áttu upp í bakið á sýslumönnum, heldur en einokunar ráðstöfun Danastjórnar eða konungs. Svo er heldur ekki hægt nema telja sýslumönnum til ávirðingar samlagningarskattinn svonefnda og þann skarðan hlut, sem margir sitja við og hafa orðið að sitja við fyrir fjárhaldsstjórn ómyndugu áranna. Plato segir svo í riti sínu um ríki, að ekki sé forlag í lagamönnum. Það er eins og orð hins mæta spekings hafi sannast á valdsmönnum vorum. Þjóðinni hefir verið lítil björg að þeim.

Alþingis afmælið vilja menn vitanlega gera sem minnissamlegast. Það er auðráðið af því, að menn hafa farið svo tímanlega að bollaleggja þá hluti, sem hafa skuli til sjálfs tilhaldsins, og ekki eru þær bollaleggingar nema vel til fallnar í alla staði og nauðsynlegar; en jafnframt er þó að hafa hugstætt það, sem betur stendur undir með afmælinu og varanlegra er. Það má segja að máltækið: gleymt er þá gleypt er, gildi um öll hátíðabrigði, sem höfð verða til að laða menn til tilhaldsins eða því til prýðis, hjá upptöku búakviða. Því hún og hinn forni brag-

ur, sem hún hlýtur að setja á þjóðfélagið alt saman, munu standa sem blikandi viti fyrir mönnum og tindra komandi öldum minninguna um Alþingisafmælið og forkólfa þess. Tíma þarf, vitaskuld, til upptöku hins forna dómsmálafars, því það krefur rækilegrar umræðu í blöðum og tímaritum, og vandlegan undirbúning og íhugun af hálfu ráðgjafa og löggjafa, en samt er allur dagur til stefnu enn til að koma henni í kring, ef menn svo vilja, og tíminn, aldamótin, sjálfkjörin til þess. Verði búakviðir ekki teknir upp til hátíðabrigða um Alþingisafmælið, þá verða þeir teknir upp síðar og það innan skamms. Að því er að vísu að ganga, og þá fá þeir lesið og upp á skrifað, leiðtogar þjóðarinnar þeir, sem ekki létu sér skiljast röddu tímans né tillögu Vilhjálms Finsens, sem sagði þeim svo tímanlega og afdráttarlaust hvað til þeirra friðar heyrði í þessu efni.

# Til Íslands.

Eftir Þorskabít.

Á vegamótum mararstrauma
eg man þig, kæra feðraland,
þú vagga minna vona-drauma,
— þó vonir allar færu í strand.

Þá vorsins boði sunnan svífur
og sólin hækkar lofti á,
sú minning ljúfa hug minn hrífur
og hjartans löngun þig að sjá.

Ei hugann geta fjötur fangað,
nein fjarlægð honum villir sýn,
svo óðar kominn eg er þangað,
sem æsku liggja sporin mín.

Þar, lágt hjá bæjarlæknum kæra
eg legst og feginn þorsta slekk,
og fjalla loftið létta, tæra,
í löngum andarteigum drekk.

Þar lít eg fjöllin — forna vini,
og fagra dali, héruð græn,
er baða sig í sólar skini,
en syngja fuglar morgunbæn.

Þar heyri' eg fljóta' og fossa niðinn
og fjallalæk með skvaldrið sitt,
og hlusta' á ljúfa lofsöngskliðinn,
er lóan flytur minni þitt.

Af fuglum öðrum blíðróm ber hún,
hann berst um heiðar, dal og fjörð,
og forsöngvari enn þinn er hún
við engla vorsins messugjörð.

Já, þannig nýt eg þeirrar gleði,
í þinni dýrð að baða mig.
Því mest er hressing mínu geði,
að mega í anda nálgast þig.

Þótt eigi' eg heima' í öðru landi
og eyði líkams kröftum hér,
í svefni og vöku er minn andi,
mín ættjörð kæra, samt hjá þér.

Eg hugsa um þig og þína hagi,
hjá þér er alt, sem mér er kært,
og fram að síðsta sólarlagi
eg sakna þín með geðið hrært.

Eg veit, að sé þig aftur eigi,
í útlegð verð að deyja hér,
en vona, er svíf með feigðar-fleyi,
eg fái' að koma við hjá þér.

Og heilsa þér, svo hjartað finni
þá huggun, sem að þráði títt,
að kveðja þig í síðsta sinni
með sonar óskum kærleiksblítt.

# Brot úr kvœðaflokki.

Eftir **Þorskabít.**

## *I. ÁHLAUPIÐ.*

Dynur í lofti, dynja fjöll,
dimmir á skýja heiði.
Niður heyrist í Norðra höll,
nú er víst eitthvað á seiði,
rífast þar klembruð kólgutröll,
— knefinn er steyttur breiði,—
vaða þau gólf sem gljúpa mjöll,
gnísta tönnum af reiði.

Hnútukast þegar hafið er,
hriktir í þursarönnum,
skekinn og hristur skalli hver,
skot þegar bella á glönnum.
Silfur diskar og kristalls ker
kastast um borð í hrönnum.
Hver þar annan bítur og ber,
brotnum ískrar í tönnum.

Nóg er þá boðið Norðra gram,
nagar hann skjaldar rendur,
veður nú upp í vígaham,
við honum enginn stendur.
Kólgu flögðum í klaka ham
kastar á báðar hendur.
Tryllist æ meir og treður fram,
titra þá Vindsvals lendur.

Hvinur með brestum og hroða gnýr
heyrist frá Elivogum.
Vitstola' að bygðum vættur snýr,
veltist um hjarn með flogum.
Gaddfroðuropa-gusum spýr,
geispar með klíju sogum.
Alt, sem að lifir, undan flýr,
eldgosa sem frá logum.

Verður að dreka vargur ær,
vængjunum skellir löngum.
Sporði til hliðar slettir, slær
slæðuna' af fellavöngum.
Bæði með klóm og kjafti flær
kápuna' af svella spöngum.
Gljúfrabúinn í bóli hlær,
bylur á hellisgöngum.

Hýðir um þekju og húsagafl,
hryktir í inniviðum.
Upp að dyrunum skefst í skafl
skúmið af mjallar iðum.
Inn með gáttunum gisnu hrafl
gægist í stærstu hviðum.
Oftlega' er vetrar trölla tafl
tvísýnt, frá báðum hliðum.

Fönninni sópar eggjum af
illfyglið nið'r í dalinn,
götur og slóða grefur í kaf.
Gistir hjá sauðum smalinn.
Ferðalangur, með stubb af staf,
— stormurinn hrifsaði malinn —
fast við gluggann, þar fólkið svaf,
fanst um morguninn kalinn.

---

Hamhleypa þessi, hvar sem fer,
hryðjuverk sín ei dylur.
Ofanjarðar því alt, er sér,
undir sig slær og mylur.
Lýsingu þessa' í líking hér,
lesarinn veit og skilur;
þektur að mörgu illu er
íslenzkur norðanbylur.

---

## *II. BLOTINN.*

Stutt er oft hláka' í harðri tíð.
— Helfró í rauna-slag. —
Rigning í nótt, svo nepju hríð,
norðangaddur í dag.
Alt í klamma komið um síð,
kreppir að búsins hag.

Bágara' en áður, beitin mist,
— blotinn varð haga spjöll.
Snjóinn af efstu hnjótum hrist
hörð fá ei veðra tröll.
Áfreða skelja-skjöldum yzt
sköruð er jörðin öll.

Framundan þegar fellir sér,
flest lætur bóndinn reynt.
Heyið við kýrnar knepja fer,
— konunni því er leynt. —
Það, sem er dregið af þeim, er
ánum og lömbum treint.

Fóðurlaus hrossin fyrir dag
flutt eru gaddinn á.
Fram á síðasta sólarlag
sverfa þau mosaflá.
Sauðirnir einu sinni' á dag
sultar næringu fá.

Grennist nú féð, því gjöf er naum,
gott á meðan það rís.
Fyrir því margan dreymir draum
drífi' inn á fjörðinn ís.
Breyti 'ann ei neitt í næsta straum,
neyð er og fellir vís.



# Andstæður.

Eftir **Þorskabít.**

Mér finst það oft skrítið, þó skorti völ
að skýring finni,
hve meinlegt er sambland af sælu og kvöl
í sálu minni.

Því stundum virðist mér lífið svo létt,
að leikið gæti
um allan heiminn í einum sprett,
á öðrum fæti.

Þá birtist mér gleðigyðjan hlý,
sem geisla blossi,
svo heilsað gæti' öllum heiminum í
með heitum kossi.

Mér finst alt bölið, sem bar eg í gær,
sem barna gaman,
svo eg gæti hlegið ofan í tær
að öllu saman.

Mér greypt sýnist lífsdýrðin gervalt á
með gullnu letri,
og mennirnir eins og englar þá,
eða' öllu betri.

Eg skemt get mér jafnvel skrílnum hjá
við skrípalæti,
og held næstum fyrir heimskunni þá
eg hneigt mig gæti.

En ekki bý eg nema' örlitla stund,
við ánægju þessa,
því óðara hug-þokan legst yfir lund
sem langvinn messa.

Alt landið er orðið og lífið þá
með litum öðrum,
og englarnir, sem eg áður sá,
að eiturnöðrum.

Margt litfagurt andlit, er leyfði' eg fyrst,
svo líkist svíni,
þó gull væri' í boði, eg gæti ei kyst
það greppa trýni.

Mér helzt virðist lífið sem háska-raun
á hálum stigum,
og umhverfis heimurinn Ódáðahraun
með ótal gýgum.

Og mannsæfin virðist mér veglaust hjarn
í vetrar hörku,
en sjálfur eg einmana, áttavilt barn
á eyðimörku.

En skapsbrigði þessi mér skjótast frá
þó skyndilega,
og lífið með alt öðrum augum þá
eg yfirvega.

Því oftast þó fer eg um Alfaraleið,
milli' öfga tveggja,
og horfi á samkeppnis hamslausu reið,
til hliða beggja.

En hvar, sem eg hlusta og hvert, sem eg
lít,
eg hót ei skynja,
hver allsherjar tilgangur er,—svo eg hlýt,
að efa og synja.

Mér helzt sýnist þetta heimsvalds afl
á hending reika,
og mannlífið endalaust óvits tafl,
sem allir leika.

# Tveir Þingeyingar.

Eftir Guðmund Friðjónsson.

## *I. Þorgils gjallandi.*

Hann er einhver einkennilegasti rithöfundur þjóðar vorrar, þvílíkur í sundurlausu máli, sem St. G. St. er í samföstu. Hann hét réttu nafni, svo sem kunnugt er, Jón Stefánsson, Mývetningur að ætt og heimilisfangi, bróðir Helga Stefánssonar, Vestur - Íslendings, sem kunnur var að gáfum, og að lokum sæmdur með ágætu erfiljóði. St. G. St. hlóð upp leiði hans á þann hátt og kastaði ekki til þess höndunum. Helga sá eg aldrei, né kyntist hönum en Jóni var eg þó nokkuð kunnur. Nú kemur mér í hug að fara um hann nokkrum orðum, þeim til fróðleiks, sem lesa vilja, og svo til þess að varðveita minning hans, að litlu leyti heldur en engu.

Allar bókmenta- og menningarþjóðir láta sér ant um að bregða birtu yfir úrvalsmenn sína og atgerfismenn, undir eins í lifanda lífi, og ef það ferst fyrir, meðan þeir eru ofan jarðar, þá eru þeim gerð skil, þegar þeir eru komnir undir grasrótina. Stórblöð og svo tímarit senda gangbera sína á þann hnotskóg, til að njósna um hagi þessara manna, til að sjá híbýli þeirra og umhverfi, og þó einkanlega til að kynnast innra manni þeirra, þeim daglega. Því að hátíða útgáfa innri mannsins kemur fram allvel í ritum þeirra eða verkum, og þarf ekki heim til úrvalsmannanna eftir þeirri mynd. Birt eru samtöl við þessa menn og svo að endalyktum bréf þeirra og endurminningar, ef til eru. Rithöfundar og listamenn eru oft einkennilegir í háttum, sérlegir og inniluktir að ýmsu leyti. Orsökin mun vera sú, að þeir hafa og eiga önnur áhugaefni og hugðarmál, en grannarnir. Fer þá svo, að hvorirtveggja ganga á bug við hinn, eða jafnvel óvirða þeir hvorir aðra, annað hvort með orðum, eða þá með þögn. Kynning við þessa menn, og þó fremur frásögn um þá, skýrir ýmislegt í verkum þeirra, bregður ljósi yfir þau, ef svo mætti að orði kveða, og lyftir þeim upp á sjónarhæð og vaðberg.

Vér Íslendingar, beggja megin Atlantshafs erum eftirbátar annara þjóða í þessum efnum. Því fer svo fjarri, að brugðið sé ljósi yfir listamenn vora og rithöfunda, að hitt mætti heldur segja með sanni, að skóbæturnar séu eftir þeim taldar, roðin og skófirnar, og að nærri stappi því stundum, að etju-rökkum sé á þá sigað, ef til þeirra sést á þjóðgötunni.

— — Einn þeirra rithöfunda vorra, sem misskilningur og þögn hafa sezt að, er Þorgils gjallandi. Þegar sögur hans komu fyrst á flot, þóttu þær naumast hús hæfar. Eg minnist þess t. d., að eg

kom á gott sveitaheimili norðlenzkt, eftir að "Upp við fossa", skáldsaga hans, kom út. Við tókum að ræða um söguna. Konan, sem var vel gáfuð, en örlynd að sönnu, spratt upp úr sæti sínu og skifti litum, undir samræðunni, svo viðkvæmt var henni málefnið. Henni hitnaði mest, þegar eg gat þess, að sagan væri vel gerð, vel rituð, skáldsaga. "Já," sagði hún með glóandi augum, "einmitt þessvegna er hún hættuleg, söguskömmin!" —

Nú eru þessar ákærur hjaðnaðar niður. En þögult er um "Ritsafn" Gjallanda, sem út kom s. l. ár. Ef til vill eru ritdómarar að bíða eftir því, að meira komi út af ritsmíðum höfundarins. En ef þögnin stafar af öðrum ástæðum, er hún af illum toga spunnin, þegar þess er gætt, að busamenni bókagerðar og leirskáld eru hafin upp til skýjanna í ritdómum.

Þorgils gjallandi var þess háttar maður og rithöfundur, að þögninni má ekki líðast að hlaða ofan á moldir hans einu mosalagi af öðru. Þeir sem þekkja mismuninn á smjöri listarinnar og smjörlíki blekbittuiðnaðarins, hljóta að renna hýru auga til þessa einyrkja, sem bjó inn við öræfin og tekið gat undir með Hannesi Hafstein:

"Engum manni önd mín lýtur;
engan mann eg vægðar bið."

Hann — þ.e. Þorgils — skuldaði engum fémuni; og hann þurfti ekki að lúta verkalýðnum, af því að hann vann heimilisstörfin og fólkið hans: tvær dætur og húsfreyja.

Þorgils var einn þeirra manna, sem tala mest við sjálfa sig, og þó ekki nema í hljóði. Maðurinn var kallaður heldur drambsamur. Ef til vill hefir limaburður valdið nokkru um þann dóm og svo framgangan. Hann hafði þá ættarfylgju, að vera heldur fattur og rómurinn nokkuð stuttaralegur. Sjá mátti á honum, að hann var ekki auðmjúkur við þá, sem þóttust eiga undir sér auð og völd. Hann hataði kaupmenn, sem lítilsvirtu bændalýðinn, og klerka, sem riðu hestum undir spreng og gegndu embætti til þess eins að hirða launin. Eg veit ekki með vissu um trúarskoðanir hans, held eg þó, að hann hafi verið að lokum trúaður á eitthvert almætti. En lítið talaði hann um þau efni og laus var hann við gáskahjal um heilög atriði. Þorgils ritaði fáeinar blaðagreinar, og voru þær afbragðs vel gerðar. Hann náði með aldrinum valdi á ágætri íslenzku og einkennilegum stíl. Einhver fyrsta blaðagrein hans var um skáldskap St. G. St. í Bjarka Þorsteins Erlingssonar. Hann jauk lofsorði á skáldskap St. G. og var hann næstur Jóni Ólafssyni til að vekja athygli á því skáldi. Eg mun hafa verið sá þriðji í röðinni. Þorgils mun hafa fundið skyldleika með sér og St. G. — báðir frumlegir, báðir einyrkja bændur, báðir misskildir, eða þó öllu heldur ekki vel skiljanlegir alþýðu, hvorugur alþýðuskáld, þó alþýðumenn væru. Þeirra föðurland var í sveitinni, og þó voru þeir ekki spámenn þar. Það er gömul saga, sem alt af er ný.

Báðir elskuðu, eða a. m. k. *virtu* hið óbrotna, drengilega líf á grasrótinni. Báðir lifðu á handafla sínum. Báðir sáu langt, hátt og djúpt. Báðir stórmenni í "heiðurs fátækt þrátt fyrir alt", eins og Robert Burns kvað.

Flestar meiri háttar söguhetjur Þorgils gjallanda bera keim af höfundinum: eru stórlyndar, vilja engan átroðning hafa eða líða á sér, tala líkt því sem hann gerði. Mörg skáld ganga þannig frá fólki sínu. Björnstjerne og Ibsen flaska á þessu, Gestur Pálsson, Kielland og Einar Hjörleifsson. Fólkið í sögum þeirra líkist þeim sjálfum, það sem ræktin er lögð við. Persónurnar eru klofningur út úr þeirra eigin sálum. Sennilegast er, að svo sé. Hitt getur einnig verið, að þessi skáld leiti uppi og tefli fram því fólki, sem líkist þeim. Fer þá svo, að líkur sækir líkan heim, eins og máltækið kveður að orði. En sleppum því.

Þorgils gjallandi var í raun og veru einsetumaður. Þó sat hann ekki í helgum steini né á friðstóli. Þúsund ára stormar þjóðlífsins fóru um hann, óveður sögualdar vorrar, stormar Sturlungaalda og hann heyrði á baðstofu sinni bylja sviftivinda aldarfarsins. Hann tók söguefni sín úr hversdagslífi samtíðar sinnar. En málið samdi hann sér þannig, að hann líkti eftir fornum stíl og setti á orðbragðið einkenni sjálfs sín. Hann ritaði annað mál og betra í síðari sögum sínum, en þeim fyrri. Og mestum málþroska náði hann í "Dýrasögum" sínum, og þar kom mest í ljós hlýja innri mannsins og hjartsláttur þeirrar göfgi, sem veit og viðurkennir, að alt *líf* á að njóta alúðar.

Einkenni manna skapast og þroskast bezt í fámenni, bæði ytri einkenni og þau innri. Fjölmennislífið sverfur og fágar og heflar yfirborðið. Rithöfundar, sem lifa afskektir, lúta þessu lögmáli — eða njóta þess. Það er að vísu gott, að iðu-lífið afnemi annmarka manna. En hitt er harmur, þegar það rænir menn eða stelur frá þeim frumleik og einkennum.

Þetta eru ef til vill útúrdúrar. En þeir skýra þetta atriði, sem um er að tefla: að Þorgils gjallandi var einkennilegur í sjón og raun. Hann tamdi sér ekki stimamjúkt kurteisis athæfi. T. d. a. t. Við sáumst fyrst á Gautlöndum. Eg var þá ekki fullþroska maður. Það var að vetrarlagi. Jón Stefánsson var þá orðinn hreppstjóri og kom í Gautlönd í einhverjum embættiserindum, hafði á höfði kattarskinnshúfu, sjálfur alskeggjaður og var maðurinn lítið uppstrokinn. Hann leit á mig allhvast, er hann kvaddi, og mælti:

"Þú kemur ef til vill austur fyrir Ásana?"

Þar var hans bær. Þetta var hans heimboð. Eg brosti og játaði. Viðtökurnar voru gælulausar, en góðar þó. Eg kom í fjárhús hans. Sá eg þá, að hann lagði sig í líma við að hirða fénað sinn með alúð og nákvæmni. Þá skildi eg, að dýrasögur hans voru samdar af kærleik til dýranna, en ekki þannig, að ritloddari væri að leita

að nýju efni, sem kitlað gæti forvitni lesenda og útvegað markað, eða opnað sölutorg.

Þorgils gjallandi umgekst dýrin meira en mennina. Svo má segja um íslenzkan bónda, sem hirðir fénað og lætur sér ant um hann. Það er reyndar mikils háttar starf, að kynna sér lífsháttu dýra og fugla. Og sú kynning er sársaukalítil að því leyti, að búfénaður er laus við þá mannvonsku-annmarka, sem auðfundnir eru og uppi vaða í hverju mannfélagi. Þetta starf, að taka móti lambi og kálfi og folaldi, koma á spena, ala upp, hirða langa tíð, og eiga líf sitt og sinna undir blómgun þessara sakleysingja — það fléttar samúðar þræði milli manns og dýrs og getur orðið að uppistöðu í vef, sem örlagaþræðir eiga heima í og frásögulist getur gert þarflegan og fagran. Kipling, enska skáldið, hefir ritað um dýrin í Indlandi af mikilli list, svo sem kunnugt er. En Þorgils vissi ekki um hann, þegar hann hóf að rita um dýrin sín.

Sumum þótti sérvizkulegur eða tilgerðarlegur stíll Gjallanda. Svo er einnig sagt um stíl dr. Jóns forna (Fornólfs) og Einars Þorkelssonar bróður hans, sem nú er tekinn til að rita einkennilegar smásögur. Þetta er jafnan sagt um þá, sem guð hefir skapað með afbrigðum. Ekki er mönnum sjálfrátt, hvernig málrómur þeirra er. Hann er að miklu leyti tannfé eða vöggugjöf. Svo er um málfar í riti. Náttúran ræður miklu um stílinn, orðalagið. En það er satt, að sveigja má hann í ýmsar áttir, bæði upp á við, svo og niður á við.

Þeir, sem vilja kynnast til hlítar rithöfundi, verða að vísu að lesa rit hans með alúð. Þessar línur eru að eins vörðutippi á leiðinni heim að Litluströnd. Hefði eg verið samvistum með þessum stórgáfaða, einkennilega, vinnulúna bónda, myndi eg hafa varðað betur þá leið, en eg geri. En aðrir geta hlaðið upp þessar vörður og skyldi sú vegabót gleðja mig. Annars tók eg ritfærin í þetta sinn til þess einkanlega að benda á eitt atriði í lífi hans, eitt augnablik, sem mér er sérstaklega minnisstætt. Það atriði rifjaðist upp fyrir mér nýlega, er eg las smásögu hans í Ritsafninu: "Aftanskin.". Ágæta sögu að efni og máli, um heimkominn Vestur-Íslending, perlufágaða smásögu, svo að segja gimstein. Þetta Aftanskin rifjar upp fyrir mér þann aftaninn, sem við Þorgils vorum saman síðastan, þann eina, sem við vorum saman að svo kölluðum mannfagnaði. Sá þáttur æfi hans má ekki glatast alveg. 'Endursögnin er betri en alls ekki'. Þá var hann nýstaðinn upp af sjúkrabeði; hafði verið skorinn eftir blöðrusteini. Sú krufning tókst vel og virtist hann vera heimtur úr helju. En hann dó misseri síðar af völdum gallsteina.

Svo stóðu sakir í þetta sinn, að sýslufundur Suður - Þingeyinga stóð þá dagana, sem Jón Stefánsson lá í sárum. Þegar þeim fundi lauk, reis hann úr rekkju. Steingrímur Jónsson frá Gautlöndum,

æskufélagi Jóns og frændi, var þá oddviti sýslunefndar Suður-Þingeyjarsýslu og var hann vanur að bjóða nefndinni að loknum fundi til kveldverðar o.s.frv. Nú bauð hann Jóni með okkur í gildið. Eftir máltíð var sezt að fljótandi glaðningu. Þá var bannið óskollið á. Oddviti hóf glasið og ávarpaði nefndina. En ýmsir nefndarmenn tóku undir og voru margar ræður samdar um kvöldið og farið allvíða. Einn þeirra, sem töluðu, var Jón Stefánsson. Og þá sá eg hann kátastan. Hann kunni þá list að tala stutt, en segja þó mikið. Og þá ljómaði af karlinum. Hann hló víst sjaldan upphátt. En þarna brosti hann einkennilega vel. Mig minnir, að hann flytti þrjár ræður. En að lokum sagði hann upp úr sér sögu — dýrasögu sem hann mun hafa sett saman, meðan hann lá í sárum. Eg hygg, að sú saga hafi ekki komist á pappíra. — Til er mynd af Jóni, í Óðni, ef eg man rétt. Hún er svo tekin og gerð, að því líkust er, sem tekin hafi verið af honum uppgefnum eftir tólf klukkustunda votabandsbinding — reyndar lík honum, bóndanum. En skáldið, sést ekki, bólar ekki vitund á því.—En þarna í aftansskininu hjá sýslumanninum sást andans maðurinn. Þá hefði átt að grípa hann í ljósmyndavél. Listmálari hefði getað gert góða mynd af Jóni enn með því móti, að hafa myndina fyrir sér og aðstoð þess að auk, sem var viðstaddur þetta kveld. Mestur bjarmi fór um andlitið, þegar hann sagði söguna. Orðbragðið var hið sama, sem á sögum hans, þeim beztu. En ekki veit eg, hvort hann kunni söguna, eða hitt var heldur, að honum væri orðsnildin svo tiltæk, að hann gæti kosið sér orð í hendingskasti, vængjaður af vínglеði, og hinni kætinni, að vera aftur heill heilsu.

Jón Stefánsson virtist vera í framgöngu stoltur maður og hversdagslega var hann fálátur og stuttur í spuna. En þetta kvöld var hann höfðinglegur. Höfuðburðurinn líkur því, sem Hilmar Finsen landshöfðingi hafði, eftir myndum að dæma.

Flestum persónum í sögum Gjallanda svipar til hans, svo sem eg gat um áður í þessu erindi. Og hann tekur oft myndir sínar í aftansskininu, eða að leiðarlokum. Þann kost velja höfundar sumir, þegar þeir sjálfir eldast, og eru teknir til að horfa um öxl. Með því móti er og hægt að komast af með styttri frásögn, en ella. Og roskinn rithöf. uggir um frestinn.

Þorgils getur þess í áritunarorðum, sem fylgja Ritsafni hans, að hann hafi byrjað að rita sögur sínar í uppreisnarhug. En þarna í aftansskininu hjá sýslunefndinni bólaði ekki á þesskonar manni. Þar stóð hann í skarlatskikkju andans mannsins, rjóður af vínglеði og áhuga ræðumannsins, sigurglaður eftir sjúkdómsvinninginn, höfðinglegur og þó látlaus, nær tækur á ræðuefni, og þó víðförull.

Áður en Jón lagðist á skurðarborðið, ritað hann — að sögn — bréf fjölskyldu sinni, en sendi það ekki heim, lét svo um mælt, að það

færi því að eins heim, að hann dæi. Svo mun hann hafa eyðilagt það. — Heimilishagir hans voru þá þannig, að hann myndi hafa ritað merkilegt bréf, á þessum augnablikum. Hann ritaði góð bréf, með ágætum frágangi, og blaðagreinar hans voru sælgæti. En því miður fáar. Hann hafði lítinn tíma til þess og ekki gaf hann sig í kast við deiluhrafna þjóðmálanna. Stundum ritaði hann í sveitarblöð og fáeinar ræður flutti hann við jarðarfarir; ekki talaði hann á allsherjar mannfundum, svo að eg viti grein á því.

Gjallandi mælti um sjálfan sig í blaðagrein á þá leið, að hann "lifði inn við öræfi." Í þeim orðum felst mikið og margt.

"Þú öræfanna andi,
sem átt hér ríki og völd,
ei' þekkist þræll af bandi,
í þínu frjálsa landi,
né greifi af gyltum skjöld",

segir Klettafjallaskáldið. Þar "í landrýminu" "rúmast vonir margar" (St. G. St.). En sá, sem býr við öræfi, verður lúinn, ef hann hefir engan fyrir sig að bera. En honum dettur margt gott í hug. Og hann etur sjálfan sig upp, verður frumlegur og fastur í rás. — Ein bezta dýrasaga Gjallanda gerist inni á öræfum Ódáðahrauns. Þar verður hryssa úti, sem vill strjúka í átthaga sinn. — Sú saga hefir undir sér þá hornsteina, að hrossbein fundust á melhól fram við Herðubreiðarlindir. Svo tók skáldið við og lýsti atburðinum — eftir því sem innri sýn benti í áttina. Þá fer af öræfunum sá ljómi, sem hitamóða vordægranna leggur yfir auðnirnar, þegar dauðinn setur í sveltu olnbogabarn, sem villist þar í óbygðunum, ef til vill í hafti eða hnappheldu. Yfir þeim örlögum getur skáld grátið, þó að fámált sé og enginn sjái tárin — með berum augum.

Eg sendi Tímariti þjóðræknisfélagsins þessar línur, af því Þorgils gjallandi var afburða þjóðræknismaður. Hans minning á heima á þeim stað. Sá er þjóðrækinn í bezta lagi, sem styður þjóðernið í orði og verki. Það gerir sá, sem ritar um ram-íslenzk efni á mergjaðri íslenzku og lifir við þann harða kost, sem íslenzkur smábóndi hefir á sínu borði, býr í sveit, sem langt á í kaupstað að sækja, og í annan stað við veðráttu öræfanna, sem lokkar fénaðinn til sín. Eldri deild Vestur-Íslendinga getur í ritum þessa manns fundið fénaðinn sinn aftur, þann, sem "heima" var kvaddur. Og gömlu landarnir geta þar kent ilm af heyi og angan af öræfagróðri.

Og fyrst og seinast býður Þorgils gjallandi rausnarlegt móðurmál og karlmannlegan stíl. Því að hann var andlegur höfðingi.

---

### *II. Sigurbjörn Jóhannsson*
### *skáld frá Fótaskinni.*

"En var það ei lán gegnum andstreymið alt,
jafn örugt á hending að fleytast?

Og varð hún ei ylur, þá annað
var kalt
og örfun, er tókstu að þreytast?
Hvort varð ekki bragur þér blessunar nyt
í búi, er lítil var eigan?
Og brýndi' ekki óður þinn unað
og strit.
og eggjaði ljáinn þinn deigan?''

Svo kvað St. G. St. um Sigurbjörn látinn, í upphafi ágætra erfiljóða. Og ætti Sigurbirni að vera draumljúft og sælu-vært undir þeirri flosábreiðu. Þó langar mig til að minnast á Sigurbjörn lítilsháttar, og einkanlega að rifja upp fáeinar stundir, er eg var nálægt honum í bernsku minni. Þó að það verði ekki sagt um þenna þingeyska Íslending, að hann liggi óbættur hjá garði þjóðar vorrar, þar sem St. G. hefir gert um leiði hans með ''mærðartimbri máli laufguðu'', er seint ofgert við slíka menn, þó að pistilskorn fylgi ljóðinu — á seinni skipunum.

Þar blánar fyrst upp af Sigurbirni í sólarátt endurminninga minna, er eg var fimm ára og heyrði þess getið, að hann kvað yfir brúargerð á Laxá, nærri Grenjaðarstað. Þar sem áin fellur úr Laxárdal út í Aðaldalinn, var ótemjan söðluð þjóðhátíðarárið. Júlíus læknir, bróðir Móritzar Halldórssonar, og séra Benedikt Kistjánsson að Múla, gengust fyrir því verki og öfluðu samskota. Jónas, kallaður grjótgarður — steinsmiður — gerði stöpla undir sporða brúnna, sem eru tvær. — Kaflar úr kvæðinu flugu út um sveitirnar á öldum fagnaðarins, sem mannvirkið vakti; einkum þessar ljóðlínur:

''Grjóti, járni, trjávið treysta,
tignarfögur brú er reist . . . ''

Sigurbjörn var alinn í sveitinni minni, sonur Jóhanns Ásgrímssonar, hagorðs manns. Eg ætla að skjóta hér inn í frásögn um Jóhann, til gamans.

Jóhann bjó á Hólmavaði, og er þar laxveiði nokkur. En á þeim árum þótti Jóhannes á Laxamýri banna laxinum framgöngu í ána, með veiðivélum. Nú bar svo við, að Jóhann veiddi afar-vænan lax á drætti. Þá kvað hann:

''Margt er fast, það meinum vér,
í mammons þræla klónum —
en engi dregur, þó ætli sér,
annars fisk úr sjónum.''

Seinni hluti vísunnar er gamall og veit eg eigi höfund hans. En margir spreittu sig á að prjóna framan við, og þykir Jóhann hafa gert það allra manna bezt. Fátt er til eftir Jóhann. En svo sagði mér faðir minn, að hann hefði verið mjög vel viti borinn maður. —

Þá hverf eg aftur til Sigurbjörns.

Sjálfsagt þótti í minni sveit, að hafa hann á öllum mannamótum til skemtana, einkum í brúðkaupsveizlum. Hann orti jafnan við þau tækifæri, og er það eigi ofmælt, að hann fleyttist öruggt á hendingunni. Hann bar fram kvæði sín og vísur afar skilmerkilega og var þá jafnan góðglaður af víni.—

Eg var fyrst á mannamóti samvistum við hann í brúðkaupsveizlu Jónasar og Guðrúnar, tengdafor-

eldra Rögnvaldar Péturssonar, ritstjóra. Var eg þá nálægt tólf ára aldri. Þar var Benedikt prófastur og alþ.m. í Múla og mælti fyrir brúðhjónaskál og svo minni Íslands. En Sigurbjörn kvað snjalt kvæði. Gerðist hann allhreyfur, er á leið veizlunóttina, og lét fjúka í kveðlingum. Eg man það vel, að þá öfundaði eg Sigururbjörn af gáfunni. En efnamenn í sýslunni öfunduðu hann ekki af búskapar hyggindum. Eg man, að jarðeigandi bóndi sagði eitt sinn við föður minn: "Jú, hann getur gert vísu, en honum gengur ekki eins vel að búa."

Eg var í tveim veizlum öðrum með Sigurbirni, og alt af gekk það eins til: að allra augu vonuðu til hans um skemtanina. Um hann hópuðust ungir menn og aldnir til að hlýða á mergjaðar vísur. En sumt þess háttar var haft yfir í lægri nótunum. Vísur hans sumar voru all-nærgöngular. T. d. man eg eftir þeirri vísu, sem hann hafði yfir í veizlu—úti í horni:

"Hér um skemtan finst mér fátt:
fýld er brún á mönnum;
knúðir rokkar kveina hátt,
kambar nísta tönnum."

"Og kambar nísta tönnum". Hann tvítók þá hendingu. Og svo bætti hann við þessum orðum: "Eg held mér hafi ekki í annan tíma dottið betra í hug en þetta." Og þá var hann fastmæltur.

Vísa sú var um heimili, sem Sigurbjörn var á vinnumaður, þegar hann kyntist konu sinni þeirri seinni. Húsbóndinn þar vildi hamla þeim ráðahag, eftir því sem mér skildist. — Tekið, var til þess, hve Sigurbjörn var markviss að botna vísur, ef á hann var ljóðað. Svo bar við að hann og annar maður komu inn í veitingakrá, þar sem lítil ljóstýra hjarði, og átti hún að laða gesti. Maðurinn mælti þá til Sigurbjörns:

"Hér er dauft og lásett ljós,
lýsir varla manni."
"Verts ei' stofu hæfir hrós,
hún er lýst í banni."

Svo botnaði Sigurbjörn fyrri hlutann.

Á þeim dögum tíðkaðist það mjög, að vísur voru gerðar um daginn og veginn.

Eitt sinn var Sigurbirni. ásamt fleiri mönnum vísað frá gistingahúsi, vegna þrengsla. Þá kvað hann:

"Héðan frá þó hvata megum,
heims hvar þjáir vald:
Skála háan allir eigum:
uppheims bláa tjald."

Vísur þessa manns mætti lengi telja. En reyndar skortir mig gögn til að velja úr sem vert væri.

Eg ætla nú að nema staðar við þann þátt æfi hans, er hann flutti af landi burt — og þó nauðugur. Fátækt olli því. Hann mun hafa álitið, að við þá ráðabreytni gæti hann engu tapað. Eg sá hann mjög stúrinn við höfnina, þegar hann beið útflytjendaskipsins og mændi á land til átthaga sinna. Þá kvað hann:

"Fyrr eg aldrei fann hve hörð
fátækt orkað getur:
Hún frá minni móðurjörð
mig í útlegð setur."

"Gnauðar mér um grátna kinn
gæfu mótbyr svalur, —
kveð eg þig í síðsta sinn
Sveit mín, Aðaldalur."

Þessar trega-klökku vísur gefa ekki mikið eftir vísu Kristjáns á Sprengisandi, sem mjög er nafntoguð — að verðleikum.

Þessa vísu kvað hann þá ennfremur, og er hún ekki sízt:

"Eftir hálfrar alda töf,
ónýtt starf og mæði,
leita eg mér loks að gröf
langt frá ættarsvæði."

Eg ætla að svipað þessu hafi margur Vesturfari hugsað, þó að betur rættist úr en líklegt mætti virðast, þar sem fyrst var að óbygðum að víkja. En sá grátklökkvi og listarhreimur, sem er í orðum Sigurbjörns, kafnaði að sjálfsögðu á vörum þeirra, sem ekki gátu orðað hugsanir sínar í líkingu við þann ágætlega skáldmælta mann.

Sigurbjörn segir um sjálfan sig: ". . . ónýtt starf og mæði." Vissulega fann hann það, að honum var bægt frá að njóta hæfileika sinna. Vestur frá var honum liðsint betur. En *þá* var *þó* ekki unt að bæta úr mentunarskorti hans. St. G. víkur að því:

"En hitt er samt mannraun og nærri því nauð,
of nærgöngul öllum, sem reyna,
að metast við heiminn um mentunar brauð,
fá mola og úrkast og steina.
Fá sáðland sér úthlutað óræktar mest
í urð og með jarðvegi grunnum.
Og sjá sér svo ákveðinn uppskerubrest
í allslok á hrjóstrum svo þunnum."

Þetta gæti þýtt það, að skáldið í Sigurbirni hafi hlotið útsköfur til ábúðar, með því að fara á mis við þann Vitaðsgjafa, sem uppskeru gefur um aldir. Þá andlegu vínuppskeru fá þau skáld, sem komast inn í sól og sumar og fengist geta við stærri viðfangsefni, en gera tækifærisljóð í veizlum. Sá skáldskapur hlýtur að verða skammlífur, enda þótt úrvalsmaður ljóði á boðsfólkið. En þakka skyldi þó manninum, sem svo verður sagt um, að

"Kveðandi vígðir þú lýðmót og leik,
og landnemann söngst þú til moldar."—St. G. St.

Sigurbjörn mat mest Bólu-Hjálmar allra skálda og svo féllu orð hans eitt sinn, eftir útkomu Úrvals Hjálmars, að hann öfundaði Bólu-skáldið af þeim orðum, sem Hannes Hafstein mælti um það í formála fyrir kverinu — þeim skilningi, sem þar kemur í ljós á kjörum alþýðuskálds á Íslandi. Sigurbjörn mun hafa hugsað til sinna saka, og vissulega hafa beztu ljóð Sigurbjörns dáið áður en þau fæddust. Hann var einn þeirra, "sem hnígur undir önn og töf, með öll sín beztu ljóð í gröf." —St. G. St.

Sigurbjörn Jóhannsson þótti vera áleitinn í vísum sínum—tækifærisbögum. Það þótti löngum við brenna um ísl. alþ.skáld.

Sennilega hefir þeim farið líkt sem görpunum í fornöld, sem eignuðust dvergasmíðarnar, eða þau vopn, sem bitu herklæði jafnt sem hold. Álög fylgdu þeim bröndum, þau, að níðingsverk voru með þeim unnin.

"Honum liggja álög á:
eign hans veldur meinum."
— St. G. St.

En þetta má skýra öðru vísi.— Í þessum mönnum bjó kraftur, sem leitaði útrásar. Og sá kraftur tók til höndunum, þar sem eitthvað var í að taka. Fábreytt líf í sveit gefur lítil skáldskapar efni. Þá fer svo, að alþýðuskáldið reynir markhæfni sína á því, að senda ör þangað, sem snöggur díll er fyrir — af því það gat ekki á sér setið, eða eins og Bólu-Hjálmar orðar það:

" . . . Einkum því eg aldrei get
á mér kjafti þagað." —

Þetta stafar af því, að uppsprettan, sem öðru nafni heitir skáldæð, leitar sér framrásar, og fer um lítilfjörlegt svæði, ef eigi er mikilsháttar umhverfi til staðar.

Og þó getur svo til tekist, að ein vísa um heldur lítilsháttar efni, getur lifað lengur og vegið meira, en heil bók, sem svo er saman sett, að "umbúðirnar eru vætt, en innihaldið lóð."

Sigurbjörn Jóhannsson er einn þeirra alþýðumanna, velgefinna, umkomulítilla, sem leituðu vestur um haf í gæfuleit, ef svo kynni til að bera, að þar raknaði úr fyrir þeim eitthvað. Eg ætla að, hann hafi sótt þangað betra hlutskifti, en það var, er hann hvarf frá. Svo sagði hann í bréfum sínum heim. Hann bjóst við, að börn sín græddu við umskiftin. Svo mæltu fleiri, er vestur fluttust. Þetta hugboð er vel túlkað í kvæði St. G. St., þar sem hann segir:

"Við hafið þeir dreymandi stóðu,
er sól rann að viði í vestrinu látt
í vorkveldsins blárökkur móðu."

Sama skáld segir í öðru kvæði:

"Með sjónunum opnum mig
dreymdi."

—ef eg man rétt. Þegar svo fellur, gerast dagdraumar og vökudraumar. Vesturfarana suma mun hafa dreymt á þá leið, að þeir sjálfir næðu í höm hamingjunnar vestur á Vínlandsströndum. En einkum mun þá hafa órað fyrir því, að börn sín og niðjar mundu hreppa þar gull og græna skóga. Þá menn hefir að vísu dreymt fyrir daglátum. Og munu þeir draumar, sumir, eiga enn eftir að rætast.

Unga kynslóðin sannar eða ósannar þær vonir, eftir því, hvernig hún hagar sér og drýgir dáð.



# Fjögur kvæði.

Eftir **frú Jakobínu Johnson.**

## *VITINN.*

Eins og örskot og eld-fögur hugmynd,
Er fær uppljómað hugskot sem snöggvast
Og þar dreifir úr dimmustu skuggum,
Svo að dularfult málefni glöggvast,
Þannig leiftrar þitt eldlega auga,
þegar algleymi náttmyrkurs vefur
Allar snasir og grynningar grímu, —
— Og hinn grunlausi farþegi sefur.

Þegar auga þitt auga því mætir,
Sem með öryggi vegleysu þræðir
Um hin voldugu höf — og til hafnar
Ræðst í húmi, þó úfinn sé græðir,
Þá fer stæling um hug hans—og höndin
Verður hárviss að stýra hjá voða
Þeim, er leiftrið þitt tindrandi táknar
Með sinn töfrandi, vekjandi roða.

En það er ekki einungis glampinn
Og hin örugga hjálp, er hann veitir,
Sem minn hug hrífur dýpst, — heldur draumur,
Sá er dagrenning kærleikans heitir.
Hvar sem ljós kveikir hönd, til að lýsa
Fram hjá lífsháska, bróður á vegi,
Þar er mannúðin rökkrin að rjúfa,
Og mun ríkja á komanda degi!

1925

---

## *VOR.*

*(Í gömlum aldingarði)*

Ó, hve vorið yngir
Alla þessa stofna!
Fyrir fáum dögum
Fanst mér tjaldið rofna
Og um sviðið svífa
Sólargeislum klæddar
Verur, — vorsins andar,
Valdi miklu gæddar.

Enginn hávær hljómur
Hermir frá því valdi.
Ekkert undra letur
Efst á gullnu spjaldi. —
—En það starfar, starfar,
Stöðugt daga og nætur.
Ótakmörkuð orkan
Ekkert gleymast lætur.

Sást þú gamla garðinn
Gliti vorsins búinn?
—Þó að vaki' um vetur
Vonin mín og trúin,
Er mér opinberun
Ætíð söm að líta
Bogna fauska bera
Brúðar skartið hvíta.

Sérhver kló og kvistur
Krýnist þúsund sinnum.
Þúsund bjartra blóma
Blíða angan finnum
Streyma ljúft og lengi,—
—Líkt og vorsins blíða
Vilji vefja örmum
Vonleysi og kvíða.

Vilji vekja af dvala
Vitund þá, að leynist
Áhrif dýpst og orka,
Án þess hávær greinist
Lúðra-þytur lýðsins. —
—Lengst um heiminn víða
Finni farveg hjartans
Fegurð vors og blíða.

---

## *VORFUGLAR.*

Hve unaðslegt árdegi' að fagna,
Er ásta-ljóð vorfuglar syngja!
Þeir iðja, þó umhverfið dreymi —
Sjá — úti við skóginn er dyngja,
Sem svart-fuglinn safnaði þar,
Þá sofandi mannheimur var.

Hvað var það, sem svifti mig svefni?
— Var svalan sér bústað að tryggja?
Í gær hafði' hún glímt við það lengi,
Við gluggann minn hreiður að byggja,
En eg tók það öldungis af,
—Þá ólmast hún meðan eg svaf!

Og nú hefi' eg hreint ekki hjarta
Að hrekja' hana burtu frá verki,
Því hún hefir sýnt mér og sannað,
Hvað sigra kann viljinn hinn sterki.
—Og eins það, sem ofdirfska er mér,
Er áræði' og dugur hjá þér.

Hver heilsar mér hæverskt með nafni
Og hefur upp söng-röddu skæra?
Eg kenni þig, lævirkinn ljúfi,
Þó langt frá sé sléttan þín kæra.
Ó, haf hjá mér dag-langa dvöl,
Eg drekka vil fagnaðar öl.

Því eg er sem gagntekin gleði,
Við gest-komu' úr átthögum mínum,
Þú fugl, sem að færðir mér vorið
Með fagnaðar-söngvunum þínum!
— Því, hver trúði hrafni, eg spyr,
Þó hann kæmi vikunni fyr?

Nú kveður við hljómfagur hlátur.
Og heyri ég rauðbrysting tala:
"Eg herma vil háttvirtum gesti,
Að hér er eg kóngur á bala,
Því hér kem eg fyrstur — og fer
Ei fyr, en að tínt er hvert ber."

Svo vappar hann hægur og hreykinn
Með hugann hjá fjólunum smáu.
— En þær eru táp-lítil tetur,
Með tárin í augunum bláu. —
— Hann hyggur á hunang og dögg,
En hreyfing varð óvænt og snögg

Í bikar á rósinni rauðu.
—En rauðbrystings hreyfing var sneggri!
Í langvinnri leit eftir fæðu
Var ljónhvassa sjónin hans gleggri,—
— Og áður en eg fengi spurt,
Var ormur og fuglinn á burt!

---

*SPÖRFUGLINN.*

Er vetrarins vinda lægði,
Og vorblómið fyrsta hló,
Þá flaug til mín spakur spörfugl,
Og spurði með stakri ró:
"Er húsið þitt laust til leigu,
— Svo lítið, en snoturt þó?"

Eg visi að vorið spurði.
— "Jú, velkomið, strútur minn.
Því smá-hýsið búið beið þín, —
Eg býð þér að skygnast inn.
— Og svo skalt þú sækja frúna,
Og sýna' henni bústaðinn."

Hann var ekki seinn í svifum,
Og svo kom hin gráa frú.
Þau skoðuðu krók og kima,
Og kýttu, sem eg og þú.
— Því hún var svo hrein og vandlát,
En — hann vildi draga' í bú.

Þó flugu þau sátt og samlynd,
Að sækja hin fyrstu strá.
Þau flýttu sér fram og aftur
Með fjaðrir og kvisti smá.
Því annirnar að þeim sóktu
Og eltu þau til og frá.

En loks komu dýrðar dagar,
Með dásamri kyrð og ró,
Er strútur minn stóð á verði,
Svo stoltur, en hægur þó.
Og söng um þær sælu-stundir,
Er sólin og vorið bjó.

Þó vorið oss vefji örmum,
Þá varir það skamma stund.
Er heyrum vér harðar kröfur,
Vér hrökkvum af værum blund,
Og sjá, — þar er sumar lífsins,
Og sýnir oss gull í mund.

Ef atorku ei oss brestur, —
— Og eins var með spörfuglinn.
Eg saknaði söngsins blíða,
Og sá út um gluggann minn,
Að annirnar aftur sóktu, —
— Og ógnuðu' í þetta sinn.

En trúin á tilgang lífsins,
Og trygðin við skylduverk,
Er taugin, sem traustast bindur, —
— Sú taug, hún er mjúk og sterk.
Og svo, þó að sönginn þrjóti,
Er sálunni reynslan merk.

— — —

Á hausti, er laufblöð hrynja
Og hirt eru vetrar föng,
Má söngvarinn leita suður
Og safna þar, dægrin löng.
— Því smáfuglsins eini auður
Er efnið í nýjan söng.

# Risar og engisprettur.

Eftir séra **Ragnar E. Kvaran.**

Þess hefir verið getið á prenti í blöðum vorum í haust, að Tímarit Þjóðræknisfélagsins hafi orðið fyrir þeim álögum af hendi guðfeðgina sinna, er því var nafn gefið, að aldrei mætti nefna trúmál í þess áheyrn — að minsta kosti með öllu bannað, að það flytti sjálft nokkurar hugleiðingar um þau efni. Vel má vera, að ekki sé að ástæðulausu svona ummælt. En þó vona eg, að ekki verði um það vandað, þótt eg sæki mér texta að máli mínu í fornar heimildir, sem nátengdar eru trúarhugmyndum kristinna manna.

Í fjórðu Mósebók er sögð saga um það, er Móse sendi 12 menn í njósnarerindum inn í Kanaansland, til þess að færa fregnir af staðháttum og grenslast eftir, hver tök mundu á því vera, að ráðast til inngöngu í landið. Sendimennirnir komu aftur og gáfu skýrslu sína. Í fyrstu voru þeir allir sammála um eitt atriði. Þeir sögðu, að landið væri afarfrjósamt og flyti í mjólk og hunangi — eins og Þórólfur sagði síðar um annað land, að smjör drypi þar af hverju strái. En þá lagði einn maðurinn það til, að lýðurinn skyldi tafarlaust hefjast handa og ráðast þegar inn í landið. En þá tóku hlutirnir að sjást í öðru ljósi.

Fræðimenn hafa stundum verið —eða svo segir Francis J. McConnell biskup í Pittsburgh, og það var ræða eftir hann, sem fyrst dró athygli mína að þessum stað í Mósebókunum — í vandræðum með þessa frásögu. Sömu mennirnir, sem segja í einu versinu, að landið sé indælt, segja í því næsta, að það sé ilt og eti upp íbúa sína. Sumir hafa haldið, að hér væru tvær fornar erfikenningar, sem hefðu verið ofnar saman í eina frásögu. Það er ekki talið óhugsandi að svo sé, en hitt þó líklegra, að hér sé ekki um neitt þvílíkt að ræða. Tillagan um að hefjast handa, er þarna á milli þessara tveggja ummæla. Þegar á það var minst, að ganga rakleiðis að markinu og leggja undir sig gæðin, sem allir þráðu, þá breyttu þau samstundis útliti í augum tíu af tólf sendimönnum. Þegar menn stóðu andspænis því, að leggja eitthvað á sig og í hættu við að ná fyrirheitna landinu, þá breyttist landi í ilt land úr góðu, og ægilegir risar urðu á veginum.

Mennirnir hafa ekki breyzt ákaflega mikið frá þessum tíma. Sendimennirnir tíu heyra til þeim mikla meirihluta, sem horfir hugfanginn í áttina til fyrirheitna landsins, þangað til einhver stingur upp á því, að leggja af stað í áttina þangað *núna.* Þá taka örðugleikarnir á sig risavaxna mynd. Það er ekki minsti vafi á því, að það mætti koma í framkvæmd á örstuttum tíma, til þess að gera,

mjög miklu af því, sem mennirnir eru sammála um að eigi að vera í framtíðarríkinu, þúsundáraríkinu, sem fornþjóðir dreymdi um. En tíu af hverjum tólf mönnum, sem tala um ágæti þess og óska þess í einlægni, að það komi, verða agndofa, þegar á það er minst í alvöru að *gera* eitthvað, til þess að færast nær því. Of mikill hraði gæti haft slæm áhrif á viðskifti þeirra, eða eitthvað annað, sem þeim er hjarfólgnara, þegar til kemur. Fyrir þá sök er ekkert ótrúlegt við það, að þeir, sem hrósa landinu og blessa það í 27. versinu í kapítulanum, bölvi því í 33. versinu. Tillagan um að taka hendurnar úr vösunum og gera eitthvað, er í 30. versinu.

Sendimennirnir tíu gera grein fyrir vandkvæðum sínum með þessum orðum: "Og vér sáum þar risa, Anaksonu, sem eru risaættar, og vér vorum í augum sjálfra vor sem engisprettur, og eins vorum vér í þeirra augum."

Allir vita hvernig engispretta lítur úr. Lítið skorkvikindi, með langa fætur og vængi, sem eru þvínær samlitir grasinu. Nú er ekki undarlegt, ef mönnum finst þeir líkjast þessum kvikindum, að aðrir fengju þá líkt álit á þeim. Engan þarf að furða á því, að aðrir rengi það ekkert, að maður líkist engisprettu, ef honum finst það sjálfum. Og það er sem maður sjái sendimennina vera að líkja eftir þessum skordýrum: gera sig lítið áberandi í grasinu og hoppa á löngum leggjum undan risunum, sem þeir þóttust sjá á veginum — risunum sjálfum vitaskuld til mikillar ánægju.

Þess hefir verið getið, að tveimur af sendimönnunum hafi litist annan veg á. Þeir báru enga virðingu fyrir engisrettuhugsuninni. Þeir sáu ekki þessa risavöxnu Kanaansmenn, sem hinir sáu. Og þeir litu fyrst og fremst öðrum augum á sjálfa sig. Þeir fundu með sjálfum sér, að þeirra eigið andlega þrek, vilji þeirra til þess að fara inn í fyrirheitna landið, var aðalatriðið — aðalskilyrðið til þess að geta lagt það undir sig. Þeir vissu, að ef sá vilji var til í þjóðinni, hitinn og tilhlökkunin yfir því að börn þeirra gætu alist upp í siðuðu landi, en ekki á eyðimörku, þá gerði það ekki svo mikið til, þótt mótstöðumennirnir væru í hærra lagi. Þessi skoðun sannaðist líka greinilega, þótt ekki yrði fyr en mannsaldri síðar. Þá var ný kynslóð vaxin upp; henni tókst að fá skilning á því, að hún berðist heilagri baráttu, enda hrundu þá líka múrar Jeríkóborgar og aðrar hömlur í rústir.

Sendimennirnir tíu hafa vitaskuld sagt það satt, að örðugleikarnir væru miklir. Þeir eru altaf miklir, þegar til mikils er að vinna. En allar merkari hreyfingar hafa fyrir þá eina sök komist af stað, að einhverjir foringjar komu fram, sem gátu hvatt fólkið til þess að leggja af stað, *þrátt fyrir* alt, sem hægt var að benda á að væri til fyrirstöðu. Og það er alt af hægt að benda á tíu ástæður fyrir því, að réttara sé að hreyfa sig ekki — ef um eitthvað er að tefla

— gegn einni fyrir því, að leggja beri af stað.

Frá því að athyglin drógst að þessari einkennilegu sögu í 4. Mósebók nú í haust, hefir hugurinn sífelt öðruhvoru hvarflað að staðháttum og ástæðum vor Íslendinga hér í álfu. Ekkert skal um það sagt, hvort þeir hafi haft öðru vísi eða ákveðnari hugmyndir eða drauma um farsælt framtíðarríki á jörðu, heldur en aðrir menn. Er naumast ástæða til þess að gera ráð fyrir því. Og vissulega hafa þeir gert eins lítið til þess að skapa það, eins og aðrir þeir, sem minst hafa gert. En hvað er það, sem hefir verið mest áberandi, frá þeim tíma, er Íslendingar fluttust hingað, sem bæri þess vott, að þeir vildu *eitthvað*— eitthvað, sem þeir ekki vildu fara á mis við, og fyndu að myndi gera líf þeirra ómerkara, ef þeir færu á mis við? Naumast mun lengi þurfa að leita að svarinu. Frá fyrstu tíð og fram á þennan dag, höfum vér aldrei þreyzt á því að fullvissa hvert annað um það, að það, sem Íslendingum væri fyrir mestu, væri í einu orði: *samheldni*. Þeir hafa haldið úti blöðum, stofnað félög, reist og haldið við kirkjum í þessu augnamiði nú í milli fjörutíu og fimtíu ár. Þeim hefir orðið nokkuð ágengt, en ekki nándarnærri því nógu mikið. En það virðist svo á þessum síðustu árum, sem mönnum sé farið að vaxa málið í augum. Þeir eru farnir að sjá risa á veginum, og einhver máttleysis værð að færast yfir hugina, líkast því, sem þeir segðu, að þeir væru vitaskuld ekki þessa megnugir. Þeir eru að verða engisprettur í sjálfs sín augum, og þá stendur áreiðanlega ekki lengi á því, að þeir verði það í annara augum.

Eg hygg ekki, að margir verði til þess að mótmæla því, að þetta, sem eg hefi bent á, að Íslendingar hafi séð að mestu máli skifti fyrir þá, hafi einnig verið augljósust sönnun þess, að þeir voru menn, sem yfir nokkurri menningu hafi búið. Því mun heldur ekki verða verulega mótmælt, að lítið væri ekki áunnið, ef oss tækist að tryggja svo félagsmál vor, að börnum vorum og þeirri kynslóð, sem tekur við, væri verulegur stuðningur að. En sá er munur á sögunni, sem minst hefir verið á hér að framan, og vorri eigin sögu, að þar komst þjóðin inn í landið þótt það dveldist, en öll íslenzk hugsjónamál eru dauð hér um aldur og æfi, ef þeim verður ekki komið í nokkurt horf á næstu árum.

Hvers vegna eiga Íslendingar að halda saman? Eg held að segja megi, að svörin við þeirri spurningu hafi hingað til verið aðallega með tvennu móti, hjá þeim mönnum, sem annars hafa haft löngun til nokkurrar samvinnu eða sambands. Annars vegar eru þeir, sem litið hafa á málið frá því sjónarmiði, er nú skal reynt að lýsa.

Íslendingar komu hingað til landsins með siði og hætti og hugsunarhátt, í einu orði menningu, sem var annars eðlis, heldur

en hér var fyrir í landinu og þessari álfu yfirleitt tilheyrir. Menn töluðu fyrst og fremst annað mál, heldur en hér er notað. Eins og ræður að líkum, þá var þess enginn kostur, að þeir menn, sem hingað hafa komið fullorðnir, gætu sótt menningu sinni stuðning í neina aðra átt en þá, sem horfði heim til Íslands, eða til þess, er var að minsta kosti í íslenzkum jarðvegi vaxið, vestan hafs eða austan. Þeir gátu ekki skift um ham og sótt vitsmunalífi sínu neina verulega næringu í aðra átt. Meðan svona hefir verið ástatt, hefir verið nauðsynlegt að halda uppi íslenzkum félagsskap, til þess að fólkið yrði ekki alveg úti, andlega. Nú hefir ný kynslóð smátt og smátt vaxið upp. Hún hefir staðið með annann fótinn í íslenzkum hugsunarhætti og menningu, hinn í hérlendum. Þessi þróun er enn ekki um garð gengin. En hún færist óðfluga nær takmarki sínu. Þegar hugsunarháttur nýju kynslóðarinnar er orðinn að öllu leyti hérlendur, hún hefir fengið aðgang að öllum þeim menningarlindum, sem hér eru á boðstólum, þá er verkefni íslenzks félagskapar úr sögunni. Samvinnan og félagsskapurinn hefir þá verið brú frá menningu ættlandsins til nýja landsins. Og þegar komið er yfir brúna, þá er verkefninu lokið.

Hinn skilningurinn hefir verið sá, að samvinnan ætti sér víðara verkefni. Hún á að vera meira en brú, hafa þeir menn sagt, sem hann hafa aðhylst . Samvinnan á að miða að því, að flytja alt það með sér yfir brúna, sem nokkur kostur er á, og eitthvert gildi hefir. Íslendingar eru þjóð, sem lifað hefir við önnur kjör, heldur en nokkur önnur þjóð. Kjör hennar og æfi hefir stimplað hana öðru marki heldur en aðra menn. Hún hugsar öðru vísi og hún hefir sett innsigli hugsunar sinnar á ljóð og sögur, sem geta verið oss ævarandi uppsprettulind til þroska, á brautum, sem oss eru eiginlegar. Þess vegna er framar öllu mikils um það vert, að viðhalda og varðveita tungu vora, hið dásamlega aðalsmerki þjóðstofnsins.

Hvorutveggja þessi skilningur hefir margt til síns máls, en þó er eg hvorugum sammála að fullu. Íslenzkur félagsskapur *hefir* vissulega orðið brú frá Íslandi til Vesturheims. Ekki er hinn allra minsti vafi á því, að öll samtökin hafa orðið til mikillar blessunar. Mönnum hefði orðið algjörlega óbærilegt að lifa í landinu, ef þeir hefðu ekki haft tækifæri til þess að koma saman, halda sameiginlegar guðsþjónustur á máli, sem þeim var eiginlegt, skiftast á hugsunum við menn, sem þeim voru andlega skyldir o.s.frv. En verkefninu er ekki lokið, þótt vér stæðum föstum fótum í hérlendri menningu — sem vér vissulega gerum ekki.

Það er líka áreiðanlega mikils um það vert, ef oss gæti auðnast að flytja sem mest með oss yfir brúna af þeim verðmætum, sem vér vitum dýrmætust í fórum þjóðarinnar. Ekki hefir enska

þjóðin, sem hingað hefir fluzt og orðið kanadisk, viljað skilja Shakespeare og Dickens og Tennyson og allan herskarann af snillingum, sem þeir hafa átt, eftir fyrir handan hafið. Ekki hefir Skotinn viljað verða viðskila við Burns og Scott. Hví skyldum vér þá ekki njóta Snorra og Jónasar Hallgrímssonar hér líka? Hví skyldum vér ekki, um leið og vér eignumst hlutdeild í verkum þeirra manna, sem aðrar þjóðir hafa flutt hingað með sér, leggja kapp á að njóta þeirrar birtu, sem menn vorrar eigin þjóðar hafa varpað yfir viðfangsefni lífsins? Það yrði vor séreign að mestu, en það ætti að geta hjálpað oss til þess að sjá því betur, sem ljósmagnið er meira.

Alt er þetta svo einfalt og sjálfsagt mál, að um það ætti ekki að geta orðið nein deila, að þetta sé ákjósanlegt, sé nokkur kostur að flytja nokkuð verulegt með sér. En mér finst menn hafi blínt hér um of á þau atriði þjóðræknismálsins, sem ef til vill eru ekki aðalatriðin. Fáein orð nægja til þess að skýra, við hvað eg á.

Það fer mikið orð af þeim örðugleikum, sem á því sé, að varðveita íslenzka tungu hér í landi og vekja nokkurn áhuga fyrir íslenzkum hugsunum. Vér höfum séð allskonar risa og illvætti á veginum. Og það sem verst er, vér höfum talað svo mikið um þessa illvætti, að unga kynslóðin hefir tekið oss trúanleg og ekki hætt sér út á veginn. Nú er það með öllu vafalaust, að aðalóvætturinn er vort eigið dáðleysi. En setjum svo, að oss tækist ekki að varðveita tunguna nema hjá einstaka mentamönnum, sem legðu hana fyrir sig sérstaklega, þá er *ekki* þar með fallin úr gildi ástæðan fyrir því, að halda uppi öflugri samvinnu meðal íslenzkra manna. *Aðalástæðan* fyrir samvinnunni er ekki sú, að hún eigi að leggja brú frá einni menningu til annarar. Hún er heldur ekki sú, að viðhalda tungu vorri og sambandi við fortíð vora. Aðalástæðan fyrir samvinnunni er *samvinnan sjálf*. Henni eigum við að viðhalda og hana eigum við að auka og margfalda. Vér eigum að leggja alt kapp á að vernda tungu vora, af því að hún er hjálp til þess að viðhalda samvinnunni. En töpum vér tungunni, sökum þeirra örðugleika, er ekki verði yfirstignir, þá verðum vér að leita að öðrum ráðum til þess að verða oss að vopni í baráttunni fyrir samvinnunni.

Ein allra skaðvænlegasta kenning, sem nú gengur um þessa álfu, er sú, að það sé feykilegur ávinningur að gera menn, sem flytjast hingað frá ýmsum þjóðum, sem allra fyrst viðskila innbyrðis, í því skyni, að þeir geti sem fyrst samlagast hérlendu þjóðlífi. Ef það er nokkurt einstakt atriði, sem mikils er um vert, að þjóðirnar hér á norðurhveli þessarar álfu geri sér ljóst, þá er það hættan við eintrjáningsskap, en ekki við fjölbreytni. Sá, sem ferðast frá Atlantshafi og vestur í Klettafjöll, sér margvísleg fyrirbrigði náttúr-

unnar, en hann sér ekki nema eitt mark á því, sem mennirnir hafa gjört. Járnbrautarlestin þýtur í gegnum margar stórborgir. Farþeganum nægir að hafa séð eina þeirra. Hann má leggja sig rólegur til svefns upp á það, að hinar eru eins að útliti. Lestin þýtur í gegn um marga smábæi. Þeir eru enn líkari hver öðrum, ef hægt er, heldur en stórborgirnar. Sama lágvaxna, rauðmálaða járnbrautarstöðin er alstaðar. Sama "General Store" blasir við manni, sama Ford-verkstæðið, sama gistihúsið og sama "Poolroom". Saga Sinclair Lewis, "Main Street", getur gerst alstaðar á fleti hrings, sem hefir 1500 mílna radíus. Útlitið er ekki eingöngu hið sama, heldur hugsanirnar líka. Vitaskuld hafa verið færð fyrir því margvísleg rök, að þetta sé hagur — fjárhagslegur hagur — fyrir landsmenn. Framkvæmdaraflið verði einbeittara, dreifist síður og glatist, þegar miðað sé að því að hafa hlutina sem líkasta á mismunandi stöðum. Þetta er vafalaust rétt. En menningin er ekki eingöngu framkvæmdir.

Skilningurinn á þessu virðist sáralítill hjá þeim, sem hafa forystu um mál víðast hvar hér um slóðir. Borgarstjórinn hér í Winnipeg flutti ræðu í haust og hélt því fram, að nauðsynlegt væri að dreifa innflytjendum um landið á þann hátt, að þeir gætu ekki hópast saman, hver þjóðflokkur í sinni bygð. Þetta átti að verða til þess, að þeir yrðu fyr góðir og tryggir Kanadamenn. Nú er það mála sannast, að það er með öllu ódrengilegt að gefa það í skyn, að þær þjóðir, sem hingað hafa fluzt inn, hafi ekki sýnt þessu landi fulla drottinhollustu. Sennilega á það ekki við um nokkurn þjóðflokk, og áreiðanlega er það með öllu rangt um Íslendinga. Og vissulega yrði það Kanada lítt metanlegur skaði, ef enn meira væri dregið úr þeirri samheldnistilfinningu, sem menn hafa til ættbræðra sinna, heldur en orðið er. Þegar sagt er t. d. við Íslendinga, að þeir eigi að hætta að halda saman og veita hverir öðrum stuðning, vegna þess að þeir eigi að vera svo góðir borgarar, að láta sér jafn ant um alla Kanadamenn, þá er það í reyndinni sama sem að segja, að þeir eigi að *láta sér standa á sama um alla,* engir menn eigi tilkall til stuðnings þeirra. Það er ekki of mikið af bræðratilfinningu í mönnum, þótt á því sé alið með nokkuru afli, að mennirnir, sem eru þeim skyldastir, mennirnir, sem lifað hafa sama lífi og þeir sjálfir, hafa átt sömu sögu í gegnum 20—30 ættliði, séu þó að minsta kosti bræður þeirra. Og þarna liggur þungamiðja málsins. Íslendingar eiga að halda saman í baráttu og gleði, sigri og vonbrigðum, vegna þess að ættartilfinningin er sterkasta aflið, sem vér eigum völ á, til þess að tendra eld bróðurhugans í oss, til þess að reka oss af stað til þess að lifa eitthvað af þeirri samvinnuhugsjón, sem heitið getur sönn menning. Eg veit að sú spurning liggur nærri, hvers vegna vér eigum að einskorða velvildar-

hug vorn til manna af þjóðflokki vorum. Því er einu til að svara, að ef vér gerum ekkert fyrir *þá* menn, þá er ekki líklegt, að vér gerum mikið fyrir aðra. Spurningin fer þá fyrst að eiga rétt á sér, þegar vér höfum hreinsað svo til í næsta námunda við oss, að viðunandi sé.

Íslenzkur félagsskapur hefir, eins og öllum er kunnugt, hingað til að langmestu leyti verið bundinn við kirkjur vorar. Menn hafa sýnt starfi þeirra mikla fórnfýsi og margir hverjir mikla trygð. En oss hefir farið eins og öllum hugsandi mönnum fer, að vér höfum litið mismunandi augum á kristindóminn, sögu hans og verkefni. En oss hefir hent sú ógæfa, eins og svo marga aðra hefir hent, að láta skoðanamuninn verða að sundrungarefni þar, sem hann mátti ekki fyrir nokkurn mun verða það. Sá óhöndugleiki hefir enn fremur orðið til þess, að hin yngri kynslóð, eða nokkur hluti hennar, hefir dregið sig í hlé frá öllu sameiginlegu starfi. Og hverju sem um er að kenna, þá hefir þessi mismunur á skoðunum um trúaratriði, orðið eins og ægilegur risi á veginum, í hvert skifti sem til þess hefir verið hugsað að hefja nokkura sameiginlega starfsemi, heildinni allri til heilla og hagsmuna. Mennirnir, sem verkið áttu að vinna, hafa orðið eins og engisprettur í sjálfs sín augum, þegar þeir hafa staðið gagnvart þessum jötni. En óskiljanlegt er annað, en að menn séu nú alment farnir að sjá, að risinn er ekkert annað en skuggi "af hrófatildri heimskunnar." Risinn hefir aldrei verið til. Það hefir aldrei neitt verið til, sem með nokkurri sanngirni mætti teljast réttmæt ástæða fyrir því, að allir Íslendingar ynnu ekki sameiginlega að þeim málum, sem þeir hafa verið sammála um að þyrfti að vinna.

En með því að kirkjurnar hafa verið, eins og bent hefir verið á, öflugustu félagsskapirnir hingað til, þá er það út af fyrir sig nægileg ástæða til þess að þær verði framvegis notaðar sem miðstöðvar fyrir ýmsa sameiginlega starfsemi, verði henni komið á með nokkuru afli. Verkefnin eru mjög mörg. En að eins skal bent á eitt þeirra núna. Allar kirkjur vorar hafa, að nafninu til að minsta kosti, einhverja starfsemi til þess að létta undir með fátækum löndum vorum, sem í nauðir rata. Þetta starf situr víst undantekningarlítið á hakanum fyrir öðru. Ein ástæðan til þess, að lítið verður ágengt, er sú, að kraftarnir eru dreifðir. Nú er það svo, að það er í raun og veru smán fyrir þjóðflokk, sem svo er af guði gerður sem vor, og jafn framt ekki yfirgripsmeiri, að láta það nokkuru sinni þurfa að koma fyrir, að menn skuli vera neyddir til þess að leita til hins opinbera vegna fátæktar. Þeir, sem nokkuru sinni hafa rekið inn höfuðið á skrifstofu þá, sem kend er við *Social Service* hér í Winnipeg, vita að bónbjarga heimsóknir eru ekki skemtilegar þangað. Og vafalaust er líkt á komið

víðast hvar annarsstaðar. Hér er það svo, að starfsfólki er bannað að veita nokkrum manni hjálp, sem staðið getur á fótunum og sannanlegt er um, að geti tekið hendinni til nokkurs verks. En nú veit ekki einu sinni nokkur stofnun í bænum, hvaða menn af þjóð vorri líða neyð, hvað þá að hún sé þess um komin að greiða fram úr fyrir þeim, sem vitanlegt er um. Eini vegurinn til þess að losa þann smánarblett af oss, að láta það koma fyrir, að landar vorir svelti í næstu húsum við oss, er að kirkjurnar slái saman starfi sínu á þessu sviði, haldi vandlega skýrslu yfir það íslenzkt fólk, sem í þrengslum er statt, og hjálpi því. Ekki eru nokkur líkindi til þess, að standa muni á fé til þessa verks. Fólkið er ekki tiltölulega margt, sem mundi þiggja hjálp, en mennirnir eru margir, sem geta og vilja hjálpa, ef einhver tekur að sér forystuna í málinu. Væri þetta gert, með forsjá og velvildarhug til allra, þá mundu kirkjurnar með því kvitta fyrir margar yfirsjónir. Ef unt væri að koma á slíkri sameiginlegri "social service" nefnd með ötulustu atorkumönnum, sem kirkjurnar eiga yfir að ráða, þá mundi að öllum líkindum ekki líða á löngu, þar til sú nefnd fyndi köllun hjá sér til þess að víkka starfssvið sitt enn meira. Hér hefir nú verið haldið við, um nokkurra ára skeið, hæli fyrir gamalmenni. Það er fallegt verk og virðingarvert, og sannarlega óskandi, að eins vel gangi að starfrækja það hér eftir, eins og hingað til. En það er alkunna, að það hæli er ekki nærri nógu stórt til þess að taka við þeim, sem fýstu að eiga skjól á einhverjum slíkum stað, ef þeir héldu að nokkurt væri til fyrir þá. Það ætti ekki að vera ofvaxið þeim kirkjulega félagsskap, sem nú er í ýmsum bygðum Íslendinga, að sjá um það, að hvert gamalmenni, sem ekki á fjármuni eða ættingja að, eigi einhvern stað vísan, er það megi halla höfði sínu að, er kraftarnir eru gengnir til þurðar.

En þetta atriði, sem nú hefir verið minst á, er ef til vill ekki hið mikilvægasta verkefni, sem bíður íslenzkrar samvinnu. Það getur ekki talist mikilsverðast vegna þess, að tiltölulega auðvelt er að koma því í sæmilegt horf. En önnur verkefni bíða, sem örðugri eru viðfangs, en skifta jafnframt óumræðilega miklu máli fyrir framtíð íslenzkra manna hér í landi.

Síðastliðið sumar birtist í öðru höfuðblaði Manitoba-fylkis— Free Press í Winnipeg — skýrsla yfir fjölda þeirra unglinga, sem komið hefðu fyrir unglingarétt fylkisins (Juvenile Court) til dóms fyrir óknytti, misjafnlega alvarlega. Vafalaust hefir mörgum Íslendingum brugðið í brún, er það kom í ljós, að vor þjóðflokkur nýtur þess vafasama heiðurs að vera í þessu efni efstur á blaði allra þjóðflokka í fylkinu að tiltölu við fólksmagn.

Nú er það vitanlegt, að margir unglingar koma fyrir þennan rétt og eru dæmdir í smásektir fyrir

þær sakir, sem á engan hátt verða taldar siðferðilega hættulegar. Smávegis afbrot við reglugjörðir borgarinnar eru afgreidd þarna, þegar ungmenni eiga í hlut. Og öllum má liggja í tiltölulega léttu rúmi, þótt dæmin verði nokkuð mörg um það, að strákar hafi tvíment á hjólhesti, kastað snjóbolta yfir þvera götu, eða komið á annan hátt í bága við þær reglur, sem að vísu eru sjálfsagðar í borgum, en unglingum veitist erfitt að átta sig á að komi að nokkuru tjóni, þótt brotin séu. En í þessum rétti er og einnig fjallað um aðra hluti, sem alvarlegri eru. Hnupl og þjófnað og strákskap allskonar, sem telja verður til alvarlegra yfirsjóna. Þá koma og fyrir þennan rétt unglingsstúlkur, sem grunsamlegt þykir um að lifi taumlausu og spiltu lífi.

Naumast er hægt að hugsa sér, að nokkur þjóðflokkur geti fengið öllu verri fréttir en þær, að hinn uppvaxandi stofn hans hafi leiðst inn á þær brautir, sem þessi afbrot einkenna, í svo ríkum mæli, að stóru muni um hundraðstöluna á við aðra þjóðflokka. Reyndar er sjálfsagt að geta þess, og hafa það í huga, að þessar fregnir hafa borist oss gegnum blað, sem hefir, eins og þvínær öll ensk blöð í landinu, tilhneigingu til þess að mikla yfirsjónir "útlendinga" í samanburði við þeirra, er komið hafa frá brezku eyjunum. Hins vegar er ekkert vit í að telja þetta alt vitleysuhjal og skella skolleyrum við því. Sómi vor er í veði, ef vér ekki rannsökum þetta og göngum úr skugga um, hverju þetta sætir. Vér verðum að komast að raun um, hvaða tegundir af afbrotum þetta eru, og þar næst hefja tilraunir til þess að rannsaka, hvort líkindi séu til þess, að þessar tilhneigingar stafi af erfðum frá þjóðflokkinum sjálfum, eða hvort það stafi af uppeldi eða uppeldisleysi — í stuttu máli, hvað veldur þessu.

Að málinu órannsökuðu er að sjálfsögðu varlegast að búa sér sem minstar hugmyndir. En þó verður því naumast varist að minnast í þessu sambandi annara frétta, sem oss Íslendingum hafa borist. Vinur minn einn, sem er þaulkunnur málum hér í landi, hefir sagt mér frá því, að eitt ófriðarárið hafi verið samin og birt skýrsla frá innflutningsskrifstofu Kanada, um þá menn, sem fluttir hefðu verið úr landi sökum þess, að þeir hefðu verið álitnir óhæfir borgarar. Kom þá í ljós, að yfir þrjátíu þúsundir Englendinga hefðu orðið að hverfa, frá því um aldamót, heim aftur, eftir að þeir höfðu gert sig seka um lagabrot hér, en á sama tíma hefði einum Íslending verið varnað inngöngu í landið, vegna vanheilsu, en enginn verið rekinn úr landi.

Nú er það vitaskuld ekki ætlunin, að fara að gera fyrir þessa sök neinn samanburð á glæpahneigð Englendinga og Íslendinga. Aðrir hafa fluzt hingað í tölu hundrað þúsunda, ef ekki miljóna á þessu tímabili, en hinir eru tiltölulega fáir. En hitt má benda á, að þetta ber þess ótvíræð merki, að fólkið,

sem komið hefir frá Íslandi, hefir ekki haft mikla tilhneigingu til lagabrota, þegar engum hefir verið vísað aftur úr landi, jafnalgengt og það er, að dómstólarnir grípi til þess ráðs, þegar í hlut eiga menn, sem fæddir eru erlendis. Þegar við þetta bætist, að öllum er kunnugt að löghlýðni hefir um margar aldir verið mikil á Íslandi, þá virðist ekki óvarlega ályktað, þótt sagt sé, að ef mjög verði vart tilhneigingar til afbrota með kynslóðinni upprennandi hér, þá muni líkindin ekki vera fyrir því, að það stafi af arfi frá foreldrum eða kynstofninum sjálfum.

En hvað veldur þá þessum ófögnuði?

Eins og bent hefir verið á, þá verður ekkert endanlegt um þetta sagt, að svo stöddu, meðan enginn veit með vissu um eðli þessara afbrota. En heildaráhrifin, sem slík frétt sem þessi hlýtur að hafa á mann, eru þau, að hjá þeirri hugsun verði ekki komist, að fólkið hafi á einhvern hátt mist vald á unglingum sínum eða orðið að gefast upp við að vekja í þeim það innræti, er í því sjálfu hefir verið. Öllum er ljóst, að það er mikill þróttur og kraftur í íslenzkum unglingum hér í landi. En þetta virðist bera þess vott, að sá kraftur sé æði taumlaus. Eldri kynslóðinni hefir, að því er virðist, ekki tekist að vekja þann metnað í börnum sínum, er leiði þau til dáða og atorku á þeim brautum, er þeim sjálfum og mannfélaginu eru hollar. En alt afl leitar að útrás, og fáist hún ekki í rétta átt, þá fer hún í ranga átt. Lagabrot geta stafað af tápinu einu, sem ekki hefir fengið hæfilegt viðfangsefni.

Ef rétt er munað, þá er það atriði fyrst nefnt í þeirri grein skipulagsskrár Þjóðræknisfélagsins, er fjallar um tilgang félagsins, að því sé ætlað að vinna að því, að gera menn af íslenzkri þjóð sem bezta borgara hér í landi. Það er alveg sjálfsagt, að þetta atriði sé sett framar öllu öðru. Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi, hlýtur að hafa þann aðaltilgang, að rækta íslenzka þjóð í álfunni. En af því leiðir að sjálfsögðu, að ef því félagi kemur nokkurt mál við á jarðríki, þá er það þetta, hvort líkindi séu fyrir því, að einhver hluti þjóðarinnar sé að fara í verulega *órækt*. Verkefnið, sem hér liggur fyrir, er að fá einhvern eða einhverja af vorum gáfuðu lögfræðingum til þess að hefja ítarlega rannsókn á því, hver sé sannleikurinn í þessu máli, að því leyti, sem dómstólarnir geta gefið fræðslu um þetta efni. Lögfræðingarnir hafa að líkindum greiðari aðgang en aðrir menn að þeim skjölum og plöggum, er hér lúta að, og þeir ættu að geta gefið bendingar um það, hvort þjóðflokkurinn sé á leiðinni ofan brekkuna — hvort almennar félagslegar ódygðir séu að fara í vöxt. Að þeirri rannsókn lokinni yrði hægt að snúa sér að því að leita að orsökunum og ráðum til endurbóta.

En þetta leiðir hugann að öðru efni. Svo framarlega sem nokkur alvara er í þeirri fyrirhugun að

vinna að ræktun íslenzku þjóðarinnar í landinu, þá er það augljóst, að oss ríður framar öllu öðru á því, að *vita* meira um þjóðina. Hér hefir verið bent á það liðsinni, sem lögfræðingar vorir gætu veitt oss, þó ekki væri nema í þessu eina atriði. En allir, sem til þess hafa þekkingu og hæfileika, hafa hér verkefni. Naumast væri t. d. hægt að hugsa sér meira heillandi viðfangsefni fyrir íslenzka lækna, sem hefðu upplag til vísindamensku, en að rannsaka líkamsbyggingu þjóðarinnar hér í landi. Guðmundur prófessor Hannesson hefir verið að rannsaka þetta efni á Íslandi undanfarin ár, og gert markverðar athuganir. Það má t.d. telja það alt að því sannað mál, eftir þær rannsóknir, að Íslendingar séu hávaxnasta þjóðin á hnettinum. En nú eru margir þeirrar skoðunar, að íslenzkir piltar hér í landi séu vafalítið hærri vexti, heldur en feður þeirra, sem hingað komu að heiman. Spurningin er því, hvort *hér* sé hæsta þjóð í veröldinni. Kanadamenn sem heild standa framarlega að þessu leyti, en þó ekki í fremstu röð — eftir mælingum á hermönnum að dæma —, en Íslendingar í Vesturheimi kunna að bera af öðrum svo stóru muni. Að minsta kosti væri fróðlegt að fá það rannsakað.

Sumum kann að þykja þetta lítilsvert mál. En svo er ekki. Allur fróðleikur, sem völ er á, um andlegt og líkamlegt atgjörfi þjóðarinnar, um kosti hennar og ókosti, eru mikilsverðir, ef nokkurt *vit* á að vera samfara þeirri viðleitni, sem Þjóðræknisfélagið hefir helgað sig og allir góðir menn ættu að vera sammála um að styðja beri — viðleitninni, að gera menn af þjóð vorri sem ágætasta borgara þessarar álfu. Þekkingin á oss sjálfum, er mjög í molum. Enginn hefir t. d. enn nægilega þekkingu á þjóðinni til þess að geta úr því skorið, hvernig á standi því fyrirbrigði, að að eins lítill hluti þeirra manna, sem ná ágætum orðstír í skólum, skuli njóta sín svo eftir að skólanámi er lokið, að verulega kveði að, eða öðrum mönnum komi að gagni. Spurningin er aftur á ný hin sama: er hér um að ræða nokkur einkenni, sem teljast megi eiga rót sína í lundarfari eða upplagi þjóðarinnar, eða eru ytri ástæður þessu valdandi? Og valdi ytri ástæður, uppeldi, félagsskapur, í einu orði umhverfi, fáum vér þá breytt því?

Þau atriði , sem hér hefir verið bent á sem ástæður fyrir og tilefni til samvinnu meðal þjóðarinnar sem heildar hér í álfu, eru, eins og allir skilja, aðeins bendingar um þá átt, sem skynsamlegt virðist nú að taka í þjóðræknismálum vorum. Þeim málum hefir hingað til verið alt of þröngur stakkur sniðinn. Áherslan hefir hingað til verið lögð á Íslenzkuna og sambandið við Ísland. Þetta er vissulega réttmætt. En hættan, sem framvegis verður að varast, er sú, að hugsunin festi enn meiri rætur en orðið er, meðal uppvaxandi kynslóðarinnar, að fyrst hún hafi fleygt

frá sér Íslenzkunni að miklu leyti, þá hafi hún að sjálfsögðu fleygt frá sér um leið öllum þjóðræknismálum. Þetta tvent hefir verið í hennar augum, eins og í vorum augum, nákvæmlega eitt og hið sama. En svo er ekki. Þjóðræknismálið er fyrst og fremst mál hins íslenzka kynstofns í Vesturheimi. Málinu á að halda vakandi til þess að sá kynstofn komist til mestrar menningar og nái fullkomnustu lífi í þessum nýju heimkynnum. Ágætt vopn í þeirri baráttu er ræktarsemin við tungu þjóðarinnar og sögu. En það er banatilræði við málið sjálft, ef öllum þeim er hrundið á braut, sem einhverra hluta vegna fást ekki til þess að sinna tungunni. Jafnvel skilningsleysið á hættuna og skaðann við að rjúfa að fullu og öllu sambandið við fortíðina og sögu feðranna, má ekki verða sá risi, er bannar mönnum veginn til meiri þjóðrækni. En þjóðrækni Íslendinga í Vesturheimi á að vera í því fólgin, að skila í hendur Vesturheims æ ágætari og ágætari íslenzkum mönnum, búnum öllu því líkamlegu og andlegu atgerfi, sem stofninn býr yfir.

Þjóðræknisfélagið, og hreyfingin í heild sinni, er statt á tímamótum. Það verður að snúa ásjónu sinni meira í áttina til framtíðarinnar, en hingað til hefir verið gert.

Flestum, sem staddir voru á þingi félagsins í hitteðfyrra, mun reka minni til atviks, sem þar kom fyrir. Ungur lögfræðingur tók þar til máls og mæltist til þess að fá að tala á Ensku, með því að honum væri hún tamari en Íslenzkan. Þetta var veitt, en hins vegar fann ræðumaður, að áheyrendur hans sumir undu þessu illa. Þeim fanst sem komið væri út fyrir allar skynsamlegar reglur félagsins, er jafnvel það sjálft gæti ekki látið sér nægja Íslenzkan á fundum. En hér var maður, sem veigraði sér við að nota það mál í ræðu, er hann hafði ekki fult vald yfir. En hins vegar hafði hann vilja á því, að taka þátt í málum íslenzkra manna í landinu. En slíkir menn eru ekki uppörfaðir til þátttöku. Og þess vegna er svo ástatt innan þessa félags, að þar taka engir menn, sem notið hafa æðri skólamentunar hérlendis, verulegan þátt í störfum, að undanskildum prestunum — fáum. Prestarnir hafa sérstakt uppeldi í því að taka þátt í almennu félagslífi, og þess vegna telja þeir öðrum fremur sjálfsagt að styðja slíkan félagsskap sem þennan. En mennirnir, sem mest þörf er á í félagið og í íslenzk samtök yfirleitt, eru ungir mentamenn, uppvaxnir hér í landi. Þá menn vantar með öllu. *Þeir* menn horfa að sjálfsögðu fram á veginn. Nú sem stendur held eg, að aðal viðfangsefni ísl. þjóðræknisstarfsemi sé það, að gera þeim skiljanlegt, að þeir geti átt samleið með þeirri starfsemi. Þeir eru með hugann við Kanada og Bandaríkin. Það er ekkert nema hjal og barnaskapur, að látast vera að búast við því, að hann geti verið nokkursstaðar annarsstaðar. Þeir fylgja ekki þjóðræknismálun-

um yfirleitt, vegna þess að þeim finst þau skorta *veruleika* — þau séu fálm, samhengislaus við lífið. Þessi dómur er ekki með öllu ástæðulaus. En það ætti ekki að vera óvinnandi vegur að sannfæra þá um, að þeir gætu leitað að starfssviðum og verkefni æfina alla, og þó aldrei fundið neitt veglegra heldur en að styrkja stoðirnar undir menningu ættbræðra sinna og landa, í því skyni að þeir gætu orðið frekar veitendur en þiggjendur í menningarmálum hérlendis. Metnaður Íslendingsins á ekki að vera sá, að verða stæling af öðrum mönnum. Hann á að læra að þekkja sjálfan sig og finna þau svið mannlegrar starfsemi og hugsunar, þar sem hann fær bezt komið við þeim öflum og einkennum, sem honum eru eiginlegust. Úr þessu verður ekkert, ef samheldnin er engin.

Sjálfsagt mundi það vera talið of ríkt að orði kveðið, ef sagt væri, að það væri landráð við Vesturheim, að skerast úr leik með ættbræðrum sínu hér um samtök til manndómsauka. Hitt verður ekki deilt um, að réttmætt sé að nefna það liðhlaup.



## STÖKUR GRÓU FRÁ KROSSHOLTI.

(Gróa Sveinsdóttir frá Krossholti, er fædd á Stóra Kálfalæk í Hraunhreppi á Mýrum, 1849, dóttir Sveins bónda Jónssonar Bjarnasonar, frá Brekku í Þingi í Húnavatnssýslu, og Herdísar Þorvaldsdóttur frá Krossholti í Kolbeinsstaðahrepp. Gróa misti föður sinn ung og ólzt upp í Krossholti hjá afa sinum. Fluttist til Vesturheims 1867, var um nokkur ár í Nýja Íslandi, vistaðist þaðan til Austur Selkirk, giftist þar skozkum manni, James Martin að nafni, misti hann fyrir 20 árum síðan, færði sig til Selkirk, keypti þar lítið hús og hefir búið þar ein, við aldur og efnaskort, en minnug og sinnug um alt, sem íslenzkt er.)

Háan móti hart var mér
hólinn brjóta tíðar,
nóg er bót að nú eg er
nærri fótum hlíðar.

Æfi fyllast árin trú,
alt með stilling gengur,
vafinn gyllir valla nú
vonar hylling lengur.

Þá gæði' ótöld og gleði hér
gjörir öldin bjóða,
eg á kveldin uni mér
ein við fjöldann ljóða.

Þá einhver tregi', er oft kann ske,
yndis beygir sali,
Bjarnar fleyja fold eg sé,
fjöll með, eyju' og dali.

Stundum linar staka ort
stríð um hyggju sali.
Álna' og vina eg hef skort,
um þó lítið tali.

Auðs við fæð og ama bý,
ein á svæði kífsins,
gömlum kvæðum eg hef í
öll mín gæði lífsins.

# Í Garðshorni.

Eftir Guðmund Friðjónsson á Sandi.

Heyrðu, hlað-gerður!
sem hrævar-myndir
eltir óðfluga
aftan hvern:
legðu á leið þína
lykkju og krók,
heilsaðu húsfreyju
háaldraðri.

Horfðu á hárfléttur
herðar prýða.
Sólbráð sjáaldra
sætir furðu. . . .
Sátum saman tvö
á síðkveldi;
miðlaði meðlæti
máni frumvaxta.

Báru bandprjónar
og boðinn greiði
vott um vinnandi,
veitula hönd;
orðfá, alúðleg
ár og síð
hlúði heimaþörf, —
horfði' út í fjarska.

Frétti eg framsýna
fræði konu
jafnt um guðs gæzku
og gremi norna. —
Vóru vökur,
en vængjuð þó
orðfim andsvör
arin-gyðja.

Ilm og angan
frá upplöndum,
sagna sígildra,
salinn fylti.
Virtust valkyrjur
vakurt skeiða;
venda til vinaboðs
völvur djúpskygnar.

Fóru fjarlægðir
að forgörðum;
öld varð að eykt
og augnabliki.
Eygð' eg innhverfu
yfirborðs,
öðlaðist úrkosti —
erindi feginn.

Hófst í hyllinga-
helgidóm
í þeim dagdraumi
duglítil þrá.
Sækja að sólstöðum
í sumarlandi
von og vitund
van-fjaðraðar.

Á þeim langleiðum
líta má
dísir í dyngju,
dverga í smiðju.
Lyppa ljósdísir
í lára silki,
hafa með höndum
hniplinga gerð.

Gefa gullreifi
göfgar vættir,
þeim er þjóðrækni
þrifnað veita.
Þökk sé þjóðrækni
þeirri er tætir
vébönd velgerð
úr vorull þeirri.

Fann eg Fjalar dverg,
Frosta og Sindra,
eygði Austra,
yrti á Vestra.
Eru iðju-ver
allra þeirra
lýst með ljóma
leiftrandi málms.

Drap á dvergsmiðju
dyrastafi
fráneyg, fingramjúk,
frænka Norrænu.
Lauk upp laundyrum
lykla-valdur,
Sindri, er sýður
saman góðmálma.

Leit eg lýsi-raf
í launkofa
dvergs, er dýrgripi
dísum smíðar.
Logi ljósblár
leikur um afl —
eldur frá alda
öðli kominn. . . .

Horfð á, hlað-gerður!
hikaðu ekki!
kastaðu kaffi húss
könnu á dyr!
Dátt er hjá dvergum,
er degi hallar;
ljúft með ljósálfum
leiðslu að njóta.

Nisti og náttkjól
Norræna, þér,
gerðan úr guðvefi,
gefins býður —
meðan mannblendinn
máni hýr
guðar á glugga
Gestum-blinda.

— — —

Fann eg fossgýgi,
fór í álfheima,
hafði hendur á
hauga eldi. . . .
Flaug eg á fornu
furðu-klæði,
gerðu í garðshorni.—
Geturðu skilið?

Hún sem hafði
handlagni og vit,
bar bernsku heill
fyrir brjósti vörmu:
fléttaði fangamark
fimlega úr
þjóðernis þræði
í þulu hrynjanda.

Leiðir lífsspeki
í ljósaskiftum
gott er að ganga
og greina áttir;
skima, og skynja
skóhljóð alda,
hlusta á hjartslátt
horskra kvenna.

Vaka valkyrjur;
í vafurlogum
elda með ásynjum
áfengan mjöð.
Þessum dýra drykk
dreypa þær
æsku og elli
enn á varir. . . .

Heyrðu, hlað-gerður!
hvað ert' að stunda?
heldurðu' af hárskurði
og hælum völtum?
Bíða þín brúðgjafir
við Bifrastar sporð.
Senn eru sólstöður. . . .
Sumri fer að halla.

— — —

Gekk eg í Garðshorn
Ganglera stíg,
hlaut handleiðslu,
heyrði gras vaxa. . . .
Kom í kóngs ríki,
kendi drotningu,
horfði á hugmyndir, —
hafði hvergi farið.

# Um fornan framburð æs.

Eftir **Pál Bjarnarson.**

Hvernig íslenzka er borin fram í fornöld, er kent eftir samanburði framburðar Norðurlandamála við Stafrofsritgerðina elztu í Snorra Eddu og elztu handrit, svo sem tekið er fram í hljóðfræði í málfræði Wimmers. Þeir, sem vilja, geta vel kynst framburðarkerfinu af nýnefndri málfræði, og eins af Málfræði ísl. tungu eftir Finn Jónsson, því hvortveggja málfræðin lýsir því greinilega. Ef í slíku máli ætti að gera grein fyrir einkennum kerfisins, þá væri næst að segja, að feður vorir töluðu, eftir því, í fornöld líkast því, sem Norðmenn tala nú, er þeir tala bókmál sitt, dönskuna. Mönnum þykir það, kannske, furða, en þannig er það nú samt. Þá var sagt t. a. m. i fyrir e, o fyrir ö, og e fyrir æ. Málfræði ísl. tungu lýsir framburði æs á þessa leið: "æ var stutt e-hljóð eins og nú í ketti", en ef til vill enn opnara; — œ (oftast ritað æ) táknaði hið tilsvarandi langa hljóð, líkast því, sem vér segjum e í "vetur". Í þann tíð sögðu menn nú ekki æ á Norðurlöndum, sem að líkindum fer; hin hugprúða víkingaöld hefir varla kunnað að æja, og Norðmenn hafa svo tekið það í arf eftir hana. Það var ekki fyr en "miklu síðar" að menn lærðu að æja á Norðurlöndum; feður vorir tóku upp á því, og gerðu það víst ekki fyr en þeir voru komnir til fulls í sultarkenginn. Eg kann ekki að árfæra það. Forn-norsk vísindi eru draumaland, fléttað með þekkingar sundum, flúrað með getgátna lundum, hið draumhýra land. — Þyki eg með þessari setningu leggja við hégóma hið fjálga kveðjustef vors ódauðlega skálds til þúsund ára landsafmælis gestanna dönsku, þá bið eg menn forláts og sérstaklega niðja hans; eg er þar fyrir, ekki síður en aðrir, hrifinn af hans óviðjafnanlegu snild og andagift. — Eg ætla að svífa inn í draumalandið og láta mig dreyma um, hvenær menn fóru að æja á Norðurlöndum, og vera ekkert draumbs; en lendi mínir órar nokkuð í bág við hinar virðulegu uppistöður, er langhúsa landið eins og köngurváfu-vefir frá einum til annars af hinum orðlögðu draumspekingum, þá treysti eg því að lesendur snúi því á betra veg fyrir mér. Því ekki gengur mér það til, að eg vilji minka þá miklu menn, síður en svo. Mér gengur ekkert til nema þetta sama og föður mínum, Birni heit. Skúlasyni, er hann kvað:

Eg held eg megi, mér til af-
    þreyingar*)
strengjum heyi utan að
  enginn fleyja gerir það.

Þegar Íslenzka gekk á Norður-

*) [illegible] hugvekju [illegible] innskota tungunnar og orðmyndan.

löndum, eða ein tunga, svo að eg erti ekki þjóðernis viðkvæmni neinna, þá var mál mannanna yfirleitt eins, því ella hefðu þeir ekki skilið hver annan túlklaust, eins og þeir gerðu; og framburð tungunnar eða rithátt ræðir nú Stafrofsritgerðin, sem að framan getur, "svo stórmerkileg, af því að hún lýsir greinilega hljóðum Íslenzkunnar, eins og þau voru þá og lengi þar á eftir" segir Málfr. ísl. tungu, og tekur, kannske, heldur djúpt í árinni. Því gerði ritgerðin það, þá væri sjálfsagt enginn ágreiningur eða óvissa um framburðinn. Ritgerðin segir oss ekkert um, hvernig vér eigum að hræra talfærin til framburðar, drepa tungu aftur eða fram í góm eða að tönnum eða skjóta fram vörum; þaðan af síður minnist hún á opin hljóð og lokuð, þyshljóð, ómhljóð, hörð og lin o. s. frv., sem nú er títt á þessari hávísindalegu öld. Hún ritar oss einungis stafrof latínustöfum öllum þeim, sem réttræðir eru í íslenzku og bætir þar við 4 nýjum stöfum: ö, æ, þ, y fyrir hljóðvörpin, af því Latína á ekki stafi fyrir þau; en hún segir ekki hver séu framburðarhljóð þeirra. Það er nú meinið. Þegar sleppir latínu hljóðstöfunum, þá verðum vér að ráða til framburðarins, með því að bera dæmi Stafrofsritgerðarinnar saman við framburð Norðurlandamálanna. Ritgerðin tekur til dæmi um hvert hljóð, stutt og langt, fyrir sig eins og: far heitir skip, en far nokkurskonar nauð, og merkir hið langa aið í síðara "far" með stryki höllu yfir því. Af því er vandalaust fyrir oss að læra að á var í fornöld borið fram dregnu ai, því sama hljóð var í báðum orðunum, a, eftir ritgerðinni, og hljóðlengd allur munurinn. En vandinn vex að vita hver framburðurinn var, þegar kemur t. a. m. að slíkum dæmum sem: öl (o með lykkju) heitir drykkur, en öl (o með lykkju og broddi) er band, eða vænisk eigi góðr maðr því, þótt vándr maðr vœnisk góðum konum o. s. frv., því ritgerðin segir ekki til framburðar hljóðstafanna, heldur að eins að sama sé hljóðið í þeim, hið stutta og langa. Vér verðum að ráða til hljóðsins af núlegum framburði málanna. Í fljótu bragði kann oss Íslendingum þykja sem vandinn sé ekki mjög mikill. Vér gætum ályktað af stutta hljóðvarpi as, til hins langa, sem er glatað, að framborið hafi verið: öl er drykkr, en öl (langt ö) er band; en í síðara dæminu, hvað? — Núlegur framburður vísar til, að stafurinn hafi verið fram borinn tveim ólíkum hljóðum, sem ekki nær lagi eftir Stafrofsritgerðinni. Úr þessum glundroða sker framburðarkerfið og kennir, að hljóðvörp as hafi verið borin fram kollu-oi, hið stutta, sem nú er fram borið ö, en komu-oi hitt, sem enginn vor hefir heyrt, og æið eins og að framan greinir; alt saman upp á sömu bókina lært, framburð hinna tungnanna, eins og framburðar þeirra, sem mæla á afrunatungum tungunnar, þótt þrefaldur sé í roðinu, megi sér meira heldur en

hinna, sem sjálfa tunguna tala.

Þess ber vel að gæta, að núlegur framburður íslenzkur ábekrar ekki e-framburðar kredduna að sama skapi og framburður hinna tungnanna. Hljóðvörpin nú borin fram á Íslandi e og æ, og vekur það þegar upp spurningu um, hvort hljóðið sé upphaflegra. Hljóðvörpin eiga að vera fram borin sama hljóði eftir stafrofsritgerðinni og enginn munur á þeim nema lengd, annað stutt, hitt dregið, svo að æ gæti verið upphaflega framburðarhljóðið alt eins vel og e, nema það, að framburður hinna tungnanna er á bandi es. Getur nú núlegur framburður tungunnar einn sér skorið úr, hvort hljóðið sé upphaflegra? Þótt furðulegt sé, virðast prófessorarnir aldrei hafa spurt sig þessarar spurningar eða reynt að leysa úr henni. Málfræðisbækur þeirra stökkva að minsta kosti alveg yfir það atriði, sem baggamuninn gerir milli hljóðanna. Þær kenna undantekningarlaust að i-hljóðvörp as stutts og langs (a, á), séu e og æ, — og ef til vill öll málfræði. Svo kennir Málfræði Wimmers t. a. m.; en það er ekki alls kostar rétt um hljóðvarp as. A i-hljóðverpist venjulega í e, en nokkur dæmi eru til þess í tungunni, að það verpist í æ, t. d. laginn—lægni; læknir (fyrir lægnir, eiginl. sá, sem færir í lag); kvalir—(harm)kvæli; hani—hæna, hæn-sn; í sumum sagnstofnum er það algengt, svo sem að hafa—hæfa, hæfur; hafa til—tilhæfa, tilhæfur, tilhæfulaus; krafa—kræfur, lag—lægur, sbr. sjólægur, rúmlægur (af að leggja); vaka—vækur (af að vekja); þaka—þækur (af að þekja) þótt tíðhafðara sé núlegt lýsiorð tveggja síðari sagnanna til að gegna merkingunni; og þó eg muni nú ekki eftir því, að eg hafi heyrt það í tali, þá væri mér óhætt að taka svo til orða t. d.: dæmin eru mörg, en þó eru þau tæl og framar ekki dvælt við þetta efni (í staðinn fyrir teljandi og dveljandi), upp á það, að öll alþýða skildi það og vissi að eg færi með rétt mál, svo ríkt er enn í vitund hennar, að hljóðvarpið sé a—æ. Framangreind dæmi sýna, að núlegur framburður tungunnar fer hér enn með hið forna framburðarsamræmi hljóðvarpanna og þarf þá ekki frekar vitnanna við að hið upphaflega framburðarhljóð æs (eða o með lykkju) hafi í fornöld verið æ en ekki e, þótt prófessorarnir kenni svo. Hið síðara dæmið að framan hefir verið lesið, þá er ritgerðin var samin: vænisk (stutt æ) eigi góðr maðr því, þótt vándr maðr vænisk (dregið æ) góðum konum. Feður vorir báru stutta hljóðvarpið fram æ, sögðu t. d. sætja en ekki setja, sem vér gerum, og í langa hljóðvarpinu höfðu þeir sama hljóð, æ, sem og alt af hefir haldist, og báru það aldrei fram líkast því sem e í "vetur". Slíkur framburður er grip inn alveg úr lausu lofti. Núlegur framburður sannar með ritgerðinni afdráttarlaust, að hljóðvörpin voru æ-hljóðum kveðin og svo hefir þá víkingaöldin á Norðurlöndum að þeim kveðið. Framburði er rask-

að frá æ í e, hvarvetna er hið stutta hljóðvarp er framborið e.

Þá liggur næst fyrir hendi að gera sér grein fyrir því, hví framburðar samræmi hljóðvarpanna hafi rofnað á Íslandi. Ræturnar til þess er vitaskuld að rekja til norskra áhrina; því við Noreg áttu Íslendingar langmest saman að sælda. Í hinum fróðlegu "Sögulegu athugunum" sínum segir Jóhannes L. L. Jóhannesson, að vér megum líta til Noregs um spjöll á tungu vorri og færir til dæmi. Það er orð að sönnu. Framburð tungunnar braut þar niður eins og í hinum löndunum, sem fram liðu stundir og tungan breyttist. Eftir því sem niðurbrot það greip um sig og gerðist algengara um hvert hljóð sem var, eftir því hlaut það að hrína á framburð tungunnar á Íslandi fyrir samgöngur og viðskifti milli landanna, og orka viðlíkum eða ólíkum breytingum. Þá er Norðmenn tóku að leggja af æ-hljóðin, eða tóku að kveða e-hljóðum að þeim, eins og þeir nú gera, og það var farið að verða algengt með þeim, þá má ætla, að Íslendingar hafi smásaman farið að taka það upp eftir þeim, svo að þeir hafi hætt að segja tælja og sætja o.s.frv. , eins og þeir gerðu fyrrum, og sagt telja og setja, sem nú, til að færa framburðinn nærhættis því, sem þeir heyrðu fyrir sér, og rita þar eftir. Þó náðu þessar norsku áhrinur ekki nema til hins stutta hljóðvarps; það varð víða að lúta í lægra haldið og verða e; en hið mótstöðu-styrkara langa hljóðvarp skæddist ekki, og fyrir bragðið rofnaði samræmi hljóðvarpanna bæði í framburði og riti.

Hið forna týnist sjaldan algerlega, þegar það fer, heldur lætur eftir menjar um sig. Það kemur líka heim. Núlegur framburður tungunnar fer með mola úr hinum upphaflega framburði. Dæmin að framan: læknir, harmkvæli*) o. s. frv., eru molar úr honum og kunna vera fleiri til, ef leit er að gerð; en eftir eðli hlutar er varla margra von. Það, sem einna mest skilur Íslenzku og Norðurlanda tungurnar hinar, er æið, sem vantar í þær. Hér er það sýnt, að æið er upphaflegt í íslenzkri tungu og að hinar tungurnar hafa glatað því. Framburðarkerfi prófessoranna hefir hausavixl á því, það er alt og sumt.

Þótt menn viti til þess, að e hafi verið í vissum orðum á öndverðri 17. öld eða fyr, sem síðar hafi verið fram borið með æ, svo sem sumstaðar er getið í orðastað Árna Magnússonar, t. d. mer og sker, nú mær og skær, þá er það vitanlega engin sönnun fyrir upphaflegum e-framburði. Það vottar eðlilega ekki nema baráttu hins frumlega æ-framburðar um orðin við norsku áhrinurnar, eins og vikið er á að framan og hver leikslokin urðu í

*) Í orðakveri sínu vill Finnur halda að harmkvæli sé myndað af sögninni að kvála, og ætti þá að merkja eiginl. harmskítur eða eitthvað þess háttar; ekki kemur það til nema af því, sem Birni M. Olsen var svo mikil raun að í deilu þeirra um Eddu upprunann, að hann er svo óíslenzkur í hugsunarhætti. Hvert ísl. fermingar barn getur tekið útlistan orðsins úr fórum sínum, þegar því lízt eða þarf á að halda.

þeim orðum. Annað felst ekki í þeim fróðlegu dæmum. Latínsk fræði er líka hægt að draga til liðs við æ-framburðinn.

Í latneskri málfræði er rómverskur framburður kendur, sem ætla má að sé sem næst því, sem Latína var fram borin, og samkvæmt honum voru a, e, i, o, u, borin fram stuttu og löngu a, e, í, ó, ú hljóðum alveg eins og fornísl. framburði þessara hljóða er lýst í Málfræði ísl. tungu, að e einu undanteknu; "e var lokað hljóð", segir Finnur, "líkist því sem i nú; é var hið dregna hljóð, sem svaraði til þess." Hvers á nú e að gjalda, að það fær ekki að halda sínu latínuhljóði í fornínslenzkum framburði eins og hinir stafirnir, fyrst það er úr latínustafrofi tekið eins og þeir? Lýsingin á framburði þess "sem i nú" á engar fætur til að standa á. Hún kemur í bág við Stafrofsritgerðina. Í henni segir: "Þá hefi ek ok ritit oss Íslendingum stafrof bæði latínustöfum öllum, þeim er mér þótti gegna til vórs máls vel, svá at réttræðir mætti verða." Engin tvímæli geta leikið á því, eftir orðum ritgerðarhöfundarins, að hann tekur e í stafrof sitt með latínuhljóði þess. Latínufræðingarnir kenna oss, að það hljóð var borið fram stutt og langt, eins og hljóðin t. d. í ensku orðunum: "net" og "made", sem er alveg sama og í "ketti" og "vetur", og þessum hljóðum hlýtur e og é að hafa verið fram borin í fornöld, ef Stafrofsritgerðina er að marka. Framburðarkerfi prófessoranna tekur framburðinn, sem ritgerðin eignar einu, af því og festir hann rakleiðis við æ, að því er virðist til að hagræða þeirri fyrir fram dreymdu niðurstöðu, að æið hafi menn ekki upphaflega á Norðurlöndum. Fyrirfram ráðnar niðurstöður hafa einatt óprýtt vísindaiðkan norrænna fræða, einkum síðan er Norðmenn snerust að henni. En ekki bætir brókin bolfötin að heldur, því "ketti" og "vetur" eru latínuhljóð og þeim hljóðum getur æ ekki hafa verið fram borin eftir Stafrofsritgerðinni, því hún tók upp nýjan staf fyrir hljóðið, af því það sé ekki til í Latínu. Æ, eins og að því er kveðið á Íslandi, er ekki latínuhljóð, og því hljóði var stafurinn kveðinn í fornöld, eins og að framan er lýst. Það kemur heim við Stafrofsritgerðina og núlegan framburð tungunnar.

Af framangreindum rökum er þá óhætt að hafna e-framburði æs og öllum hans fylgjum og hafa í staðinn 1. að æ var fram borið í fornöld eins og nú á Íslandi; 2. að skakt sé það, að æ hafi verið tekið upp á Íslandi, eftir að tungurnar greindust; 3. að hinar tungurnar hafi glatað æ-hljóðinu fyrir e-hljóð og sú breyting hafi raskað fornu framburðar samræmi í allmörgum orðum á Íslandi. Svo mega og þeir, sem leggja stund á fornínslenzk fræði við háskóla erlendis, breyta tungutaki sínu frá því, sem áður var gengt, og lesa æið með sínu hljóði í fornritum Íslenzkunnar, svo sem í Ágripinu og Konungsskuggsjá o.s.frv.

# Þrjú kvœði.

Eftir séra **Jónas A. Sigurðsson.**

## BÖLVA BÆTUR

Mér eru ljóðin bölva bætur,—
Blys frá helgri sjónartaug.
Líkt og sólin sumarnætur
Sálu mína lýsa þau.

Hitni mér um hjartarætur,
Hrökkvi andans vonartaug:
Eins og svefn um svalar nætur
Sálu mína hvíla þau.

Fjarri stöðvum feðra minna
Fólkorustur háðum þrátt.
Þá, í örvum orða þinna
Ísland, fann eg tign og mátt.

Ef eg hvergi eygi gjögur,
Öndvert skerjagarður rís:
Íslendinga óð og sögur
Allra fræða helzt eg kýs.

Aldrei þó úr ormasævi
Æfifar mitt nái höfn:
Bera skal eg alla æfi
Íslendingsins merki um dröfn.

---

## Á LEIÐI SKÁLDS

Frá láum kumbli látins grepps,
Er lauffall boðar haust:
Eg heyri skáldsins gleði og grát,
— Sem Gunnars kveði raust.

Hann dreymdi—ástir, syndir, söng,
Um sigurfrægð og auð.—
En nú eru augun, ásýnd hold,
Með ormum daglegt brauð.

Og syndir skálds, er dæmdi drótt,—
Þær dauðinn fyrirgaf.
En andinn lifir — sigursæll,
Í söng — um láð og haf.

---

## REQUIEM

Eftir *Robert Louis Stevenson.*

Út' í sveit,—við sólskin nóg,
Syngið mig í grafarró.—
Glaður lifði, glaður dó
Til grafar hugrór fer.

Vindar leika leiði á,
Líða skýja svipir hjá;
Hvíld án enda hér skal fá
Hjartað í brjósti mér.

Legstað minn þið letrið á:—
Liggur hér, að eigin þrá,
*Heim* af skipsfjöl, *heim* um sjá,
Hann, sem kominn er.



# John Gunnlaugur Holme.

1877 — 1922.

Eftir Aðalstein Kristjánsson.



*I.*

John G. Holme — en með því nafni var hann bezt þektur sem rithöfundur—, lézt 30. nóvember 1922, að heimili sínu Flushing, í úthverfi New York borgar. Var gerður á honnm uppskurður við innvortismeinsemd, sem hann hafði þjáðst af um mörg ár. John gerði ítarlegar tilraunir til þess að komast á vígvöll til Frakklands, en heilsa hans var svo biluð, að það hepnaðist ekki. Nokkrum dögum eftir lát John's Holme, hitti eg Vilhjálm Stefánsson. Eg stakk upp á því, að hann skrifaði æfiágrip, helzt á íslenzku. Við töluðum um blaðastarfsemi John's. Kom okkur saman um það, að hann hefði verið þjóðkunnastur íslenzkur blaðamaður í Ameríku. Með því einu er ekki mikið sagt, því fáir Íslendingar hafa, til lengdar, starfað sem fréttaritarar við hérlend blöð.

Vilhjálmur var einn af þeim, sem báru John Holme til grafar. Hann sagðist gjarnan hafa viljað rita um hann, en kvaðst hafa svo mikið verk fyrir framan sig, að óvíst væri hvenær að hann hefði tíma til þess. Óskaði hann eftir því, að eg skrifaði um blaðastarfsemi hans, og lofaðist til þess að vera mér hjálplegur.

John Holme hafði miklar mætur á Vilhjálmi, og afreksverkum hans, hafði skrifað snjalla ritgjörð um hann, í eitt af helztu tímaritum New York borgar, "World's Work", nokkrum mánuðum áður en hann lézt.

Nokkrum vikum eftir þetta samtal okkar Vilhjálms, sendi eg honum stutt æfiágrip; vissi að það var mjög ófullkomið. John var ungur maður, hafði starfað á þessum fáu árum, sem hann gaf sig við blaðamensku, í svo mörgum stórborgum—hafanna á milli—, að það var ekki svo þægilegt fyrir mig, að ná í greinilegar og ábyggilegar upplýsingar. Eg set hér útdrátt úr bréfi, sem Vilhjálmur skrifaði mér með því, sem eg sendi honum.

"Kæri Kristjánsson:—

Eg sendi þér annað bréf, sem þú getur annað hvort útlagt á íslenzku, eða notað það eins og það er, með æfiágripi þínu um John Holme. Eg hefi yfirfarið það í flýti, en líkar það vel.

V. Stefánsson."

" May, 9, 1923.

Kæri Kristjánsson:—

Eg hefi að eins tveggja daga dvöl í borginni, sigli frá Quebec til Englands 12. maí, verð í burtu einn eða tvo mánuði.

Það hryggir mig, að eg hefi svo lítinn tíma til þess að yfirfara það, sem þú hefir tekið saman um John Holme, og semja sjálfur eitthvað, sem svo mætti prenta með þínu ágripi.

Á meðal þjóðflokks, sem er svo fámennur og hefir dvalið svo fá ár í landinu, eins og Íslendingar, er dauði manns eins og John's Holme þjóðarslys. Hann var vissulega einn af sex ungum mönnum, sem við gátum gert okkur glæsilegastar framtíðarvonir um. Hann hafði betra tækifæri til varanlegrar frægðar og frama, þegar allar ástæður voru athugaðar, heldur en allir hinir. Því auk hans bókmentalegu hæfileika, þá fyrir lipurð hans og heillandi viðmót, var auðvelt fyrir hann að stjórna gjörðum annara. Með góðri heilsu og sæmilega háum aldri, hefði hann vafalaust afkastað miklu og getið sér frægan orðstír.

Eg vona, að þú fáir upplýsingar hjá Cahill, eða einhverjum öðrum, sem kunnugir voru blaðamenskustarfsemi John's Holme. Eg þekti hann aðallega í gegnum persónulega viðkynningu og vináttu okkar; mér var einnig kunnugt um vinsældir hans og áhrif eftir sögusögn annara.

Það hafa verið fáir Íslendingar, sem hafa gefið betra eftirdæmi til frægðar og frama, heldur en John Holme. Af þeirri ástæðu er eg þér þakklátur fyrir viðleitni þína að halda minningu hans á lofti. Þeim mun tilfinnanlegra er það fyrir mig, að eg hefi að eins tíma til þess að lesa þetta bréf fyrir skrifaranum, sem sendir það til þín eftir að eg er farinn.

V. Stefánsson."

## *II.*

John Gunnlaugur Holme var fæddur fjórða apríl 1877, á Hjaltastað í Hjaltastaðaþinghá. Foreldr-

ar hans voru Jóhannes Sveinsson Holme og Soffía Vilhjálmsdóttir. Fluttu þau til Ameríku árið 1885, með fjórum sonum sínum, þegar John var átta ára. Nöfn bræðra John's voru: Sveinn, Gunnar og Vilhjálmur. Fjölskylda þessi tók sér bústað skamt frá Minneota, í Minnesota ríki. Þar byrjaði Jóhannes Holme búskap.

John var þegar á barnsaldri mjög bókhneigður; var það ásetningur hans í æsku, að verða rithöfundur. Hann var snemma tengdur trygðaböndum við íslenzk ljóð og sögurnar fornu, sögurnar, sem skýrðu frá afreksverkum og æfintýrum forfeðranna í Vínlandi hinu góða og flestöllum löndum Evrópu — í Bjarmalandi og Miklagarði.

Mentaferil sinn hóf John við barnaskóla skamt frá búgarði föður síns. Eftir að hann hafði lokið námi við barnaskólann, innritaðist hann við gagnfræðaskóla (High School) í Marshall, Minn. Var hann því næst skólakennari um tíma, og vann hjá bændum þess á milli, á sumrum. John byrjaði snemma að kaupa bækur. Til þess að geta fullnægt þeirri löngun, og jafnframt stundað nám við háskólann, varð hann að innvinna sér meira fé heldur en skólakennaralaunin veittu honum.

Frá Minnesota háskóla útskrifaðist John 1904. Varð þá kennari við háskólann í mælskufræði (Rhetoric) og Ensku, en þeirri stöðu hélt hann ekki lengi. Skömmu síðar komst hann inn á þá braut, þar sem draumar hans og vonir höfðu heillað hann — þar sem hann hafði ákveðið að heyja lífsstarf sitt.

John mun hafa sagt upp kennara embætti við Minnesota háskóla, fyrir fréttaritara stöðu við "The Minneapolis Journal". Líklega hefðu margir ungir menn talið kennara embættið veglegra, "fínna" og líklegra til mannvirðinga. John þráði frelsið og útsýnið, — þarna gafst honum tækifæri til þess að stíga spor í rétta átt, þótt takmarkið væri fjarri — fyrir utan og ofan sjóndeildarhring og dagmálaglóru þeirra, sem jagast út af vegabótum og sveita-pólitík.

Rithöfundar hæfileikar John's komu fram, jafnvel áður en hann innritaðist við háskólann. Meðritstjóri varð hann við háskólablaðið "The Minnesota Daily". Af öllum þeim undrum, sem mentagyðjan rétti að honum, lagði hann mest kapp á norrænar bókmentir, sögu, og tungumál. Að hann varð kennari við háskólann í ensku, sannar bezt, hvaða álit hefir verið á íslenzka drengnum, og hvernig hann hefir stundað námið.

Mentadís John's Holme var háfleyg og víðförul, jafnvel eftir að heilsan bilaði. Hugur hans leitaði seint og snemma til mentamannanna, og til stórblaðanna í hinum fjölmennustu stórborgum Norður-meríku. Þeir rækta bragðgott hveiti, bændurnir í kringum Minneapolis, en á því sviði var fátt af rithöfundum og vísindamönnum á æskuárum John's. Þess vegna var það eðlilegt fyrir hann,

að velja Chicago sem næsta áfangastað. Þar komst hann að sem fréttaritari við "Chicago Tribune." Eitthvað vann hann þar við fleiri blöð. Ekki er mér kunnugt um það, hvað hann var mörg ár í Chicago, líklega fimm eða sex.

*III.*

Dunur og dynkir heimssýningarinnar í San Francisco heyrðust landshornanna á milli, árið 1913. Það er erfitt fyrir vanalegan kotalýð, að gera sér grein fyri því, hversu framgjarnir fréttaritarar eru glaðir, þegar einhverjir óvanalegir viðburðir frelsa sálir þeirra frá tedrykkju-fréttum og tómlæti. Margar merkilegar sögur eru til af því, hvernig umkomulitlir og óþektir blaðadrengir urðu heimsfrægir á fáeinum klukkutímum fyrir dugnað þeirra og áræði.

John var svo heppinn, að vera einn af þeim fréttariturum, sem Chicago-blöðin sendu á sýningu þessa, til þess að tilkynna heiminum, hvaða áhrif hin mikla sýning væri líkleg til þess að hafa á nútíðar og framtíðar menningu þjóðanna.

Ferð þessi varð til þess, að John sagði upp fréttaritarastöðunni við "Chicago Tribune", til þess að taka að sér sama starf við "The San Francisco Examiner". Eigandi þess glaðs, er William R. Hearst. John var það fyllilega ljóst, að þeir áttu ekki samleið, en ungir blaðamenn verða oft að feta þrönga veginn, meðan þeir eru að komast til valda, í sínu víðlenda ríki.

William R. Hearst, blaðakonungurinn og auðmaðurinn frægi, hefir 26 stórblöð (nú, þegar þetta er ritað), sem gefin eru út víðsvegar í stærri borgum Bandaríkjanna. Auk þess hefir hann fjölda smærri blaða og tímarita. Af því Hearst gefur út svo mörf blöð og tímarit, getur hann borgað mikið hærri ritlaun, en aðrir blaðaútgefendur. Hann hefir allra manna bezt lag á því, að grafa upp eitthvað, sem fólkið er forvitið í að lesa. Innlendir og útlendir stjórnmálamenn rita oft í blöð hans. David Lloyd George, stjórnarformaður Breta á stríðsárunum, og Leon Trotzky, hermálaráðgjafi Rússa, hafa ritað í þessi blöð; margir ráðgjafar úr ráðuneyti Wilson-stjórnarinnar, hafa ritað þar um daglega viðburði frá stjórnartíð Woodrow Wilsons.

Þeir, sem sæti eiga í leyndarráðum þjóðanna, sanna það ætíð, þegar þeir segja æfisögur sínar, eða þegar þeim seint og síðarmeir er leyfilegt að kunngera hvað á daga þeirra hefir drifið, að almenningur hefir fremur lítið tækifæri að fylgjast með, þegar merkir og áhrifamiklir viðburðir eru að ske.

Meðan stríðið ógurlega geisaði yfir löndin, þá var bönnuð sala á Hearst-blöðunum í Canada. Þau unnu leynt og ljóst á móti Bretum. Á þeim tímum var erfitt að átta sig á stjórnmálastefnu þeirra. Vill það oft verða svo. Blöð þessi eru á yfirborðinu frjáls, hafa merka rithöfunda í sinni þjónustu, t. d. Dr. Frank Crane, sem sagt er að



*John Gunnlaugur Holme og einkabarn þeirra hjóna einu eða tveim árum áður en hann lézt.*

nái til tíu miljóna manns á dag, í gegnum blöð og tímarit; Arthur Brisbane og margir fleiri. Enginn blaðaútgefandi í Ameríku hefir nokkurn tíma haft eins mikil áhrif — eins mikið vald yfir verkafólki og útlendingum, eins og William R. Hearst.

Sýnishorn af vinahótum Brisbains til Englendinga:

"Hvað lengi munu fáeinir hyggnir menn á þokueyjunum brezku gefa fyrirskipanir til 300,000,000 á Indlandi, 400,0000,000 í Kína, og annara miljóna í Afríku og annars staðar. Svarið er auðfundið. Þessir fáu hugsandi menn halda áfram að gefa fyrirskipanir, þangað til að millíónirnar læra að hugsa fyrir sig sjálfar."

Arthur Brisbaine.

*IV.*

Það er vel skiljanlegt, að ungir fréttaritarar sækist eftir því að vinna við blöð, sem hafa jafn-mikla útbreiðslu, og þar sem jafn-margir ritsnillingar eiga leik á borði. En það er ekki heiglum hent, að klífa, hinn klettótta frægðartind, sem rís mót himinbláma — þar sem blaðamenn ganga til víga og véfrétta. Þar er stundum sleipt undir fæti og staksteinótt—krókastigir vandrataðir, sem liggja í gegn um fen og torfærur óteljandi. Mörgum, sem þann feril feta, verður fótaskortur; fylgja hrakförum þeim örlög grimm. Þótt þeir, sem verða fyrir þeim örlögum, haldi lífi og limum, ganga þeir öfugir og mæla annarlegum tungum. — Þeir spyrja sjálfa sig, þegar þeir eru að leita frétta: frá hverju skal segja, yfir hverju er okkur ætlað að þegja?

Abraham Lincoln sagði vinum sínum frá því, hvernig hann á æskuárum barðist við það, að skilja menn og málefni, "Eg man eftir því," sagði hann, "að eg fór oft inn í litla svefnherbergið mitt á kvöldin, eftir að eg hafði hlustað á samtal föður míns og nágranna okkar. Stundum gekk eg þar um gólf mikinn part nætur, til þess að skilja það sem mér fanst tvírætt, eða torskilið í samræðum þeirra. Eg gat ekki sofið, þar til eg hafði náð meiningu málsins og mergnum orðanna."

Það eru líklega nokkuð margmargir, sem einhvern tíma á æfinni minnast andvökustunda af svipuðum ástæðum, eins og Abraham Lincoln skýrir frá. John Holme hefir vafalaust verið einn í þeirra tölu. Hann var oft fenginn til þess að rekja refaslóðir kaupsýslumanna. Þeim sem þessar línur ritar er kunnugt um það, að hann rannsakaði hlutasölu félags, sem stofnað var í New York fyrir nokkrum árum. Það var skömmu eftir að hann kom þangað. Félag þetta seldi hluti í öllum mögulegu og ómögulegum fyrirtækjum. Í skýrslu, sem eg hefi hér fyrir framan mig, rekur John fjárglæfraferil sumra þessara manna, er framarlega stóðu í þessum grímuleik, manna, sem höfðu umboðsmenn sína í öllum áttum, til þess að selja hluti. Nú fyrir stuttu varð félag þetta gjaldþrota, rannsókn John's var hafin fyrir þremur árum.

Eg hefi engum Íslendingi kynst, sem verið hefir eins fróður viðvíkjandi starfsemi verzlunarfélaga af ýmsu tagi.

John skrifaði margar ritgjörðir fyrir "Photoplay" tímaritið, sem gekkst fyrir því, að hann var fenginn til þess að rannsaka hlutabréfasölu í hreyfimyndahúsum og starfsemi þeirra. Hann var bæði margspurull og óljúgfróður; sýndi skarpskygni og óhlutdrægni, hver sem í hlut átti. Það var eins og hann hefði sérstakar gáfur til þess að rannsaka það, sem öðrum er hulið.

Þegar John var í Chicago, þá gekk hann að eiga ungfrú Adu Fay Colins, sem hann hafði kynst við Minnesota háskóla, þau stunduðu þar nám saman. Það var 1912. Ári síðar fluttu þau til San Francisco. Árið 1915 komu þau til New York. John keypti hús í úthverfi borgarinnar, sem nefnist Flushing. Í New York starfaði hann síðustu sjö ár æfinnar og varð á þeim stutta tíma einn af bezt þektu blaðamönnum borgarinnar. Þess vegna segir Vilhjálmur Stefánsson: "Hann hafði betra tækifæri til varanlegrar frægðar og frama, þegar allar ástæður voru athugaðar, heldur en aðrir Íslendingar."

*V.*

Eftir að John kom til New York frá San Francisco, þá var hann fyrst fréttaritari við hið velþekta stórblað "New York Tribune". Síðar meðritstjóri (City Editor) við "The New York Evening Post". Árið 1919 sagði hann upp þeirri stöðu; hann var einn af þeim blaðamönnum, sem valdir voru til þess að rita um liðsöfnunartilraun Samveldismanna í Bandaríkjunum til þess að útnefna yfirforingja Leonard Wood fyrir forseta. Þá ritaði hann æfisögu Woods herforingja, sem hlaut mikla útbreiðslu, þrátt fyrir það þótt hinn valinkunni nýlendu - stjórnmálamaður Bandaríkjamanna í Philippineeyjum og Cuba, ekki næði útnefningu. — Hinir "dygðugu" flokksbræður hans óttuðust, að hann mundi hugsa meira um hagsmuni og velferð þjóðarinnar heldur en flokksins. Þess vegna völdu þeir Harding, góðgjarnan mann— þeir vissu, að hann mundi verða þeim þægari og eftirlátari.

Eins og kunnugt er, þá hefst kosningabarátta í Bandaríkjunum fleiri mánuðum á undan alríkjakjörfundi, þar sem fulltrúar úr öllum ríkjunum koma saman, til þess að velja forsetaefni. Oftast eru það fleiri en eitt ríki, sem hafa forsetaefni í vali. Allir drengir hafa lesið um, eða þekkja einhvern, sem í þeirra augum er hetja. Mjög mörg ríkin í sambandinu eiga einhvern son, sem þeim finst að ætti að hljóta þann heiður, að verða útvalinn fyrir forsetaembættið. Fyrir þeim heiðri verða þeir oftast, sem vel hafa staðið í stöðu sinni sem ríkisstjórar, þeir, sem hafa verið kosnir tvö eða þrjú kjörtímabil samfleytt. Oftast nær eru einhverjir úr öldungadeildinni í Washington í vali, og stundum ná þeir kosningu.

Það er sagt að flestalla drengi í Bandaríkjunum, dreymi dagdrauma um það, að þeir einhvern tíma flytji í "Hvítahúsið", sem er bústaður forsetans. Yfir því hvílir geislabaugur og helgiljómi í þeirra augum. Margir hafa gert garðinn frægan; borgin heitir eftir föður þjóðarinnar (George Washington er nefndur "faðir" þjóðarinnar), hann var sá, sem fyrstur flutti í Hvítahúsið, þótt það væri þá á öðrum stað.

Forsetaembættið er af mörgum talið veglegasta, og um leið vandasamasta og ábyrgðarfylsta embættið í heiminum. Það eru ekki neinar ýkjur, að öll þjóðin hugsar með fögnuði til þess tíma, þegar líður að forsetakosningum. Börn og unglingar hlakka til þess, einsog börnin á Íslandi hlökkuðu til stórhátíða. Það er eins og nýtt líf og fjör færist í alla. Er þó oft lítið ungs manns gaman í Bandaríkjunum, þjóðin er á æskuskeiði og í vorhug. Listamennirnir draga og mála fegurri myndir, skáldin yrkja skáldlegri kvæði, semja lög með léttari og glaðari tónum. Ræðumenn og rithöfundar sanna þá daglega í verkunum, hversu hamingjusamir þeir eru. Bændur skeyta sjaldnar skapi sínu á vinnuhjúunum — sinna búverkum með bjartari vonum og glaðlegra málfæri. — fyndni þeirra er blönduð þægilegum áfengfisanda. — Svo þegar kosningarnar eru afstaðnar, spyrja börnin skapstirða feður og mæður, sem orðið hafa fyrir vonbrigðum: "hvað er langt til næstu kosninga?"

Það, sem hefir verið sagt hér að framan, gefur ofurlitla hugmynd um kosningabardaga þann, þar sem landi okkar John Holme var fréttaumsjónarmaður í tuttugu austurríkjum Bandaríkjanna. Er mér sagt, að hann hafi skrifað flestallar ritgerðirnar sjálfur, fyrir blöð þau og tímait, sem aðstoðuðu útnefningu Leonards Wood. Það sannar bezt hvaða álit var á John Holme, að hann var valinn fyrir þetta starf, og látinn rita æfisögu þess manns, sem hann hafði svo mikið álit á — mikilhæfasta og merkasta þátttakanda í þessum kappleik. — Þarna var íslenzki sveitadrengurinn búsettur—heimfluttur inn í draumaríki æskuáranna, miljónir manna lásu daglega það, sem hann ritaði.

Það eru fleiri en Bandaríkjamenn sjálfir, sem áhuga sýna fyrir því, hver muni verða kosinn. Fjarlægar stórþjóðir velja færustu fréttaritarana til þess að rannsaka æfistörf og hæfileika þeirra, sem líklegastir eru til þess að ná kosningu. Allir spyrja, hver verða muni fyrir heiðrinum, sem svo margir sækjast eftir.

Vanalega fer það svo með þá, sem koma hér börn að aldri, að föðurland að fornir átthagar gleymast. Fæstir hafa mikinn tíma að spara, til þess að fylgjast þar með skýjafari og veðurspádómum. John Holme hafði allra manna bezt lag á því, að lána þeim lærisveinum fylgd sína, sem ferðast fylgdar- og vegabréfalausir í sannleiksleit, "í gróðurskreyttum, geislaríkum haga", hvar sem þeir

voru búsettir. Blaðamenn í Ameríku, víðast hvar, sérstaklega í New York, hafa um svo margt að hugsa—í mörg horn að líta. Þeir, sem kunnugir eru verkahring þeirra, ganga út frá því sem sjálfsögðu, að veðurbarin útsker í heimskautalöndum eigi lítið inni í sálarlífi þeirra, sem aldir eru upp í Ameríku. Þessu var ekki þannig varið með John Holme. Eg átti oft tal við hann þrjú síðustu árin, sem hann lifði, sérstaklega um það leyti, sem sýningin var haldin í New York: "America's Making". Nærri því æfinlega snerist tal hans að einhverju, sem íslenzkt var. Eg spurði sjálfan mig, hvort John væri einn í þeirra tölu, sem tryði því, að Íslendingar væru vitrari en aðrar þjóðir. Þóttist eg viss um, að svo var ekki. Það var trygð hans við ættstofn, ljóð og land. Hann hafði óvenjulega næma fegurðar tilfinningu — unni listaverkum og öllu, sem fínt var heflað. Hann skildi mikið betur það, sem felst í enska orðinu "culture", en við Íslendingar gerum alment. Hann unni þróttmiklum hugsunum, og fagurt mál og fjölskrúðugt, heillaði sál hans.

*VI.*

"Yngstu söngmenn Íslands" var eitt af því allra síðasta, sem John Holme ritaði fyrir "The American Scandinavian Review". Stutt en gagnorð lýsing á skáldskap bókmenta starfsemi Íslendinga á síðari árum. Ritgjörð þessi er einkar fjörlega rituð og krydduð skáldlegum líkingum. Útlaginn sendir síðustu kveðju — hann minnist Fjallkonunnar oftar en einu sinni, nefnir hana "Mountain Lady".

"Það er ekki óvanalegt á Íslandi,' segir hann, "að finna skáld, sem er einnig duglegur bóndi, læknir eða lögmaður. Einn allra fremsti fjármálafræðingur landsins, hefir samið leikrit og kveðið fögur kvæði. Skáldin verða að vinna fyrir sér, hafa ljóðagerð í hjáverkum, sér til skemtunar." John hafði mjög mikið álit á Þorsteini Erlingsyni og Guðmundi Friðjónssyni. Var það skoðun hans, að þeir hefðu haft einna mest áhrif á alþýðuna, nú á síðari árum. Hann áleit Stephan G. eitt allra mesta skáldið, sem nú er uppi. Kristján N. Júlíus (K.N.) var sá Vestur-Íslendingur, sem hann talaði oftast um. Hann gleymir ekki K. N. í þessari síðustu ritgerð um yngstu söngmenn Fjallkonunnar. John segir, að K. N. hafi "ræktað jörðina, og kveðið fögur, fjörug glettnis- og gamankvæði, síðastliðin þrjátíu ár. K. N. er vel þroskaður, meinfyndinn heimspekingur; þegar honum tekst bezt, þá minnir hann mig á Heine."

John Holme var giftur innfæddri Ameríkukonu, starfaði alt af með innlendu fólki. Hafði hann því lítið tækifæri til þess að tala íslenzku. Nærri því í hvert skifti, sem eg hitti hann, þá hafði hann yfir hálfa eða heila vísu eftir K. N., sem eg hafði ekki heyrt hann hafa yfir áður. Spurði eg því sjálfan mig þeirrar spurningar:

er það K. N., sem hjálpar John Holme mest til þess að viðhalda íslenzkunni?

Frú Ada Holme hefir góðfúslega lánað mér fjölda af bréfum, sem henni voru skrifuð við fráfall manns hennar. Með hennar leyfi set eg hér útdrátt úr einu þeirra. Skýrir það sig sjálft.

"Stjórnarnefnd Svensku-Ameríkönsku fréttastofunnar í New York fól mér á hendur að rita yður, til þess að láta yður vita, hversu mikið við höfum mist, við fráfall manns yðar. — Eins og yður er ef til vill kunnugt, þá átti John Holme manna mestan þátt í því, að skrifstofa þessi var stofnuð; hann var okkur til meiri uppörfunar, en við getum með orðum lýst. Þekking, einlægur áhugi fyrir norrænum bókmentum, og svo það, sem mest var um vert, hinir snjöllu rithöfundshæfileikar hans, gleymast okkur seint. Við sendum yður innilegustu hluttekning þeirra, sem störfuðu með manni yðar hér. Hann var persónlegur vinur okkar allra."

(Dr.) Borje Brilioth,
ritari.

*VII.*

John Holme gerði sér glæsilegar vonir um, að Ísland mundi njóta góðs af stofnun Svensku fréttaskrifstofunnar, og auka sannari þekkingu á landi og þjóð. Hann ásetti sér að vinna að því, að láta "The American Scandinavian Review" flytja fréttir frá Íslandi í hverjum mánuði, eins og frá hinum skandinavisku löndunum.

John Holme hafði brennandi áhuga fyrir því, að afkomendur íslenzku landnemanna settu markið hátt. Fann enga ástæðu fyrir því, að þeir þyrftu að leita sér skjóls að baki annara. Endar hann ritgjörð sína, "Yngstu söngmenn Íslands", með eftirtektarverðum hvatningarorðum

"Hér í Ameríku, hafa Íslendingar verið duglegir bændur, kaupmenn, læknar, lögmenn og kennarar. Það er trú mín, að nú í dag séu tví-höfðaðir drengir (two-headed youngsters) að leika sér á hinum frjósömu, sléttu bændabýlum í Minnesota og Saskatchewan, sonarsynir landnemanna frá litlu eyjunni norður við heimskaut, sem innan hálfrar aldar verða komnir til valda í ríki heimsbókmentanna. Eða hefir andi þeirra tapað hinu skapandi ímyndunarafli forfeðranna, við það að flytja til Ameríku? Víkingslundin, hetjuandinn, æfintýralöngunin, hefir ávalt lifað í bókmentum og skáldskap sögueyjarinnar. Ljóð, sögur og þulur liðinna alda, hafa haft sinn töframátt, til þess að leiða og lyfta þeim, sem listum unna. Hin yngstu skáld og listamenn stilla betur strengi hörpunnar, eftir tónum og sál landsins, og hinna fornu landvætta, en forfeður þeirra. Þeir sjá hina grænklæddu huldumey á sjónarhæðum Fjallkonunnar."

"Upp á himin mundu ganga bergrisar, ef öllum væri fært á Bifröst, þeim, er fara vilja. Margið staðir eru á himni fagrir, en þar er hvarvetna guðleg vörn fyrir."

Þökk fyrir sannleiksást og hrein-

skilni þína, John Gunnlaugur Holme, og hversu djarfmannlega að þú varðir Bifröst fyrir bergrisum í Bjarmalandi, "þótt sárt þér blæddi til ólífis inn." "Það skiftir engu, hvort himinn sá, sem þú nú byggir, heitir Andlangur eða Víðbláinn, því ljósálfar einir hyggjum vér, að nú byggi þá staði."

New York, á sumardaginn, fyrsta, 1923.

# Hólsfjöll.

Eftir **Friðrik Guðmundsson.**

Inst til lands frá Íshafsströnd,
efst til fjalla' í manna bygðum
æsku minnar liggja lönd.
Lengi þaðan togna bönd,
þau sem vefja hug og hönd
og hjartað fylla skýrum dygðum.
Inst til lands frá Íshafsströnd,
efst til fjalla' í mannabygðum

Stærri hvergi' á Fróni finst
fjallahringur prýðilegur.
Því, sem eldi' og vatni vinst,
verður þar til hlítar kynst.
Þar hjá gætir mannsins minst,
móðurskautið þyngra vegur.
Stærri hvergi' á Fróni finst
fjallahringur prýðilegur.

Fjallamóðan ferðalöng
flúðir gnýr á báðar mundir,
hvessir róminn strengjaströng,
— stolt af nýrri mittisspöng.
Brattir álar semja söng,
syngja Hljóðaklettar undir.
Fjallamóðan ferðalöng
flúðir gnýr á báðar mundir.

Kóngur fossa í klettahöll,
kraftastór í ölduróti,
herjar voldug hamratröll,
hermir lýði veðraföll.
Býðst að græða víðan völl,
ef vilji' og þekking taka' á móti.
Kóngur fossa í klettahöll,
kraftastór í ölduróti.

Þarna í landi Kristján kvað
kvæðin mörg, sem aldrei fyrnast.
Heiði næst, á háum stað,
hugsjónirnar berast að;
fjallablærinn fæðir það,
feiknaöfl í huga spyrnast.
Þarna í landi Kristján kvað
kvæðin mörg, sem aldrei fyrnast.

Fræga þroskans fjallasveit,
feðra minna kærust storðin —
Þar sem fyrst eg ljósið leit,
litlu barnaskónum sleit,
hvar eg léttur lék á reit
og lærði' af móðurvörum orðin.
Fræga þroskans fjallasveit,
feðra minna kærust storðin.

Meðan elur kvistur kind
og kraftur býr í töðuvelli,
í blómsturhvammi lifir lind,
lögur speglar fjallatind,
börnum þínum blíðleit mynd
býr í hverju leiti' og felli.
Meðan elur kvistur kind
og og kraftur býr í töðuvelli.

Þegar hinzt eg héðan fer,
því háleitasta sízt eg gleymi.
Ímynd Guðs, sem andinn sér
við árdagsól í faðmi þér,
varanlegri verður mér
í veruleikans blíða heimi.
Þegar hinst eg héðan fer,
því háleitasta sízt eg gleymi.

# Jón Sigurðsson, forseti,

*17. júní 1926.*

Blíðsól frá bláum geim
blikhjúpi vefur grund,
fjallbrjóstin gróðurgræn;
glitstafar ránar-sund.
Angan af ungri rós
árdegis svali ber;
vorhimin víðir blár
vefur í fangi sér.

Vorelskur vors í dýrð,
vorgjafi fæddist lands;
barn hvert, sem máls á mátt,
minningu blessar hans.
Nafn hans, sem hjartablóð
helgaði' og líf sitt alt
alþjóðar æðstu heill,
aldrei er gleymsku fátt.

Harðstjórnar kreptu klær;
kúgun var þjóðin seld;
sáldofnir sátu menn,
sólvana, skorti eld.
Veggþrengsli, loftsins lægð
ljóðþresti kyrkja mál;
fæst eigi fylling lífs
fjötraðri hönd og sál.

Dags var af djúpi þörf;
döggfalls á skrældan meið;
hrópuðu í himingeim
hjörtu um líkn í neyð.
Geisli braust gegnum ský,
guðsendur, vakti frón.
Dagfaðir landi og lýð,
langþjáðum varðstu *Jón*.

Eygi eg ógna þjóð
útlenda vopna-sveit;
kóngsvaldi og kúgun skal
kotlandið vinna heit.

Rísa úr sess eg sé
sviptignan skörung-mann;
augnaráð Íslending
aldregi djarfar brann.

Hljómar um háan sal
hvellar en lúður mál:
"Ólögum mæli eg mót!"
máttugra en víga-stál.
Rísa úr sess eg sé
samherja alt um kring:
"Andmælum allir vér!"
ómar um gjörvalt þing.

Merkið var mundað vel;
mörkuð var starfa-braut
hetju sem hæst sér kaus
hlutverk, og marga þraut.
Greypti á glæstan hjálm
gullorðin, máttar-rík:
"Sannleiks af sigur-leið,
sóknbrattri, aldrei vík!"

Brá eigi heldur heit;
hraustur í fylking stóð,
fremstur unz féll að mold,
fannirnar tróð og glóð.
Dáðríkra dagsverk lífs
dýrra ei nokkur vann;
sannlega sæmd er þjóð
syrgi hún slíkan mann.

Ljóma um líka hans
leiftur, sem gylla höf;
alt fram, á alda-kvöld
ilmur á þeirra gröf.
Nafn hans, sem hjartablóð
helgar og líf sitt alt
alþjóðar æðstu heill,
aldrei er gleymsku falt.

*Richard Beck.*

# Hlutdeild Íslands í heimsbókmentunum.

Eftir Richard Beck, Ph. D.

(Erindi flutt á ensku við St. Olaf College og víðar.)

Illa lætur heiti ættlands vors í eyrum útlendinga. Enginn væntir þess, að rósir eða andans gróður spretti í skauti frosts og fanna. Sann-nefni getur Íslandsheitið þó vart talist; það lýsir að eins einni hlið ættjarðar vorrar. Eigi svo að skilja, að nóg sé eigi jökla-auðlegð á Íslandi, en margt er þar einnig eldfjalla, og það, sem betra er: mýkri drættir í landsins svip — græn engi, tún og gróðursælir dalir. Satt er það, að loftslag er æði ómilt á Íslandi, en kostur er þar með löstum. Í því sambandi má vitna til ummæla þess Íslendings, sem frægastur mun nú, Vilhjálms Stefánssonar landkönnuðs. Hann segir á einum stað í ritum sínum, að þó því verði eigi neitað að kaffi, baðmull og sykur séu heiminum mikils virði, þá neyðist menn samt til að játa það, að þýðingarmesta uppskera lands hvers sé þjóðin sjálf, að loftslag geti eigi gott talist, þó fegurstu sveitir þroskist, ef mennirnir hrörni. Fáir munu efa sannleik þeirra orða.

Áhrif þjóðanna eru heldur eigi komin undir höfðatölu; gildi þeirra fer eftir kostum og atgjörvi, en eigi fjölda mannflokksins. Frægð landa er eigi mæld í ferhyrningsmílum. Grikkland og Gyðingaland, þau löndin, sem að flestra dómi munu hafa lagt stærstan skerf til heimsmenningarinnar, eru aðeins helmingi stærri en annað minsta fylki Canada, Nýja-Skotland. Ísland, með einar hundrað þúsundir íbúa, er á stærð við Grikkland. Hefir það einnig, og mun það sumum kynlegt virðast, verið nefnt "Grikklandið í Norðri". Ísland er miðstöð fræða þeirra fornra, sem snerta Norðurlandabúa og allan hinn germanska þjóðbálk. Hversu er slíku farið? Þeirri spurningu skal nú leitast við að svara.

Saga íslenzkra bókmenta hefst með landnámi Norðmanna á Íslandi. En bókmentirnar eru ávöxturinn af reynslu þjóðanna, skuggi hugmyndalífs þeirra og hugsana. Skapferli, atgjörvi og lífskjör manna þeirra, sem Ísland bygðu, réðu því miklu um brag og þroska forn-íslenzkra bókmenta. Er því eigi ónauðsynlegt, að gera sér fulla grein atburða þeirra, sem til þess lágu, að Norðmenn leituðu til Íslands, og eins hins, hversu landnemarnir voru skapi farnir.

Landnám Íslands átti beinlínis rætur sínar að rekja til breyttra stjórnar- og stéttarhaga í Noregi. Haraldur hárfagri hafði fyrstur manna, svo sögur fari af, lagt undir sig landið alt. Varpaði hann eign sinni á jarðeignir manna, og gerði þá sér skattskylda. Slíkar kröfur voru ofraun mörgum manni, einkanlega þeim, sem höfðingjar voru eða tiginna ætta. Að ganga þannig á rétt þeirra, voru

óheyrð firn. Frjálshuga mönnum og metnaðargjörnum varð slík kvöð of þung byrði. Frelsi í útlegð, töldu þeir sæmra áþján heima á ættjörðinni. Eigi löngu fyrir þennan tíma höfðu norrænir víkingar fundið Ísland. Það varð friðarhöfn þessum frjálshuga Norðmönnum.

Margir landnámsmanna voru, sem bent hefir verið á, stórættaðir, sumir konungbornir. Heima fyrir höfðu þeir verið leiðtogar í stjórn- og trúmálum. Í sínu nýja heimkynni gerðust þeir einnig forystumenn. Slíkum mönnu var það metnaðar- og sæmdar-auki, að varðveita sagnirnar um frægð og atgjörvi forfeðranna. Þannig barst mikill sagnaforði til Íslands og geymdist þar á vörum manna löngu eftir að gleymst hafði í hinum upprunalegu heimkynnum.

Vert er og að geta þess, að margir landnemanna voru menn víðförlir. Á víkingaferðum sínum höfðu þeir komið víða við; kynst siðum og lífsháttum ýmsra þjóða, konungum og hirðlífi þeirra. Aðrir landnámsmanna voru kaupmenn, er eigi höfðu óvíðar farið, en bræður þeirra, víkingarnir. Í ferðum þessara manna gerðist margt frásagnarvert..

Fleira gerðist einnig til söguefna. Landnámsmenn Íslands voru menn með miklu viljaþreki og djúpum tilfinningum. Voru þeir vanir því, að láta eigi hlut sinn fyrir neinum, og vildu engum háðir vera. Hefndir voru þeim einnig heilög skylda. Mörg gerðust því vígaferlin meðal þeirra. Voru slíkar deilur, hvort sem var milli einstakra manna eða heilla ætta, mjög í frásögur færðar. Lærði ein kynslóðin þær af annari, því að fátt þótti betra til skemtunar, en sögur, ef vel voru sagðar.

Miklar mætur höfðu forn-Íslendingar einnig á erlendum fréttum, enda var náið sambandið og samgöngur miklar við önnur Norðurlönd og Bretlandseyjar. Var slíkt hægt um hönd, þar sem tunga sú, sem töluð var á Íslandi í fornöld, var mælt mál allra Norðurlanda og mikils hluta Englands. Þannig barst því mikill fróðleikur til Íslands.

Fleira kemur hér einnig til greina. Meðal landnámsmanna Íslands, og sér í lagi meðal hinna fyrstu afkomenda þeirra, var margt skálda. Voru þau mjög í heiðri höfð, því að eigi höfðu forfeður vorir minni mætur á skáldskap en sagnafróðleik. Svipar þessum fornískenzku skáldum að ýmsu til farandskáldanna frakknesku. Tíðum eru þau menn af góðu bergi brotnir; fara á unga aldri utan og gerast um lengra eða skemmra skeið hirðmenn einhvers konungsins eða jarlsins. Taka þeir fullan þátt í kjörum herra sinna, lofa sigurvinninga þeirra, og frægja í ljóðum dauða þeirra, ef þeir falla eigi við hlið þeirra á vígvellinum. Tilfinningarík voru skáld þessi og eigi ósjaldan ógæfusöm í ástum. Vildu þeir engum minni vera skáld-bræðra sinna; skjótir til varnar, ef á þá var ráðist, jafnvígir á að beita sverðinu sem tungunni. En neit-

að verður því eigi, að langt komust margir þeirra í list sinni.

Fóru svo leikar, að Íslendingar urðu meðal Norðurlandabúa einvaldir á sviði skáldskaparins, verndarar aðal-heimilda forn-norrænna sagna — og goðafræði. Lengi geymdust fræði þessi á vörum þjóðarinnar, unz þau voru í letur færð, flest á 12. og 13. öld. Langt er síðan fræðimenn sáu og skildu gildi rita þessara, og enn fer frægð þeirra vaxandi.

Þrjár eru aðal-greinir forn-íslenzkra bókmenta.*) Fyrst má nefna skálda-kvæðin. Er til mikill fjöldi þeirra. Að efni til eru þau flest lof um konunga og sigurvinningar þeirra, en nokkur eru harmsljóð eða ásta. Höfundarnir eru skáld þau, sem fyr var lýst. Eru kvæði þeirra full líkinga og oft torskilin að máli. En kraftur er oft í frásögninni, og lýsingar atburða og manna margar snjallar.

Næst má telja sögurnar. Er margvíslegt efni þeirra. Skýra sumar frá afreksverkum fornhetja, er uppi voru svo snemma á öldum, að vér kunnum þeirra fá deili. Eru sögukapparnir ofurmenni að hreysti og afrekum. Aðrar sagnanna eru um konunga, einkanlega þá, er Noregi réðu. — Loks eru Íslendingasögur, er skýra frá æfi og vígaferlum voldugra ættarhöfðingja, forlögum skálda eða örlögum útlaga. Eins og nafnið bendir til, eru sögur þessar um menn, sem á Íslandi dvöldu.

Þriðja grein íslenzkra fornbókmenta eru Eddukvæðin. Skulu hér nánar ræddar Íslendingasögurnar og Eddurnar.

Íslendingasögur hafa verið nefndar óbundinn hetju - kveðskapur (prose epic). Prófessor Ker, og fáir gátu af meira lærdómi talað um þetta efni, kvað sögur þessar vera fullkomnastann hetjukveðskap Norðurlanda. Eru þau ummæli fjarri því að vera ástæðulaus. Í lífi forfeðra vorra á fyrstu öldum þjóðveldisins íslenzka, voru öll þau skilyrði fyrir hendi, sem skapað geta hetju-sögur. Það voru aldir kapps og hugdirfsku. Þjóðfélagsskipunin lagði litlar hömlur á athafnir einstaklingsins. Í fáum orðum sagt: þá var hetju-öld. Upp úr slíkum jarðvegi einum spretta sögu- og hetjuljóð. Íslendingasögur eru því frásagnir um hrausta kappa og um afrek þeirra og vígaferli. Mismunandi eru sögur þessar að lengd og bókmentagildi; eigi er heldur jafnt sögulegt gildi þeirra. En allar eru þær hrífandi aflestrar og eiga marga kosti sannra bókmenta. Fyrst má telja þann kostinn, hve kjarn-orðar og gagn-orðar þær eru. Enga ónytjumælgi er þar að finna. Frásögnin er eðlileg, tilgerðarlaus með öllu. Annar kostur sagnanna er sá, að ritarinn blandar sér eigi í frásögnina; lætur lítið eða ekkert á sér bera. Sjaldan fellir hann dóm á breytni manna. Eru sögurnar því snauðar að beinum siðakenningum. Söguhetjurnar lýsa

*) Eðlilegra hefði máské verið að fylgja hinni vanalegu niðurröðun: Eddukvæði, skáldakvæði og sögur, en breytt var út frá því af ýmsum ástæðum.

sér í orðum sínum og athöfnum. Frásögnin er því líkust, sem þar hafi hlutlaus áhorfandi um fjallað. En slíkt er háttur hinna beztu skáldsagnahöfunda. Söguriturunum fornu hefir eflaust skilist, að þeir voru að færa í letur efni, sem var svo að kalla almenningseign, en ekki þeirra eigið. Létu þeir því eigi nafns síns getið. Vera má, að þeim hafi eigi heldur verið eins ant um ritfrægð sína og síðari alda mönnum. Venjulega er snildarbragur á frásögninni, prýðilega með efni farið. Þess vegna eiga margar sagnanna slíkt listgildi, að aldrei rýrist. Í Íslendingasögum er sem heyra megi hjartaslög þeirrar miklu aldar, sem skapaði þær.

Frægust allra Íslendinga-sagna er Njálssaga. Sir G. W. Dasent, sem þýtt hefir hana snildarlega á Ensku, mælir svo um hana: "Harm saga þessi er öllum öðrum sögunum fremri sökum sannleiks í frásögn og fegurð." Dr. Guðbrandur Vigfússon kvað Njálu bera af hinu sögunum sem gull af eir. Afburða snjallar og glöggar eru skapbrigða - lýsingar höfundar. Rétt er eins og söguhetjurnar lifi og hrærist fyrir augum vorum, og það, sem meira er um vert, oss opnast sýn inn í sál þeirra og hjörtu. Gott dæmi frásagnarsnildar höfundar er lýsingin á dauða Njáls og Bergþóru. Máttur er í stílnum og þó djúp tilfinning, en hvorttveggja hæfir efninu.

Eigi er sögulegt gildi Íslendingasagna minna en bókmentalegt gildi þeirra. Eru þær að jafnaði glöggar og áreiðanlegar myndir úr íslenzku þjóðlífi á söguöldinni. Í þeim speglast fornaldarmenning, eigi aðeins Íslands eins, heldur einnig allra Norðurlanda. Hvergi fræðumst vér meir eða betur um skapferli forfeðra vorra. Hversu voru þeir skapi farnir?

Eigi ósjaldan fyllumst vér svo ánægju yfir fullkomnan vorri og manngöfgi, að oss hættir við að álíta fornaldarbúa Norðurlanda siðlitla villimenn. Hvernig lýsa sögurnar þeim? Þeir lifðu á manndómsöld; menn urðu að sýna það í verki, að þeir væru einhvers virði. Að skipa rúm sitt vel, vera maður með mönnum, þótti forfeðrum vorum miklu varða. Þó menn þessir væru víkingar, "á heiðvirðan hátt" — eins og einn rithöfundur kemst að orði,—voru þeir gæddir ríkri sóma-tilfinningu. Undirferli og bakmælgi voru þeim viðurstygð, og eigi síður hitt, að ráðast að mönnum að óvörum á næturþeli. Gestrisnir voru þeir óvinum sem vinum. Loforð skyldi efnt; unninn eiður var þeim heilagt boðorð.

Þá hættir oss einnig við að álíta forfeður vora óhófsmenn mikla í mat og drykk. Eigi verður því neitað, að svo var því farið við ýms tækifæri, einkanlega á hátíðum og í veizlum. Hversdagslíf þeirra var þó hófsamt og sundurgerðarlaust. "Morgunstund gefur gull í mund," má með sanni segja, að verið hafi lífsregla margra þeirra. "Ár skal rísa," kvað Egill Skallagrímsson; var það bergmál ráðandi lífsskoðunar.

Iðjuleysingjar voru forfeður vorir eigi. Mælt hefir verið, að mannvíg hafi verið þeirra helzta iðja. Þarna er sagan aðeins hálfsögð, og eigi sá hluti, sem betri er. Flestir voru þeir starfsmenn miklir. Þeir áttu dvöl, þar sem hraustra handa er þörf til þess að afla sér fjársjóða úr skauti náttúrunnar. Erfiðisvinnu alla töldu þeir heiðvirða. Höfðingjarnir helztu töldu sér það ekki vansæmd, að vinna að kornyrkju eða fjárhirðing.

Eitt var það í þjóðfélagslífi feðra vorra, sem mjög er merkilegt og lýsir einnig skaplyndi þeirra. Eg álít sem sé, að réttindi þau, sem konur njóta í þjóðfélagi hverju, séu eigi ótíðum mælikvarði menningar þjóðar þeirrar, sem í hlut á. Sögurnar fræða oss um það, að meðal forfeðra vorra nutu konur og karlar mikið til sömu réttinda. Margar aldir hefir það tekið kristnar þjóðir, að komast á það þroskastig.

Vissulega geyma sögurnar margar myndir feðra vorra. Skapferli þeirra birtist þar í öllum sínum andstæðum: hörkulegt og kalt, hlýtt og milt. Gamansemi áttu þeir til og fyndni. Kýmni bregður fyrir í fornritum vorum. Það rýrir eigi list Snorra, að hann vefur gamansögur inn í frásögn sína. Sumir menn kannast við frásögnina um húsfreyju þá, er kunni því eigi að konungurinn notaði miðbik handklæðisins um morguninn til að þerra andlit sitt, er hann skyldi notað hafa neðri enda þurkunnar að morgni, miðbikið um hádegið, og efri hlutann að kveldi, og þannig sparaði húsfreyju tvö handklæði. En tíðum er fyndni sagnanna köld.

Mörg dæmi hinnar göfugustu hugdirfsku, er vel hefði sæmt Spartverjum hinum fornu, er að finna í sögum vorum. Ein deyjandi hetjan biður konu sína að gráta sig eigi, svo að heit tárin brenni eigi brjóst sitt og geri sér óhægt um hvíld.

Mörg er í sögunum mynd hinnar frábærustu trygðar og trúfestu. Bergþóra brennur inni með Njáli og var henni þó útganga boðin. Á vorum dögum, þegar eiðarnir helgu unnir fyrir altarinu eru svo oft að engu hafðir, hljóma ódauðlegu orðin hennar Bergþóru: "Ung var ek gefin Njáli, ok hefi ek honum því heitit, at eitt skyldi yfir oss bæði ganga", oss í eyrum sem skær himinhljómur.

Ættjarðarástin sanna, eigi sú tegund hennar, sem hatar alt það, sem útlent er, lýsir sér í hinum alkunnu orðum Gunnars: "Fögr er hlíðin, svá fögr, at mér hefir hún aldrei jafn-fögr sýnst; bleik ir akrar ok slegin tún; mun ek heim snúa ok hvergi fara."

Þá fræða sögurnar oss einnig um andlegt atgjörvi norrænna manna. Snjalt var svar Snorra goða, þá er verið var að ræða um kristnitökuna. Kom fregn um það á þingið, að eldflóð stefndi á bæ eins goðans. Kváðu heiðnir menn það litla furðu, að goðin væru reið slíkum ræðum, sem þar hefðu haldnar verið á þinginu. Spurði Snorri þá, hverju goðin hefðu reið

verið, þá er hraunleðjan rann yfir stað þann, sem þeir stóðu á. Fátt varð um svörin af hálfu heiðinna manna.

Á nú við að ræða heimsskoðun og lífsskoðanir feðra vorra. Vér höfum kynst að nokkru ytra lífi þeirra. Víst er það mikils virði, en miklu er það þó þýðingarmeira, að líta augum hið allra helgasta musterisins: sál þeirra og hugsanalíf. Því lýsa Eddurnar bezt. En þær eru tvö stórmerkileg söfn fornkvæða íslenzkra, Snorra- og Sæmundar-Edda. Þar sem hin síðarnefnda er enn betri skuggsjá menningarþroska og hugsunarháttar forfeðra vorra, en hin fyrri, skal hennar nánar getið Hún er sá brunnur, sem ausa verður af, vilji menn kynnast goðafræði og hetjusögum Norðurlanda. Búningur Eddukvæðanna er óbrotinn, en eigi að síður áhrifamikill. Engin deili vitum vér höfundanna, en flest munu kvæðin til orðin milli 900 og 1100. Var þá skáldskaparöld mikil á Íslandi. Eigi voru kvæðin þó í letur færð fyr en milli 1100 og 1250. Mjög hefir fræðimenn greint á um heimkynni kvæðanna. Út í það skal eigi farið. Hitt er víst, að þau hafa geymst hjá oss Íslendingum; á það verða engar brigður bornar. Upprunalega munu Eddukvæðin verið hafa þjóð-kvæði, lifað á vörum manna, en fegruð eru þau og fullkomnuð af meistarahendi. Þess bera mörg þeirra ljósan vottinn.

Sæmundar-Edda hefst á Völuspá og á það vel við. Kalla má að hún sé norræn sköpunarsaga veraldar. En eigi segir hún þó aðeins upphaf heims og mannkyns, og jafnvel guðanna sjálfra, heldur einnig örlög veraldar, manna og goða. Hvaðan kom eg? Hver em eg? Hvert er för minni heitið? Við þessar spurningar hefir mannsandinn verið að glíma frá alda öðli og gerir enn. Völuspá birtir oss svör forfeðra vorra við þessum eilífu spurningum. Spádóms blær og tignar hvílir yfir frásögninni. Leyndardómsfull eru orð völvunnar og þrungin af efni; djúp og máttug, en oft torskilin. Í eftirfarandi erindi verðum vér oss glögglega meðvitandi óendanleiks hins auða geims áður heimur var skapaður.

"vara sandr né sær
né svalar unnir,
jörð fansk æva
né upphiminn,
gap var ginnunga,
en gras hvergi."

Dásamlegar eru þessar ljóðlínur; hér hefir stórskáld að verki verið. Þá er hún kröftug lýsing þessi á örlögum jarðar:

"Sól tér sortna,
sígr fold í mar,
hverfa af himni
heiðar stjörnr;
geisar eimi
ok aldrnari
leikr hár hiti
við himin sjálfan."

Fegurð frásagnarmáta Völuspár og göfgi kvæðisins, eru ómótstæðileg. Eins og djúpir organtónar hljóma orð þessi eyrum vorum og vér fyllust lotning.

Enda á Völuspá engan jafna í fornbókmentum vorum og þó víð ar sé leitað.

Geta má annars Eddukvæðis, sem bæði er hrífandi og merkilegt. Það eru Hávamál, sem nefnd hafa verið *norræn orðskviðabók.* Hafa þau inni að halda lífs-speki og siðakenningar feðra vorra. Sum um virðist ef til vill að heimspeki sú sé ekki háfleyg, en margar eru þar hollar lífsreglur og hagkvæmar. Forfeðrum vorum skildist, að vizkan og þekkingin verða veganesti drjúgt á lífsins leið. Því segir í Hávamálum:

"Byrði betri
berrat maðr brautu at
en sé mannvit mikit:
auði betra þikkir
þat í ókunnum stað.
slíkt er válaðs vera."

En hver er förunauturinn versti? Eigi stendur á svarinu:

"Vegnest verra
vegr hann velli at
en sé ofdrykkja öls."

Er því svo að sjá, sem víkingarnir hafi fundið þörf bindindis og kannske bannlaga.

Hyggist menn að ná fullum þroska, dugir þeim eigi að lifa sjálfum sér. Samvinnu og samlífs er þörf, eigi menn að ná fullum andans þroska:

"Brandr af brandi
brennr unz brunninn er,
funi kveykisk af funa;
maðr af manni
verðr að máli kuðr

Tilfinningaríkir voru feður vorir; ástríðu-menn miklir. Holger Drachmann, skáldið danska, lýsir Íslandi fornaldarinnar svo í einu kvæða sinna, að þar: "vegi maður óvin sinn, en bregðist aldrei vini sínum, þar sé hatur jafnan hatur, og ástin jafnan ást um eilífð." Lýsingin er eigi fjarri sanni. Svo segir í Hávamálum:

"Vin sínum skal
maðr vinr vera,
þeim ok þess vin;
en óvinar síns
skyli engi maðr
vinar vinr vera."

Það er réttlæti gamla testamentisins: "Auga fyrir auga". Forfeður vorir þektu eigi boðorðið guðlegasta: "Elska skaltu náunga þinn sem sjálfan þig." Sanngjarnt er því eigi, að meta þá á vog kristninnar. Þó höfum vér séð það af sögunum að margt var göfugt í fari þeirra. Þeir voru menn tryggir í lund, hugdjarfir og hraustir. Það sem forn sagnritari skrifaði um Fríslendinga, er jafn-satt um frændur þeirra á Norðurlöndum: "Þeir eru menn miklir vexti, ráðvandir, hraustir og skapstórir; frjálshuga eru þeir og vilja engum lúta; líf sitt leggja þeir í sölur frelsisins vegna og kjósa fremur dauða en að ganga undir þrældóms-ok." Heiður þeirra var þeim dýrmætari lífinu sjálfu. Þó örðug væru æfikjörin, sáu þeir, að lifa mátti göfugu lífi. Lífið skyldi reikna í dáðum, en eigi árum. Og enn hefir eigi sannari mælikvarði fundinn verið á gildi mannlífsins.

Rammir örlagatrúarenn voru Íslendingar hinir fornu. "Enginn má sköpum renna" var sterkur þáttur í trúarjátning þeira. Alt

er á hverfanda hveli. Lífið aðeins stundardvöl. Hin frægu orð eins enska skáldsins á 17. öldinni eru lífsskoðun feðra vorra færð í heflaðri búning: "Ættarfrægð vor og skraut eru hjóm eitt; engin herklæði standast högg örlaganna; dauðinn leggur kalda hönd á konunga sem kotunga." En þó að forfeður vorir fyndu sárt til þess, hve stutt er æfin og "alt er í heiminum hverfult", skapaðist samt eigi hjá þeim sú ákvörðun, sem svo almenn er, sú, að bezt væri því að njóta lífsins í sem fylstum mæli, drekka sem dýpst af bikar nautnanna. Þvert á móti kappkostuðu þeir, að lifa sem mönnnum sæmdi. Fyrir þeim er alt hverfult nema eitt — frægðarorð unninna dáða, "orðstírr deyr aldregi hveim sér góðan getr."

Hér hafa nefndir verið nokkrir drættir í lífsskoðun feðra vorra, eins og þeir birtast oss í ritum þeirra, nokkrir geislar ljóss, sem birtu bera inn í sálu þeirra, að vér megum þá veröld sjá. Með sanni má því segja um Eddukvæðin, að þar hafi forfeður vorir látið oss að erfðum allar sínar dýpstu, háfleygustu og beztu hugsanir.

Þannig vonast eg til að hafa sýnt, að ættland mitt, þó það sé eitt hinna smæstu og fámennustu á hveli jarðar, hafi unnið mannkyninu sannarlegt gagn, lagt þann skerf, sem eigi verði auðmetinn, til bókmenta heimsins. Væri það eigi fyrir fornritin íslenzku, mundum vér æði fáfróðir um lífsháttu og menningu Norðurlanda í fornöld. Þess vegna eru sögurnar og Eddurnar afar þýðingarmikil rit; þess vegna hefir Ísland eigi að ófyrirsynju verið nefnt: *Grikklandið í norðri.* Bókmentir þessar hinar fornu eru lind, sem frá hefir streymt lifandi vatn og streymir enn. Margt listaverkið í heimi bókmentanna hefir úr þeim jarðvegi sprottið. Björnson og Ibsen höfðu þar hitann úr. Tónskáldinu mikla, Richard Wagner, urðu Eddukvæðin tónsmíðaefni og fyltu hann eldmóði. Mætti marga fleiri nefna, sem bergt hafa af hinum sama brunni. En á Íslandi hefir áhrifa fornbókmentanna norrænu gætt mest sem eðlilegt er. Þar hafa þær stutt að viðhaldi auðugs bókmentalífs. Því að alt frá landnámstíð til vorra daga hefir bókmentaleg starfsemi meðal Íslendinga aldrei þorrið með öllu. Þó lágt hafi stundum brunnið, hafa ávalt einhverjar glæður á arninum lifað. Fornbókmentirnar hafa aldrei með öllu mist hald sitt á huga þjóðarinnar. "Aldrei hefir andlegt líf verið auðugra á Íslandi en nú," segir amerískur rithöfundur, sem ferðaðist um landið í fyrra. Hefir hann rétt að mæla. Síðan á söguöld hefir bókmentalíf Íslendinga aldrei verið auðugra eða fjölbreyttara en nú. Svo að öll frægð Íslands er eigi í fortíð inni, þó að þaðan fljúgi margur neisti.

Og nú fáein lokaorð. Eg hefi rætt við yður all-ítarlega fornbókmentirnar íslenzku, sér í lagi sökum þess, að þær eru svo þýðingarmiklar sögulega og bókmentalega. Auk þess eru rit þessi svo nátengd

sál okkar allra norrænna manna og kvenna. Andi forfeðra vorra, eins og hann birtist í ritum þessum, er enn eigi all-lítill hluti andlegs atgjörvis vors. Án þess að beiðast nokkurrar afsökunar, vil eg hvetja til meiri áhuga á þessum fræðum. Getið þér eigi lesið frumritin, lesið þau að minsta kosti í þýðingum. Gerið þér hvorugt, farið þér mikils mentunarauka á mis; yður stendur þar opinn heimur furðu og fegurðar. Rit þessi hljóta eigi þá athygli, sem skyldi. Fornbókmentir þessar eru mikill arfur og göfugur, sem er eigi eign Íslands eins, heldur allra Norðurlanda, alls hins germanska kynbálks. En vel skyldu afkomendurnir færa sér í nyt það, sem þeir hafa bezt að erfð hlotið frá forfeðrum sínum.

Lestur fornrita vorra hefir eigi aðeins fræði- heldur einnig menningargildi. Og fullviss er eg þess, að aukin þekking á forfeðrum vorum mun hvorki minka kapp vort né framtakssemi. Hitt veit eg, að aukin kynni af fornbókmentunum, eykur framsóknarþrá vora og styrkir viljann til stærri dáða. Að geyma með framsýni arfleifðar vorrar hinnar norrænu, gerir oss hæfasta borgara í kjörlandi voru.



# Norðmannaþingið í Camrose.

Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.

Þjóðhátíð Norðmanna í Minneapolis, Minn., 1925, er haldin var til minja um 100 ára dvalartíma Norðmanna í Bandaríkjunum, reyndist frægðarspor þeim frændum vorum, er hlut áttu að máli. Munu fágæt jafn fræg og ágæt allsherjarmót "útlendra" þjóðbrota í Vesturheimi sem Minneapolis-mótið. Bandaríkjaþjóðin vaknaði, mjög alment, að því er virtist, til nýrrar og aukinnar viðurkenningar á kostum Norðmanna og annara Norðurlanda þjóða.

Og Norðmenn vöknuðu sjálfir. Þjóðernis-vitund þeirra fékk nýjan þrótt og byr undir báða vængi. En þegar sjálfsvirðing þjóðar, eða þjóðarbrots, vex, taka aðrar þjóðir að veita þeim lýð, eða því broti af þjóð, aukið athygli og aukna virðing. Sú varð og reynd Norðmanna.

Áður en bergmálið af sigurför þessari til Minneapolis þagnaði, hófust handa Norðmenn þeir, er búsettir eru í hinu víðáttumikla nágrannalandi Bandaríkjanna, Canada. Efndu þeir til þjóðhátíðar mikillar í bæ þeim, er Camrose nefnist, í Alberta - fylki. Byggja Norðmenn víða fjölmennar sveitir í vesturhluta Canada. Stóð þing þetta með veg miklum dagana 3.-6. júlí 1926. Hafði Þjóðræknisfélag Norðmanna í Canada, er þeir sjálfir nefna á ensku: *The Norse Society of Canada,* yfir umsjón með tátíðahaldinu.

Heimaþjóðin norska átti sinn fulltrúa á þinginu. Og félag blaðamanna í Noregi sendi fulltrúa alla leið frá Osló.

Forstöðunefndin norska bauð Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi, að senda fulltrúa á þjóðfund þenna. Leit stjórnarnefndin svo á, að vorri eigin þjóðrækni væri það naumast vansalaust, að hafna með öllu því heimboði. Féll hluturinn á forseta félagsins, er sökum forfalla gat ekki sótt þingið í Minneapolis, 1925, þrátt fyrir heimboð forystumanna þess móts.

Ritari Þjóðræknisfélagsins, Sigfús Halldórs frá Höfnum, ritstjóri, reit þegar Norðmönnum um þátttöku Íslendinga í hátíðinni og um fulltrúavalið. Fékk eg í maímánuði vinsamlegt bréf frá ritara nefndarinnar norsku, prófessor A. H. Solheim, er lét í ljós ánægju Norðmanna út af þessari ráðstöfun Íslendinga, og bauð mig velkominn sem erindreka. Fram var það og tekið í bréfi þessu, að ávarp frá mér yrði sett á starfsskrá hátíðarinnar. Sú varð þó reyndin á, að Íslendinga eða Þjóðræknisfélagsins var að engu getið á starfsskrá hátíðahaldsins.

Grun hafði eg um, að í Camrose yrði einnig þröng á þingi. Fékk eg því að vita, með svari gegn hraðskeyti er eg sendi, að mér og öðr-

um ónorskum erindrekum væri helgaður síðari hluti mánudagsins 5. júl. Hátíðin hófst á laugardaginn. En sunnudagurinn 4. júlí, var eðlilega helgaður kirkjulegu starfi. Við aðal athöfn dagsins prédikaði formaður norsku kirkjunnar í Vesturheimi. Fjölmentu Norðmenn þá mjög til tíðasöngva. Mæltu ýmsir, að áheyrendur hefðu verið 10, 12 eða jafnvel 15 þúsundir manna. — Samkomurnar voru haldnar undir beru lofti og víðvarp hagnýtt sem hjálparmeðal ræðumanna og söngvara.

Til Camrose náði eg aðfaranótt þess 5. júlí, í fylgd með nokkrum fulltrúum og hátíðargestum. Einhver Norðmaður, með norskum einkennisborða, benti mér í áttina til gistihúsa bæjarins, með einhverju fyrirheiti um frekara athygli, er gestahöfðingi risi. En í gistihúsunum var ekkert rúm. — Um dagmálaskeið fundum við ferðamenn þar þó nokkurs konar jötu. Í þeirri leit lenti eg í félag með öðrum húsviltum manni, Hon. Sam. J. Latta, mentamálaráðherra Saskatchewan fylkis. Hann var fulltrúi þess fylkis á þjóðhátíðinni. Svipað þeim, er lendir saman í skipreika, bundum við með okkur bræðralag og héldum hópinn — eins og Mark Twain myndi nefna það — meðan við dvöldum í Camrose.

Dagurinn reyndist afar heitur, einn með þeim heitari, er eg minnist að hafa lifað í Canada. — Gestanefndin hafði ýmsu öðru að sinna en þeim, sem verið hafði í fjallgöngum á Íslandi, og komist þó til bygða. Einhvern veginn bar fundum okkar aldrei saman. — Ekki geng eg þess dulinn, hve örðugt er að annast ýms aukaatriði stórþings. En svo skal segja sögu sem hún gengur. Við félagar ýttumst því á árum, okkar eigin árum, sem bezt við gátum. En um þá hlið þingsetu okkar verður þó ekki fjölyrt frekar.

Camrose er snotur bær. Mörg heimili sá eg þar ríkuleg hið ytra. Kirkjur sá eg þar margar og ásjálegar. Norðmenn eiga þar lúterskan mentaskóla. Kennaraskóla mikinn og vandað sjúkrahús sá eg einnig. Umhverfið kvað einkum bygt af Norðmönnum. Norðmenn og Norska ríktu. Leiðbeiningar voru ritaðar á Norsku. Bókmálið var mér kunnugt að fornu fari. Í því efni gat eg leiðbeint félaga mínum.

Þingstaðurinn var í grend við skólana og sjúkrahúsið. Án efa réði því þó hending ein. Forstöðunefndin hafði fengið að láni hermannatjöld þau, er stjórnin í Alberta átti ráð á. Skildist mér, að fylkisstjórnin í Alberta hefði veitt ríflegan styrk til hátíðarhaldsins. Tel eg það stjórn þeirri vegsauka. Er hér um það getið öðrum til eftirdæmis. Enda er stjórnarformaðurinn í Alberta, Hon. J. E. Brownlee, einna veglegastur þeirra leiðtoga, er eg hefi séð og heyrt í Canada. Auk þess er hann maður háttprúður og látlaus með afbrigðum. Hann var einn þeirra, er erindi flutti 5. júlí. Mæltist honum vel, en þó fanst mér erindi Mr. Latta veigameira. Til ræðanna og söngsins var alment talað, vandað.

Af söngfólkinu átti ung stúlka og norsk, dóttir professors Gisli Bothne, er kennir norræn fræði við ríkisháskólann í Minnesota, mestum vinsældum að fagna, meðfram vegna þess, að hún söng norska þjóðsöngva og snart fólgna strengi föðurlandsástar og fræðanna norsku.

Eg flutti erindi mitt síðla dags. Ekki held eg að það sé úr vegi að minna á það sem stendur í Grettis sögu, þótt enginn sé eg kappi: "Réri Grettir í skut". — Mannfjöldinn hafði setið hlífa fár allan síðari hluta dagsins, í steikjandi hita og horft mót sólu. Eitthvað var múgurinn farinn að þynnast og einkum að ókyrrast, er eg fékk hljóð. Við það bættist, að víðvarpið bilaði stundu áður. En hafi sú bilun verið lagfærð meðan eg talaði, gæti eg trúað að þeir, sem heyrðu, hafi talið mig einhvern hljóðaklett utan af Íslandi, eða kunni þeir eitthvað eftir Bjarna, heyrt þar "eintóm hljóð úr forfeðranna gröfum".—

Fyrri hluta dagsins hlýddi eg á skemtiskrána. Fór hún öll fram á Norsku.

Fundastjórn skiftu þeir með sér prófessor Solheim, er eg áður nefndi, og dr. F. A. Nordbye, norskur læknir í Camrose og forseti nefndarinnar.

Mannfjöldinn, þjóðræknin, skemtiskráin — og hitinn, verður mér alt minnisstætt. Að því frátöldu þótti mér einna mest koma til sýningar á norskum hannyrðum, smíðisgripum, fornmenjum og málverkum, m.fl., "frá heimalandi Leifs Eiríkssonar" — eins og komist var að orði um þann hluta hátíðahaldsins. En ekki voru þau ummæli neitt eins dæmi. Vesturíslenzka skáldkonan, Laura Salverson, var þar stödd þenna dag. Hafði eg ekki áður séð hana né við hana talað. Að kveldinu flutti hún þar ræðu. En um hana var talað sem *"Norwegian-Canadian authoress."*

Ekki hafði eg áður skilið til hlítar, hvað Norðmenn sjálfir láta orðið *"norse"* merkja. Kunnugt er, að "norse" er komið í móð hjá enskum og norskum og jafnvel hjá sumum heldri Íslendingum. En það leyndi sér ekki, að hjá Norðmönnum táknar "norse" ekkert annað en norskur, Norwegian, enda er það merking orðsins hjá Cleasby. Þótt það orð kunni að vera þeim frændum vorum handhægt afla orðtæki, er það að verða oss Íslendingum eftirminnilegt útgjalda megin. Með "norse" er alls ekkert tillit tekið til þess sem íslenzkt er, hvort sem það er haft um Leif, Vínland, mál vort eða forn-bókmentir. Hér kemur ekki til greina hin forna merking orðsins. Fyr á öldum merkti það áreiðanlega einnig annað en það, er Noregi heyrði til. En það er nútíðarskilningur manna á orðinu, er oss varðar mestu. Vík eg, ef æfin endist, að því efni síðar.

Mælt er að íslenzkur prestur hafi, að afstaðinni prestastefnu í Reykjavík, flutt ræðustúf í veizlu, er biskup hélt þeim, er Synodus sátu. Kjarni orða hans á að hafa verið: "Svona á synodus að vera;

þá sæktu prestar." — Sennilega hefir þetta átt að ske áður en bannlögin gengu í gildi á Íslandi. —

Mér kom frásagan til hugar, er eg minnist veizlu þeirrar hinnar miklu, er forstöðunefndin hélt gestum sínum að kveldi mánudagsins. Stóð veizlan í samkomusal hins vandaða kennaraskóla, er eg gat um. Mannval mikið var þar saman komið. Ýms minni voru þar flutt. Bæjarstjórinn í Camrose stýrði samsætinu. Brownlee forsætisráðherra var enn einn ræðumanna. Voru sumar ræðurnar, er eg hlýddi á þá kvöldstund, með þeim mælskari, er eg minnist frá síðari árunum.

Ósjálfrátt flugu mér þá í hug orð íslenzka sveitaprestsins í biskupsveizlunni:

"Svona ætti synodus að vera."

En hátíðabragurinn endist ekki eins vel, ef maður er húsviltur. Fékk eg því ráðstafað gisting fyrir okkur félaga, í svefnvagni Canadian Pacific járnbrautarfélagsins. Í þröngum svefnklefa smáhvarf mér allur hátíðarglaumurinn og hið mikla þjóðræknisþing Norðmanna. Um nóttina hnýtti C. P. R. mér aftan í og dró mig heimleiðis.

——o——

Ritstjóri Tímaritsins mæltist til, að eg ritaði nokkur inngangsorð að ávarpi því, er eg flutti í Camrose. Hér er því ekki um neina nákvæma frásögn að ræða.

Þess ber og að geta, að fyrir atvik er hinn íslenzki búningur ræðunnar, er hér fylgir, ekki eins vandaður og eg kysi. Þýðingin er mín, en flýtisverk á ferðalagi.

——o——

## RŒÐA

*Flutt í Camrose, Alberta, 5. júlí, 1926.*

Herra forseti, fulltrúar
og norskir frændur!

Eg kem til yðar sem Íslendingur. Eg er fæddur og alinn upp á Íslandi, nærður, jafnframt brjóstamjólk móðurinnar, á íslenzkum söngvum og sögum og í þeim skilningi norrænn í merg og bein Eg kem hugfanginn af föðurlandi mínu og þjóð þess, með kærleiksyl til allra vina og ættmenna Íslands og Íslendinga, hverjir sem þeir eru og hvar sem þeir dvelja.

Harmsefni er það mér, að á þessum mikla mannfundi yðar Norðmanna, hlýt eg að hagnýta annað tungumál fyrir erindi mitt, en hið óviðjafnanlega ættarmál Íslands og gamla Noregs, — íslenzkuna. En fremur er það yðar en mín skuld.

Ekki er eg fulltrúi fjárafla né ríkis. En ríki, auður og ríkisvöld eru einatt á hverfanda hveli, — voldug í dag en visnuð á morgun. En eg flyt yður kveðju frænda yðar Íslendinga, er í rúm þúsund ár hafa varðveitt sameiginlega erfð og menning, er verið hefir Norður-Evrópu viti um tvö þúsund ára skeið. Einkum er eg hér staddur til að tjá yður, menn og konur frá Noregi og afkomendum norskra frumbyggja hér vestra, bróðurhug og alúðar-kveðju frá Íslendingum í Vesturheimi og því félagsstarfi þeirra, er þeir nefna Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi.

Eg fullyrði hér, að Íslendingar, hvar sem þeir eiga dvalarstað, beri jafnan í

brjósti forna frændhollustu gagnvart Norðmönnum. Við það má þá eins vel kannast, að þótt hugsjón góðra manna sé, að allar þjóðir sé af einu blóði, er dvelja skuli saman í friði og bróðerni, hafa vináttuböndin milli Norðmanna og Íslendinga frá öndverðu mint á bróðurþel Jósefs og Benjamíns, — eða öllu heldur á vináttu Egils á Borg og Arinbjarnar hersis.

Yður mun kunnugt að landnám Íslands hófst 874. Voru landnámsmenn einkum frá Noregi. Er Haraldur hárfagri vann sinn lokasigur í Hafursfirði 872, og lagði undir sig allan Noreg, gekk hann vægðarlaust að óvinum sínum og andstæðingum. Flýðu þá kappsfullir höfðingjar og lendir menn óðul sín um allan Noreg og leituðu hinnar norðlægu eyjar, er af hending einni hafði hlotið hið kaldranalega nafn, Ísland, — er hið virkilega íshús Norðurlanda og norðurhafsins hlaut skömmu síðar hið fagra heiti Grænland.

Hér verður hvorki lýst hreysti né hugarstefnu forfeðra vorra. En rétt til að minna á eitt, sem einna ríkast er í ætt vorri, að reynast Norðurlöndum, hollur, reynast þjóðrækinn, koma mér í hug þessi brýningarorð bókmenta-lávarðarins skozka, Sir Walter Scotts:

"Onward footmen, onward horsemen,
charge, and fight, and die, like Norsemen."

Á íslenzku mætti hafa hendingarnar þannig:

Áfram liðsmenn, hermenn horskir,
Höggvið, leggið fallið norskir.—

Íslendingar erfðu það eðli, er skáldið kveður hér um. Sá andi er enn ættarfylgja. Eg hygg þeir lifi, deyi og falli sem norrænir, íslenzkir menn, hvort sem þeim sjálfum er það ávalt ljóst eða ekki. — — —

Hér koma til greina fjórir höfuðþættir í framkvæmdarlífi Íslendinga, er eg tel sérstaka ástæðu að minna á í þessu erindi:

Er þeir lutu ekki harðstjórn Haralds, en yfirgáfu heldur óðul og ættmenn og námu Ísland.

Er þeir fundu og bygðu Grænland.

Er þeir, fyrstir hvítra manna, fundu Norður-Ameríku, skrásettu frásöguna um þann fund og leiðbeindu síðar Kólumbusi, er hann heimsótti Ísland 1477.

Er þeir, fyrir nálægt 50 árum, ýttu enn úr vör til Ameríku til að heimta eitthvað af föðurarfi sínum hér vestra.

En ekki er mér unt né heimilt að rekja hér baráttusögu Íslendinga, hvernig þeir hafa höggvið, lagt og fallið, jafnan hollir uppruna sínum og arfi Norðurlanda.—

Um fjórar aldir blómguðust Íslendingar á ey sinni fremur öðrum samtíðarmönnum. Þjóðin var fámenn, bjó á óblíðu eylandi langt úti í reginhafi. Þó komu þeir á fót óháðu og frægu lýðveldi, hinu fyrsta og eina á Norðurlöndum til vorra daga, með fágætri lagaskipan, lögsögumönnum, dómnefndum og þjóðþingi. Bókmentir Íslendinga frá þeirri tíð, telja flestir meistaraverk miðaldanna. Þá voru þeir hinir skriftlærðu meðal Skandinava. Þeir skráðu bækur um skáldskaparmál og varðveittu ljóð og sögur frægra feðra vorra. Þeir geymdu átrúnað ættbálksins, í einu hinu fegursta fræðakerfi heiðinna manna. Með eigin kvæðum og sagnaritan varðveittu þeir mál Haralds og Hákonar góða, Ólafs Tryggvasonar og Leifs Eiríkssonar, og lögðu hinn trausta grundvöll þess bókmáls, er naumast á sinn jafningja Íslenzkunnar.

Íslendingar, einnig vér Íslendingar í Vesturheimi og börn vor, lesa, rita og tala mál Ólafs helga og Snorra Sturlu-

sonar. Ýmsir meðal vor kunna hin elztu fornaldarkvæði í upprunalegri mynd þeirra og allir *kunna* Íslendingar að lesa fornsögurnar, er margar nálgast þó 800 ára aldur.

Þótt vér séum afkomendur víkinganna er eðlisfar vort friðsamt. Um aldaraðir höfum vér iðkað frið, án styrjaldar við umheiminn. Vor eina landvörn er að gera rétt. Fremur girnast Íslendingar þekking en auðæfi. Vísdóm telja íslenzkir menn mestan vegsauka. Með þjóð vorri er fátt um viðskiftaþrátt og verkföll. Brestir auðs og aldarfarsins er jafnvel hneigja kónga og helga menn til syndar, hafa til skamms tíma ekki átt stór ítök í lífi Íslendinga. Er vér höfum reynt að halda dauðahaldi í ættararfinn: trúrbrögðin; skáldskapinn; frelsis hugsjón þá, er óx upp úr blóði Hafursfjarðarorustunnar, og hinar betri lyndseinkunnir sagnanna, er lengst hafa gert garð vorn frægan.

Er eg tala þannig um íslenzka þjóð og Íslendinga, hefi eg einkum í huga íslenzka Íslendinga í Vesturheimi, lífs hugsjónir þeirra, störf þeirra og félagsskap, og þá þrá allra góðra drengja meðal þeirra, að dygðir og þekking íslenzkra feðra og mæðra verði erfðagóss afkomendanna fyrir þjóðræknisstarf það, er heimili, kirkjur og blöð vinni hér vestra.

Það eru liðin 50 ár, og hvað hávaða Vestur-Íslendinga snertir einungis 40 ár, síðan börn Íslands fluttust til Canada og Bandaríkjanna. Mjög eru þeir dreifðir um þessi miklu þjóðlönd. Félagslíf þeirra er á æskuskeiði hér vestra. Fylgja því yfirsjónir æskuáranna. En vér höfum kappkostað, að rækja þegnlegar skyldur í hinum nýju heimkynnum. Engir menn skulu standa oss framar í hollustu við fósturlöndin hér vestra, né trúmensku í öllu í hinum nýja áfangastað. En vér ætlum ekki að kasta á glæ menningar arfi feðranna; oss fýsir að glata ekki íslenzkri tungu né annari þekking íslenzkra fræða. Vér teljum það sonarþel öfugt og afvegaleitt, er slítur, á fyrsta mannsaldrinum hér, ættartengslin við frændur og feður handan hafsins.

Eg mælist til, að þér, norrænir frændur, skiljið ekki orð mín sem óverðskuldað þjóðernisdramb, er eg hér tala þannig um Íslendinga. Eg veit að þeir verðskulda það. Og eg trúi því að þér gleðjist af því. Vestur-Íslendingar teljast einungis 25—30 þúsundir í Canada og Bandaríkjunum. En á tæpum 50 frumbýlingsárum hafa þeir framleitt: heimsskautafara, lögsögumann, dómara, lögmenn, háskólakennara, lækna, prestalistamenn, tónskáld, rithöfunda, ljóðskáld, löggjafa, íþróttamenn og fjölmarga aðra, er skipað hafa nálega hvert það embætti, er útlendir menn hafa rétt til. Vér stöndum straum af kirkjum, æðri skóla og ýmsum íslenzkum blöðum og ritum er hafa mikla útbreiðslu, og þjóðræknisfélagið gefur út vandað ársrit.—

Norðmenn og Íslendingar eiga sameiginlegar erfðir. Ef um sigur er að ræða, er hann, ef til vill, báðum þessum frændþjóðum vegsauki. En barátta og böl vort er einnig sama eðlis, einkum hvað snertir þrautir, þarfir og þjóðernisskyldur landnámsáranna. En einmitt það ætti að auka innbyrðis skilning vor frænda og treysta forn sifjabönd.

Í því sambandi minnir sagan mig á, er Noregur varð skattskyldur erlendu valdi. Hjúskapur konungsætta og kænska valdhafanna réðu þá sök. En máli og menningararfi og þjóðerni Norðmanna var stofnað í hættu. — Eg skal minna á stutt dæmi um meðferðina á þjóðerni yðar þá.—

Einn þeirra erlendra konunga er réðu Noregi var Christian V. Á stjórnartíð sinni kom hann eitt skifti til Noregs 1685. Hið eina sem í frásögn var fært um þá konungs heimsókn, er um hornsteinslagning er konungur framdi. Letrið á steininum var þýzkt og hefir athöfn sú að líkindum farið fram á þýsku! Í lok 18. aldarinnar tók einn gæðingur konungdómsins danska fram, að "enginn Norðmaður væri framar til."

Mein tel eg það, að Guldberg sá varð ekki 300 ára, sem Örvar-Oddur, svo að hann aldurs vegna hefði getað heimsótt Norðmenn í Minneapolis og Camrose. Þeir sem hér eru í dag trúa því naumast, að allir Norðmenn hafi verið útdauðir með 18. öldinni.—

En þetta sögubrot, þessi þingskari þjóðernissinna frá Noregi, viðreisn hins forna máls á ættjörð yðar, eru þarfar hugvekjur fyrir oss í baráttunni fyrir viðhaldi bókmenta og máls, og ætti að sannfæra oss Íslendinga—þér Norðmenn eruð sannfærðir—að baráttan til viðhalds þjóðerni voru, er enginn vonlaus Skuldar-bardagi.

Á aldarafmæli yðar Norðmanna í Minneapolis fyrir ári síðan, gat forseti Bandaríkjanna, Calvin Coolidge, meðal annars um afkomendur Óðins og Þórs, er vörð héldu við Bifröst, brú guðanna til himins. Menn þessir voru skáld konunga og í hávegum meðal höfðingja og hirðmanna. Þeir voru og fræknir íþróttamenn, báru konungs merkið í orustum, og voru einatt ráðgjafar þeirra er ríkjum réðu. Öll þekt höf fóru þeir herskildi. Um lengri eða skemri tíma réðu þeir ríkjum á nokkurum hluta Skotlands, Írlands, Englands og á Norður-Frakklandi. Þeim fanst naumast stórviðburður, að þeir bættu hinum nýja heim við gamla heiminn.— Niðurlagsorð forsetans eru á þessa leið: "Spor þeirra rekið þér frá Noregi til Íslands, frá Íslandi til Grænlands og frá Grænlandi til hinnar miklu heimsálfu Ameríku."

Þannig farast Bandaríkjaforsetanum orð um þetta mikla sögu-atriði, fund Ameríku.

Og vér, sem nú berum hér nafnið *"útlendingar"*, með öllum þess afleiðingum, værum ættlerar óverðugir að nefnast synir slíkra feðra, ef vér nú og hér á þessum öðrum mesta mannfundi Norðmanna í Ameríku, — ef eg, fyrir hönd Íslendinga, kynokaði mér við að segja í heyranda hljóði: Leifur Eiríksson, sá maðurinn er fann Ameríku, var *Íslendingur*. Leifur var fæddur úti á Íslandi um 965 hartnær 100 árum eftir að landnám hófst. Faðir Leifs Eric eða Eiríkur, var að vísu fæddur í Noregi. En Eiríkur sá var enn á æskuskeiði er Þorvaldur faðir hans, en afi Leifs, varð útlægur af Noregi fyrir ofbeldisverk. Fluttist þá Þorvaldur með Eirík son sinn ungan til Íslands, nam hann útkjálka jörð, því land var þá mjög bygt. Óx Eiríkur þar til manndóms og fékk síðar að konu íslenzka mey, úr hinu forna landnámi Breiðfirðinga. Föður afi og móður afi konu Eiríks, en móður Leifs, höfðu báðir flutt búferlum til Íslands, hartnær öld áður en Leifur fæddist þeim Eiríki. Auk þess kipti Leif fremur í kyn móðurinnar en í föðurætt, að því er séð verður af sögunum. Leifur var um tvítugs aldur er faðir hans flutti bygð sína til Grænlands, er einnig mun talið *íslenzkt* landnám, en um 35 ára var Leifur er hann átti vetursetu í Noregi og tók þar kristna trú að áeggjan Ólafs Tryggvasonar.

Að fortölum trúboðs-kóngsins vitjaði Leifur nýskírður heiðinna landa sinna og föðurs á Grænlandi. Í sambandi við þá för fann Leifur Ameríku.

Á annan hátt varð þetta ár, A.D. 1000, sögurikt. Ísendingar tóku þá kristna trú á alþingi, en eyjan Svoldur reyndist Ólafi kóngi, upphafsmanni trúboðsins, Waterloo.

En að þessu athuguðu verður naumast deilt um þjóðerni Leifs Eiríkssonar.

Og hér er í ágripi það sem hinar fornu sögur, og meðal þeirra hin merkilega *Landnámabók*, herma um Leifsmál. — Mega þeir allir er dregið hafa fjöður yfir uppruna og þjóðerni Leifs, skoða þessi orð mín sem áskorun til sín, að sanna hið gagnstæða á grundvelli sögunnar.—

Dufferin lávarður heimsótti Ísland 1856. Um ferð þá reit hann hinar merkilegu frásögur er hann nefndi: *Letters from High Lattitudes* Eyjan og íbúar hennar heilluðu hann svo, að sú töfraást fylgdi honum til æfiloka. Síðar varð hann landstjóri í Canada. Kom hann þá til Gimli 1877, og ávarpaði þar hina fyrstu íslenzku landnema í Vestur-Canada. Fórust honum orð á þessa leið:

"Eg býð yður velkomna til þessa lands. Engin þjóð hefir fremur rétt til vistar vor á meðal en þér. Því heimurinn er í skuld við yður fyrir fund þessarar álfu."—

Ekki gleymist mér, að eg er aðkomumaður í gestaboði yðar Norðmanna. En eg er þó fyrst af öllu hér sem Íslendingur og þá sem fulltrúi þjóðrækinna þjóðbræðra minna. Og Norðmenn vita, að Íslendingar rekja ekki kyn til Ívars beinlausa. Þó vil eg ekki freista yðar, frændur. Eg vil ekki að þér teljið mig flytja hér erindi hlutdrægni né hleypidóma. Gríp eg því enn til orða eins hinna heldri manna meðal brezkra rithöfunda til stuðnings máli mínu. Maður sá er Samuel Laings. Hann þýddi á enska tungu hina íslenzku annála eða sögu Noregs konunga, er Íslendingurinn Snorri Sturluson reit, og nefnd er Heimskringla. Laings ritar á þessa leið um forfeðurna:

"Alt hið bezta er menn gera sér von um í stjórnarfari og framtíðar framför, andlega og líkamlega; alt sem mentaðar þjóðir njóta á yfirstandandi tíð af verslegu trúarbragðalegu og stjórnarfarslegu frelsi, — stjórnarskrá Breta, fulltrúalöggjöf, kviðdómar, trygging eignarréttsins, hugsana og hegðana frelsi einstaklingsins, áhrif almennings álitsins á opinber störf, siðbót 16. aldarinnar, prentfrelsið og framfara andi aldarfarsins, — alt það sem er eða hefir verið dýrmætt nútíðarmanninum, sem þáttur í félagslífi voru, hvort sem litið er til Evrópu eða Ameríku, má rekja til þeirrar glóðar, er hinir norrænu villimenn létu eftir sig lifandi á brezkum ströndum."

Slíkur vitnisburður frá brezkri þjóð, út af höfuðriti hins íslenzka Snorra um þjóðhöðingja Norðmanna, ætti að fullnægja frændþjóðunum báðum, og ekki sízt afkomendum þeirra, er meðal brezkra dvelja.

Vestur-Íslendingar eru frændræknir. Þorri þeirra eru einnig þjóðræknir menn. Þeir kunna að meta þá rækt við ættland og ættmenn, er stendur á bak við hin miklu allsherjar mót yðar, bæði í Minneapolis og hér í Camrose. Oss Íslendingum er það sæmd, og auk þess bæði ljúft og skylt, að taka þátt í þjóðhátíð sem þessari með afkomendum hinnar kærustu frændþjóðar.

Ítreka eg hér árnaðaróskir hinna þjóðræknu Íslendinga vestan hafs og þjóðræknisfélagsins, er sendi mig á fund yðar.—

Leyfi eg mér einnig í nafni Íslendinga, að taka undir tillögu og styðja

heimboð erindrekans frá Manitoba fylki, er í erindislok bauð Norðmönnum í Ameríku að halda næstu þjóðhátíð í Winnipeg, Manitoba 1928.

Eg fullyrði að Vestur-Íslendingar verða þar fjölmennir í gestafylking yðar.

Í þinglok á þjóðfundi yðar Norðmanna að Eidsvold, 17. maí, 1814, er fulltrúar þjóðarinnar höfðu lýst yfir því, að Noregur væri óháð og fullvalda ríki, tóku þingmenn allir höndum saman og hrópuðu einum munni:

*"Sameinaðir og sannir, unz Dofrafjöll hrynja!"*

Þau orð geri eg þá að niðurlagi orða minna. Eg þrái eining Íslendinga, — eining um hinn dýrmæta og helga arf frá ættjörð og þjóð. — Og eg þrái meira. Eg þrái að Norðmenn og Íslendingar taki í raun og veru höndum saman, sem fulltrúar og arfþegar hinnar fornu, sígildu menningar og þjóðar dygða og segi einum rómi:

*"Sameinaðir og sannir, unz Dofrafjöll og Hekla hrynja!"*

---

## Við leiði Magnúsar Brynjólfssonar.

Eftir K. N. JÚLÍUS.

Magnús lögfræðingur Brynjólfsson andaðist 16. júlí sumarið 1910, sem kunnugt er. Hann var jarðsettur á heimilisréttarlandi föður síns í grafreit, er þeir bræður höfðu látið inngirða og nota átti sem ættargrafreit. Nokkrum árum eftir andlát Magnúsar, gekk landið úr eigu ættarinnar, var þá Brynjólfur faðir hans enn á lífi. Brynjólfur andaðist hjá dóttur sinni Sigríði og Kristjáni manni hennar Indriðasyni 2. jan. 1916. Var hann færður til grafar í grafreit, er þá var ný-upptekinn sunnan við Mountain-bæ, og er eign hins opinbera. Var þá jafnframt ákveðið, að færa bein Magnúsar þangað og jarða þau við hlið föður hans. Þetta drógst fram á sumarið 1924. — Sáu þeir um flutninginn, Kristján Indriðason mágur Magnúsar og skáldið Kristján N. Júlíus. Er flutningi var lokið og gengið var frá gröfinni, mælti K. N. Júlíus fram þessa vísu:

Eg hef' gjört það, gamli vinur minn,
Í góðu skyni, að breyta um legstað þinn.
Eg veit þér leiddist lífið norður frá,
Um langar aldir fátt er þar að sjá.
En eins og barnið, þegar sól er sezt,
Þú sefur vært hjá þeim, er unnir bezt.
Úr frjálsa svipnum forna gleðin skín,
Eg finn það glöggt þú brosir hlýtt til mín.

# Hagur Norðanlands við upphaf Vesturflutninganna.

Bréfin, sem hér fara á eftir, voru send mér og gefin af Jóni Hillman, bónda við Mountain, í Norður Dakota. Þau eru rituð föður hans, Jóni Rögnvaldssyni (sterka) er lengi bjó á Hóli á Skaga, og fyrsta bréfið auðsjáanlega svar við fyrsta bréfi Jóns til Íslands, eftir að hann lenti í Ameríku (sbr. Tímar. VII. ár, bls. 101).

Bréfin eru frá afa mínum og langafa, Árna Sigurðssyni og Sigurði Árnasyni í Höfnum á Skaga (í Húnavatssýslu). Bjuggu þeir þar um miðbik 19. aldar. Með þeim feðgum og Jóni á Hóli var góð vinátta; var Sigurður hér um bil tíu árum eldri en Jón, fæddur 1797.

Ekki hlýðir hér, að rita langt mál um æfi þessara feðga, þótt merkileg væri, enda eru ekki gögn til þess hér vestra; skal aðeins drepið á hið helzta.

Sigurður mun engrar mentunar hafa notið á uppvaxtarárum sínum, fram yfir hinn skorna skamt, er þá féll í alþýðu hlut. En snemma bar á gáfum og fróðleiksfýsn hjá honum. Nam hann sjálfur, svo að hann varð umfram aðra Vindhælinga að fróðleik, og lærði að rita afbragðs fagra hönd. Sérstaklega lagði hann sig eftir lögvísi, og varð nafnkendur málafylgjumaður, sérstaklega fyrir "forlofara" málið, er hann varði og vann gegn öðrum langafa mínum, Birni Blöndal sýsluanni í Hvammi, og eftirmanni hans. Hann var af öllum talinn vitmaður og glöggskygn á úrræði; ef til vill nokkur undirhyggjumaður, en tryggur vinur, ef hann tók því. Öl þótti honum gott. Hreppstjóri Vindhælinga var hann í mörg ár. Hann mun hafa byrjað búskap í Höfnum um 1837-8, með lítinn bústofn, og jók ekki mikið, því áhuginn var meiri á lands- og sveitamálum og bókum, heldur en búskap. Kona hans var Sigurlaug Jónasdóttir frá Gili, af hinni alkunnu Skeggstaðaætt. — Hann dó 1879, 82 ára að aldri, og hafði þá verið blindur í 13—14 ár.

Bréfið, sem hér fer á eftir, las hann fyrir Sigurði sonarsyni sínum eldra, þá 14 ára gömlum. Sjálfur var hann þá 79 ára að aldri.

Árni afi minn tók við búskap af föður sínum um 1857, og giftist þá frænku sinni Margréti Guðmundsdóttur, frá Bólstaðarhlíð og Skyttudal. Hann var áhugamaður mikill um lands- og héraðsmál, og gerðist brátt sveitarhöfðingi, með því líka, að hann var hinn mesti búhöldur. Jók hann búskapinn svo til lands og sjávar, að með fádæmum var. Mun hann hafa verið einhver allra umsvifamesti og aðfangadrýgsti bóndi sinnar samtíðar, enda skildi hann svo við, að Hafnir munu hafa verið ein kosta-

mest jörð á Íslandi við dauða hans, 1886. Voru þau hjón mjög samtaka um alla rausn. Margrét, amma mín, dó 1878. Kvæntist afi minn árið eftir Jónínu Jónsdóttur frá Espihóli í Eyjafirði. Er hún enn á lífi og býr í Stykkishólmi. — Mentun fékk afi minn aðeins í heimahúsum, hjá foreldrum sínum, og mun hún þó hafa orðið undarlega fjölskrúðug, sem föður hans og annara íslenzkra manna ólærðra. — Árni Sigurðsson var örlyndur maður og stórgeðja, ráðríkur og vinfastur; veitull mjög, en þó hinn mesti hófsemdarmaður sjálfur um mat og drykk, svo að honum mun aldrei til höfuðs stigið hafa.

Bréf þessi eru ekki ómerkileg fyrir ýmsar sakir, og skal þó ekki fjölyrt um það. En þau eru ólyginn vottur um langvarandi ótíðarbálk, óhagstæða verzlun og hörmulega ofraun alþýðumanna, og það vonleysi um endurbætur á stjórnarfari og lífsskilyrðum á Íslandi, er knúði svo fjölmarga framtaksmenn af landi burt á þessum árum. Mun ýmsum finnast, að þau lýsi næmari og þá réttari skilningi á orsökum Vesturflutninga, en þá var algengur meðal stórefna- og embættismanna á Íslandi, er litu þá með úlfúð og engum skilningi, eða litlum, vel flestir. — Þó afi minni liti með fullri samúð til vesturfara, mun hann ekki sjálfur hafa hugsað til þeirra; en sagt hefir faðir minn mér, að amma mín hafi á köflum heldur verið þess fýsandi. Má nærri geta um aðra, er ríkasta fólki leizt ekki framtíðarvænlegra.

Þá geta og þessi bréf orðið liður til athugunar, þekkingar og menningar sjálfmentaðra manna á Íslandi á þessum tíma, þeirra er hvorki voru skáld, né gátu sér fræðimannsnafn. Hefi eg því í samráði við ritstjóra Tímaritsins, látið stafetningu, greinarmerkjaskipun og orðfæri halda sér að öllu leyti, nema á örfáum stöðum, þar sem auðsætt var, að flaustri var um að kenna, en ekki ónógri þekkingu.

Wpeg, 11. febrúar 1927.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.*

---

## BRÉFIN.

Háttvirti góði vinur!

Eg þakka þér hjartanlega þitt góða og greinilega bréf af 22. september f. á. enduðu í Toronto 28. s. m. sem og líka alt gott og vinsamlegt undanfarið; hér við hnýti eg, og við öll sömun hérna okkar hugheilustu heilla og blessunaróskum, til þín og þinna, samt allra annara góðra íslenzkra vesturfara yfirhöfuð. — Þitt góða bréf um miðjan des. og var það langt fyrri en eg vænti eftir fréttum af ykkur, og eg efast um að hafa fengið þær svo fljótt, ef þið hefðuð flust austur í Hornafjörð, eða vestur í Arnarfjörð. Það gladdi okkur innilega að vita ykkur komin vestur yfir hafið stóra, heilu og höldnu, og vonum að eftir það, hafi drottni þóknast að halda sinni verndarhendi yfir ykkur, þótt margt hafi sjálfsagt gengið erfiðlega, sem von var til, er þið komust ekki fyrri vestur, en undir veturinn, örbyrg að öllu.

Það mátti með sanni segja að þið sluppuð *aðeins* undan illviðrinu eftirminnilega, því laugardag næsta var hér úrfelli óttalegt. Sunnudaginn hret og brim mikið, mánudaginn stórhríð; eftir það frost og kuldar, en máði þó af láglendi annað kastið svo hey náðust, sem heim voru komin; og öllu náði eg úr heiðinni fyrir og eftir fyrri göngur með mestu harðheitum, en alt það hey ázt upp á túnunum; því úr síðari réttum dundu yfir þær verstu og lengstu hríðar, sem eg man eftir, að hausttíma; í 8 daga var hér látlaus hríð, stundum frostlaust svo fannir hrúguðust yfir jörðina, og þegar loks upp rofaði var hér á Skaga bjarglaust, nema litlar snapir á blá sjávarbökkunum; hrossin röngluðu hungruð ofan til bygða, og urðu holdlaus; fullorðið sauðfé hafði sig furðulega ofan, en lömb munu hafa týnt tölu að mun, og heimtur voru alment slæmar yfir höfuð. Haustið eftir þetta og veturinn fram á jólaföstu var hér afleitt, með stöðugum úrfellum og stormum; öll hús láku sem hrip, og hey hafa mjög skemst í hlöðum og tóftum. Aflabrögð urðu sáralítil á Skaganum nema í Sævarlandsvík; þar á móti allgóð á Skagaströnd, og hjá mér töluverð, vegna brúkunar á línu, og góðra gæfta seinast vertíðar. Síðan á jólaföstu hefir verið mjög hríðalítið, og fremur góð tíð, en þó oft jarðskarpt, því góðhlákur hafa ekki komið, svo haustgaddurinn liggur á, og hafa því verið uppi sömu hnjótarnir, léttir og lélegir mjög svo. Peningur allur er óttalega magur, sem er til vonar eftir slíkt haust, svo afkoman í vor er æði tvísýn einkum yrði það kalt og gróðurlítið, eins og oftast á sér stað ytra hér. Lágsveitir eru alt af auðar, en til fjalla hefir verið hér mjög hart, og enda lakara en hér á Skaga.

Gísli sonur þinn hefur látið mér í ljósi, að hann hugsi til að innleysa Hólinn, og vil eg gefa honum nægan frest til þess; en eg er hræddur um að ekkert verði úr þessu, því bæði er Gísli efnalaus og framkvæmdarlítill, og peningarnir ófáanlegir að láni, og til hvors sem er, því þeir eru hvergi til í Norðurlandi. Eg hefi aldrei vitað slík vandræði sem nú, í því tilliti. Eg ætla að þeim Gísla og Jóni Einarssyni[1]) lyndi ekki sem best, því hinn síðarnefndi vill ei vera kyr, og hefur tekið klaustrið Ásbúðir í orði, hvort sem af því verður eða ekki. Þú getur nærri að efnaástand yfirhöfuð hjá almenningi hafi ekki tekið stakkaskiftum til hins betra, því fyrir utan hið viðvarandi harðæri, þá gjörir dýrtíðin sitt til, að auka skuldir og vandræði; altaf er umferð nóg í kaupstaði, til nýrra og nýrra lántaka og bráðum alveg kornmatarlaust, því Hofs- og Grafarósar hafa verið allslausir. Sá fyrri sökum þrots Thaages[2]) og hinn síðari vegna þess að Elfríður afturgengna strandaði við Sléttuna í ódæmunum í haust, varð þar aðeins mannbjörg en alt annað fór; þetta gerði verzlunarfélaginu tjón mikið, því bæði varð Grafarós þessvegna allslaus og fjártakan þar fórst fyrir. — Hér var fjártakan með mesta móti, þótt illviðri gjörðu þá vertíð ógleðilega og óhæga, því slátri og öðrum nauðsynjum var ekið á sleðum úr kaupstöðum; slíkt ætla eg eindæmi fyrstu daga október mánaðar. — Mikið gekk á næstl. sumar með þjóðhátíðahöldin, og hafa blöðin verið troðfull af þeim sögum og lofdýrðarsöngvum í tilefni þar af, altaf síðan. Menn hefja land vort ofar skýjum [illegible]

1) [illegible] Fossi á Skaga.

2) Danskur kaupmaður.

sagt eitthvert skásta landið í heimi; samt er ekkert komið á laggirnar ennþá í því tilliti, nema hvað alt af er gert ráð fyir nýjum og nýjum tollum, sem mér og sumum öðrum í bændaröð virðist ekki sérlegur vegur til velmegunar, eins og hér hagar til; og það er spá mín að það, ásamt annari illri og óhagfeldri stjórnaraðferð, harðærum o. fl. leiði æ fleiri og fleiri til brottfýsi héðan, og er þó ekki ábætandi á það, sem nú á sér stað í því efni í Skagafirði og víðar, því mjög margir hafa staðráðið að flytja vestur um haf þegar þeir geta, en ekki eru líkindi til að úr því verði mikið í vor, vegna áðurnefnds peningaskorts, því enginn getur selt lifandi pening sinn hvað þá heldur annað; með því líka að kaupmenn eru búnir að slá varnaglann hvað ávísanir snertir, þ. e.: bannað verzlunarstjórum að gefa þær. Menn eru að setja von sína til þess að hrossamarkaðir kunni að komast á, eða önnur peningssala, fyrir peninga, og er óskandi, að af því yrði bráðum, þar eð nú stendur blökk í blökk, jafnvel með hin minstu viðskifti manna vegna peningaleysis.—

Ekki veit eg til að menn hafi skrifað sig til vesturfara við Lambertsen,[3] heldur bíða allir í von um komu Sigtryggs Jónassonar nú með pósti, er hann hafði ráðgert í bréfi til Jóhanns Briem,[4] en þótt hann komi með áreiðanlegt heit, eða loforð Canada-stjórnar um sendingu dampskips eftir fólki, þá er ísinn ekki brotinn að hálfu leyti, því hið þyngsta er eftir nefnil. að selja; að vísu hafa Skagfirðingar í ráði að senda mann til Englands áhrærandi hestasölu o. fl. en slíkt er aðeins tilraun, sem að líkindum misheppnast, því *Bretar* hafa aldrei verið veifiskatar, og ætíð séð hag *sinn* framar, en *annara*. Þetta talda er nú ekki það eina sem hamlar mönnum frá vesturförum, heldur og hitt að nær því allir embættismenn og margir fleiri stríða gegn þeim með öllu móti, leynt og ljóst; væri það of langt mál, að skýra þér það nákvæmlega.

Svo eg aftur minnist verzlunarfélagsins, þá er þess að geta, að hin mesta óregla hefur átt sér stað í því, hvað alla reikninga áhrærir, svo tortryggni manna hefur farið dagvaxandi, og enginn viljað auka hlutum í það nú næstl. ár. Næstl. haust kom það upp bæði eystra og vestra í félaginu, að menn vildu slíta það um sýslumót Húnav. og Skagaf. og til þess að koma þessu í kring, og að öðru leyti setja nýtt loft undir verzlunarsamtök yfir höfuð, var allsherjarfundur haldinn að Stóruborg 17.—18. og 19. þ. m. Var eg þar ásamt 45 fundarmönnum; þar var fleira talað og afráðið en frá verður skýrt á miða þessum, en hið helzta var þetta: Félagið skiftist í tvent við Gljúfurá (yst í Víðidal) svo 7 hreppar af Húnavatnssýslu og Skagfirðingar mynda nýtt félag, og kaupstjóri þess verður Jón Blöndal;[5] hlutum til þess á að safna hvaðanæfa, erindisbréf hans, lagafrumvarp, o. fl. á að skapast á fundi að Víðimýri í dag; og Blöndal svo að sigla með næstu póstferð til þess að útvega skip og vörur. Skiftinganefnd félaganna (3 úr hverju kaupfélagi) hefur alt vald yfir því undangengna reikningslega, eins og líka skiftingu félagsins, skuldaborgunum o. fl. — Ekki er hægt að spá, hvernig öllu þessu reiðir af, aðeins má af því

3) Guðm. Lambertsen, (kaupm. og úrsmiður) í Rvík.

4) Jóhann Briem, býr nú við Riverton í Nýja Íslandi.

5) Jón Auðunn Björnsson, sýslumanns Blöndal í Hvammi í Vatnsdal; fyrrum prestur á Hofi á Skagaströnd, nafntogaður söngmaður. Var þm. Skagfirðinga á fyrsta löggjafarþingi; dó ungur.

ráða, hve góðar horfur verða á hinum öðrum framförum Íslands, ef verzlunarsamtök öll velta um koll, eða geta ekki þrifist, því bæði er almennur áhugi á þeim, og nauðsynin brýn, því ekkert annað eins lífsspursmál er nú á baugi fyrir þetta afskekta, auma land og þess örbyrga lýð.

Eg hafði þá æru að mæta á sýslufundi sem settur var í tilefni af kláðanum gamla, sem nú er kominn í almætti sitt; nefnil. í allar mögulegar áttir frá miðpúnkti (þ. e. Reykjavík) þar á meðal upp að Hvítá í Borgarfirði, þar er alt útsteypt á 13 bæjum, og getur kláðinn verið kominn til Mýrasýslu, enda norðuryfir Holtavörðuheiði, þó ei sé komið í ljós ennþá, því samgöngur fjár og rekstrar hafa mjög mikið átt sér stað á nefndu svæði, í haust og vetur. Á fundinum mættu 2 Borgfirðingar, þ. e.: Þórður á Leirá og Pétur á Grund í Skorradal, báðir drenglyndir menn, norðlendingar í huga, og vilja kyrkja morðengil þennan, en sunnlensku yfirvöldin andæfa á móti, með sitt gamla lækninga bölv. kák. Berg góða[6] var búið að skrifa og hann gaf það uppbyggilega svar, að menn yrðu að bíða með þolinmæði þangað til póstskipið kæmi með lyfin, eða frá öndverðum janúar til marzmánaðar, var ekki slíkt gott og nauðsynlegt? Ekki get eg skrifað þér fundarályktanir, aðrar en þær, að Borgfirðingum var heitið skaðabótum héðan, ef þeir gætu drepið kláðann í vetur, svo Botnsvegavörður gæti komist á; einnig er talinn sjálfsagður jöklavörður, milli Hofs og Langjökla. Þó nú svo heppilega kynni að takast til, að kláðinn kæmi ekki norður að þessu sinni, þá má nærri geta hvern óbærilegan kostnað alt þetta bakar oss Norðlendingum, og það máské yfir áratugi, svo ekki er ástandið glæsilegt í raun réttri á landi voru, þótt yfirvöld og aðrir loftbyggingameistarar sjái það síður en ekki.—

Þá eru nýju sveitarstjórnarlögin góðu að ganga í kraft; mörgum þykir þau margflókin, óhæg og ill viðfangs, í þessu strjálbygða vegalausa landi, og þessutan kostbær; margir hér í sýslu eru að bregða búi, til þess að fyrrast útgjöld, og komast undan hreppsnefnda störfum. Eg hlaut oddvitadæmið hér í hrepp, og þykir mér afleitt vegna afskekkju minnar.— . . . . . . . .

*Árni Sigurðsson.*

(Síðari hluti bréfsins hefir glatast).

---

Höfnum 5. júlí 1875.

(Hér fer á eftir aðeins síðari hluti bréfsins).

. . . . . Amtmaður Havstein og Skaptason eru báðir nýdánir; áður litlu Jón halti Þjóðólfs fóstri gamli; fl. merkra manna lát man eg ekki.—

Upp úr herpingu og hretatíð þeirri, er látlaust hefir gengið, síðan fyrir miðjan maí, sem kyrkti allan gróður, hefir nú næstl. viku skift um til hlýviðra og úrfella, svo tún hafa skánað að mun en úthaginn er mjög bágur, og tekur vart við sér á þessu sumri, því mýrar allar flóa í vatni.

Varpvor hið versta, kópveiði í betra lagi, lambahöld ill, málnyta lítil, fiskiafli bærilegur, þá sjaldan gefur, hér hefur ei verið róið, því eg stend í byggingum og annríki mesta. Drangeyjar útvegur fór hraparlega í vor, og mildi mesta að ekki urðu manntjón þar við. Ekki hefir enn frézt hvort hákarlaskip hafa farist, menn hafa meiðst á þeim og suma út tekið, 3 af einu skipi.

---

6) Bergur Thorberg, þá amtmaður, síðar landshöfðingi.

Það er mjög leiðinlegt fyrir alla þá, sem vel vilja vesturförum, að heyra af staðfestuleysi þeirra í Ameríku, þessar fáu íslenzku völur tvístrast víðsvegar um hina stóru heimsálfu, og vita ei hvar þeir eiga höfði sínu að að halla, þessu fylgir eðlilega hin mesta viðvarandi örbyrgð, eins og ljóslega sást á Jóhannesi Arngrímssyni, sem eftir 3 ára vinnu, var svo efnalaus, að hann þurfti styrk frá hinum fátæku löndum, er héðan fóru næstl. sumar; eg held eflaust betra fyrir Íslendinga, að þeir væru spaklátari á öllum stöðvum er þeir komast niður í fyrstu, og hvar þeir sjá að *almenningur* kemst í efni og velliðan, að vísu hljóta menn að komast áfram á endanum í auðlegðar og framfara landi, ef *viðburði, þrek* og *staðfestu* ekki skortir.

Eg óska að endingu innilega að þessar fáu línur og ómerku, finni þig heilbrigðan, ánægðan og glaðan, og að mér, eða okkur hérna auðnist að sjá frá þér línu við tækifæri; og að ykkur öllum vesturförum líði sem bezt, er einlæg ósk þíns elsk.

vinar!

*Á. Sigurðarsonar.*

---

Höfnum 1. júní 1877.

Mikilsvirti góði vinur minn!

Þitt ágæta og mér yfrið kærkomna bréf af 30. desember næstl. í aprílm. meðtekið, þakka eg þér af ást og alúð. Því miður hefi eg nú ekki heldur en vant er, tíma eða hentugleika á því, að skrifa þér svo rækilega, sem þú átt skilið, og eg annars vildi; en til bóta er það, að faðir minn er búinn að rita þér um pólitíkina íslenzku, og fl. sem eg líka nota mér og geng fram hjá.

Eg ætla þá fyrst að skýra þér stuttlega frá tíðarfarinu hér á Skaga um næstl. tvö ár, og byrja þannig á vorinu 1875, var þá snemmgróið mjög, svo geldpeningur var búinn að taka mikilli framför fyrir miðjan maí, en þá brá til úrfella (snjóa) og kulda, þó var bærilegt á milli til fardaga, svo gróður var þá sjaldgæflega mikill orðinn; en þá datt á það mesta áfelli, er eg man eftir að vortíma, fyrst með stórviðris bleytuhríð, síðan fannkomu frosthríð, og svo gaddi marga daga, skóf þá til heiðarinnar, sem um hávetur, var þá óttalegt yfir að líta. Varpið hér — sem þá var orðið í miklum blóma — nær því eyðilagðist. Fé var búið að rýja, hið gelda, og króknaði margt, en þó færra en líkindi voru til — því það var orðið feitt — fleira fór í ár og læki, og sumt fenti, misti Jónatan á Þangskála[7] mest allra: yfir 30 fjár. Í þessu áfelli fórust 3 hákarlaskipin, og fl. urðu misfarir margar; formaður eins skipsins var Steinn bróðir Sigurðar á Hvalnesi. Eftir þetta sá ekki að jörð tæki við sér í fullar 5 vikur, heldur fölnaði hún upp — því stöðugt voru frostkuldar — og varð sem á haustdag. Grasleysi varð og tilfinnanlegt, og öll hey ónýt, eins og þú getur nærri hérna á honum Skaga, en nýting var þó allgóð eins og líka haustið alt — að undantekinni einni vondri hríð — og veturinn fram yfir jól. Varð haustvertíð hér aflasæl og góð. Eftir desember brá til úrkomu og umhleypinga, og æ þyngdi meir og meir að, með megnum harðindum, og íshrakningi, þar til eftir páskir að tólfunum kastaði með hörkur og

7) Jónatansson frá Víkum á Skaga; faðir Sveins, sem búið hefir til skamms tíma á Hrauni.

hríðar — á sumardaginn fyrsta var frostið á Hólanesi 18. eða 19. gr. á R.[8]) og rak þá inn hafþök af ísi, í honum fórst alveg hið mikla Akureyrar skip "Emma". Sama tíðarfar mátti heita að héldist til 5 maí, gerði þá hláku mikla og tók fljótt og vel upp hinn mikla snjó. Margir voru áður komnir í heyþrot, og nokkrir mistu til muna úr hor, einkum Refsveitingar nær því flestir. Hér á Skaga voru betri peningshöld en víða annarsstaðar. Strax að liðinni nefndri hláku brá til kulda og úrfella, sem ágerðist með snjókomum, svo á annan hvítasunnudag hafði hér alsnjóað sjö sinnum ofan í sjó, og eftir það nokkrum sinnum, voru og lambahöld víða bág og æðarvörp skemdust meir og minna allstaðar; hérna viðlíka í hinum mörgu hretum, sem í hinu eina áfelli undangengið vor, nefnil. einum fimta minni dúntekja þessi bæði ár, en beztu ár áður. Hin sama úrkomutíð varaði til þess 16 v. af sumri; tún urðu að meðallagi að grasvexti en minna hér og sumstaðar vegna kals, en töður brunnu og skemdust mjög víða, því menn urðu víða æði djarftækir á þær; enda rigndi svo mikið eftir hirðingu þeirra, að eg man ei eftir, að jafn mikið vatn hafi verið komið hér á jörð, um sláttartíma, menn gátu alls ekki náð grasi á engi, og illa var það og sprottið; en nú skifti um tíð, til hinna mestu hita og þurka, svo úthagi varð í bezta lagi sprottinn á endanum, og heyskapur að því skapi, með því hin góða tíð hélzt á haust fram, og árið út; man eg ei eftir stiltari eða betri tíð á haustvertíð, enda varð fiskiafli mikill hér á Skaga, og víðar. Strax úr nýári skifti um til harðviðra og hríða, en þó voru oft blotar, og snjólétt lengi, ei að síður gáfust mikil hey hjá mér og fleirum, að öðru leyti var næstkomandi vetur hinn mislægasti, því sumstaðar voru viðvarandi hagleysur, en aftur annarsstaðar altaf gott til jarðar. seinni partinn, og á vor fram, hefur hafíshroði verið á víkum, og útifyrir fult af ísi. Um páskaleyti og eftir það gengu stöðugt hríðar og stormar, lestust þá kaupför, og sum fórust t. d. eitt af Sauðárkrók — þar er nú Popp orðinn fasta kaupmaður — og annað af Bíldudal· Um sumarmálin blotaði lítið eitt en eftir það voru stilt veður, með brunafrostum til 10. næstk. mán. þá hlýnaði fáa daga, svo vottaði fyrir gróðri, en síðan hefur eigi lint norðan bruna-stormum; jörð öll skrælnuð upp, gróðurlaust, fjörulaust — því ekki kemur brim — og alt ástand og útlit á peningshöldum hið bágasta; frostéljagangur er stundum sem á haustdag og föllin hvít af snjó. Peningur var síðast í bezta standi, en nú eru ær og jafnvel gemlingar orðið grúthorað, og ei er nú annað sýnna hér á Skaga, en skera undan ánum, svo þær heldur tóri. Eg hefi haft verstu peningshöld í vor, af dýrbítir, ofanídettu m. fl. — Á Þangskála hefur og mjög farið ofan í m. m. — Í Ásbúðum nær því öll lömb dauð. Í Víkum 35. og 16 mylkjur, o. s. frv. Víðast hér er orðið töðulaust, svo kýrnar þorna upp. Nú er sama bruna veður, og megnasta stórhríðar útlit, og ekki linnir þessu heldur fyrr en úrfelli gjörir. — Eg hefi vitjað einu sinni um eyjarnar, og var vonum framar komið af fugli, en alt verða kaldegg í þessari tíð, því svo er kuldinn megn að suma daga klöknar ekki hót. Nóg er þá komið um tíðarfarið.

Varla má heita, að viðarreka hafi vart orðið næstl. tvö ár, og ei hafa heldur hvalreka höpp aðborið hér í grend, nema hvað eg næstl. vor drap milli 20

8) —8½ eða — 10¾° F.

og 30 hnýsur á Kálfshamarsvík, og í sama skifti nálega 20 undir Kerlingarbjargi, víðar náðust og ráku fáeinar hnýsur hér að vestan verðu, um sama leyti, þ. e. í byrjun hlákunnar.

Á Selvík eða þar framundan aflaðist og talsvert af hákarli upp um ís í fyrravetur; að öðru leyti hefir lítið aflast af þeim fiski hér í kring þessi ár, nema helzt nú í vetur (seint) í kaupstöðunum Hólan. og Skagastr. —

Eg ímbynda mér að þú sért búinn að frétta hvernig lyktaði um Hólinn. Gísli sonur þinn ætlaði í fyrravetur, vestur um haf til ykkar, var honum því — og alls vegna—umhugað að geta selt kotið; kom hann hingað með Friðbjörn ábúanda þess, voru þeir hér daglangt, og samdist svo á endanum að Friðbjörn keypti litlu verði, og hefði þó langt minna orðið, hefði eg ekki staðið í ístaði Gísla eftir megni, því þeir fórust hjá, í mesta máta, með séðleika og hyggindi; eg fyrir mitt leyti þrengdi ekkert að Gísla um borgun veðskuldarinnar, en gaf ekki um kaupið með því verði er mér þótti hæfilegt, en vildi það ekki með hinu mjög lága verði, svo ei yrði með sönnu sagt, að eg hefði fiskað í því vatni, og þannig óhreinkað mína eigin nyt, er eg leysti veðið forðum. Gísla gengur alt fremur erfiðlega, hann hætti við förina vestur, og nú er sagt að hann fari að Hvammkoti. —

Síðan þú fórst, hefir peningur heldur fjölgað alment, en þó velmegun ekki aukist að því skapi, því útgjöld öll aukast ár frá ári, fyrir hin breyttu lög og landsstjórn, t. a. m. sýslusjóðsgjald, búnaðarskólagjald og fl., svo og óbeinlínis tolla, eftir nýrri "statútu" af Br. v. og öllum áfengum drykkjum, tóbaki öllu, m. m. og fl. þess utan hefir útlend vara öll hækkað ógurlega að verði, jafnt matvörur sem iðnaðarvörur, t. a. m. 60 f.[9] færi 5 kr. (15 mörk) og alt til sjóvegs eftir því, járn, kol, já hverfisteinar og hvað annað, er menn ekki geta án verið í afar verði.—Kaffi og sykur kaup eru heldur að minka, því menn geta ekki keypt, en kaupmenn farnir mikið að tregðast með lánin; hér við bætist og fall ullarinnar, hún var almennt næstl. sumar 90 aura (100 a. 48 skl.) tólg í engu verði sem fyr, og lýsi einnig í lágu verði; þessvegna verða menn að reka féð hópum saman í kaupstaðina upp í skuldirnar, því kjötið er helzt í verði, er síst má þó missast frá búunum. Nú er altalað að ull muni ennþá lækka, og dúnninn er að þessu hefir haldist í afar verði, er nú hrapaður ofan úr öllu valdi, og situr óseldur í Kaupmannahöfn 1000 pd. saman. — Hefði ekki hinn mikli fiskiafli verið hér undanfarin ár, veit eg ekki hvenig menn hefðu dregið fram lífið; og taki fyrir afla hér, líkt og á Suðurlandi, er dauði fyrir dyrum sjáanlegur, því margir eru þeir sem lítið annað en aflann hafa við að styðjast hér nyrðra, eins og syðra.—

E. Briem sýslumanni var veitt Húnavatnssýsla, því hann sótti, að sumir ætluðu, til þess að hafa báðar sýslurnar tvö ár, eins og Kristjánsen, en þetta brást, því veitingin kom strax með síðasta pósti næstl. ár, og var þá sjálfsögð veiting Skagafjarðarsýslu yfir veturinn; svo Briem seldi upp sýslunni, og er hún nú veitt Lárusi Blöndal Dalasýslumanni, er sagt að hann komi um næstu mánaðamót hingað alfarinn, og setjist að á Stóruborg. En Briem hefir haft Húnavatnssýslu í ár, og er það búbót, betri en engin. Bogi biskupsson er læknir Skagfirðinga og hér að Blöndu; þykir sumum hann nokkru nýtur, öðrum alls ekki; hann er hjá frænda sín-

9) Faðmar.

um á Sjávarborg,[10] enn þá ógiftur — Júlíus Halldórsson skólakennari, er læknir Húnvetninga.

Ekki man eg nú eftir nýskeðu fráfalli fólks, nema séra Jóns á Barði, hann druknaði í Miklavatnsósi, sagður ölvaður; en skipskaðar hafa orðið, og slysfarir, er eg nenni ei að telja.—

Næstl. haust kom inn á Austfjörðum bólguveiki, gamall sjúkdómur alþektur undir nafninu "Hettusótt" flaug hún um alt land í vetur og fengu flestir meiri og minni smjörþef af henni, og sumir tvisvar og þrisvar; henni fylgdi megn hitasótt og höfuðpína og ólyst. . . . . . Eg lá tvívegis, og bólgnaði þó mjög lítið, en síðan hefir mjög svo á gjörst mín gamla magaveiki, svo eg tek ekki á heilum mér nokkurn dag; má eg líkast til fara að leita mér meðala, er eg þó ætíð hefi sára litla trú með, og dreg í lengstu lög. Mín trú og sannfæring hefir verið, að varhygð, hóf og reglusemi sé beztur læknisdómur.

Að öðru leyti líður öllum hér á heimilinu vel, fyrir náð drotins; gamla fólkið hrörnar að eðlilegum hætti, og við hjón þreytumst við búskapinn fólksmarga, og umsvifamikla, er útheimtir eljun og ófrelsi sí og æ, svo mig er oft farið að langa eftir meiri hvíld, kyrð og næði, andlegu og líkamlegu, en kostur er á, og ekki fæst fyr en alt í einu.

Ef þessi miði kemst til þín, að þér heilum og lífs, og þú gjörir svo vel að skrifa mér aftur við tækifæri, þá skaltu ekki spara að spurja mig að hinu eða öðru, er þú vildir eða hefðir gaman af að vita um, af þínu gamla kuldans heimkynni. — Við hérna þráum að heyra vellíðan ykkar kunningja fyrir handan hafið stóra, og óskum ykkur hverskonar heilla og hamingju. Því miður eru þeir nokkrir hér, sem virðast hafa yndi af því að heyra sem mestar og verstar ófarir landa í Ameríku.

Eg ætla þá að slá botninn í þessa endileysu; eg bið þig innilega að fyrirgefa, og því næst ber eg þér beztu kveðjur héðan frá húsi. Heilsaðu frá mér kærlegast Hafsteini[11] og Jóni þínum.

Þinn skb. einl. elsk. vinur!

*Á. Sigurðarson.*

---

Höfnum þann 22. júní 1876.

Mikilsvirti góði fornkunningi!

Þín fræðandi og mæta vel sömdu bréf af þriðja jan. þ. á. til okkar feðga bárust hingað þann 28. f. m. Voru þau hér einkar kærkomin fyrir fróðleiks- og skemtunarsakir, eiga nú þessar fáu línur að færa þér fyrir þau mitt og fleiri annara hér í bæ innilegt og alúðarfult þakklæti en því miður get eg nú ekki borgað þér í sömu mynt, ber til þess sitt hvað sem oflangt er upp að telja. Það var okkur hérna gleðifregn að heyra það að þér og þínum liði viðunanlega, ásamt öðrum þeim er fluttust til Nova Sotia, er það ein af mínum kærustu óskum, að ykkar litla nýlenda geti árlega tekið vöxtum og viðgangi svo hin hjálpfúsa stjórn fái séð að á hennar náðir hafi flutt ötult og dugandi ráðdeildarfólk kynjað frá hinum víðfrægu Norðmönnum. Ekki lítur út fyrir vesturför Gísla þíns, fram hjá hans hnyggnandi ástandi ætla eg að ganga, líklega skrifar hann þér sjálfur, og bréf muntu fá frá þeirri dóttur þinni sem í haust giftist Sveini[12].

---

10) Pétri, syni séra Sigurðar er eitt sinn var prestur á Mælifelli og Elinborgar, systur Péturs biskups.

11) Hafsteinn Skúlason, flutti frá Hrauni á Skaga á sama skipi og Jón Rögnvaldsson; faðir Jóhönnu, fyrri konu Jóns Hillman. Dó í Dakota um 1890.

12) Sjá aths 7.

Eftir stóra áfellið í fyrravor varð sumar gróður lítið en nýtingasamt, haustið gott og gæptasamt hélzt það framundir jól, varð fiskifengur hvarvetna venju meiri, á þorra hófust harðindi mikil, með ísahrakningum, hélst þetta við fram til þess 5. maí, að allt í einu hlýnaði vel, urðu vatnavextir miklir, skemdi Blanda engjar nokkurra jarða í Langadal og braut nokkuð af túni á Æsustöðum; viku fyrir hvítasunnu byrjaðist aftur mesta illtíð með snjókomum, krepjum og stundum frosti; hefir á þessu gengið þar til nú fyrir fáum dögum, hefir víða að spurst nytleysi kúa, megurð og afhrófl fjár og lamba og versta eldiviðarverkun. Í fyrra vetur keypti Höpner Höfðakaupstað, kom þar um vorið hans fullmektugur B. Steinke,[13] reyndist þá Senstíus[14] gjaldþrota og varð assistent, en Friðrik Möller[15] settist í faktorssætið, við þetta þrot leið Þórdís[16] stórkostlegt peningatjón; Berndtsen[17] fór úr þénustu, settist að í sínu ný-bygða húsi fékk borgarabréf og byrjaði dálitla eigin verzlun með vörum fengnum hjá Hillebrandt yngra, sem er stjórnari á Nesinu, hann giftist í vor Lúsindu, systur Tomsens;[18] þú þekkir að B. er laginn til kaupmannsskapar og mun reyna til að auka verzlun sína, hænist að honum fólk, því hann er lipur í umgengni. Blönduós er nú orðin löggyld höfn þangað er spekúlanta von, þar á meðal Tomsens, sem fengið hefir skip og vörur að láni í Björgvin. Frá upphafi hefir Húnaflóafélagið verið botnlaus og vitlaus óskapnaður innan um hvern sveimað hefir sá slóttugi refur P. Eggerz,[19] í fyrra vetur samdist svo að félagið skiftist í tvær deildir, önnur kend við Borðeyri, hin við Gafarós, þar var kosinn erindreki Jón Blöndal; nú berst sú fregn að vestari hluti þessa Rómaríkis muni vera inntekinn P. E., eða með öðrum orðum sú deildin oltin um koll, en P. E. kominn á Borðeyri með 80 lesta skip fyrir sjálfan sig; þykir sjálfsagt að austurhluti ríkisins fái innan skamms sömu afdrif. "Svo fór um sigling þá."

Í fyrrasumar kom til landsins sem agent Nova Scotia stjórnarinnar J., þá orðinn Andersson;[20] árangur ferðar hans varð sá eini að hann birtist löndum sínum sem fullgjör "gentleman", ríkulega settur gullhringum og skreyttur fínasta skrúðklæðnaði, svo menn héldu að galladragt jarlsins í Kanada mundi lítið af slíku bera, nokkrir sögðu að hann væri þannig uppdubbaður af stórauðugri heitmey í Englandi; við svo búið sigldi hann aftur en fékk umboð sitt í hendur Jóni hálfbróður sínum, þar var til manns að moka, hans, sem er mesta dauðýfli og draugur

---

13) Faðir Steinake, sem var dómsmálaráðherra nýl. í Danmörku, í jafnaðarmannaráðuneyti Staunings.

14) Var lengi við verzlun á Skagaströnd; bezti maður, en drykkjumaður mikill; dó snauður í Kaupmannahöfn.

15) Nú á Akureyri, faðir Ólafs bæjarfulltrúa í Rvík og þeirra systkina.

16) Þórdís Ebenezardóttir, giftist (sem seinni kona) Guðmundi á Vindhæli, föður séra Davíðs að Hofi í Hörgárdal; spanst af þeirri giftingu hið nafntogaða "forlofara"-mál, er stóð yfir í mörg ár, mest á milli langafa minna, S. Á. í Höfnum, er var einn af 4 forlofurum, og Björns Auðunnarsonar Blöndal, sýslumanns í Hvammi. Þórdís bjó með efnum í Vindhæli, sem ekkja Guðmundar, en giftist síðan Hillebrandt yngra, verzlunarstjóra á Hólanesi, er drakk nær til þurðar eigur hennar.

17) Lengi kaupmaður á Hólanesi á Skagaströnd, þar sem hann lifir enn í mjög hárri elli.

18) Kaupmanns, er dó kornungur af slysförum 1877 á Blönduósi.

19) Kaupmaður, og sonur séra Friðriks Eggerz í Akureyjum.

20) Jóhannes Arngrímsson; sjá bréf II.

fundahöld hans hafa orðið til aðhlægis; Anderson kann að vera góður drengur en naumast mikilmenni, og meiri mann hygg eg Sigtrygg vera, og um drengskap hans má ekki efast þvert á móti þeim góðu vitnisburðum, sem honum eru gefnir í mörgum bréfum frá því fólki, sem fluttist næstl. haust til Nýja Íslands; sá flutningur undir aðfarandi vetur þótti bæði mér og öðrum ískyggilegur, því lýsing landsins var gerð um hásumar, enda þótti sá beygur rætast þegar Ísafold fleygði þeirri frétt um land alt að fólk þetta hefði hrakist vestan að og komist ódautt aðeins til Ontario aftur; — engin frétt gat verið óþægilegri agentunum Kreger og Sigtyggi og svo þeim fjölda manna, sem hjá þeim hafði skrifast og voru þá á útmánuðum búnir að selja og lána út eigur sínar en þetta gátu þeir d . . . . .-óðu vesturfarar óvinir dável heyrt og einn þeirra (mein. Jón á Gautl.) ritaði í Norðling, hrokafulla löstunardælu um Vesturfarir og lýsingu Nýja Ísl. Sigtryggur fékk þar líka ókroppaðar hnútur, um sama leyti fór líka Hjaltalín gamli með "óðsmanns órum að rugla rænulaust rækalsbull og höfuðóra" um Nýja Ísl., frostgrimdir þar, manndráp Indíána og ásókn hungraðra úlfa; en skjótt skiftust veður í lofti og tvö bréf frá Nýja Íslandi sögðu fólk lifa þar góðu lífi, við húsastörf og byggingar, hafa skrifuð bréf sannað þetta líka og að veðrátta hefir þar alt fram yfir nýár verið engu lakari en þú segir frá í þinni sveit. Sigtr. hefir skörulega hrakið og hrjáð og með rökum hrundið löstunardælunni og sýnt höfundarins vanþekking og illkvitni, tveir menn aðrir hafa einnig gripið alvarlega ofan í lurginn á höf. en alt fyrir þetta lítur báglega út fyrir emigröntum og hætt við að margir megi setjast aftur, sökum þess dæmalausa peningaskorts hér í landi, hafa kaupanautar þeirra staðið uppi ráðalausir alt til þessa dags, en von á flutningaskipinu miklu fyr en ætlað, nefnil. þann 2. þ. m. á Krókinn.[22] — Vesturferðina frá Kvebek er sagt að emigrantar eigi að borga að nokkru leyti, munu pyngjur þeirra sumra farnar að léttast þegar til K. kemur, hvað sem þá verður til ráðs tekið. — Nú er það líka komið upp úr dúrnum, að fólk skuli sjálft fæða sig héðan frá landi til Englands á vissum tilteknum mat, þessi litli grykkur getur orðið mörgum að farbanni svo ekki er nú gullið í skelinni.

Nýlega giftist Sigtr. jómfrú Rannveigu Briem, systur séra Eggerts á Höskuldsstöðum — hann vígði þau saman, þó ekki sé hann Vesturfaravinur, hún er sögð væn kona vel gáfuð og mentuð, þau hafa fyr verið fósturbörn Péturs amtm., sem sálaðist í fyrra, það hefir þú líklega heyrt eins og lát J. Skaptasonar. — Í vetur druknaði Jón á Víðimýri í Héraðsvötnum, þótti líkur til að hann hafi riðið með hægð kendur og hálfsofandi út í vök hvar hesturinn fanst dauður, líkið er nýlega fundið og jarðað næstl. laugardag.

Á uppstigningardag 21. maí varð Bjarni sýslumaður Húnvetninga bráðkvaddur nýkominn frá kirkju, var lík hans flutt með mikilli mannfylgd vestur að Þingeyrum og jarðsett þar 9 þ. m.. Um það, leyti þú fórst af landi, voru stjórnarlögin nýju að ríða í garð, ávextir þeirra fóru strax að láta sig í ljósi, með ótrúlegum fjölda af beinlínis og óbeinlínis útgjöldum á alþýðuna og sé eg mér ekki fært að fara langt út í þá sálma; þú manst að sú venja var á komin að heimta fríviljugar gjafir, til ýmsra fyrirtækja, og er þessu ennþá kappsamlega framhaldið, því sá þykist maðurinn mestur, sem lengst er kominn í loftbyggingafræðinni, slíku sam-

skotafé hefir þó oftast verið illa varið, bera þar um vitni Húnaflóafélagið og brúin á Gönguskarðsánni, sem hyggnustu menn vilja að sé aftekin áður en hún verði nokkrum að líftjóni. Í orði kveðnu heitir það svo að þjóð vor hafi fengið löggjafarvald og fjárforræði en slíkt eru í rauninni helber ósannindi; þessi völd eru alveg komin í hendur embættismanna og þeirra auðvirðilegu hrákasleikju garpa (t. d. J. á Gautl.); stélpiltarnir í Víkinni eru líka nógu slóttugir til að leggja net sín fyrir þingþorskana, verkin sýna merkin, því fyrsta frægðarverk hins dýrkeypta 36 manna þings var að semja launalög fyrir 16 embættismenn í Rvík og amtmann nyrðra, af þeirri rollu man eg það eina að yfirhirðir sálnanna, biskup vor gat ekki við minna tórt en 16.000 kr. árlega. Bergur góði, mágur hans verður að bjargast með hérumbil 15.-000 kr. Þessi launasumma er mikil en þó ekki nema lítill hluti af útgjöldum landsjóðsins; eitthvað mun þurfa í hann að draga, nefndirnar sem í vetur hafa setið við skóla- og skattamálin munu súpa í sig fáeinar krónur. Þingið bjó til lög til útrýmingar fjárkláðanum, þau hepnuðust svo að þau náðu ekki konungssamþykki — inn í fjárkláðans völundarhús voga eg mér ekki — því óvíst er hvort eg kæmist nokkurn tíma út þaðan aftur.

Lögin um fólksflutninga gengu liðugt frá hendi þess frjálslynda!! þings, þau eru margslungin og fléttuð langloka, eftir þeim held eg stórflutninga til Vesturheims ómögulega en að einstaka hræður kunni að geta fyrir vildar vináttu eða máské fémútur skriðið út í gegnum járngreipar yfirvaldanna, skal eg ekki fortaka.

Loksins færi eg þér sameinaðar hugheilustu heilla- og farsældar óskir okkar hvortutveggju hjónanna, Ingunnar gömlu[21] og fleiri annara ótaldra hér á heimili.

Sjálfur er eg jafnan þinn
einlægur velunnari og fornkunningi
*Sigurður Árnason.*

21) móðuramma Sveins Sigurðssonar og Guðm. Simpson í Winnipeg, föður Sveins Georg Simpson, nuddlæknis.



# Kraftaverk og andlegar lækningar,

Eftir Steingrím Matthíasson lækni.

*I.*

Í fyrndinni voru prestarnir læknar. Aðrir læknar ekki til. Til presta völdust þeir, sem vissu lengra nefi sínu. Þeim var treyst til allra hluta og var haldið, að þeir gætu náð sambandi við guðina og fengið uppfyltar óskir sínar og annara.

Það fór orð af ýmsum kraftaverkum, sem þeir gætu gjört. Þess vegna var eðlilegt, að sjúklingar leituðu til þeirra, til að fá bót meina sinna.

Prestarnir gátu svo margt í þá daga, segir sagan. Þeir voru sumir spámenn, er sögðu hárrétt fyrir um óorðna hluti og viðburði. Þeir lögðu mönnum heilræði í hverskonar vanda, og réðu jafnvel við sjálfar höfuðskepnurnar, þegar þeim sýndist. Regn og frjósamar árstíðir gátu þeir, sem voru snjallastir, útvegað eftir þörfum. Enginn mun þó hafa komist lengra en Jósúa, sem gat stöðvað sólina, til að vígljóst yrði, meðan hann var að brytja niður óvini Ísraels.

Engin furða, þó svona körlum tækist að lækna ýmsa sjúkdóma. Þeir gátu jafnvel sumir vakið menn upp frá dauðum, ef mikið reið á. Af því fara margar sögur.

Þeir voru svo bænheitir, gömlu mennirnir.

Í sögu okkar Íslendinga segir frá hinum helgu biskupum Jóni, Þorláki og Guðmundi. Þeir höfðu enn þennan sama bænarinnar kraft og á dögum spámannanna.

Þegar Jón helgi tók við embætti, gengu mestu harðindin. Hann þurfti ekki nema einu sinni að stíga í stólinn og minnast á vandræðin við drottin, þá breyttist tíðarfarið um leið og varð árgæzka úr því. Og svo mikill kraftur fylgdi jafnvel áheitunum á biskupana, að þeim látnum, að oft gat það eitt afrekað hin furðulegustu kraftaverk. T. d. er sagt frá því í sögu Þorláks biskups, að tveir bátar voru á ferð sinn í hvora áttina á firði einum og gekk ekkert, því að enginn var byr. Þá hétu báðar skipshafnir hvor í sínu lagi á hinn helga Þorlák biskup. Brá þá strax við til byrjar báðum skipunum og sigldi hvort þeirra fram hjá öðru með hraðbyri, annað austan vert á firðinum, en hitt vestanvert. Hið fyrra suður á við fyrir hvössum norðanvindi, en hið síðara norður á bóginn fyrir hagstæðum sunnanbyr, seglfylling.

Svo vel bænheyrði Þorlákur vini sína, ef á hann var kallað úr öðrum heimi. Og líkt var um hina aðra blessaða biskupana. Mest segir þó af lækningakraftaverkum þeirra. Það var ekki sá sjúkdómur á mönnum né skepnum, sem ekki léti undan áheitum. Að

méinsta kosti er ekki getið um nein mistök.

*II.*

Þegar eg var barn, trúði eg líkt og fleiri, að guð gæfi mér gott veður, ef eg bæði nógu vel. Ef eg átti að fá að fara lystitúr næsta sunnudag, bað eg um logn og sólskin. Eg fékk hvorutveggja og skemti mér vel. Við seinni tækifæri bað eg um sama. Stundum varð eg bænheyrður, stundum ekki. Með aldrinum fór eg að trassa slíkar bænir, en fékk þó oft gott veður, engu að síður. Trúin dofnaði smámsaman á kraftabænir og kraftaverk. Og verður mér nú oft að brosa að barnaskapnum. Því miður — því "ógn er gott að vera barn."

En það er ekki eg einn og mínir líkar, sem orðinn er dauftrúaður á ýmislegt bænakvabb til guðs, sem áður var algengt. Jafnvel prestarnir eru það líka. Eg þekki nú ekki neinn prest íslenzkan, sem í alvöru mundi ætlast til þess, að guð gæfi honum og söfnuði hans snögglega heyþurk næstu daga, ef hann bæði þess einn sunnudag á stólnum í slæmri óþurkatíð. En þó munu ekki vera ýkjamörg ár síðan að prestar höfðu trú á þessu og reyndu það í viðlögum. Eg geri ráð fyrir, að mörgum hafi lánast ef til vill eins vel og mér. En einum presti veit eg að það lánaðist ekki, heldur þvert á móti. Sagan er svona:

Það höfðu gengið einlægir óþurkar og alt hey lá flatt, gulnaði og sumt myglaði. Það var komið langt fram eftir hundadögum. Og enn var regn og norðankuldi og snjóaði í fjöll og færðust krapahríðir niður í bygðir. Þá tók prestur þessi sig til, og bað langa bæn á stólnum um breytingu til batnaðar og bað heitt. Söfnuðinum þótti vænt um og varð vongóður. En næstu daga á eftir versnaði veðrið um allan helming og hélzt marga daga. Þá kvað einn bændanna:

Enn er hríðar - andsk . . . . .,  
illur var það baginn;  
ei mun himnahilmirinn  
heyrt hafa hann M . . . . a  
um daginn.

Þetta var fyrir svo sem 20 árum síðan, en það fylgdi sögunni, að upp frá því hefði prestur aldrei komið sér að því að stynja upp bæn af stólnum um heyþurk og hlýindi. Og sem sagt held eg að það sé nú úr móð gengið í kirkjum þessa lands. Eins held eg það sé ekki tízka neinstaðar lengur, að prestar séu með fyrirbænum að reyna að koma sjúklingum til heilsu. Það er eins og það þyki óþarfi eða gagnslítið, að vera nokkuð að blanda sér inn á verksvið okkar læknanna. En þó væri stundum engin vanþörf á því og gaman að það væri prófað.

Tímarnir breytast og mennirnir með. Meir og meir útbreiðist trúin á það, að náttúrulögin fari sinna ferða án þess að vér mannveslingar fáum við það ráðið með nokkrum bænagjörðum. Nýr tíðarandi er að komast inn með vantrú á sérstaka náð og bænheyrslu. Þrátt

fyrir það mun þó enn sem fyr snögg hræðsla og kvíði koma mönnum til að knýja á náðardyr hins alvalda. Þessu til sönnunar set eg hér sögukorn, sem gerðist fyrir stuttu:

Menn voru á ferð á Grímseyjarsundi á opnum bát og gerði aftaka hvassviðri, svo alt ætlaði um koll að keyra. Þá lögðust hásetar á á bæn og báðu um gott veður. Eftir það brá við og fór að kyrra og gerði indælt veður. Einn skipverjanna hefir sagt þessa sögu og lýsti hann því, hvernig snögglega skipaðist við eftir að þeir allir og hann með höfðu kropið á kné, hræddir, og beðið líkt og lærisveinarnir forðum: Hjálpa þú oss, því vér förumst. Og hann bætti við: "þá lægði storminn, og veðrið batnaði svo, að ekkert var lengur að óttast. En andsk. . . . skammaðist eg mín á eftir."

Sumir myndu ímynda sér, að maðurinn hafi meint orðin þannig, að hann hafi skammast sín fyrir hræðsluna, en aðrir hafa fyrir satt, að í rauninni hafi hann skammast sín bæði fyrir hræðsluna, og þó einkum fyrir hjátrúna. Það sem áður var rétt trú, er orðið að hjátrú.

Nýir siðir með nýjum tímum. Alt gengur í bylgjum. Trú og hjátrú líka. Nú hafa um hríð verið góðir tímar og vellíðan í landi. Þess vegna máske bænræknin minni. Á neyðartímum og næturmyrkrum þrífst bænrræknin bezt. Þá vaknar hræðsla: myrkhræðsla, dauðahræðsla og guðhræðsla.

"Í felmtri nætur er feigðin nærri, þá dagur ljómar er dauðinn fjarri"
—segir Stefán frá Hvítadal.

*III.*

Frá fornu fari hefir reynst torvelt, nema einstöku- afreksmönnum helgisagnanna, að gera kraftaverk. En margir prestar eru hættir að trúa þeim sögum, og er því engin furða, þó að almenningur sé einnig orðinn vantrúaður. Í stað þess bólar nú aftur á þeirri trú, að kraftaverk geti orðið fyrir tilstilli anda úr öðrum heimi, líkt og fyrrum, þegar menn hétu á hina helgu biskupa og aðra dýrðlinga. Andatrúin hefir vakið upp að nýju lækningarnar með ákalli framliðinna. En nú eru það ekki lengur framliðnir klerkar eða guðsgæðingar, sem ansa kallinu, heldur fyrverandi læknar eða skottulæknar. Og þeir koma sjálfir í eigin andlegu persónu til sjúklingsins og dedúa við hann allavegana líkt og vér jarðarmaðkarnir, læknar þessa heims. En stundum gera þeir aðeins vart við sig líkt og snöggur rafmagnskippur eða draumsjón, og það nægir. Sérstaklega hefir farið orð af *huldumanninum* í Öxnafelli hér í Eyjafirði, en hann kallar sig Friðrik og er haldinn að vera andi framliðins manns, sem enginn veit frekar deili á, en sem í lifanda lífi muni hafa fengist við lækningar og fullnumist síðan annars heims.

Það var um tíma talsverður átrúnaður á þetta hér í firðinum og leituðu margir sér heilsubótar hjá honum með hjálp skygnu stúlkunnar, Margrétar í Öxnafelli, sem

ein getur séð og talað við þennan huldumann. Árangurinn varð þó harðla vafasamur, ef ráða má af því, að enginn okkar læknanna hér á Akureyri eða annars staðar norðan- og austanlands, gat nokkurn tíma, svo eg viti til, sannfærst um, að undralækningar hefðu átt sér stað, nema þá svipað því sem hver læknir kannast við af eigin reynslu, að eiga sér stað við notkun ýmsra gagnslítilla lyfja eða andlegra áhrif á sjúklinga. Þetta sá fólkið einnig smám saman, svo að traustið dofnaði og fáir munu nú framar leita til Öxnafells héðan úr nærsveitunum. Hins vegar fréttist, að Friðriks sé talsvert leitað lengra að gegn um símann. Símskeyti er sent til ungfrú Margrétar um að biðja Friðrik að hjálpa — sjúklingurinn nafngreindur og hvað að gangi. Brátt kemur svo svar frá henni: "Sendi Friðrik." Og: Friðrik fer óðara. Skeyti af þessu tagi hafa borist afarmörg á tímabilum, svo að Margrét hefir haft nóg að starfa. Seinast fréttist, að símskeyti hafi komið frá Færeyjum og að trúin á Friðrik útbreiðist ört þar, eftir að reynsla hefir fengist þar í eyjunum um dásamlegan bata á hættulega veiku barni. Um það má lesa í blöðunum. En um nokkra hríð hefir Friðrik einnig opinberað sig gegnum konu í Vestmannaeyjum. Sú kona getur þó ekki að sögn talað við Friðrik eða látið áhrifa hans njóta sín nema hún falli í miðilsástand í hvert skifti, en lækningarnar eru sagðar gefast ærið vel — eins og einnig má lesa í blöðunum.

Heyrst hefir, að Friðrik sé farinn að birtast gegnum fleiri konur annars staðar á landinu, en þær sögur kunna að vera orðum auknar.

## *IV.*

Á seinni árum hefir mikið verið gumað af svonefndum *dulrænum lækningum*, eins hér á landi eins og erlendis, og þess háttar lækningaaðferðum er mikið fagnað sem lofsverðum tilraunum til afturhvarfs frá efnishyggjunni. Til dulrænu lækninganna teljast nú huldulækningarnar líkt og andalækningar gegnum miðla, lækningar með bæn og handaáleggingum, hugarlækningar, fjarhrif, segulmagnanir og fleira.

Það er gefið í skyn, að hér sé um mikilsverða nýjung að ræða og að árangur þessara lækningaaðferða sé í þann veginn að skara langt fram úr vísindalegum aðferðum efnishyggjulækna, sem oft séu hreinustu hrossalækningar (og má vel vera, að svo sé stundum, því misjafn er sauður í mörgu fé).

Tímaritið *Morgun* hefir skýrt frá þessum lækningum, ekki sízt huldulækningunum í Öxnafelli og Vestmannaeyjum. Má þar lesa ýmsar sögur um furðulegan bata og mun ýmsum þykja mikið til um þær. Hins vegar hygg eg, að flestir læknar muni líkt og eg telja þessar lækningar lítt ábyggilegar eða lítið sannfærandi þó rétt sé skýrt frá þeim.

Ef þessar dulrænu lækningar allar væru eins mikils verðar og gefið er í skyn, væri það undarlegt, ef vér læknar gæfum þeim ekki meiri gaum. Því skyldum vér vera mótfallnir svo einföldum og hættulausum aðferðum, eins og bæn og ákalli, ef slíkt gæfist betur en okkar aðferðir með lyfjum og læknishnífum? Vér erum þó ætíð vanir að taka upp þá aðferðina, sem reynslan sýnir að er betri en þær fyrri.

Andlegar lækningar af ýmsu tagi eru svo æfagamlar, að maður skyldi halda að reynslan væri fyrir löngu búin að skera úr hve nothæfar þær séu. En vera má, að svo sé ekki.

## *V.*

Annað slagið fréttist um stórkostleg lækningakraftaverk vestur í Ameríku. Eg hefi nýlega lesið fróðlega ritgjörð þar um. Og eftir henni að dæma, virðast dulrænu lækningarnar íslenzku vera mjög á bernskustigi í samanburði við ýmsar andlegar lækningar, sem daglega gerast í Bandaríkjunum. Þar eru eins og kunnugt er stórir trúar- og dulfræðisflokkar og söfnuðir, sem um langt skeið hafa viðhaft andlegar lækningar í hverskonar sjúkdómum, eins og t. d. flokkar þeir, sem kenna sig við *Christian Science, Jewish Science, Divine Science, Scientific Christianity* og *New Thought*. Enn fremur fást andatrúarmenn og guðspekingar við lækningar. Allir þessir flokkar gefa út fræðirit, eiga samkomuhús eða kirkjur og skiftast sumir í marga söfnuði eða félög víðsvegar um Bandaríkin.

Til Christian Science flokksins teljast nú ein og hálf miljón áhangendur. Hinir flokkarnir eru dreifðari og óákveðnari, en alls mun mega fullyrða, að margar miljónir manna aðhyllist að meira eða minna leyti kenningar þessara lækninga - trúarflokka — ef svo mætti kalla, því eitt af aðal-markmiðum þeirra, er fylgja þeim, er að lækna sjálfa sig og aðra. En þar að auki stefna þeir að því, að skapa í mönnum vilja og lyndisfestu, gera alt andans útsýni bjartara og jafnvel þykjast sumir geta með bæn ekki einasta læknað alla sjúkdóma, heldur komið í veg fyrir og hrundið á burt hverskonar böli.

Þó nú hver sá, sem leggur sér vel á hjarta kenningar síns flokks, geti, eftir því sem hæfileikar leyfa, gefið sig að lækningunum, verða þó ætíð einhverjir, sem sérstaklega skara fram úr, og er þá mikið leitað til þeirra.

Það er nú sameiginlegt öllum þessum lækningastefnum, að fylgjendur þeirra kappkosta að lækna jafnt líkamleg sem andleg mein, með andlegum áhrifum eingöngu. Og verður það þannig, að hugur manns allur, eða að eins undirvitundin magnist fyrir nokkurs konar dáleiðslu, til að ná tökum á því ólagi, sem af sjúkdómnum leiðir, svo að alt komist í réttar skorður á ný og maðurinn verði heill. Skeður það stundum snögglega, eða á einni svipstundu, eða smátt og smátt. En til að ná þessu

marki, telja sumir guðstrú og bæn einu nauðsynlegu leiðina, en aftur geta aðrir komist ferða sinna án allra bæna og guðstrúaráhrifa. *Christian Scientists* og *Dvine Scientists* nota bæn og handaálegging um leið og sjúklingurinn er látinn hugsa fast og telja sér trú um, að sjúkdómurinn sé innbyrling ein, alt hið illa í heiminum sé hugarvilla og guð sé það eina verulega, algóður, almáttugur guð, sem öllum hjálpi sem treysti honum.

Hins vegar eru innan *New Thought* - flokksins fjöldamargir fríhyggjumenn, sem nota engar bænir, heldur að eins hugarbeitingu og viljastælingu, líkt og franski læknirinn Coué (sem dó síðastliðið vor). Og þrátt fyrir guðleysi segjast þeir geta bænalaust gjört kraftaverk á sjúklingum, engu síður en heittrúuðustu *Divine Healers.*

Í *Journal of the American Medical Association* (Nr. 20—21 og 22 þessa árgangs) las eg nefnda ritgjörð, sem er eftir Alice Paulsen, Ph. D., í New York, og heitir *Religious Healing* (trúarlækningar). Höfundurinn segir ítarlega og óhlutdrægt frá hinum mörgu andlegu lækningaaðferðum, sem ofanritaðir flokkar nota. "Hverjum þykir sinn fugl fagur." Sérhver flokkur heldur sína aðferð bezta. Einkum láta Christian Scientist og Divine Healers mikið af ágæti sínum. Af skrá yfir þá sjúkdóma, sem læknast af fyrirbæn, má sjá, að alt treysta þeir sér við — alt frá smákvillum upp í garnaflækju og gula hitasótt, berkla alls konar og krabbamein í ýmsum líffærum. Einn mjög rómaður lækningamaður fullyrðir, að hann lækni 80 af hundraði þeirra, er leita til hans, og hann treystir sér með bæninni, hvort sem sjúklingurinn er nær eða fjær o.s.frv.

Þetta væri nú stórkostlega merkilegt alt, ef ábyggilegt væri, en því miður er öðru nær. Dr. Paulsen segir, að allar þær skýrslur, sem fyrir liggja frá þessum flokkum um kraftaverk og undralækningar, séu bygðar á frásögn sjálfra sjúklinganna eða sögusögn ólæknisfróðra manna. Sjúklingarnir koma og segja, hvað að sér gangi, og það er tekið gilt án frekari rannsókna. Hins vegar er það löngu kunnugt orðið, að þegar lærðir læknar hafa verið kvaddir til að athuga sjúklingana á undan og eftir, þá verða þeir sjaldan varir við merkilega atburði. Það eru einkum taugaveiklaðir sjúklingar, *sefasjúkir* og *ímyndunarveikir,* sem helzt læknast. Þegar "kraftaverk" gjörast, er það einkum á þesshátar sjúklingum. En við þessar undralækningar vill það hins vegar oft brenna við, að sjúkdómurinn leiti fljótt aftur í sama horfið. Lækningin er að eins til bráðabirgða, eða batinn að eins ímyndaður.

Átrúnaðurinn á andlegar furðulækningar hefir eigi að síður gripið svo um sig í Bandaríkjunum, að ýmsir málsmetandi prestar innan kirkjunnar hafa séð sig knúða til að taka þær upp í kirkjunum, og eru nú farnir að ráða lækna sér til

aðstoðar, til þess að meiri trygging fáist fyrir því, að tjón hljótist ekki af, og einnig til þess meiri vitneskja fáist um gagnsemi þessara lækninga. Verður fróðlegt að frétta nánar af þeirri samvinnu presta og lækna. Reynist þetta vel, er enginn vafi á, að kirkjur í öllum löndum taka upp bænalækningar.

Mér finst fyrir mitt leyti, að eg vildi gjarnan vera í samvinnu við trúaða presta um að lækna þá taugaveiklunar- og sefasjúklinga, er ervitt gengur með upp á venjulega vísu. Það er viðkunnanlegra, heldur en að hlaupa fram í Öxnafell til huldumanns.

## *VI.*

Mér og öðrum læknum hér á landi hefir verið álasað fyrir, að vilja ekki gefa huldulækningum meiri gaum, en vér gerum. Orsökin er auðvitað sú, að vér höfum ekki getað fallið í stafi fyrir neinum lækningum, en hins vegar reynt margar sögur afar-ýktar eða ósannar. Og þó um furðulegan bata virtist vera að ræða, þá hefir hann aldrei verið furðulegri en vér læknar sjáum hvað eftir annað sjálfir. Í rauninni eru allar lækningar að meira eða minna leyti dulrænar, hvort sem er beitt andlegum áhrifum, eða lyfjum og hníf.

Af því sem eg til þessa hefi sjálfur séð og lesið, er niðurstaða mín um kraftaverk andlegra lækna yfirleitt sú, að þau eigi svipaða sögu að segja sem fyr. Árangurinn virðist vera hinn sami, hvort sem er læknað með ákalli dýrðinga eða huldumanns eða fyrir bænir til guðs eða skurðgoða eða með hughrifum (suggestion eða autosuggestion). Veldur hver á heldur og hve traust sjúklingsins er mikið. En ætíð er hætt við blekkingu.

Það er áreiðanlegt, að í stöku tilfellum geta andleg áhrif haft snögg læknandi áhrif, en sjaldan þó á alvarlega líkamlega sjúkdóma.

Það er trúlegt, að ákall huldumannsins í Öxnafelli sé öldungis eins affarasælt eins og voru áheitin á vora helgu biskupa fyrrum. Nú eins og þá getur viljað til, að batni snögglega eftir ákallið, ef svo heppilega vill til, að það komi á réttum tíma, þ.e. þegar sjúkdómurinn er í þann veginn að batna snögglega af sjálfu sér, eins og á sér stað um marga bráða sjúkdóma og suma geðveiklunarsjúkdóma. En sama kemur þráfalt fyrir lækna jafnt sem skottulækna, að sjúkdómurinn sýnist batna af gagnslausum lyfjum. Og nú, eins og þá, getur ákallið haft sömu andlegu áhrifin, að þau verða til að flýta náttúrlegum bata, en í öllu falli til að eyða *hræðslu* sjúklingsins, svo honum líður betur. En sama á sér stað, *oft*, hjá oss læknum, fyrir andleg áhrif okkar í sambandi við gagnslítil lyf og aðgjörðir—þó ekki sé verið að halda slíku á lofti með auglýsingum og vottorðum.

Og nú, eins og þá, mun oft og máske venjulega brenna við, að ákallið hafi engan minsta árangur.

En um slík hin mörgu tilfellin er ekkert verið að fjölyrða í nútíðarritum fremur en í *Biskupasögunum* forðum.

Kraftaverk eiga sér ekki stað í þeirri merkingu, sem alment er skilið það orð, hvorki hjá andalæknum né jarðneskum. Allar lækningar verða með náttúrlegu móti, hvort sem þær verða af völdum ímyndaðra andalækna eða jarðneskra.

En það er áhugamál okkar lækna, að eyða sem mest allri hjátrú og viðhafa þær einar aðferðir til lækninga, sem bygðar eru á réttum rökum og sviftar allri hindurvitnablæju.

Að endingu vil eg óska, að einhver starfsbróðir minn vestanhafs, sem hefir kynt sér árangurinn af samstarfi lækna og presta við andlegar lækningar, yrði svo vænn að fræða okkur heima á Fróni þar um í einhverju blaði eða tímariti.

## *VII.*

Það er sannfæring mín, að engin alþýða í nokkru landi sé eins fróðleiksgjörn og skilningsgóð eins og íslenzk alþýða austan hafs sem vestan. Þess vegna á það að vera okkur, sem við ritstörf fáumst og viljum fræða fólkið, áhugamál að bera því það á borð, sem við vitum sannast og réttast. Mér er það mesta áhugamál, að reyna eftir mínu viti að hamla upp á móti hjátrú og miðaldamyrkri, þegar verið er að vekja upp gamla hindurvitnatrú og huldufólksstrú og gera menn með því bæði myrkhrædda og ljóshrædda. Og hvað huldulækningar og andalækningarnar snertir, er það trú mín, að það í höndum fávísra manna geri marga sefasjúka, sem veikir eru fyrir.

Fátt er verra en hræðsla við myrkur og drauga til að veikla menn á sál og líkama. Og hræðsla er smitandi.

"Haltu hræðslunni í sjálfum þér og miðlaðu öðrum af móði þínum og manndómi", sagði Robt. L. Stevenson. Drengilega mælt, og veitir virkilega ekki af að *hugsað sé um sóttvarnir gegn andlegum farsóttum, eins og gagnvart öðrum næmum sóttum.*

Að endingu vil eg óska, að enginn skilji orð mín svo hér að framan, sem eg sé að gera gys að bænrækni yfirleitt, þó eg gjöri lítið úr bænakvabbi í veraldlegu hagsmunaskyni. Það eru svo margar betri bænir til.

Það er barnaskapur, að biðja guð um að gera snöggar náttúrubyltingar og galdraverk. Og hvað snertir lækningar sérstaklega, þá skal það ætíð reynast guði þóknanlegasta bænin, að rannsaka alla sjúklinga með vísindalegri nákvæmni og nota síðan þær einar lækningaaðferðir, sem bygðar eru á skynsamlegu viti.

"Bænin má aldrei bresta þig — búin er freisting ýmislig" — var mér kent ungum, og eg trúi því enn og veit, að bænrækni er öllum holl, sem öflugt ráð til andlegra lækninga, til að styrkja vit og veikan vilja og kærleika til guðs og manna. Og gaman væri að

vera svo sterkur á svellinu, að geta ætíð lofað og vegsamað sinn guð, hvað sem á dynur.

"Aldrei váru hans varrir kyrrar at guðslofi", segir Gunnlaugur munkur um Jón biskup helga. Veit eg aldrei sagt meir til vegsauka neinum klerki.

Lofum prestunum í framtíðinni að verða einnig læknar á ný. En þá vil eg jafnframt óska þess, að læknarnir verði líka prestar.



# Stökur eftir Pál Ólafsson.

Úr gömlum bréfum.

### *I. TIL RAGNHILDAR.*

Heyrnin, sjónin, heilsan þver,
húmið færist yfir,
en ást og traust á einni þér
eilíflega lifir.

Höndin bæði' og hjarta þitt
hefir á nótt sem degi
verið leiðarljósið mitt
lífs á förnum vegi.

Hirði eg ei um heimsins dóm
né hvað menn segja' á bakið,
ekki ná hans orðin tóm
inn um grafar þakið.

En hvar sem eg á landi' eða lá
lúinn hvíli beinin,
eyrum mínum ætíð ná
andvörp þín og veinin.

Að hefja svanasöng til þín
sálin veikluð ætti,
meðan frestast ferðin mín
um fáa andardrætti.

En það þarf hörpu hagan slátt
hjartað ástarríka,
vantar ekki vilja, en mátt
og viðkvæm orðin líka.

Dauða-taki þig eg þríf,
—þótt mér blæði undir,
þú ein getur lengt mitt líf
og lífsins sælustundir.

---

### *II. NEISTAFLUG.*

Framgangur og fetin þín
fjör og ást og blíða,
eru sálar sælan mín
og svæfa allan kvíða.

Grafarbakkann er eg á
öðrum fæti stiginn,
en sjái eg þér bros á brá
bregður roða' á skýin,

Svo mér æfi sýnist vor
og sól að morgni roða,
og ótal þúsund æfispor
yndisleg mér boða.

# Sjöunda ársþing Þjóðrœknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Sjöunda ársþing Þjóðræknisfél. var sett í Goodtemplarahúsinu í Winnipeg, miðvikudaginn 24. febrúar 1926, kl. 2.30 e. h. Forseti, séra Jónas A. Sigurðsson, las úr 90. sálmi Davíðs, og bað menn að syngja sálminn "Faðir andanna". Að því búnu flutti hann stutta bæn. Lýsti hann síðan þing sett. Bað hann ritara að gera stutta grein fyrir fundahöldum nefndarinnar á árinu. Að því búnu flutti forseti ávarp sitt og ársskýrslu, sem fylgir:

Háttvirtu þingmenn!

Nauðugur viljugur verð eg að geta þess hnekkis, er eg varð fyrir síðastliðið vor, þá nýbyrjaður á félagsstörfum. Var eg um langt skeið farinn að kröftum og kjarki, þótt eg, fyrir Guðs náð, hafi aftur fengið fult þrek. — Veit eg vel og þakka hér með, að eg hefi notið umburðarlyndis yðar í þeim vikleika mínum.

Eg, og vér allir, erum og eigum að hugsa um líf, framför og framtíð félags vors og þóðernis. Þó er það skylda vor, að minnast hér á dauðann.

Á öðru ársþingi Þjóðræknisfélagsins var hér stödd meðal vor hin göfuga og þjóðlega merkiskona, frú Stefanía Guðmundsdóttr frá Reykjavík. Sem kunnugt er, hefir Ísland ekki framleitt aðra eins leikkonu. Á nefndu þingi tók hún veigamikinn þátt í hátíðahaldi voru. Í þinglok var hún kjörin heiðursfélagi Þjóðræknisfélagsins.

En nú er hún dáin.

Í hugum Íslendinga, hér og annars staðar, þeirra, er kyntust frú Stefaníu, mun kveða við eitthvað svipað andvarpi Jónasar Hallgrímssonar, er hann frétti um andlát hins þjóðnýta og ágæta vinar síns, Tómasar Sæmundssonar:

"Dáinn, horfinn, harmafregn".

Arfurinn íslenzki hóf sálarlíf frú Stefaníu Guðmundsdóttur á þann tignar tind, sem flestir, er sáu hana, eygðu. Dauði hennar er þjóðartap. —

Árið liðna voru á ferðalagi meðal Vestur-Íslendinga, Einar H. Kvaran, rithöfundur og frú hans. Eflaust treysti hann, víðsvegar um bygðir Íslendinga, tengslin við heimaþjóðina og fósturjörðina, og blés að kulnuðum glæðum bókmenta-neistans vor á meðal. Auk þess er það á flestra vitorði, að hann ber vinsemdar-orð og tillögu milli Austur- og Vestur-Íslendinga. Og á því bróðurþeli er oss brýn þörf. — Í öndverðum septembermán. (1925) fóru þau hjón heimleiðis. Voru þau í ágústlok kvödd á fjölmennum mannfundi hér í Winnipeg, og tók Þjóðræknisfélagið sinn þátt í þeirri kveðjuathöfn.

Síðasta ársþing félags vors kaus einnig hr. Einar H. Kvaran heiðursfélaga.

Tjón tel eg það starfi þessa þings, að varaforseti Þjóðræknisfél., séra Ragnar E. Kvaran, er fjarverandi á Íslandsferð.

Í sumar er leið var hér á ferð hinn ágæti íþróttamaður og Íslandingur, Jóhannes Jósefsson, með konu sína og dætur. Hefir enginn Íslendingur, svo eg minnist, lagt aðra eins fjárupphæð af mörkum til heilla Þjóðræknisfélagi þessu sem hann. Einnig flutti hann hér í Winnieg á fjölsóttu glímumóti, fáheyrða þjóðræknishvöt.

Fyrstur allra manna á Jóhannes Jósefsson heiðurinn fyrir það, að ungir og efnilegir íslenzkir menn í Winnipeg hafa stofnað glímufélag, iðkað þá íþrótt í síðari tíð, og sýna nú þinginu þessa fornfrægu íþrótt Íslendinga.

En við þá yfirsjón ber að kannast, að Þjóðræknisfélagið sýndi þessum gestum enga sæmd dvalartíma þeirra meðal vor.

Ganga má að því vísu, að ýmsar sálir, sem þegar eru þjóðernislega veiklaðar, hneykslist á því, sem aflaga fer á Íslandi,

ættjörð hinna eldri í hópi vorum. Verulegt hrygðarefni er það, og hefir lengi verið, að þjóð vorri og þjóðlífi er til muna ábtavant. En skugginn fylgir mannlífinu víðar en á Íslandi. Eða gengur hér ekkert á tréfótum, með stórþjóðum heimsins? Veltur ekki alda afbrota, lagaleysis og glæpa um mestallan heim? Er ekki líf manna víðast hvar "í leysingu"? Hafa ekki menn átt gölluð og syndug foreldri og unnað þeim þó? Ekki dylst mér, að þjóð vora og þjóðerni ætti að mæla á þann mælikvarða.

Meðal þess, er hvað bezt hefir tekist af þjóðræknisstarfi á árinu, auk glímufélagsins, er þegar hefir verið getið, má einkum nefna þrent:

1. Söngstarf hr. Brynjólfs Þorlákssona meðal æskulýðsins í Nýja Íslandi og Vatnabygðunum. Mér finst nálega, að í slíku starfi muni fólgið fjöregg íslenzkrar þjóðrækni hér vestra. Ekki man eg eftir öðru starfi, sem verið er að vinna, er fremu verðskuldaði styrk frá Þjóðræknisfélaginu, en þetta starf hr. Brynjólfs, ef fé væri fyrir hendi.

2. Viðurkenning íslenzkrar tungu við æðri skóla innan Manitobafylkis.

3. Hátíðahaldið á Gimli, 22. ágúst 1925, í minningu um 50 ára landnám Íslendinga á þeim stöðvum. Var það Íslendingamót hið stærsta og veigamesta, er vér höfum haldið öll nýlendu-ár vor hér vestra, og auk þess órækur vottur um þjóðrækni hinna dreifðu og sundurþykku landa vorra,—iðgrænn Þórisdalur í öræfum útbrunninna íslenzkra eldfjalla og jökla.

Ein deild, Frón, í Winnipeg, hefir sent mér skýrslu-ágrip um starf sitt á árinu; vinnur sú deild svipað kenslustarf meðal unglinga í Winnipeg-borg sem undanfarin ár. Starf það rekur deildin í eining við Þjóðræknisfélagð. Kennarar eru tveir, Páll Bjarnarson og Ragnar Stefánsson, og alls innritaðir 104 nemendur. Fer kenslan fram í heimahúsum og á laugardögum í Goodtemplarahúsinu

Þótt skýrslur skorti, er mér ekki kunnugt um, að nein deild félagsins hafi hætt að starfa, né liðið undir lok á árinu. Sé svo, hafa þær fengið hægt andlát.

Með þjóðrækniserindi hefi eg á árinu heimsótt: Winnipeg, Gimli, Árborg, Winnipegosis, Mozart og Wynyard, auk heimastöðva, þótt ekki hafi þjóðræknisdeildir á þessum stöðum öllum gengist fyrir þeim heimsóknum.

Deildin Fjallkonan í Wynyard, er áhugamikil og íslenzk. Héldu Wynyard-Íslendingar vandaða og afar-fjölmenna samkomu 29. jan. síðastl. — Svipaða samkomu héldu Árborgarmenn síðastl. vor, í öndverðum aprílmánuði. Í Wynyard tók deildin að sér Íslendingadagshald 1920 og hefir síðan annast það. Færi vel á því, að þar sem deildir eru starfandi, annist ær um slík Íslendinga-mót.

Lög Þjóðræknisfélagsins þarfnast endurprentunar og ef til vill endurskoðunar. Ekki er laust við, að 2. og 9. gr. í II. kafla laganna rekist á 5. gr. sama kafla. Um það mætti og einnig hugsa, hvort það er heill félagsins fyrir beztu, að ákveða þingstað með lögum. Hitt er áreiðanlegt, að sumt laga vorra finst nú að eins í þingsamþyktum.

Eitthvað ætti einng að gera, til að auka rétt fulltrúa frá deildum utan Winnipeg-borgar eða þingstaðar.

Á árinu hefi eg ritað The United Church of Canada, ályktan síðasta þings gegn dauðahegning, og áskoran til þeirrar kirkju um að neyta áhrifa sinna til að fá það ákvæði landslaga vorra afnumið. Ritaði varaforseti undir ávarp þetta, ásamt mér. En alls ekkert svar höfum við fengið.

Viðvíkjandi Ingólfi Ingólfssyni, nú í Pince Abert, Sask., hefi eg haft nokkur bréfaskifti við menn. Spurði eg hlutaðeigandi fangavörð, í Prince Albert um heilsu og hag Ingólfs, hvort vart hefði orðið brjálsemi í fari hans og hvort hann þyrfti á nokkurn hátt aðstoðar. Er svar fangavarða nýkomið í mínar hendur. Kveður hann hag Ingólfs góðan og tekur fram, að yfirlæknir fangahússins hafi aldrei skýrt frá, að Ingólfur hafi sýnt

þess nokkur merki, að hann væri andlega vanheill.

Bóksalafélag Íslands hefir orðið vel við umkvörtunum síðasta þings. Verður bóksala sérstakt mál á dagskrá þingsins. En geta má þess, að eg hefi þegar farið þess á leit, að Ottawa-þingið nemi úr lögum toll á íslenzkum bókum. Get eg síðar, er það mál liggur fyrir, skýrt það atriði frekar, æski þingið þess.

Nýlega barst mér áskorun frá konu þeirri, er "Vísir", félag Íslendinga í Chicago, hefir falið að annast þátttöku ísl. kvenna í kvensýning þar í borg og getið hefir verið í íslenzku blöðunum, öðru eða báðum. Ætti þing þetta á einhvern hátt að veita hér úrlausn, þó eg játi, að kosið hefði eg að samferða þessari málaleitan hefði komið umsókn frá félaginu Vísir um upptöku í Þjóðræknisfélagið.

Rétt fyrir þing ritar Guðm. S. Grímsson, lögmaður í Langdon, N. D., er frægur varð í Florida-málinu svo nefnda, harla vinsamlegt bréf, með kveðju til félags vors, sem skilað er hér með. En einkum mun það þó efni bréfsins, að benda félaginu á, að taka að sér útsölu á Dakotasögu Thórstínu Jackson, sem mun vera að koma út.

Þó óttast eg, að sú vnsamlega tillaga minni fleiri en mig óþægilega á þann félags-hag, er kaup vor á Íslands-sögu próf. Gjerset hefir reynst oss. Ekki er mér fullkunnnugt um það efni, en eg hygg, að að eins örfá eintök bókarinnar hafi verið keypt, og að all-stór fjárupphæð liggi þar grafin. Ekki hefi eg heldur séð bók þá auglýsta í síðari tíð.

Enga breyting gerði stjórnin á útgáfu Tímaritsins. En prentunarkostnaður mun reynast drjúgum hærri í ár en að undanförnu. — Eitt Aðal atriðið í sambandi við útgáfu Tímaritsins, er útbreiðsla þess. Hún þarf að ganga greiðlega. Tímaritið þarf að komast inn á sem flest vesturíslenzk heimili.

Fjárhagsástand félagsins og greiðslu iðgjalda skýra hlutaðeigandi embættismenn. En fjárhagur fél. mun nokkru örðugri en undanfarin ár. Tala meðlima er lægri og um gjaldtregðu er kvartað af þeim, er þá hlið starfsins annast. Stöðuga eftirgangsmuni þarf að viðhafa til að halda meðlimum innan félagsins og einatt afslátt af iðgjöldum. — Menn koma ekki til félagsins af hvötum kærleikans og þjóðrækninnar. Því miður bendir reynsla síðari ára til þess, að lækkað iðgjald hafi ekki læknað tregðu manna í því að tilheyra Þjóðræknisfélaginu.

Lestrarfélög, stúdentafélög og ýms önnur félög Íslendinga um allan Vesturheim, sem í eðli sínu eru þjóðræknisfélög, standa enn í dag utan aðalfélagsins. Hvort orsakir þess eru þau smá útgjöld, er félagssamvinnu kynnu að fylgja, eða þessi afstaða er sprottin af íslenzkri einþykni og tortrygni, verður hér ekki rætt. En eitthvað er hér að, og þessi afstaða öfug og óholl. — Sú von mín, og ýmsra annara meðal yðar, að félag þetta drægi úr flokkadrætti og sundrung Vestur-Íslendinga og tengdi oss saman um hið bezta í starfi voru, hefir enn ekki ræzt.

Hollast mun oss að kannast við það ráðvandlega og án alls yfirdreps, að þótt mikið sé til meðal Vestur-Íslendinga af rækt við íslenzkt þjóðerni — við Ísland, íslenzka tungu og íslenzkar bókmentir, — þá gengur þeim ekki jafnvel að vinna saman og byggja félagsbygging úr því góða efni. Þeir munu fremur teljandi, er einhverju vilja fórna er til samvinnu kemur, þótt ýmsir fáist til að bera hin breiðu kögur lærifeðranna. Norræn lund er einatt óþjál og önug í samstarfi, þótt skilningurinn sé skýr. Víkinga-andinn og víkings-tungan, arfgeng, virðir ekki ávalt rétt, gagn og tilfinningar annara, né hugleiðir heill fjöldans. Strandhögg eigingirninnar eru engan veginn fátíð. — Smávaxið þjóðlíf hefir einnig smækkandi áhrif. Sú hefir orðið reyndin í lífi ofmargra Íslendinga. Við þeirri hættu þurfum við að gjalda varhuga. Eg get ekki betur séð, en að það sé fyllilega tvísýnt um framtíð Þjóðræknisfélagsins, mikið sökum fásinnu fjöldans, er ekki sýnir hér trú sína í verki; fyrir flokkadráttum, sem er og hefir verið sá þjóðar-Móri, er alt

truflar; og ef til vill sökum einhverra annara galla hjá mér og öðrum, er þó unnum af öllu hjarta löndum vorum, ættjarðarfræðunum og þeim helgu tengdum, er knýta oss þeim.

Eg veit vel, að mörg afsökun kemur til greina í þessu efni. Eg veit, að tíðarandinn er oss andvígur. Eg verð við það að kannast, að uppeldi og æfikjör vor Íslendinga, hafa kent oss að vega flest á matarvogina. Eg finn til þess, að heimaþjóðin hefir ekki rétt oss hjálparhönd í þjóðernisvernd vorri. — Eina undantekningin er koma Kjartans prófasts Helgasonar hingað vestur. Í raun réttri hafa Vestur-Íslendingar verið olnbogabörn allra manna þau 50 ár, er vér höfum dvalið hér vestra. Orð og skrif örfárra úrvalsmanna, íslenzkra og enskra, og sparibúnar blaðagreinir, breyta ekki þessum sannleik. Og ill áhrif hefir þessi vitund haft á margan — og þá einnig á þjóðrækni manna. En umfram alt ber þó að varast þá hættuna í eðli og lífi *sjálfra vor*, er nefna mætti: Hjaðningavíg andans. Vér, er eigum að fórna fyrir málefnin, er vér trúum á, leiðum einatt í þess stað her manna, og málefnin sjálf, út í feigðarbaráttu, — stundum svipað Hjaðningavígum fornaldarinnar, til að verðveita stundarhag eða ímyndaða tign sjálfra vor.

Þegar heimsveldin, er bárust á banaspjótum, keppast nú hvert við annað að jafna misfellur ófriðaráranna, semja fullan frið og ganga í bandalag, getum vér Íslendingar ómögulega unnið saman um vor eigin Þjóðræknismál, er snúa að því helgasta og bezta í lífi sjáfra vor, lífi nánustu ástmenna vorra og öllu lífi vorrar eigin þjóðar.

Hér þarf því bráðra og viturlegra aðgerða.

Eg er ekki trúlaus bölsýnismaður. Eg ætla mér heldur ekki að skiljast við þjóðræknismál Íslendinga, hvað sem að steðjar. Eg veit líka að læknar, er sjúka stunda, flytja þeim ekki dauðadóm, þótt lífshætta sé í námunda. Vonarþráðinn, þó veikur sé, ætti að spinna og tvinna í lengstu lög. Og það skal hér gert. En eg hefi enga trú á því, að menn dragi sjálfa sig á tálar. Menn geta boðað: "friður, friður", þar sem enginn friður er til. Drýgindalegt orðabrask um, að Þjóðræknisfélagið sé nú sjö ára og ódrepandi, getur dvalið fyrir oss að koma auga á félagshætturnar, sem yfir vofa.

Áreiðanlega þurfum vér að færast í aukana, og starfa sem félag annað og meira en að undanförnu, — ráðast í eitthvað þjóðlegt og gagnlegt, sem vekur athygli allra góðra Íslendinga. — Heill vor og framtíð er blátt áfram í húfi, ef hér lendir við orðin ein.

Eftir all ítarlega umhugsun, leyfi eg mér að benda háttvirtu þingi á eftirfylgjandi starfsmál, eða ákveðnar tillögur í dagskrármálinu, sem flest eru utan hinnar auglýstu dagskrár, er áreiðanlega myndu vekja nýtt líf og nýjan áhuga meðal Íslendinga austan hafs og vestan:

1. Íslenzk glíma—æfing hennar á sem flestum stöðvum Íslendinga.

2. Söngstarf, að dæmi Brynjólfs Þorlákssonar.

3. Að Íslendingamót og þjóðræknissamkomur verði sem víðast undir umsjón deilda, þar sem þær eru starfandi.

4. Aukin útbreiðsla og auglýsing á bókum og riti félagsins.

5. Að lögð sé áherzla á æfifélaga — æfigjald nú $15.00.

6. Afnám tolls á bókum frá Ísandi.

7. Endurskoðun og endurprentun laga félagsins.

8. Að tryggja með lagabót rétt fulltrúa, er mæta á þingum frá deildum utan þingstaðar.

9. Að skuldlausir félagslimir fái Tímaritið ókeypis eða fyrir hálfvirði.

10. Að leggja nú þegar grundvöll að veglegu félagsheimili í Winnipeg-borg, sem miðstöð fyrir íslenzkt félagslíf, — gesti, íþróttir, lestrarsal, bókasafn og böksölu íslenzkra bóka og blaða. Tel eg afgangi þeim, af Ingólfssjóði, sem nú er í vörzlum félagsstjórnar, til einskis betur varið en að byrja með honum sjóð fyrir slíka stofnun.

11. Að koma á fót hið bráðasta framkvæmdarstjóra embætti eða starfi, og fela það manni, er flytji erindi meðal enskra og íslenzkra og á hérlendum mentastofnunum, um Ísland og Íslendinga, um bókmentir vorar og þjóðræknismál. Skal hann og vera málsvari vor meðal hérlendra þjóða.

12. Loks ber nauðsyn til, að vér í raun og veru yfirbugum flokkadrátt sjálfra vor með því að auðsýna fullan jöfnuð og óhlutdrægni við val til embætta og í öllu félagslífi, þannig, að vér reynum ávalt að þjóna heill félags vors fremur en einstökum mönnum.

Að endingu vil eg ítreka erindi eftir Fjallaskáldið fræga, er hann kvað sem upphafsorð Tímaritsins með svipað í huga og þær tillögur, er fyrir mér vaka:

"Fyr var rausn að leggja í læðing
Lýði, storð og höf —
Nú á sigri senn að ráða
Sátt og vinagjöf.
Áður þótti frægð að falla
Fyrir völd og trú —
Mest er fremd sem lengst að lifa
Landi sínu nú. —
Landi sínu, gjöfull nú."

Þá flutti gjaldkeri stutta skýrslu. Kvað hann efnahag félagsins sæmilegan, en útlit tæplega eins gott og verið hefði. Auglýsingar hefðu ekki fært félaginu jafnmikið í búið og áður, og sömuleiðis hefði selst til muna minna af ársriti félagsins, en búist var við og vant var. Enn fremur hefði prentkostnaður verið mun meiri en í fyrra. Vildi hann því hvetja þingmenn til þess að fara gætilega í fjárveitingum. Gat hann þess, að erfitt hefði verið að nokkru, að samræma reikninga yfirstandandi árs við þau skilríki, er honum hefði verið fengin í hendur. Hefði hann því algjörlega haldið sér við fjárhagsskýrslu þá, er prentuð var síðasta ár. Lagði hann síðan fram skýrslu sína fyrir þingið.

Annar yfirskoðunarmanna Mr. H. S. Bardal, gat þess, að ósamræmi það er gjaldkeri hefði minst á, lægi í því, að lítt hefði áður verið víst um eldri rit hér og þar, en nú myndi það komið í nær því ábyggilegt horf, svo að á því myndi mega byggja framvegis.

Þá las ritari upp athugasemdir þær, og tillögur, er yfirskoðunarmenn lögðu fyrir þingið. Vildu þeir enn benda á það, að bókum fjármálaritara ætti að koma í það horf, að af þeim sæist greinilega, hvernig hvert félag eða félagsmaður stæði, og að ákvörðun yrði tekin um vafasama reikninga fyrir eldri árganga Tímaritsins. Ennfremur vildu þeir leggja til, að fylgiskjöl Ingólfssjóðsins svo nefnda skyldu yfirskoðuð af yfirskoðunarmönnum. Annars vildu þeir þakka fjármálaritara og skjalaverði að þeir hefði lagað reikningsfærsluna á liðnu ári. Lögðu þeir til, að þingnefnd yrði skipuð til þess að gera tilögur um þessar athugasemdir.

Þá las fjármálaritari stutta skýrslu. Kvað hann meðlimi að meðtöldum nýjum félögum hafa verið 631. Úr félaginu hefðu sagt sig 13, þar af fjórir unglingar, og væru félagsmeðlimir nú 618 að tölu. Fyrir árið 1925 hefðu 147 fullorðnir greitt ársgjald sitt, 8 unglingar, og 18 börn: alls 173. Gat hann þá þess, að fleiri mundu hafa borgað, en tilög þeirra enn ekki komin í félagssjóð, og væru þeir því ekki kvittaðir í bókunum.

Þv næst las skjalavörður stutta skýrslu og skýrði nokkur atriði í henni.

Þá bað séra Rögnvaldur Pétursson um að mega leggja það fram fyrir þingið, hvort útkomu "Tímaritsins" mætti ekki fresta um viku, af því að þá væri mikil von um, að félagið hagnaðist á því með auglýsingum. Var samþykt tillaga frá Birni Péturssyni, studd af B. B. Olson, að taka málið þegar fyrir. Nokkrar umræður urðu um þetta, og mælti Ásmundur Jóhannsson á móti frestun. Hjálmar Gíslason bar fram tillögu, studda af Klemens Jónassyni, að útgáfu ritsins skyldi frestað til laugardags .6 marz. Var hún samþykt, með öllum þorra atkvæða.

Þá kom fram tillaga frá séra Rögnvaldi Péturssyni, studd af J. J. Bildfell, að skýrslurnar skyldu teknar fyrir í þeirri

röð, er þær væru lesnar. Var hún samþykt með öllum þorra atkvæða.

Þá kom og tillaga frá séra Rögnvaldi Péturssyni, studd af B. B. Olson, um að samþykkja skýrslu forseta. Ásmundur Jóhannsson gerði breytingartillögu, um að setja væntanlega þriggja manna nefnd til að athuga skýrslu forseta. Var breytingartillagan feld, með öllum þorra atkvæða. Síðan var tillaga séra Rögnvaldar samþykt í einu hjóði.

Því næst gerði séra Rögnvaldur Pétursson tillögu um, að skipa fimm manna nefnd til þess að athuga og yfirfara allar fjármálaskýrslur embættismanna. Var hún samþykt í einu hljði. Forseti skipaði í nefndina þá J. J. Bildfell, Pál Bjarnarson, Ásmund Jóhannsson, B. B. Olson og J. S. Gillies.

Þá var samþykt tillaga frá séra Rögnvaldi Péturssyni, studd af J. J. Bildfell, að skipa skyldi þriggja hanna nefnd til þess að athuga hina prentuðu dagskrá. Í nefndina voru skipaðir séra Albert E. Kristjánsson, O. S. Thorgeirson, og Einar Páll Jónsson.

Þá var lesin skýrsla Frónsdeildarinnar í Winnipeg.

Þá skýrði Þorsteinn Guðmundsson frá því, að Þjóðræknisdeild hefði verið mynduð í Leslie, Sask. Deildin heitir "Iðunn", og telur 47 meðlimi. Skilaði hann nafnaskrá og félagsgjöldum fyrir árið 1926 til fjármálaritara. Æskti hann inngöngu í Þjóðræknisfélagið fyrir hönd deildarinnar. Fögnuðu þingmenn máli hans með lófaklappi. Lagði Klemens Jónasson til og Ásmundur Jóhannsson studdi, að þessi deild væri tekin í félagið. Var það samþykt með því, að allir stóðu á fætur.

Þá bað forseti Dr. Jóhannesi Pálssyni frá Elfros hljóðs. Var mál hans stutt, en öflug og sköruleg hvatning, að Þjóðræknisfélagið beitti sér fyrir því, að styrkja Björgvin Guðmundsson tónskáld til frekari söngmentunar. Var gerður hinn bezti rómur að máli hans.

Þá flutti séra Friðrik A. Friðriksson skýrslu og kveðju frá Wynyard deildinni "Fjallkonunni". Kvað hann hana lifa ágætu lífi, og sannaði fjármálaritari orð hans.

Þá lagði dagskrárnefnd dagskrá þá er hér fylgir fyrir þingið.

Var hún samþykt sem hér fylgir:

1. Þingsetning.
2. Skýrslur embættismanna.
3. Bókasafnsmál.
4. Félagsheimili í Winnipegborg. (Sbr. 10. lið í skýrslu forseta).
5. Bóksalan (tollmál).
6. Lesbókarmál.
7. Tímarit.
8. Íslenzku kensla.
9. Íþróttir.
10. Söngkensla, meðal barna og unglinga. (Sr. 2. lið í sk. fors.)
11. Útbreiðslumál (Sbr. 3. og 5. l. í sk. fors.)
12. Grundvallarlaga breytingar.
13. Löggilding félagsins.
14. Framkvæmdarstjóraembætti (Sbr. 11. lið í skýrslu fors.)
15. Samvinnumál útávið.
16. Samvinnumál innávið (Sbr. 12. lið í sk. fors.)
17. Ólokin störf.
18. Ný mál.
19. Kosning embættismanna, á föstudaginn 26. febrúar, kl. 3 e. h.

Þá var samþykt tillaga um, að biðja forseta að skipa þessum málum í þingnefndir samkvæmt dagskránni.

*Bókasafnsmálið*: B. B. Olson gerði tillöku, studda af Árna Eggertssyni, að skipa skyldi þrigja manna nefnd til þess að athuga bókasafnsmálið, ásamt þeim tveimur, er sátu í milliþinganefnd. Var hún samþykt í einu hljóði. Í nefndina voru skipaðir, auk A. B. Olson og Páls Bjarnarsonar, er í milliþinganefndinni voru, séra Fr. A. Friðiksson, Dr. J. P. Pálsson, og Thorst. J. Gíslason.

*Félagsheimili í Winnipeg*: Tillaga var samþykt frá séra Albert E. Kristjánssyni, studd af B. B. Olson, að skipuð skyldi þriggja manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir séra Rögnv. Pétursson, Árni Eggertsson, Hjálmar Gíslason.

*Bóksala (tollmál)*. Tillaga var samþ. að skipa í það þriggja manna nefnd. Í

nefndina voru skipaðir, séra Rögnvaldur Pétursson, Hjálmar Gíslason og Páll S. Pálsson.

*Lesókarmálið*: Samþykt var tillaga frá B. B. Olson, studd af A. B. Olson, að skipa fimm manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, Páll Bjarnarson, Hjálmar Gíslason, Ásmundur Jóhannsson, P. S. Pálsson og Mrs. Sigr. Swanson.

*Tmaritsmálið*: Tillaga var samþykt frá Hjálmari Gíslasyni, studd af Ingibjörgu Björnsson, að skipa í það fimm manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, séra Guðmundur Árnason, Þorsteinn J. Gíslason, J. J. Bildfell, Björn Pétursson, Einar Páll Jónsson.

*Íslenzkukenslumálið*: Tillaga var samþykt frá Páli Bjarnarsyni, studd af A. B. Olson, að skipa í það þriggja manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, séra Albert E. Kristjánsson, séra Hjörtur Leó, Ragnar A. Stefánsson.

*Íþróttamálið*: Samþykt var tillaga frá Ásmundi Jóhannssyni, studd af Jóni Húnfjörð, að skipa í það þriggja manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, Sigfús Halldórs frá Höfnum, Benedikt Ólafsson og Jón Tómasson.

*Söngkenslumálið*: Tillaga var samþykt frá Einari P. Jónssyni, studd af Klemens Jónassyni, að skipa í það þriggja manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, Einar Páll Jónsson, séra Fr. A. Friðriksson og Þorsteinn Guðmundsson.

*Útbreiðslumálið*: Samþykt var tillaga frá Jóni Húnfjörð, studd af Páli Bjarnarsyni, að skipa í það mál fimm manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, Klemens Jónasson, J. S. Gillies, S. F. Finnsson, Mrs. I. E. Inge og Jón Húnfjörð.

*Grundvallarlagabreytingar*: Tillaga var samþykt frá A. B. Olson, studd af B. B. Olson, að skipa í það þriggja manna nefnd. Í nefndina voru skipair, B. B. Olson, H. S. Bardal, Bjarni Magnússon.

*Löggildingarmálið*: Tillaga var samþ. frá Páli Bjarnarsyni, studd af A. B. Olson, að skipa í það fimm manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, Páll Bjarnarson, Árni Eggertsson, H. S. Bardal, Stefán Einarsson, Jónas Jóhannesson.

*Framkvæmdarstjóramálið*: Tillaga var samþykt frá Páli Bjarnarsyni, studd af Hjálmari Gíslasyni, að skipa í það fimm manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, Ásmundur P. Jóhannsson, séra Guðmundur Árnason, Sigurður Oddleifsson, Jakob Kristjánsson, Árni Ólafsson.

*Samvinnumál útávið*: Tillaga var samþykt frá A. B. Olson, studd af Jóni Húnfjörð, að skipa í það þriggja manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, séra Rögnvaldur Pétursson, séra Friðrik A. Friðriksson og Ásmundur P. Jóhannsson.

*Samvinnumál innávið*: Tillaga var samþykt frá Jóni Húnfjörð, studd af A. B. Olson, að í það væri skipuð fimm manna nefnd. Í nefndina voru skipaðir, Jón J. Bildfell, Sigfús Halldórs frá Höfnum, Pál S. Pálsson, Dr. Sig Júl. Jóhnnesson og J. Gillies.

Með því að þá var orðið álíðið dags, var samþykt tillaga frá A. B. Olson, studd af O. Olson, að fresta fundi til kl. 10.30 að morgni næsta dags, fimtudagsins 25. febrúar.

---

Um kvöldið klukkan 8.30, fór fram í Goodtemplarahúsinu kappglíma, um $100 verðlaun, er Jóhannes Jósefsson veitti. — Forseti Þjóðræknisféagsins, séra Jónas A. Sigurðsson, setti mótið með fáeinum orðum, bað síðan hljðs séra Albert Kristjánssyni. Talaði hann stutt erindi, skörulegt og gamansamt, á víð og dreif um glímuna. Síðan gengu glímumenn saman. Voru ellefu að tölu. Glímdi einn við alla, og allir við einn. Sigurvegari varð Óskar Þorgilsson, önnur verðlaun fékk Kári Johnson, en þriðju fékk Björn Skúlason, allir frá Oak Point. Fóru glímurnar sérlega prúðmannlega fram, öllum þátttakendum til hins mesta sóma. Þá er lokið var glímunum, las forseti kvæði, er ort hafði Jóhannes Jósefsson, og sent norður.

Síðan kallaði forseti glímumenn fram á pallinn, og afhenti sigurvegurunum verðlaun þau, er þeir höfðu unnið, en áhorfendur þökkuðu þeim og félögum þeirra með miklu lófaklappi.

---

Næsta dag, fimtudaginn 25. febrúar,

var þingfundur settur aftur kl. 10.15 fyrir hádegi. Fundargerð síðasta fundar var lesin og samþykt í einu hljóði breytingarlaust. En með því að þá lágu engin nefndarálit fyrir, kom fram tillaga frá Einari P. Jónssyni, studd af A. B. Olson, að fresta fundi til kl. 1.30 e. h. Var hún samþykt í einu hljóði.

---

Þegar fundur var settur að nýju kl. 1.30 e. h. sama dag, inti forseti eftir nefndarálitum, og kom þá fram nefndarálit það um *söngkenslumálið,* er hér fylgir, í þrem liðum:

1. Telur nefndin það verulegt þjóðernismál, samkvæmt reynslu, að æfðir séu barnasöngflokkar í sem flestum bygðum Íslendinga vestan hafs.

2. Nefndin telur æskilegt, að slík söngkensla fari árlega fram í hverju íslenzku bygðarlagi. Þó skuli námsskeið ekki vera lengra en þrjá mánuði í senn.

3. Nefndin leggur til, að Þjóðræknisfélagið feli ritara sínum að senda örfunarbréf í þessa átt, öllum íslenzkum söfnuðum og Þjóðræknisdeildum vestanhafs.

Árni Eggertsson gerði tillögu, er J. Finnsson studdi, að samþykkja skyldi nefndarálitið í heild sinni. Var tillagan samþykt í einu hljóði.

Þá var lesin upp fundargerðin frá morgunfundinum, og var hún samþykt í einu hljóði.

Þá kom fram skýrsla frá milliþinganefndinni, er starfaði að *sumarfríi fátækra barna.*

Tilboð utan af landi til að taka börn höfðu borist nefndinni, sem hér segir:

Frá Mr. og Mrs. Ágúst Magnússon, Lundar, fyrir tvö börn.

Frá Mr. og Mrs. Kr. Daníelsson, Lundar, fyrir tvö börn.

Mr. og Mrs. Jón Benediktsson, Lundar, fyrir tvö börn.

Mr. og Mrs. Albert E. Kristjánsson, Lundar, fyrir eitt barn.

Miss Salóme Halldórsson, Lundar, fyrir eitt barn.

Mr. og Mrs. Th. J. Gíslason, Bown, fyrir eitt barn.

Mr. og Mrs. V. Jóhannesson, Vídir, fyrir tvö börn.

Mr. og Mrs. Franklin Peterson, Vídir, fyrir tvö börn.

Enn fremur kom tilboð frá Mr. og Mrs. Einar Johnson, Lonely Lake, þess efnis, að þau hjón væru viljug að veita framtíðarheimili dreng tíu til tólf ára gömlum.

Óskir um vist fyrir börn, komu frá sjö heimilum, fyrir tólf börn alls. Af þeim auðnaðist nefndinni að senda sex börn.

Ferðakostnaður var borgaður, sem nam sex dölum.

Eins og ofangreind skýrsla ber með sér, kannaðist nefndin við það, að mistök hefðu orðið á starfi hennar, sem hún fann sér skylt að biðja afsökunar á.

Fleiri tilboð komu en notuð voru. Sömuleiðis var beðið fyrir fleiri börn en send voru.

Einnig var einum nefndarmanni sendir tíu dalir, sem mælst var til að notaðir væru til hjálpar fátækum börnum til þess að komast út á land í sumarfríinu, og var sérstaklega minst á eina fjölskyldu í því sambandi. En sú fjölskylda þáði ekki boðið, og voru peningarnir endursendir af nefndarmanni.

Nefndin leyfir sér að gjöra eftirfarandi tillögu: Að þingið greiði fólki því, sem svo drengilega varð við tilmælum nefndarinnar, þakklæti sitt."

Tillaga kom frá Bjarna Magnússyni, studd af O. Olson, að samþykkja skýrsluna eins og hún var lesin.

Árna Eggertssyni þótti skorta tillögur frá nefndinni um framtíðar starfsemi í þessa átt.

Séra Rögnvaldur Pétursson spurði, því ekki hefðu verið send börn í öll þau pláss, sem í boði hefðu verið.

Sigurður Oddleifsson skýrði frá því, að það hefði verið fyrir handvömm eins nefndarmanns, sem hefði gleymt að koma nefndinni nógu snemma í samband við hlutaðeigendur.

Síðan var tillaga Bjarna Magnússonar borin upp og samþykt með öllum þorra atkvæða.

Séra Guðmundur Árnason bar fram tillögu, studda af Jóni Finnssyni, að kjósa

fimm manna og kvenna nefnd, til þess að annast um þetta starf næsta sumar. Var hún samþykt í einu hljóði.—Gerði Bjarni Magnússon tillögu, studda af A. Skagfeld, að endurkjósa nefndina. Afsökuðu sig þá Sigurður Oddleifsson og Jónas Jóhannesson. Var afsökun þeirra tekin til greina, en tilaga Bjarna Magnússonar samþykt í einu hljóði, og því kosnar í nefndina Mrs. P. S. Pálsson, Mrs. Ragnheiður Davíðsson og Miss Ingibjörg Björnsson.

Þá var stungið upp á H. S. Bardal og Árna Eggertsyni til viðbótar í nefndina og þeir kosnir í einu hljóði.

Þá kom fram nefndarálit í *bókasafnsmálinu*, í þrem liðum. Tillaga kom frá séra Guðmundi Árnasyni, studd af Árna Eggertsyni, að ræða álitið lið fyrir lið, og var það samþykt í einu hljóði. Urðu nokkrar umræður um fyrsta lið unz tillaga kom frá séra Albert E. Kistjánssyni, studd af Mrs. Swanson, að vísa álitinu aftur til nefndarinnar. Var tillagan samþykt með öllum þorra atkvæða.

Þá bað forseti Mr. A. Skagfeld hljóðs. Vildi hann skjóta því til þingsins, hvort ekki myndi tiltækilegt að hreyfa á þinginu hugmynd um undirbúning eða þátttöku Vestur-Íslendinga í heimför og hátíðahaldi á Íslandi á 1000 ára afmæli Alþingis. Gerði Guðmundur Bjarnason tillögu, en séra Albert E. Kristjánsson studdi, að málið skyldi tekið á dagskrá. Var hún samþykt í einu hljóði.

Eftir nokkrar umræður var samþykt tillaga frá Guðmundi Bjarnasyni, studd af Sig. Árnasyni, að kjósa fimm manna milliþinganefnd til þess að athuga málið og leggja álit sitt fyrir næsta þing.

Breytingartillaga kom frá Páli S. Pálssyni, studd af Jakob Kristjánssyni, að fela væntanlegri framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins, að athuga þetta mál. Var það samþykt með öllum þorra atkvæða.

Þá las séra Guðmundur Árnason, með leyfi forseta, bréf frá hr. Eiríki Sigurðssyni, stílað til þingsins. Vill hann leggja til, að þingið geri sér í hugarlund, hvort ekki væri heillavænlegt að stækka stjórnarnefndina um þriðjung eða helming, þar eð störf hennar væru nú svo margvísleg og umfangsmikil orðin.

P. S. Pálsson bar fram tillögu, studda af Sig. Oddleifssyni, að vísa þessu til þingnefndar þeirrar, sem skipuð væri til þess að athuga grundvallarlagabreytingar. Var tillagan samþykt í einu hljóði.

Þá las ritari Þjóðræknisfélagsins skýrslu frá milliþinganefndinni í *glímumálinu*. Að tilhlutun nefndarinnar var glímufélagið Sleipnir stofnað í Winnipeg í sumar, og eru meðlimir þess 30 að tölu. Má telja víst, að það sé því félagi mikið að þakka, hve vel tókst glíman á Íslendingadaginn hér í Winnipeg í sumar. Bezti aðstoðarmaður nefndarinnar hefir verið Benedikt Ólafsson. Var að hans tilhlutun stofnað öflugt glímufélag að Oak Point í vetur, og hefir hann æft meðlimi þess og hvatt á allan hátt. Eru þeir um 30. Hefðu meðlimir þessara tveggja félaga kept um hin höfðinglegu verðlaun Jóhannesar Jósefssonar á nýafstöðnu glímumóti Þjóðræknisþingsins. Nefndin skýrði og frá því, að menn af öðrum þjóðflokkum hefðu æft glímur með Íslendingum að Oak Point í vetur. Vildi hún leggja til, að slíkum mönnum skyldi framvegis gefið færi á að keppa um verðlaun á glímumótum Þjóðræknisfélagsins, til þess að glæða sem mest áhuga fyrir glímunni um alt landið. Þeim $100, sem nefndin hefir tekið við frá hr. Jóhannesi Jósefssyni, hefir öllum verið varið til verðlauna á þingglímunni, svo sem tilætlast hafði verið. Enn fremur hefði nefndin fengið $100 frá stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, til eflingar glímunni. Hefði hún að eins notað lítinn hluta þess fjár, en aftur á móti hefði nokkuð komið inn þingglímukvöldið, svo að nú væru í sjóði alls $110.51.

J. K. Jónatansson gerði tillögu, en Th. J. Gíslason studdi, að samþykkja skýrsluna, eins og hún var lesin. Var hún samþykt í einu hljóði. Enn fremur kom tillaga frá sama manni, studd af séra Fr. A. Friðrikssyni, að athuga hvort þinginu sýndist tiltækilegt að veita öðrum en Íslendingum rétt til þess að keppa um verð-

laun í íslenzkri glímu, á glímumótum þeim, er Þjóðræknisfélagið gengst fyrir. Var hún samþykt í einu hljóði.

Þá var samþykt tillaga frá P. S. Pálssyni, studd af Birni Péturssyni, að vísa þessu máli til þingnefndar í íþróttamálinu.

Þá kom fram álit *félagsheimilisnefndarinnar*. Talaði Árni Eggertsson fyrir álitinu og var því og ræðu hans fagnað með lófaklappi.

Tillaga kom frá P. S. Pálssyni, studd af Sig. Árnasyni, að samþykkja nefndarálitið óbreytt.

Breytingartillaga kom frá J. J. Bildfell, studd af Birni Péturssyni, að ræða álitið lið fyrir lið. Var það samþykt, með meiri hluta atkvæða.

En nefndarálitið var á þessa leið:

1. Það hefir lengi legið á tilfinningu félagslyndra manna, bæði hér í borg og annarsstaðar, að enginn sá staður sé til, sem skoðast geti sem almennur lestrarsalur, samkomu og skemtistaður íslenzks félagslífs. Í samræmi við það vill nú nefndin leggja til, að Þjóðræknisfélagið taki sér fyrir hendur að koma upp, eins fljótt og auðið er, samkomuhúsi, er fullnægt geti þessum þörfum.

2. Nefndin leggur til, að kosin sé þriggja manna nefnd, er framkvæmdir hafi í þessu máli á næstkomandi ári.

3. Samkvæmt bendingu forseta leggur nefndin það til, að sá afgangur af varnarsjóði Ingólfs Ingólfssonar, sem nú er í vörzlum félagsstjórnar, sé lagður til þessa fyrirtækis, sem byrjunarsjóður til þessarar húsbyggingar.

Tillaga kom frá Birni Péturssyni, studd af A. B. Olson, að samþykkja fyrsta lið óbreyttan. — Var hún samþykt í einu hljóði, eftir nokkrar umræður.

Við 2. lið kom fram breytingartillaga frá J. J. Bildfell, studd af A. Skagfeld, að við liðinn sé bætt þessum orðum: "og að henni sé leyft að leigja húsnæði til bráðabirgða, ef henni þykir nauðsynlegt." Var sú breytingartillaga samþykt með meirihluta atkvæða, eftir nokkrar umræður. Var allur liðurinn með þessum viðauka síðan borinn upp til samþyktar, og samþyktur í einu hljóði.

Um. 3. lið kom tillaga frá P. S. Pálssyni, studd af Árna Eggertssyni, að samþykkja hann óbreyttan. Eftir langar og mjög ósamþykkar umræður, kom fram breytingartillaga við liðinn, frá séra Guðmundi Árnasyni, studd af Thorsteini J. Gíslasyni, að væntanlegri stjórnarnefnd félagsins sé falið að grenslast eftir því, hvort féagið hafi lagaleg umráð yfir afganginum af samskotafénu til varnarsjóðs Ingólfs Ingólfssonar.

Við þessa breytingartillögu kom fram breytingartiaga frá Árna Eggertssyni, studd af Bjarna Magnússyni, að við 3. lið nefndarálitsins sé bætt þessum orðum: "Með þeim fyrirvara, að tilkynning sé birt í íslenzku blöðunum til gefenda, að þessi ráðstöfun hafi verið gerð við afgang sjóðsins, og ef nokkur af gefendum hafi á móti því, að félagið ráðstafi peningunum á þennan hátt, þá tilkynni þeir það ritara félagsins fyrir 1. júní 1926."

Eftir langar og all-heitar umræður var þessi breytingartillaga við breytingartilögu borin upp og samþykt með 41 atkvæði gegn 10. Þeir sem atkvæði greiddu á móti tilögunni óskuðu þess, að nöfn þeirra væri bókuð, en þeir voru þessir: Ásmundur P. Jóhannsson, Grettir Leó Jóhannsson, Jón J. Bildfell, Einar Páll Jónsson, Ívar Hjartarson, séra Guðmundur Árnason, séra Friðrik A. Friðriksson, J. S. Gillies, Sigurbjörn Sigurjónsson, Björn Pétursson.

Síðan var liðurinn borinn undir atkvæði, með þessari breytingu, og samþyktur með öllum þorra akvæða.

Þá bar forseti alt nefndarálitið, með áorðnum breytingum, undir atkvæði, og var það samþykt með öllum þorra atkvæða.

Með því að þá var orðið áliið dags, var samþykt tillaga um að fresta fundi til klukkan 10 fyrir hádegi á föstudaginn 26. febrúar 1926.

---

Sama kvöld var haldin samkoma, Íslendingamót, í Goodtemplarahúsinu, fyrir tilstilli deildarinnar "Frón". Formaður deildarinnar, Hjálmar Gíslason bóksali, bauð gesti velkomna, og flutti síðan stutt

erindi, er gerður var hinn bezti rómur að. Því næst söng flokkur manna og kvenna undir stjórn Davíðs Jónassonar, ungfrú Ásta Hermannsson lék á fiðlu, forseti Þjóðræknisfélagsins, séra Jónas A. Sigurðsson, flutti erindi, hr. Einar Páll Jónsson flutti kvæði, Mrs. S. K. Hall söng, séra Guðmundur Árnason flutti kvæði, hr. Ragnar H. Ragnar lék á píanó og að endingu söng flokkur hr. Davíðs Jónassonar. Fór þetta alt ágætlega úr hendi, að því undanteknu að svo mikill kliður var stundum í húsinu, af umgangi og hljóðpískri, að ýmsum þeim er aftarlega sátu veitti erfitt að heyra. Að þessari skemtan lokinni, var boðið til veitinga í neðri sal hússins, og um leið gengið að dansi í efri salnum. Höfðu menn af því ágæta skemtun til þess er lokað var, hálfri annari stundu eftir miðnætti.

---

Næsta dag, föstudaginn 26. febrúar var fundur settur aftur kl. 10.30 f. h. Var fundargerð síðasta fundar lesin og samþykt í einu hljóði, breytingarlaust.

Þá lá fyrst fyrir að kjósa þriggja manna milliþinganefnd, til þess að starfa að félagsheimilismálum. Var stungið upp á Árna Eggertssyni, séra Rögnvaldi Péturssyni, Friðriki Kristjánssyni, J. J. Bíldfell, Ásmundi Jóhannssyni. Tveir hinir síðastnefndu afsökuðu sig, og tók þingheimur því. Með því að þá var ekki stungið upp á fleirum, voru hinir þrír fyrst töldu kosnir í nefndina.

Þá gat séra Fr. A. Friðriksson þess, að dr. J. P. Pálsson hefði beðist undan störfum í bókasafnsnefnd, sökum anna. Tók forseti gilda afsökun hans og skipaði séra Guðmund Árnason í hans stað í nefndina.

Þá kom fram álit þingnefndar um *bókasölumálið*, í þrem liðum. Vildi nefndin leggja til:

1. Að bóksalafélagið í Reykjavík setji hér á fót umboðsverzlun í líkingu við umboðsverzlun Gyldendals í Minneapolis og víðar, og setji mann fyrir verzlunina hér.

2. Umboðslaun skulu greidd af bóksalafélaginu eftir samningum, en þó svo, að bækur sé ekki seldar hærra verði hér en í Rvík.

3. Sé þetta fyrirkomulag tekið, vill þjóðræknisfélagið bjóðast til að aðstoða bæði umboðsmann og eigendur verzlunarinnar, svo að verzlunin geti staðið á sem sanngjörnustum viðskiftagrundvelli.

Tillaga kom frá A. B. Olson, studd af A. Skagfeld, að samþykkja nefndarálitið, eins og það var lesið. Var hún sþ. í einu hljóði.

Þá kom fram *íþróttanefndarálit* í fjórum liðum. Vildi nefndin leggja til:

1. Að kosin sé þriggja manna milliþinganefnd, er annist íþróttamálin, sérstaklega glímuna, líkt og í fyrra.

2. Að væntanlegum yfirskoðunarmönnum sé falið að, yfirskoða reikninga milliþinganefndarinnar í fyrra hið fyrsta.

3. Að sökum þess, að nauðsyn beri til að gera glímuna að þjóðlegri íþrótt í Ameríku, eins og t. d. skíðahlaup, og með því að sá einn kostur sé þess, að glíman eigi sér verulega framtíð fyrir höndum, þá sé æskilegt að mönnum af öðrum þjóðflokkum sé gefinn kostur á að keppa um glímuverðlaun til jafns við Íslendinga á glímumótum þjóðræknisfélagsins, þó með því skilyrði, að fyrstu 10 árin sé til þess leitað samþykkis Jóhannesar Jósefssonar glímukappa, sem gefið hefir verðlaunin til þingglímunnar.

4. Að fé það er glímunefndin hefir nú í sjóði sé afhent væntanlegri milliþinganefnd, að yfirskoðun afstaðinni, til nota á fjárhagsárinu.

Tillaga kom frá Þorsteini Guðmundssyni, studd af Einari P. Jónssyni, að samþykkja nefndarálitið sem lesið. Var hún sþ. í einu hljóði.

Þá kom fram nefndarálitið í *tímaritsmálinu*, í þrem liðum. Vildi nefndin leggja til:

1. "Að stjórnarnefndinni sé falið að annast um útgáfu Tímaritsins á yfirstandandi ári, í sama formi og áður, að öðru leyti en því, að lesmál sé minkað um 16 bls., en í þess stað sé gefið út fylgirit fyrir börn og unglinga, 16 bls. að stærð, auk kápu, er

sent sé ókeypis öllum kaupendum Tímaritsins, en selt í lausasölu fyrir 25 cents.

2. Nefndin leggur til, að allir fullorðnir meðlimir, skuldlausir við félagið, og nýir meðlimir, fái Tímaritið fyrir hálft verð.

3. Að framkvæmdarnefndinni sé falið að ráða ritstjóra með sömu kjörum og áður."

Tillaga var samþykt frá séra Rögnvaldi Péturssyni, studd af A. Skagfeld, að ræða nefndarálitið lið fyrir lið.

Við fyrsta lið kom fram breytingatillaga frá Sigfúsi Halldórs frá Höfnum um, að öll orðin eftir "í sama formi og áður" falli burtu, en liðurinn að þeim sé samþyktur sem fyrsti liður. Var Þessi breytingatillaga samþykt í einu hljóði, og allur liðurinn síðan samþyktur í einu hljóði með áorðinni breytingu.

Við annan lið kom fram tillaga frá séra Rögnvaldi Péturssyni, studd af J. Finnssyni, að umræðum um hann skyldi frestað unz nefndarálitið í útbreiðslumálinu hefði komið fyrir þingið. Var hún samþykt í einu hljóði.

Svo kom tillaga frá Árna Eggertssyni, studd af O. Olson, að alt nefndarálitið, nema fyrsti liður, sé látið bíða sama tíma. Var það samþykt í einu hljóði.

Þá kom fyrir nefndarálitið um framkvæmdarstjóramálið í fimm liðum:

1. Nefndin álítur að sem mest beri að breiða út rétta þekkingu á íslenzkri þjóð og bókmentum meðal Canada og Bandaríkjaþjóðanna. Vill því leggja til að kosin verði þriggja manna milliþinganefnd til þess að starfa í þessa átt.

2. Nefndin ætti að grenslast eftir hvort unt sé að fá flutta fyrirlestra um íslenzk efni við hærri mentastofnanir. Ennfremur að íhuga hvort nota mætti ensk blöð og tímarit til útbreiðslu almennrar þekkingar á íslenzkum málum.

3. Nefndin skal í samráði við stjórnarnefnd félagsins, ef kostnaður leyfir, útvega mann eða menn til fyrirlestra, þar sem hentugast þykir eftir ástæðum.

4. Þá skal nefndin fá hæfan mann eða menn til þess að rita í þau blöð og tímarit, sem hún tiltekur um Ísland—landið, þjóðina, sögu, þjóðsagnir, náttúru landsins og bókmentir að fornu og nýju og hvað annað, sem nefndinni sýnist gjörlegt að ritað sé um.

Nefndinni dylst ekki, að með þessari aðferð má gjöra mikið til þess að kynna enskumælandi þjóðum ættland vort og þjóð. Og með því að sú aðferð mundi hafa hlutfallslega lítinn kostnað í för með sér, vill nefndin mæla eindregið með að hún sé notuð.

5. Ennfremur skal nefndin sjá um að leiðrétta missagnir um Ísland og Íslendinga ef þörf þykir. Einnig vill nefndin leggja til að skrifara félagsins sé falið að þakka forstöðumanni lagaskóla Manitobafylkis, hr. Jósep Thorson fyrir ágætt fyrirlestrarstarf um íslenzk efni síðastliðinn vetur, á sama hátt vildi nefndin nefna og þakka meðal margra annara hr. Jóhannesi Jósefssyni, Miss Þórstínu S. Jackson, og B. L. Baldwinson, er tekið hefir málstað Vestur-Íslendinga og gert þá kunna

Tillaga var samþykt að samþykkja nefndarálitið.

Í milliþinganefnd var stungið upp á Árna Eggertssyni, Sigfúsi Halldórs frá Höfnum og J. J. Bíldfell. Var samþykt tillaga frá Jakob Kristjánssyni, studd af Ingibjörgu Björnsson, að útnefningunni skyldi lokið, og voru þessir þrír menn því kosnir.

Þá kom fram tillaga frá Jakob Kristjánssyni, studd af Sigurði Árnasyni, að fresta fundi til kl. 2. e. h. sama dag. Fundur var settur aftur kl. 2. e. h. Fundargerðin frá fyrri hluta dagsins var lesin og samþykt í einu hljóði, breytingalaust, samkvæmt tillögu frá A. Skagfeld, er Ingibjörg Björnsson studdi.

Þá kom fram nefndarálit um *grundvallarlagabreytingum*, á þá leið, að þar eð verkið sé svo yfirgripsmikið, vill nefndin leggja til, að kosin sé þriggja manna milliþinganefnd, bæði til þess að koma saman þeim breytingum, sem þegar eru orðnar frá prentuðum lögum félagsins, og til þess einnig að gera nýjar tillögur. Skuli sú nefnd hafa undirbúið málið og afhent

það í hendur stjórnarnefndarinnar, samkvæmt 6. gr. í IV. kafla stjórnarskrárinnar, svo hægt sé að afgreiða málið á næsta þingi.

Þamþykt var með öllum þorra atkvæða tillaga frá séra Rögnvaldi Péturssyni, studd f A. B. Olson, að samþykkja nefndarálitið sem lesið.

Í milliþinganefndina voru kosnir H. S. Bardal, Thorst. J. Gíslason og B. B. Olson.

Þá kom fram nefndarálit um *lesbókarmálið,* á þessa leið: Nefndin leggur til "að skipuð sé 3 manna milliþinganefnd til að undirbúa lesbókarútgáfu, að nefndinni sé fengið í hendur handrit það, er framkvæmdarnefnd félagsins hefir borist frá dr. Sig. Júl. Jóhannessyni til að hafa það í lesbókarútgáfuna, alt saman eða þá með úrfellingum og viðaukum, eftir því sem nefndinni sýnist.... skal hún afhenda félagsstjórninni handrit dr. Sig. Júl. Jóhannessonar, með greinilegri tilvísun hvað taka skuli af því í lesbókarútgáfuna, og hverju skuli við auka og í hvaða röð hvað eina skuli koma í útgáfunni. Nefndin leggur ennfremur til að þeir séra Rögnvaldur Pétursson, séra H. J. Leó og Páll Bjarnarson séu kosnir í milliþinganefnd þessa. Félagsstjórnin skal þá annast útgáfu lesbókarinnar, ef fjárhagur leyfir.

Samþykt var í einu hljóði tillaga frá A. B. Olson, studd af Einari P. Jónssyni, að samþykkja nefndarálitið sem lesið.

Þá kom fram nefndarálit um *útbreiðslumálin* í þrem liðum:

1. "Nefndin leggur til að stjórnarnefnd sé falið að senda menn út í hinar ýmsu bygðir Íslendinga, til þess að fá menn til að ganga í félagið og stofna deildir þar sem föng eru á.

2. Nefndin leggur til að hver skuldlaus meðlimur, sem borgar $1.00 ársgjald, fái Tímaritið ókeypis. . . . ."

3. Ennfremur leggur nefndin það til að þar sem íslenzk lestrarfélög séu starfandi, að reynt sé að gera ítarlegar tilraunir til að sameina þann félagsskap við þjóðræknisfélagið."

Samþykt var í einu hljóði tillaga frá Ásmundi P. Jóhannssyni, studd af Bjarna Magnússyni, að ræða nefndarálitið lið fyrir lið.

Við fyrsta lið kom tillaga frá Bjarna Magnússyni, studd af J. S. Gillies, að samþykkja hann óbreyttan. Breytingartillaga kom frá Hjálmari Gíslasyni, studd af A. B. Olson, að við liðinn sé bætt, "og sé stjórnarnefndinni heimilað að verja til þess fé, að svo miklu leyti sem efni leyfa." Var þessi breytingartillaga síðan samþykt með ölum þorra atkvæða. Var 1. liður síðan samþyktur í einu hljóði með þannig áorðinni breytingu.

Við 2. lið kom fram tillaga frá séra Guðmundi Árnasyni, studd af Einari P. Jónssyni, að fresta atkvæðagreiðslu um hann, unz útkljáð væri um 2. lið Tímaritsnefndarmálsins. Var sú tillaga sþ. með öllum þorra atkvæða.

Því næst var liður Tímaritsnefndarálitsins tekinn fyrir.

Við þann lið kom fram breytingartillaga frá Þorsteini Guðmundssyni, studd af Guðmundi Bjarnasyni, að í stað orðanna "fyrir hálft verð," komi "ókeypis." Var sú breytingartillaga samþykt með öllum þorra atkvæða. Því næst var sá liður samþyktur í einu hljóði, með þannig áorðinni breytingu.

Þá var 3. liður Tímaritsnefndarálitsins samþyktur óbreyttur, í einu hljóði, samkvæmt tillögu frá A. B. Olson, er Mrs. B. B. Byron studdi.

Var síðan alt Tímaritsnefndarálitið, með þannig áorðnum breytingum samþykt í einu hljóði, samkvæmt tillögu frá A. B. Olson, er Mrs. B. B. Byron studdi.

Þá var kl. orðin 3. e. h., og því komið að embættismannakosningum.

*Forseti* var endurkosinn séra Jónas A. Sigurðsson án gagnsóknar með lófaklappi, samkvæmt tillögu frá Árna Eggertssyni, er Mrs. B. B. Byron studdi.

*Varaforseti* var kosinn Bergþór R. Johnson, án gagnsóknar.

*Ritari* var endurkosinn Sigfús Halldórs frá Höfnum, án gagnsóknar.

